# FERÐABÓK.

SKÝRSLUR UM RANNSÓKNIR
Á ÍSLANDI 1882—1898

EFTIR

ÞORVALD THORODDSEN.

ANNAÐ BINDI.

KAUPMANNAHÖFN.
HIÐ ÍSLENSKA FRÆÐAFÉLAG
PRENTAÐ HJÁ S. L. MØLLER.
1914

## YFIRLIT EFNISINS.

## VI. Ferðasögur frá Vestfjörðum 1886 og 1887.

Ísland er nærri klipið í sundur á einum stað, þar sem Gilsfjörður og Bitrufjörður skerast inn úr Breiðafirði og Húnaflóa. Vestfirðir eru sérstakt land fyrir sig og þó með hinu sama eðli og sömu jarðmyndun sem aðrir hlutar landsins. Eiðið, sem tengir Vestfirði við meginlandið, er ekki nema tæp míla á breidd og hæð þess (hjá Krossárvatni) 727 fet yfir sjó. Vestfirðir eru ákaflega vogskornir, landið er eigi meira en rúmar 170 ferhyrndar mílur, en strandlengjan mun vera nálægt 250 mílum. Vestfirðir eru hálendi, sem skorist hefir í sundur í eintómar pjötlur af fjörðum, víkum og dölum. Þykkum lögum af blágrýti er hlaðið hverju ofan á annað, dala- og fjarðarifurnar skerast beint niður í gegnum þau og stefna einsog geislar í allar áttir frá hæstu bungunum. Blágrýtislögin liggja lárétt eða jafnt hallandi gegnum landið alt, og firðirnir hafa sjaldan nokkur áhrif á legu þeirra; það er því auðséð, að firðirnir eru síðar myndaðir en blágrýtislögin og hafa skorist eins og geysimiklar glufur gegnum lárétt hamrabeltin. Á milli fjarðanna eru oft aðeins örmjóir kambar, með ýmsum skörðum, lægðum og hvilftum; eru þeir þó oftast flatir að ofan, þar sem breiddin er annars nokkur til muna, en vatnsrenslið hefir myndað dali niður til beggja hliða. Ef firðirnir næðu saman, yrðu Vestfirðir eintómar eyjar, mjög sviplíkar Færeyjum, en þó stærri og hrikalegri. Land á Vestfjörðum er mjög sæbratt, víða þverhnýptir hamrar í sjó fram, undirlendi

svo að segja ekkert, örmjóar landræmur með sjónum og stuttir dalir; vegir eru víðast illir og torsóttir, og fara menn víða annaðhvort fótgangandi eða sjóveg, með því að eigi er gott að nota hesta nema á stöku stað. Af þessu leiðir, að fáir ferðast um Vestfirði aðrir en þeir, sem mega til; hafa fáir innlendir eða útlendir mentamenn ferðast um þessi héruð til rannsókna og lítið hefir verið skrásett um landafræði og náttúrufræði Vestfjarða, síðan þeir Eggert Ólafsson og O. Olavius fóru þar um á 18. öldinni. Sum héruð vestanlands eru að mestu ókunn öðrum en þeim, sem þar búa, og vil ég taka til dæmis Hornstrandir. Ég tókst því á hendur, sumarið 1886, að ferðast til rannsókna um nokkurn hluta Vestfjarða; fór ég þá um Barðastrandarsýslu, Strandasýslu og Hornstrandir norður á Horn, og á næsta sumri, 1887, um Ísafjarðarsýslu alla.

## 1. Barðastrandarsýsla.

Um kvöldið 30. júní 1886 fór ég af stað úr Reykjavík sjóleiðis vestur á Bíldudal og kom þar að morgni 2. júlí. Fylgdarmaður minn, Ögmundur Sigurðsson, hafði farið landveg með hestana og beið mín þar. Á Bíldudal dvaldi ég 3 daga, bjó mig til ferðar og skoðaði ýmislegt í nágrenninu. Landslag er hér einkar vel fallið til þess að rannsaka blágrýtislögin í fjöllunum og áhrifin, sem vatnið hefir á þau. Blágrýtislögin liggja hvert ofan á öðru, eins og þeim væri hlaðið; eru oftast rauðleit lög á milli, gömul aska, er kom við gosin; hún er nú orðin að móbergi. Þessi lög gera það að verkum, að vatnið á miklu hægra með að vinna á blágrýtisfjöllunum. Frostið hefir heldur eigi litla þýðingu: vatnið síast inn í rifur og holur steinsins og frýs þar; við frostið stækkar rúmtak þess, spenniaflið verður svo mikið, að steinarnir springa; á háum heiðum á frostið hægt með að vinna, enda sést það glögt: þar eru steinarnir á yfir-

borðinu allir sprungnir í sundur í flögur og flísar; með þessu móti getur frostið smátt og smátt mulið í sundur fjöllin, einkum þegar loftslagi er svo háttað, að frost og þíður alt af skiftast á, því þá getur krafturinn verið síverkandi. Vatnið hefir engu minni áhrif beinlínis: það færir molana úr stað, nýr þá og nuddar og leysir þá í sundur; hjálpa ýms efni til þess, sem í vatninu eru, svo kemisku áhrifin verða heldur eigi lítil.

Með því að skoða blágrýtisfjöllin, sést það glögt, að vatnsrenslið og áhrif þess fylgja vissum lögum, sem altaf taka sig upp aftur og aftur; fjallshlíðarnar eru mismunandi að útliti, eftir því, hve langt er komið og hve miklu vatnið hefir áorkað; þar er óraskandi stigbreyting, sem er komin undir efninu og kraftinum, sem á það verkar. Þar sem vatnið streymir niður þverhnýpta fjallsbrún, leitast allir lækirnir við í fyrstu að vera jafnhliða og falla beint niður, eftir þyngdarlögmálinu; fellur hver buna stall af stalli og grefur í fyrstu röð af smáskvompum inn í bergið, því þar sem mýkri lögin eru milli blágrýtisrandanna, á vatnið hægra með að leysa sundur og þar kemur hola inn í bergið. Smátt og smátt fer vatnsrenslið að dýpka, því hin harðari berglög detta í sundur, þegar linari lögin milli þeirra berast á burt. Með því nú að allir lækirnir, sem falla niður af bergbrúninni, ekki hafa jafnörðugt starf, því harka bergsins og aðrar kringumstæður eru altaf mismunandi, þá eru sumir lækirnir fljótari að grafa sér farveg en aðrir; sá lækurinn, sem dýpst grefur sig í bjargbrúnina, leiðir hina smærri til sín, því þegar hann er orðinn djúpur, hallar að honum á báðar hliðar og við það neyðast hinar næstu vatnssitrur til að renna í dýpri lækinn. Það er hvorutveggja alment: að sjá í fjöllunum jafnhliða vatnssitrur, þar sem vatnsáhrifin eru ennþá stutt komin, og eins hitt, að sjá margar vatnsæðar sameinast eins og hríslur efst.

Smátt og smátt grefur þessi vatnshrísla við fjallsbrúnina sig dýpra niður og myndast þá fyrst lítil hvilft í bergið, sem altaf stækkar meir og meir og getur að endingu orðið skál eða ketilmyndaður botn eða dalur, og renn-

ur þá niður úr honum lækur í djúpu gili; í læknum er sameinað vatnsmegn allra vatnsæðanna í hríslunni. Niður úr skálinni berst leir, möl og grjót, og fyrir neðan, þar sem gilið kemur niður í dalinn, myndast flatvaxin grjótkeila (gildrúlda), sem að stærð sinni svarar til dalskvompunnar í fjallinu, því þaðan er alt grjótið runnið, eins og sandur í neðri enda á stundaglasi. Úr hlíðunum og klettunum kring um skálina hrynja steinarnir sí og æ niður í botn hennar og þaðan berast þeir niður um gilið; í vatnavöxtum á vorin einna mest. Áin eða lækurinn í gljúfrinu skiftist oft á grjótkeilunni og fellur um hana alla í kvíslum; þegar keilan er orðin breið og gilið er orðið djúpt, þá fer gróður að vaxa á grjótrústinni; af því vatnið er svo mikið, myndast þar smá mýrarblettir og fen, en altaf steypast þó snjóflóð við og við niður úr skálinni. Þar sem sólin skín á um hádegi, er kraftur hennar mestur; þar þiðnar meira af snjónum en undan sólu; þessvegna verða áhrif vatnsins þar örari og hvatari; ég hefi tekið eftir því, að víða eru fjöllin meira sunduretin og skörðóttari móti sólu en undan. Á Vestfjörðum eru víðast mjóar fjallaálmur milli fjarðanna og nagar vatnsrenslið fjöllin á báða vegu; það ber því oft við, að slíkar hvilftir mætast í miðju fjallinu og er þá fyrst örmjór hryggur eða kambur á milli, en ef vatnsmegnið er jafnmikið beggja megin, þá stækka hvilftirnar jafnt og eyða hryggnum, sem er á milli þeirra; kemur þá skarð í fjallið. Drangar á Hornströndum eru auðsjáanlega svo til orðnir, að vatnið hefir jöfnum höndum nagað hinn mjóa fjallskamb beggja megin og við það hafa skörðin orðið til og háar strýtur á milli. Þegar tveir botnar mætast, þá er það oft, að annar hefir meira vatnsmegn, og verður hann þá yfirsterkari og færir sig smátt og smátt yfir á hins landareign; að lokum dregur hann til sín vatnsæðarnar frá hinum, nagar skarð þvert yfir fjallið og heldur áfram, unz hann er búinn að saga fjallið sundur niður undir rætur, og hættir eigi fyr en hallinn er orðinn svo lítill, að vatnið hefir ekki lengur afl til að naga bergið og bera burtu það, sem niður í dældina fellur. Auk þess eru djúpar skálar eða botnar algengir í

fjöllunum vestra; þær eru eins og katlar og hafa ekkert afrennsli; ekkert gil eða gljúfur er fram úr þeim; eru katlar þessir að öllum líkindum myndaðir á ísöldinni af áhrifum jökla, og skal þeirra síðar getið.

Frá Bíldudal fór eg snöggva ferð í Dufansdal og Þernudal til þess að skoða surtarbrand. Dufansdalur er stuttur dalur allgrösugur suður frá Otrardal; „þar þótti Grelöðu illa ilmat úr jörðu", sem segir í Landnámu. Á eyrunum fram með ánni kvað vera mór með fauskum undir mölinni og deigulmór eða ísaldarleir undir mónum. Ofarlega í dalnum fellur lítil kvísl að norðanverðu í Dufansdalsá; heitir hún Laugará; þar er laug og hvítt holt ofar með hverahrúðri; eins eru hvítir hverasteinar nær bænum; þar hefir áður verið töluverður jarðhiti, þó hann sé nú að mestu horfinn. Eg gekk upp í fjallið sunnan við dalinn til þess að skoða surtarbrandinn; surtarbrandslagið er þar 561 fet yfir sjó undir neðstu blágrýtisklöppunum; sést þar bæði steinbrandur, móberg og hvítur leir og surtarbrandsflögur innanum með flötum kvistum og stönglabrotum; eigi er hægt að sjá lagskiftinguna greinilega, því alt er þar skriðuhlaupið. Surtarbrandslagið gengur alt í kringum fjallið: kemur það einna bezt fram framan í múlanum milli Dufansdals og Þernudals, við ganghlein, sem þar skagar fram úr fjallinu Í Þernudal er surtarbrandurinn 438 fet yfir sjó; er það líklega sama lagið og í Dufansdal; mun því halla svo til suðurs og austurs. Surtarbrandurinn er fyrir neðan foss í ánni, en Efridalur heitir fyrir ofan; mjög er þar skriðuhlaupið, svo lega jarðlaganna sést óglögt; þó sést þar, hvernig blágrýtishraunið hefir eytt skóginum, er surtarbrandurinn myndaðist; í neðstu röð blágrýtisins, sem á honum hvílir, er hnoðað saman gjalli, hnullungum og leir. Í leirnum eru kvistir, stönglar og mosatægjur, en hvergi blöð[1]). Í fjöllunum fyrir

[1]) Um surtarbrand á Vestfjörðum hefi eg samið sérstaka ritgjörð: Nogle Iagttagelser over Surtarbrandens geologiske Forhold i det nordvestlige Island. Geol. Fören. Förhandl. Stockholm XVIII, 1896, bls. 114—154 með mörgum uppdráttum.

innan Bíldudal eru margir gangar og taka þeir sig flestir upp í Langaneshlíðinni hinum megin við fjörðinn. Í fjallinu beint á móti kaupstaðnum á Bíldudal er mjög einkennilegur gangur, fjarska stór; í fyrstu sýnist svo, að fjallið sé rennslétt, eins og fjöl, og engin lagskifting í því, eins og vanalega í basaltfjöllum; en þegar nánara er að gáð, þá sést, að þar er hliðin á geysistórum gangi, sem hefir nærri sömu stefnu og fjörðurinn, en vatn hefir etið alt bergið frá nyrðri hlið gangsins, svo hún stendur ber eins og risavaxinn hlífiskjöldur fyrir framan enda basaltlaganna í fjallinu. Þegar riðið er upp dalinn, sést, að gangurinn sumstaðar losnar frá og er geil bak við, og sumstaðar framrás fyrir vatnið þvers í gegnum hann. Í núpnum við Otrardal er líka heljarmikill gangur og hafa gjáfyllingar þessir ef til vill orðið orsök þess, að núparnir héldust. Víða sjást hér á fjallsbrúnum stór, laus björg, sem borist hafa til á ísöldinni og orðið þarna eftir, þegar jökullinn bráðnaði.

Frá Bíldudal fórum við 5. júlí fjallveg þann, sem heitir Hálfdán, niður í Tálknafjörð; snjór var enn nokkur á fjallinu, en þó ekki ófærð. Gróðrarlítið er hér efra eins og uppi á flestum fjöllum hér í nánd. Fjöllin milli fjarðanna á suðvesturkjálka Vestfjarða eru nærri alveg gróðurlaus, en miklu meiri gróður í fjöllum inn með Breiðafirði, og það þótt þau séu töluvert hærri; getur verið, að sífeldar saltblandnar hafgolur og næðingar valdi þessu. Hálfdán er 1598 fet á hæð; þar fann eg ísrákir (stefna þeirra er N. 60° A.), sést af þeim, eins og mörgum athugunum, er eg gerði seinna um sumarið, að Vesturland alt hefir verið þakið þykkum ísmötli á ísöldinni og varla nokkur þúfa upp úr snjó. Í fjallinu upp af Botni í Tálknafirði kvað vera surtarbrandur, en hann var nú snævi þakinn. Riðum við síðan um Mikladal og að Vatneyri. Patreksfjörður er eins myndaður og hinir firðirnir vestra, nema hvað syðri hlið hans er eigi jöfn brún sem hin nyrðri, en þar ganga inn ýmsir dalir og höfðar eða fjallaálmur á milli; víðsýnið verður því meira og ekki eins aðþröngt eins og svo víða á Vestfjörðum, og er því fallegra á Patreksfirði en við flesta hina smærri firðina. Mér var sagt að

surtarbrandur væri upp á Rakuadalsfjalli og hafði verið tekið af honum og notað til eldsneytis. Fórum við 5 saman frá Vatneyri upp í Mikladal og síðan suður og upp á fjallið, er þar gróðurlaus urð hið efra, fórum við fyrir botninn á Raknadal; hann er djúpur, stuttur og klettóttur; þar norður af eru breiðir hjallar hver upp af öðrum; snjór var undir fjallabrúnunum og þar kvað surtarbrandurinn vera (tæp 1500 fet yfir sjó), en nú var hann undir snjó, svo ekkert sást, og snerum vér við svo búið aftur.

7. júlí hélt eg af stað suður á Rauðasand. Liggur vegurinn fyrst inn með Patreksfirði, fram með langri og brattri hlíð, er stórgrýtisurð neðan í hlíðinni og björgunum alla vega tildrað á rönd, eins er sumstaðar fram með firðinum að sunnanverðu; það lítur nærri því eins út, eins og urð þessi hafi fallið alt í einu úr fjallinu við stórkostlegan jarðskjálfta, Syðsti endinn á Patreksfirði beygir nokkuð til norðurs, er landslag þar nokkuð annað, höfðar og hólabungur úr blágrýti, svo dalurinn verður breiðari þó fjörðurinn mjókki. Fórum við yfir Dalsfjall (1112[1]) nokkru fyrir utan Skápadal og síðan brattar sneiðingar niður á Rauðasand.

Ármóðr enn rauði Þorbjarnarson nam Rauðasand. Hrólfr enn rauðsenzki var souarsonur hans, hann fór til Gunubjarnarskerja og gerði seinna virki á Straudarheiði[1]). Þegar maður lítur af fjallsbrúninni yfir þetta bygðarlag. sem er lukt hömrum á þrjá vegu, og sér rauðgulan sandinn, hvíta brimrákina og dimmbláan fjörðinn fyrir framan, þá mætti ætla, að sandurinn hefði fengið nafn af lit sínum. en þó heitir hann líklega fremur eftir hinum fyrsta landnámsmanni. Rauðisandur hefir myndast í bogadregnu viki milli Skorar og Látrabjargs, bergið er snarbratt fyrir ofan, en bygða landið marflöt mjó ræma fyrir neðan. Straumurinn út með Barðaströnd ber með sér aur og skeljasand og

---

[1]) Landnáma 1843 bls. 139, 153—54. Það er sagt að Látra-Clemens hafi siglt til Gunnbjarnareyja með enskum 1580, sbr. Espólíns Árbækur V. bls. 31—32; en engin veit nú, hvar þessar eyjar eru.

hefir hann smátt og smátt safnast í vikið í hlé fyrir utan Skorina, og þannig er Rauðisandur til orðinn. Þó að bygðin sé afskekt, þá er þar þó mjög fagurt, einkum útsjónin yfir Breiðafjörð. Bæjarós er stórt lón um flóð og fellur sjórinn þá alveg upp að Bæ, en um fjöru eru þar eintómar leirur með stórum pollum og álum. Vestur úr ósnum gengur langur áll milli bygðarinnar og rifsins, og er hann kallaður Fljót. Bæirnir standa uppi undir berginu og eru þeir snotrir á að lita, með rauðum þiljum og hvítum vindskeiðum; fyrir neðan þá er graslendi rennslétt niður að Fljótinu, fyrst mýrar, síðan harðar grundir næst sjónum.

Á hinu gamla höfðingjasetri Bæ gisti eg tvær nætur hjá Ara bónda Finnssyni. Það var mjög vel greindur fróðleiksmaður og var þar á bæ gamal-íslenzkt höfðingjasnið á öllu. Í kirkjunni voru þar tveir gamlir kaleikar, annar með ártali 1623, hinn eldri. Nýlega var búið að taka niður útskorinn prédikunarstól með postulamyndum á klerkabúningi 16. og 17. aldar. Á altaristöflunni var mynd af Birni Gíslasyni og Guðrúnu Eggertsdóttur. Í Bæ bjuggu lengi afkomendur og ættingjar Eggerts riddara Eggertssonar. Árið 1579 rændu Englendingar, sem kunnugt er, á Vestfjörðum, þá bjó Eggert Hannesson í Bæ, Englendingar rændu þar, tóku Eggert höndum og varð að leysa hann út með kvennsilfri, sem var nóg á 13 konur. Segir Espólín gjörla frá ráni þessu. — 8. júlí fór eg til þess að skoða surtarbrandinn eða kolin undir Skorarhlíðum, vorum við 5 saman og riðum fyrir innan ósinn, fram hjá Naustabrekku og upp á fjall hjá Sjöundá, eftir dalverpi, unz við komum upp undir Stálfjall, skildum við hestana eftir uppi á fjallinu og gengum niður Öldnskarð, brattar skriður milli hamra niður undir sjó, og nokkurn kipp austur með berginu, unz við komum að surtarbraudinum. Kolalögin eru rétt niður við sjó og er myndunin öll með leirlögum þeim, sem eru á milli kola og surtarbrandsflísanna, 25—30 fet á þykt og hallar til austurs og suðausturs 6—7°. Surtarbrandsmyndun þessi er sambreiskjugur af margs konar lögum, hvítgrá leirlög, stórgerður leirsteinn, sumstaðar járnrauður leir, en á milli alstaðar surtar-

brands- og kolalög, sum að eins 1/4—1/2 þumlungur, 2—3 þuml. og hin þykkustu 5—6 þumlungar. Lögin þykkna og þynnast á ýmsum stöðum; standa víða út úr kvistir og samþrýstir þunnir trjádrumbar. Neðst er móleitt móberg og sést eigi hve langt það nær niður. Kolin eru fulteins góð eins og þau, sem fundist hafa nálægt Hreðavatni, og geta orðið að töluverðum notum fyrir þá, sem næst búa; þau eru svo nálægt sjó, að hægt er að flytja þau ef vel gefur, en veðrið verður að vera gott, því hér er engin höfn og engin lending. Ef kolin eru sótt sjóleiðis, verður áður að senda menn til þess að taka þau upp og skilja þau frá leirsteinslögunum; er það æðiseinleg vinna og er eigi tiltökumál fyrir þá, sem koma sjóveg, þar sem engin er lending og mjög brimasamt, að tefja sig á því. Að flytja kolin landveg upp á Stálfjallið upp Ölduskarð er eigi hægt, því þessi leið er illfær gangandi mönnum. Kolalögin eru svo þunn, þó þau séu mörg, að eg get ekki séð, að það sé tilvinnandi að leggja nokkuð verulegt í kostnað til þess að vinna þau. Ofan á surtarbrandsmynduninni er stuðlaberg, hér um bil 4 mannhæðir á hæð, þá gjallkent óreglulegra blágrýti nokkru þykkra, þá taka við 15—16 blágrýtislög með rauðum móbergslögum á milli alla leið upp á bergbrún; blágrýtislögin öll, sem liggja ofan á surtarbrandinum, eru hér um bil 2000 fet á þykt. Á takmörkum surtarbrandslaganna sjást glögg merki þess, að stuðlabergshraunið hefir haft töluverð áhrif á myndanir þessar, er það raun, því næst því er leirinn sundursoðinn og dreginn saman í smáar súlur. Það er einnig útlit fyrir, að brennisteinsgufur hafi, eftir að hraunið rann, enn um nokkurn tíma verkað á myndanir þessar, því blágrýtið er sundursoðið að neðan og á takmörkunum fann eg dálítið af brennisteini; getur þetta annaðhvort hafa komið af eldfjallagufum, er komu við gosið, eða af gufum, sem myndast hafa, er jurtagróðurinn tók að umbreytast. Um kvöldið snerum við aftur og gengum upp Ölduskarð, riðum við síðan út undir Sjöundá upp á fjallinu og skoðaði eg surtarbrand, sem kemur fram efst í fjallinu, 640 fet yfir sjó í Landbroti upp af Skor. Er ilt að komast að þeim surtarbrandi

í bröttum skriðum, en myndunin er hin sama og sú, er eg fyr gat um undir Stálfjallinu; eru þetta eflaust sömu lögin; þau liggja hér svo hátt, en ganga niður að sjó undir Stálinu vegna hallans. Fyrir neðan sést Skorarvogur, þar er höfn allgóð, þaðan sigldi Eggert Ólafsson í síðasta sinni árið 1768 og fórst með konu sinni á leiðinni yfir Breiðafjörð, eins og öllum er kunnugt. Sá galli er á þessari höfn, að eigi er hægt að setja þar skip upp, svo þeim sé óhætt fyrir brimi, svo háir eru vogbakkarnir; liggja hamrasker 3 fyrir framan: Nónsker og Kríustapar tveir, nokkru vestar er Kálstapi. Upp af höfninni er fagurt og grösugt land, var þar áður bær, en nú er þar útibeit góð frá Sjöundá. Í björgunum fyrir ofan Rauðasand er víða dálítið af surtarbrandi hátt upp í fjalli, bæði hjá Gröf og Bæ. Í Bæ sá eg allstórt borð, búið til úr surtarbrandsflögu.

Á heimleiðinni frá Sjöundá riðum við leirurnar yfir Bæjarós, því þá var fjara; eru mestu ókjör af skeljum á rifinu og í leirunum hrúgurnar eftir fjörumaðkinn hver við aðra og sumstaðar „trekt"-myndaðar holur smáar; þar er kúfiskur undir (kúskeljar) og andar hann gegn um holur þessar. Kópatekja kvað vera töluverð á grandanum. Til eru munnmæli um það, að sandurinn hafi áður verið grasi vaxinn, en það eru víst ýkjur einar.[1]

Frá Bæ á Rauðasandi fór eg 9. júlí út að Hvallátrum. Þegar maður ríður út með sandinum, er bergið þverhnýpt fyrir ofan; eru blágrýtislögin einstaklega glögg, klípa þau sig hvert inn á milli annars, svo endarnir ganga á misvíxl, hallast þau öll til suðausturs ($^1/_2$-1-2-3$^0$); margir gangar eru í berginu og standa fram eins og bríkur; er stefna þeirra

---

[1]) Í Þjóðólfi (18. árg. bls. 162—63, 178—79, og 19. árg. bls. 20—21) er góð „Lýsing á Rauðasandi", er bygðinni stuttlega lýst og menn hvattir til jarðabóta. Það væri ekki óþarft enn að brýna niðurlagsatriðið fyrir Íslendingum: „eftir því sem fólkið fjölgar í landinu . . . hlýtur þessum hérnefndu bjargræðisvegum að fara fram, því annars er óttaleg tíð fyrir höndum, hungur og hordauði, því ekki hefir guð heitið oss að láta steikta gæs fljúga í munn vorn, ef vér ekki sjálfir hirðum um að auka atvinnu vora".

flestra frá SV til NA. Í yzta horninu nálægt Brekku eru mörg merki þess, að landið hefir hafist; fyrst varð fyrir okkur uppmjór malarhóll rúmlega 100 feta hár; er grjótið í honum brimbarið og stór björg á milli; utar taka við hjallar með sjóbörðu grjóti. Þar sem bærinn Brekka stendur, hafa skriður fallið úr fjallinu og hefir sjórinn, er þá stóð hærra, lamið grjótið og myndað hólaþyrping; hólar þessir eru nú grasi vaxnir og á þeim bærinn. Frá Brekku liggur brattur vegur upp á fjallið og er síðan farið með bjargbrún út í Keflavík. Veðrið var gott og útsjónin yndisfögur yfir Breiðafjörð allan, sjórinn dimmblár og Snæfellsjökull tindrandi hvítur í suðrinu. Keflavík er hvilft niður í bergið og fláir út af henni á alla vegu, þar er einn bær; fyrir neðan bæinn er breitt og hátt melbarð, er grjótið í barði þessu alt ísnúið og brimbarið, hefir jökull á ísöldinni gengið niður undir sjó og hefir brimið verkað á grjótið, sem jökullinn ók á undan sér; þegar jökullinn var bráðnaður, fór lækur að grafa sér farveg gegnum malarbarðið og er nú kominn niður að föstu bergi. Melbarðið er rúm 200 fet á hæð. Úr Keflavík fórum við Látraheiði (1234 fet á hæð) að Hvallátrum. Heiðin er mjög gróðurlítil, öll með urð og mosa: heiði þessi er æði fjölfarin, því margir sækja fugl út í bjargið. Á leiðinni mættum vér nokkrum lestum; það var kvennfólk af Rauðasandi, sem var gangandi, en rak á undan sér hesta með steinbít og fugli. Útarlega á heiðinni er Látravatn, á því var fult af ritu; utar eru þrjú önnur vötn, Djúpadalsvatn, Flagahlíðarvatn og Saxagjárvatn. Á Látrum var eg einn dag um kyrt til þess að skoða bjargið.

Fuglabjargið nær alla leið frá Keflavík að Látravík, nærri tvær mílur; fyrst er Keflavíkurbjarg, síðan Breiðuvíkurbjarg (Lambahlíð með Eyjaskorarnúp), þá Bæjarbjarg út í Saxagjá, þá Látrabjarg að Látravík. Í Bjarnarnúp milli Látra og Breiðuvíkur er og nokkur fugl. Í Látrabjargi eru nokkrar dalaskvompur hér og hvar, vestast Djúpidalur, svo Geldingaskorardalur, svo Lambahlíðardalur. Látrabjarg er rúm 1400 fet á hæð, þar sem það er hæst; er í því eintómt blágrýti með rauðum móbergslögum á milli, er ein blá-

grýtishyllan niður af annari og sitja fuglarnir á þeim. Miðlandahylla gengur eftir endilöngu bjarginu: er hún sumstaðar breið, en tekst í sundur hér og hvar og verður þar eigi gengin. Sumstaðar eru gangar eða bergbríkur upp í gegnum basaltlögin, t. d. Tröllkonuvaður milli Barðs og Kálfaskorar; sumstaðar eru hellar í berginu, t d. Jötunsaugu undan Kálfaskor; þangað seig Árni Thoroddsen á Látrum eitt sinn við annan mann og hafa ekki aðrir þar komið; ferðin er mjög hættuleg, 40 faðma loftsig. Jötunsaugu eru skútar tveir með hafti á milli og gengur langur dimmur rangali inn af og niður á við. Sumstaðar eru skorur eða gjár niður í bjargbrúnina; í Lambahlíðum má víða ganga niður að sjó og er fjara fyrir neðan; úr Saxagjá má líka ganga niður að sjó; en það, sem vanir menn ganga hér, sýnist vera ótrúleg fífldirfska fyrir þá, sem óvanir eru að horfa á menn skríða eins og flugur eftir þverhnýptum björgum.

Fuglaveiðar byrja í bjarginu 2. júlí og enda þegar 14 vikur eru af sumri. Þegar sól er gengin úr bjarginu á kvöldin, byrja menn að síga, og er hætt allri veiði, þegar sólin kemur aftur, af því fuglinn er styggur í sólskini. Mest er af langvíu í bjarginu; þar er líka hringvía; það er afbrigði af langvíunni, sem Faber kallar „Uria troile leucophtalmos“. Á smástöllum sitja hér og hvar stuttnefjur eða nefskerur (*Uria Brünnichii*): þær eru þrýstnari um búkinn heldur en langvíurnar og nefið digrara og styttra. Langvíurnar sitja helzt á löngum hyllum. Þar í bjarginu er og töluvert af álku, lunda, ritu, svartbak og máfum, en fátt af fýlungum. Langvíur, hringvíur, nefskerur og álkur kallast einu nafni svartfugl. Svartfuglinn er alfarinn í 18. og 19. viku sumars; er hann áður orðinn styggur og ungarnir stórir. Ritu-ungar eru teknir í 15. viku, og í 16. viku fer ritan; kofnatekja er töluverð í Bæjarbjargi, en lítil annarstaðar; í kofnatekju er farið í 17. og 18. viku og er lundinn alfarinn í hinni 20. Svartfuglinn á marga óvini; að bjarginu safnast alls konar vargur sér til bráðar; tóurnar eru einna skæðastar: af þeim eru oft drepnar 60—70 á ári í hreppnum.

Auk þess koma stórir hópar af hröfnum til þess að ná í eggin, og fálkar og arnir til þess að drepa fuglinn. Sumstaðar í bjargskorunum er töluverður jurtagróður, skarfakál, hvönn, burnirót o. fl., en þar situr fuglinn ekki; hann vill helzt vera á berum hyllum. Hornbjarg er almenningur, en Látrabjarg telst undir ýmsar jarðir, svo aðrir, sem vilja nota bjargið, verða að borga eitthvað fyrir lánið; landeigandi tekur vanalega sérstakan hlut, oftast tíunda hvern fugl sem veiðist. Einn hlutur er borgaður fyrir festi og þeir fá hættuhlut, er síga; oft eru tveir um einn hættuhlut. Vanalegt verð á svartfugli á brún er gömul vætt fyrir stórt hundrað. Arðurinn af bjarginu er mikill fyrir þá, sem næst búa. Sumarið 1886 veiddust í Látrabjargi 36000 svartfuglar, eftir því sem nákunnugur maður, Guðmundur bóndi Sigurðsson í Hænuvík, hefir skrifað mér.

Á ytra bjarginu eru brúkuð hjól undir festar, af því þar er svo bratt, en innar er mikil ofanganga. Þegar sigið er, gæta 10—15 menn festarinnar, og standa þeir allir, nema sá, sem er við hjólið; hann situr og spyrnir í. Lengst er sigið 120 faðma; vaðnum er brugðið undir lendar á sigamanninum og kappmellu um mittið; sigamaðurinn ber með sér leynivað niður á hylluna, þar sem hann ætlar að snara fuglinn, og er leynivaðurinn bundinn neðan í endann á aðalvaðnum, þegar hann fer upp aftur, ef einn eða fleiri menn eiga að fara niður á sömu hylluna; sá sem niður er kominn á undan, stýrir svo ferð þess, sem á eftir kemur, með leynivaðnum. Sigamennirnir ganga eftir sillunum og snara fuglinn, hefir hver þeirra langa stöng með hrosshárssnöru á endanum; er það mikið komið undir vana og fimleika, hve mikið hver fær. Jafnóðum og fuglinn er snaraður, eru fuglakippurnar dregnar upp á brún; eru kippurnar bundnar hver fyrir ofan aðra á vaðinn; þegar maður fer upp í sömu ferðinni, eru fuglakippurnar hafðar fyrir ofan hann, svo maðurinn, ef steinn fellur, geti dregið sig inn undir kippurnar. Stundum er gengið neðan í bjarg; ganga menn þá lausir og klifra eftir örmjóum röndum, stundum upp fyrir mitt bjarg, styrkir þá hver annan með litlu bandi.

Af stærri hyllunum er sigið á þá palla, sem eigi verður gengið í, og hafa menn til þess handvaði. Fyrir neðan fara bátar með bjarginu og er fuglinum kastað niður til þeirra. — Þegar fuglarnir eru reyttir, er fiðrinu skift í þrent: hvítt brjóstfiður, svart fiður af hryggnum og svart fiður af hausnum. Vængirnir eru kliptir og reyttir á vetrum. Á svartfuglinum kvað vera bláleit lús, nærri helmingi stærri en færilús; er fult af henni í hyllunum á bjarginu.

Daginn, sem eg skoðaði bjargið, var rigning og þoka; fórum við fyrst niður í Djúpadal og svo vestur með bjargbrúninni; þokan streymdi eins og reykur upp um skorurnar og fuglarnir þutu gegnum þyknið, eins og kólfum væri skotið fram og aftur; ef maður lagðist fram á brúnina, þá var gaman að sjá fuglamorið á sillunum og alt lífið og fjörið í þessum stóra hóp. Utarlega undan bjarginu gengur Barðið fram úr því; það er bergrani 166 feta hár, beittur að ofan eins og saumhögg, með brimlöðrinu alt í kring; flúðir eru fram í sjóinn út af Barðinu og hefir hafrótið skafið ofan af þeim; þar hafa myndast djúpir katlar í blágrýtið; sumir kvað vera alt að því tvær mannhæðir á dýpt; hringiðan í briminu hefir snúið lausum björgum í hring og sorfið bergið. Í Barðinu var krökt af fugli, svo varla sýndist vera auður blettur, og þó höfðu þar nóttina áður verið tekin 18 stór hundruð af fugli; af brúninni eru 90 faðma sig niður í Barðið. Á bjargbrúninni er víða nokkur gróður og góð beit fyrir fé, en mjög oft hrapar það niður fyrir eða það hættir sér niður á sillur, sem það kemst eigi úr, og verður þá að síga eftir því.

Látravík er breið og stutt; er rif fyrir framan og skeljasandur mikill inn af; hefir hann fokið inn eftir öllum fjöllum og norðan við bjargið eru upprifin börð með hvítgulum skeljasandi; eyrarnar inn af rifinu eru þó að gróa upp, og stórt svæði, sem áður var gróðurlaust, er orðið að graslendi á hinum síðustu 30 árum. Á Hvallátrum eru fiskiveiðar allmiklar; sóttu menn þangað fyrrum úr fjarlægum héruðum vestanlands, jafnvel úr Reykhólasveit og Steingrímsfirði. en nú koma þar miklu færri, helst úr Vestureyjum, Múlasveit

og af Barðaströnd. Á Látrum er einkum fiskaður steinbítur; þessi fiskur er algengastur á sviðinu frá Látrabjargi norður að Djúpi, en lítið um hann sunnar og norðar. Eins og kunnugt er, hefir steinbíturinn hvassar og sterkar tennur og notar þær til þess að mola sundur öðuskeljar og krækling; öðufiskurinn er aðalfæða steinbítsins, og er hann mestur, þar sem nægð er af þessari fæðu; safnast stórar torfur af steinbítum þangað og hætta eigi fyr en þeir eru búnir að eta alt, sem til er; sögðu sjómenn mér, að þegar aðan væri búin, æti hann hrúðurkarl og fleira þess konar; þegar slíkt finst í steinbítsmaganum, fer hann að halda burt frá þeim stöðvum og leita þangað sem meiri er átan. Í góðum fiskiárum fæst oft í Hvallátrum 5—600 steinbítar í hlut, en í lakari árum 2—300. Steinbíturinn er víða á Vestfjörðum aðal-fiskæti manna; er hann hertur, en þó stundum saltaður og hafður í súpumat á vetrum. Beinin eru brúkuð fyrir kýr og fé, og eins barðir steinbítshausar; þegar fiskilítið er, taka menn þó oft kinnfiskana úr hausunum, áður en þeir eru gefnir skepnunum. Steinbítsroð er alstaðar hér um slóðir notað í skóleður á vetrum; kvennfólk notar og víða roðskó á sumrum. Eins og geta má nærri, eru roðskór ekki sérlega haldgóðir, og þegar menn fara langa leið gangandi, þurfa þeir að hafa heila kippu með sér af roðskóm; eg hefi heyrt menn vestra — líklega í spaugi — ákveða lengd fjallvega með því að segja, að það væri svo eða svo margra »roðskóa heiði«. Sunnar en steinbíturinn er töluvert af hlýra, og rekur stundum mikið af honum brimrotnuðum; 1795 rak mikla mergð af hlýra á Rauðasandi, og fekst nokkru fyr svo mikill hlýri á Barðaströnd, að 300 og meira kom á hvern bæ[1]. Á vetrum ganga 4 skip opin til hákarlaveiða frá Látrum, eru 10—11 menn á hverju skipi, og eru sjaldan styttra en sólarhring úti, 2—3 vikur sjóar undan Bjargi.

Hinn 11. júlí fór ég frá Látrum í Breiðuvík; var koldimm þoka á hálsinum, er vér fórum yfir. Í Breiðuvík er fremur ljótt land og uppblásið, hvítgulir sandar og roksandur upp í fjöll; eins kvað vera í Kollsvík; er sumstaðar mór

[1]) Espólíns Árbækur XI., bls. 71 og 77.

með stórum lurkum undir sandinum í víkum þessum, því grasvöxturinn og sandfokið hafa skifst á. Sjóbúðir eru hér nokkrar og útræði. Úr Breiðuvík fór eg yfir Hafnarfjall (1087 fet) í Örlygshöfn. Í dalverpi norðaustur af bænum í Breiðuvík er núið fjöruborð töluvert yfir sjó. Þegar kemur á brúnina á Hafnarfjalli, sér yfir fagran og grösugan dal upp af Örlygshöfn; eru sléttir bakkar fram með vaðlinum og skeljasandur undir. Austan við vaðalinn er múli, snarbrattur og hvass að ofan eins og saumhögg; hann heitir Hafnarmúli. Ganga dalir inn frá Patreksfirði og múlar á milli, austan við Hafnarmúla; fyrst Mosdalur, óbygður, svo Vatnsdalur, svo Skolladalur, óbygður, síðan Kvígindisdalur og Sauðlauksdalur. Vegurinn fyrir framan Hafnarmúla er fremur slæmur, stórgrýtisurð og björg; klettarnir fyrir ofan hrikalegir og skútandi, á hyllunum víða hvannir, blóðrót og skarfakál, og alstaðar sitrar vatnið niður. Um kvöldið kom eg að Sauðlauksdal og var þar um nóttina.

Sauðlauksdalur er orðinn nafnfrægur í sögu landsins, af því þeir dvöldu þar Eggert Ólafsson og Björn Halldórsson, og finnast enn þá ýmsar menjar þessara manna[1]). Jörðin Sauðlauksdalur eyðist líklega innan skams tíma alveg af roksandi, og þó presturinn sé dugnaðarmaður, þá er ekki hægt að berjast við slíkt ofurefli; mestur hluti túnsins má heita farinn. Nokkru fyrir utan túnið sést enn þá stór steingarður, sem átti að verja sandfoki; garður þessi er kallaður Ranglátur. Eftir því sem sagan segir, lét séra Björn Halldórsson sóknarmenn hlaða þennan garð nauðuga um hásláttinn; hvort satt er, veit eg ekki. Langt út í fjörðinn gengur stór og mikill tangi af eintómum skeljasandi út af Sauðlauksdal; kemur sandurinn úr sjónum og rýkur svo upp dalinn og upp í fjöll; vatnið er alt af að minka og grynka af þessum sífelda sandíburði. Eg ímynda mér, að sandur þessi eigi kyn sitt að rekja suður til Breiðafjarðar. Á grunnum sæ milli eyjanna þroskast þang og þari ágætlega; þar verður því mikill urmull af lægri sædýrum, skelj-

[1]) Sbr. Andvari 1, bls. 178.

um og þess konar; straumarnir bera þangið út með Barðaströnd og skeljasandinn út með Skorarhlíðum, fyrir Látrabjarg og inn í víkur og firði fyrir norðan. — Ofarlega í túninu í Sauðlauksdal er stór ferhyrnd garðrúst, mjög sandorpin; er sagt, að það séu hinar einu leifar, sem eftir sjást af görðum þeim, er þeir Eggert og Björn gerðu í hinar merkilegu ræktunartilraunir sínar. Í kirkjunni eru ýmsir fornir munir; þar er hökull sem Eggert Ólafsson gaf 1764, og patínudúkur; hökullinn kvað vera saumaður af Ingibjörgu heitmey Eggerts, á honum er krossmynd Krists, þar er kaleikur frá árinu 1698 og annar eldri, prédikunarstóll með myndum, gefinn kirkjunni 1765 og fleira. Í kirkjugarðinum er legsteinn úr rauðleitum sandsteini yfir Helgu Arngrímsdóttur hins lærða; hún var gift Birni Magnússyni á Bæ á Rauðasandi; sonur þeirra var Páll Björnsson prófastur í Selárdal, einn með lærðustu guðfræðingum á Íslandi í þá daga, en fjarskalega hjátrúarfullur og eitraður mótstöðumaður allra galdramanna, hann og Þorleifur Kortsson lögmaður komu því til leiðar, að margir voru brendir, sem grunaðir voru, fyrir galdra.

Frá Sauðlauksdal fór eg inn með Patreksfirði og svo Kleifaheiði suður á Barðaströnd. Vegurinn upp á Kleifaheiði liggur fram með djúpu gili (Bárðargili); var hann nýlagður og óvanalega góður, eftir því sem um er að gera á Vestfjörðum. Ofan til á heiðinni eru klettarnir allir fágaðir af ís; þó eru óvíða glöggar ísrákir; heiðin er 1284 fet á hæð[1]. Þegar fer að halla suður af, sést glögt hve reglulega blágrýtislögin hallast niður að Breiðafirði (4°); þó sýnast neðstu lögin hér, eins og víðar á Barðaströnd, steypast meir niður til suðausturs en hin efri. Þegar kemur niður af heiðinni, kemur maður niður að Haukabergi; er þar stór vaðall, Haukabergsvaðall; stendur bærinn á holtahjalla, sem áin hefir brotist gegnum. Um kvöldið riðum við inn að Haga. Manni bregður við á Barðaströndinni, hvað vegirnir

[1]) Þegar nefnd er hæð á fjallvegum eða heiðum, þá er talað um efstu hæð á veginum sjálfum; þar hefi eg altaf mælt.

eru góðir; því hér eru alstaðar sléttir bakkar með sjó fram eða sandar, svo það er gaman að láta spretta úr spori eftir öll klungrin og einstígin, sem maður daglega verður að berjast við í fjörðunum. Í Haga dvaldi eg nokkra daga. Hagi er, eins og allir vita, gamalt höfðingjasetur og bezta jörð. Útsjón er þar einkar fögur yfir Breiðafjörð og fjöllin á Snæfellsnesi; bærinn stendur á melhjöllum kippkorn frá sjó; eru hjallar þessir gamlir brimbarðir malarkambar. Fyrir neðan bæinn er rennslétt niður að sjónum og engjar næst bænum. Í Haga hafa verið lélegir ábúendur um stund, svo jörðin er mjög niðurnídd; bærinn var varla annað en rúst, og reisulegri hefir bær Davíðs Skevings sýslumanns verið, sá er brann fyrir jólin 1777[1]). Svo er víða hér í landi með höfuðbólin, að þegar merkismaðurinn eða merkismennirnir eru dánir, sem komið hafa öllu í lag, þá taka skrælingjarnir við, og að fám árum liðnum sér þess ekki merki, að þar hafi nokkurn tíma maður búið[2]).

Á Barðaströnd er einstaklega fallegt; rennsléttar grundir eða sandar með sjónum, stórar engjar, skógivaxnir dalir hið efra og bezta sauðbeit, útsjónin einkar fögur yfir Breiðafjörð og aðflutningar hægir; þar er og ágætlega vel fallið til jarðeplaræktar, í sendnum jarðvegi móti sólu, enda er þar að tiltölu mikil kartöflurækt. Í fjörunni við Barðaströnd má sjá lög á víxl af þara og sandi, þaralögin myndast á vetrum, en sandlögin á sumrum. Þarinn verður á endanum að mókendum moldarlögum mjög fínum. Allmargir landselir eru teknir á vorin um þessi svæði, bæði á Rauðasandi, Barðaströnd og í Reykhólasveit, en útselir á haustum, fullorðinn útselur getur orðið 15—20 kr. virði; flestir eru kópar teknir á Reykhólum (150—200 á ári). Vöðuselir komu áður í hópum en sjást nú varla. Grasatekja er hér töluverð í fjöllum eins og víða á Vestnrlandi; þetta sumar sá eg fjallagrös höfð til matar, eigi að eins á Barða-

---

[1]) Espólíns Árbækur XI., bls. 19.

[2]) Undir Haga heyra ýmsar eyjar á Breiðafirði, þær eru taldar í Hagamáldaga. Dipl. Isl. III, bls. 301.

strönd heldur og við Steingrímsfjörð og norðar á Ströndum. Í Reykjarfirði við Geirólfsgnúp sá eg grasafólk týna grös í lúðumaga, sem annars eru alment brúkaðir þar til að geyma fiður í[1]. Fjörubeit er ágæt á Barðaströnd, og eru fjárhús alstaðar við sjóinn á malarbakkanum; á stöku stað eru grindur hafðar í húsum, en víðast hvar er sandur borinn í·húsin og áburðinum og sandinum mokað í sjóinn; úr kúamykjunni er búinn til klíningur og honum brent. Af þessu má ráða, á hverju stigi búskapurinn er á Barðaströnd, enda er víst leit á héraði, þar sem alt er jafn-fagurt úr náttúrunnar hendi og þó jafn-illa hagnýtt; mentunarleysið og þar af leiðandi dugnaðarleysi og fátækt hafa lengi verið þessari strönd til hnekkis; kaupstaðurinn í Flatey hefir víst heldur aldrei verið Barðstrendingum til sérlegs hagnaðar eða framfara. Alt hefir eins og vant er, gengið með eilífum lánum; Barðstrendingar hafa lánað Eyjamönnum slægjur, skógarhögg til hrístekju og kolagerðar og látið þá skemma fyrir sér landið, þeir hafa selt þeim kindur fyrir kofur o. s. frv. Búskapurinn batnar víst varla fyr en nógu margir efnaðir utanhéraðsmenn hafa setzt þar að og geta kollvarpað gömlum vana og rótgrónum hleypidómum hinnar innfæddu kynslóðar, eða ef ungir menn innanhéraðs, sem eitthvað hafa numið, taka rögg á sig og hjálpa við þessari gullfallegu sveit.

Milli Hagatöflu og Brjámslækjar-fjalla myndast breið hvilft inn í fjöllin, skeifumynduð; sameinast þar margir smáir dalir efra og renna úr þeim smá-ár niður á láglendið í skeifubotninum, og hefir þar myndast breiður ós, Hagavaðall; má ríða þar yfir leirurnar um fjöru. Dalirnir, sem ganga upp af vaðlinum, eru þessir helztir: Hagadalur, Arnarbýlisdalur, Mórudalur og Vaðaldalur; eru dalir þessir fagrir og grösugir og í þeim mikill skógur, einkum í Arnarbýlisdal og Mórudal; 14. júlí skoðaði eg Hagadal og Arnarbýlisdal. Arnarbýlisdalur er mjög fagur, með skógivöxn-

---

[1]) »Flautir« voru enn 1886 algengur matur á Barðaströnd, og eg mundi þær vel frá ungdæmi mínu í Haga um árið 1860.

um hamrastöllum beggja megin; áin fellur ofarlega í miðjum dalnum í gljúfur, er ganga um þveran dalinn; önnur gljúfur austanvert í dalnum eru lóðrétt á hin; gljúfur þessi eru að öllum líkindum sprungur, en ekki etin af vatni. Neðst í dalnum eru háar klappabungur, allar ísnúðar með sköfnum og fægðum hnúðum og hvilftum. Hinn 15. júlí fór eg frá Haga að Brjámslæk til þess að skoða surtarbrandinn, sem þar er; riðum við fyrir innan vaðalinn og svo út hjá Hvammi og Rauðsdal. Við Kross er lítilfjörleg laug við vaðalinn; hiti hennar $30^1/_2{}^0$ C. Út með fjallinu er fagurt land, sléttar grundir og engjar og fjörur fyrir neðan, blágrýtislögin mjög regluleg í fjallinu og móbergslög ofan til. Fram með ströndinni allri sést gamall marbakki, 100—200 fet yfir sjó; malarkambur þessi er mishár; sést víðast brimbarið grjótið, en sumstaðar er grassvörður ofan á; það er auðséð víða, að blágrýti er innan í, en kápa af möl utan um; basaltlagið hefir áður staðið fram í sjóinn sem brimbarinn fjallsfótur. Hér eru víða stórir gangar í fjallinu; sjást þeir hið efra, eins og framstandandi bríkur eða hleinir, en neðar hafa áhrif lofts og lagar oft skift þeim í sundur í parta; súlurnar liggja flatar og eru mjög fagurlega strendar; það er eins og trjábútum væri hlaðið hverjum ofan á annan. Nálægt Rauðsdal er afarlangur gangur í fjallinu og gengur hann langt fram í sjó; sýnist Stórfiskasker vera framhald af honum; rétt við sjóinn er gangurinn eins og há og mikil brík með skörðum, sem heita Rauðsdalsskörð; í gjá, sem brimið fellur upp í, var Sveinn skotti hengdur. Á Brjámslæk dvaldi eg all-lengi og tjaldaði þar uppi í dalnum við surtarbrandsgilið, til þess að geta safnað jurtasteingjörvingum, og rannsakað jarðlögin þar í kring, því að það er mjög mikilsvert, að surtarbrandslögin séu nákvæmlega skoðuð, til þess að geta komist inn í myndunarsögu Vesturlandsins og þar með alls landsins[1]).

[1]) Lýsing á surtarbrandi við Brjámslæk með uppdráttum er í hinni fyrrgreindu ritgjörð minni »Nogle Iagttagelser« o. s. frv. bls. 140—143.

Milli Brjámslækjar og Hagavaðals gengur fram breitt nes fjöllótt og eru fjöllin þverhnýft að framan og um 1800 fet á hæð; Vaðalfjall er hæst, 1948 fet. Dalir ganga inn á báða vegu, Vaðaldalur að vestan, en Lækjardalur að austan; frá Vatnsfirði ganga auk þess tveir dalir inn í landið norður af Lækjardal, Þverárdalur og Penndalur, og ganga fjallamúlar út á milli dalanna. Lækjardalur er all-breiður og takmarkast hið efra af bogadregnum hamrabeltum milli Lækjardals og Hestmúla; hafa tvö gil grafið sig niður gegnum hamrabeltin, og í hinu nyrðra, sem er næst Hestmúla, eru steingjörvingarnir rúmlega ¼ úr mílu frá sjó: 545 fet fyrir ofan sjávarflöt. Fyrir ofan dalbotninn uppi á fjallinu er annar dalur grynnri, skálmyndaður; þar dregst saman vatn úr hæðabungunum í kring og verður að lækjunum tveimur, sem fyr var getið; hér uppi á fjallinu ná Lækjardalur og Vaðaldalur nærri saman og er örmjótt haft á milli. Blágrýti er í fjöllunum öllum og hallar lögunum hér um bil 5° niður að Breiðafirði og þó um leið nokkuð til austurs niður að Vatnsfirði. Milli blágrýtislaganna eru jarðlög þau, sem surtarbrandurinn og jurtaleifarnar finnast í; eru þau samsett af margs konar smærri lögum, mislitum leirtegundum, móbergi og steinbrandi, og þó er myndunin ekki þykk. Þó eigi sé alstaðar steingjörvingar eða surtarbrandur, þá sjást þó þær myndanir, er þeim fylgja, í flestum giljum bæði í Lækjardal og Vaðaldal; sést á því, að þau hafa eigi mikið raskast og fylgja sama halla og sama lögmáli eins og blágrýtislögin, sem að þeim liggja. Lögun landsins hefir verið alt önnur, þegar þessi jarðlög urðu til, en nú; firðirnir hafa síðar myndast; Breiðifjörður er mestallur svo til orðinn, að landið hefir sokkið, sem nú er undir botni hans; surtarbrandslögin við Brjámslæk og Skarðströnd, sem hallast niður að firðinum beggja vegna, benda til þess að svo sé, og auk þess er margt fleira, sem mælir með því.

Það sést tilsýndar, að í surtarbrandsgilinu koma fram leirlög mislit, þó flest móleit eða rauðleit, og blágrýti ofan á; gilhliðin er brattari að sunnanverðu og þar sjást jarðlögin betur, því hinum megin er alt skriðuhlaupið. Gilhlíð-

in að sunnanverðu er samsett af fjöldamörgum lögum; neðst eru leirmyndanir þær, sem surtarbrandurinn er bundinn við, en ofar mestmegnis blágrýti og nokkuð af rauðleitu móbergi. Ofarlega í gilinu kemur surtarbrandurinn bezt fram í berghorni að sunnanverðu, og sjást þar tilsýndar grá lög með svörtum ræmum; þar eru hinar steinrunnu jurtaleifar; bergið fyrir ofan skútir svo fram yfir, af því undan því hefir verið tekið, að það er fremur geigvænlegt að dvelja þar undir, og það er mikið líklegt, að bergið hrynji niður einhvern góðan veðurdag; ekki þarf til þess nema lítilfjörlegan jarðskjálftakipp eða stórrigningu, og þá verður ekki gott að komast að steingjörvingunum á eftir. Jarðlögin koma hvergi eins glögglega fram, eins og í þessu horni, því þar er svo bratt, að engin skriða tollir[1]. Steinbrandurinn og harði leirinn milli surtarbrandslaganna klýfst í örþunnar flísar og er hver flaga, hversu þunn sem hún er, full af blöðum, og sjást blaðtaugarnar ágætlega, einkum þegar flögurnar fara að þorna. Surtarbrandurinn er fremur lélegur til brenslu, en má þó nota hann[2]; í honum eru að eins 34% af kolefni, en í kolum frá Hreðavatni 60%. Gilið er um 200 faðmar á lengd og 2—300 fet á dýpt; efst í því er foss; koma hér um bil sömu lögin fram undir fossinum eins og í surtarbrandshorninu. Eftir gilhlíðinni nyrðri hefir gangur brotist upp í gegnum surtarbrandsmyndanirnar, og standa eftir af honum háir strókar (stefna gangsins er V. 15° S.).

---

[1] Neðst er fast við lækinn rauður og grænleitur leir með leirhnúðum og í honum ofarlega örþunnar flísar af surtarbrandi; neðar í gilinu sést, að leirmyndun þessi er all-þykk (um 50 fet). Fyrir ofan rauða leirinn taka við surtarbrandslög og steinbrandur með nokkrum steingjörvingum fremur lélegum; þetta lag er tæp alin á þykt; þá kemur blágrýtislag (4 fet); þá stærsta surtarbrandsmyndunin með steinrunnu blöðunum (16 fet); er það mest steinbrandur, en þó töluvert af surtarbrandi á milli; þá kemur þunt móbergslag gulgrátt; svo saman klesst hraunlag með stuðlabergi ofan á (rúm 30 fet); svo rautt móberg (30 fet) og í því ofarlega þunt surtarbrandslag, og síðan er blágrýti upp úr.

[2]) Sbr. *Fr. Johnstrup*: Kullagene paa Færöerne, i Overs. o. Vidensk. Selskabs Forh. 1873, bls. 184.

Snemma hafa menn tekið eftir surtarbrandi og er hans getið í gömlum bókum, og þá stundum getið um ýmsa hjátrú honum viðvíkjandi, og er ekki til neins að týna það saman á þessum stað. Seinna fóru menn að hugsa um að hafa surtarbrand til eldsneytis, og lét stjórnin skoða hann hvað eftir annað á 18. öldinni, og jafnvel fyr, því á bréfi frá Friðriki III., 28. apr. 1663, sést, að Niels Jörgensen hefir verið sendur til Íslands til að sækja svart tré, biður konungur, að honum sé veittur allur greiði, og að sýslumenn í Vestfirðingafjórðungi hjálpi honum til að ná í sem stærstar surtarbrandsflögur[1]). Eggert Ólafsson skoðaði fyrstur manna surtarbrandslögin við Brjámslæk, 1753, og lýsir þeim ágætlega; hann fann fyrstur manna hér á landi steingjörð trjáblöð í jarðlögunum við surtarbrandinn. Á dögum Eggerts Ólafssonar var engin vísindaleg jarðfræði til, og því var þessari uppgötvun ekki eins mikill gaumur gefinn eins og hún hefði átt skilið. Það var ekki fyrri en nærri öld seinna, að menn sáu, hve stórkostlega þýðingu jurtaleifarnar í jarðlögum heimskautalandanna hafa fyrir sögu jarðarinnar. Ole Worm og aðrir fróðir menn sögðu, að engin sönnun væri fyrir því, að skógur hafi áður verið þar, sem surtarbrandur er nú; en með uppgötvun sinni hafði Eggert sýnt óræk merki þess, að svo hefir þó verið. Þó nú Eggert Ólafsson lýsi ágætlega surtarbrandinum og jarðlögunum í kring, þá kemst hann þó í hálfgerð vandræði, þegar hann á að skýra frá því, hvernig á því muni standa, að skógarmenjar og för eftir trjáblöð finnast í miðju fjalli, og mörg hundruð feta þykk blágrýtislög ofan á; en þetta er ekki undarlegt, því enginn vísindamaður á þeim tíma mundi hafa getað skýrt frá því; svo voru vísindin skamt komin þá. Það er næsta furðanlegt hve athugasemdir Eggerts eru skynsamlegar í þessu efni[2]). Árið 1775 sendi stjórn-

[1]) *Magnús Ketilsson*: Forordninger og aabne Breve. III., bls. 109—110.

[2]) *Eggert Olafsson og Bjarni Pálsson:* Reise igennem Island, Soröe 1772, bls. 412—419. Kvæði Eggerts Ólafssonar. Kmh. 1832, bls. 92.

in *Christian Ziener* til vesturlandsins til þess að líta eftir surtarbrandi, og sjá, að hve miklum notum hann gæti orðið; eru lýsingar hans allgóðar, en bera ekki vott um neina framför í vísindalegu tilliti, og sama er að segja um rit *Olaviusar* og *Mohr's* í þessu efni[1]. Á árunum frá 1814 til 1815 ferðaðist *Ebenezer Henderson* víða um Ísland; lýsir hann meðal annars surtarbrandslögunum á Brjámslæk og sýnir fram á samband þeirra við surtarbrandslögin á Skarðsströndinni; hann reynir og að komast að því, hverrar tegundar tré þau hafi verið, er hér uxu, þegar surtarbrandurinn myndaðist. Athugasemdir Henderson's um myndun surtarbrandsins eru góðar og nálgast að sumu leyti skoðun manna nú á tímum[2]. Þegar *Japetus Steenstrup* ferðast hér á landi á árunum 1839—40, gerði hann sér sérstaklega far um að rannsaka surtarbrandinn, og fann steinrunnin trjáblöð eigi að eins við Brjámslæk, heldur og einnig við Hreðavatn og Steingrímsfjörð, og sendi síðan (1858) safn sitt til *Oswald Heer* í Zürich, sem allra manna bezt bar skyn á slíka hluti. Árið 1857 ferðaðist *G. G. Winkler* víða um landið og safnaði töluverðu af jurtasteingjörvingum á hinum sömu stöðum eins og Steenstrup[3]; steingjörvinga þessa hefir O. Heer líka rannsakað. Árið 1883 safnaði sænskur maður, *G. Flink*, nokkru af steingjörvingum á Vesturlandi; en ekkert hefir verið um það ritað enn þá. Sumir hafa ímyndað sér, að surtarbrandslögin hafi myndast af rekaviði, sem rekið hafi til landsins einhverntíma í fyrndinni; á þeirri skoðun var *Paijkull* og nokkrir aðrir. Paijkull heldur, að surtarbrandslögin hafi myndast neðan sjávar, að tré, blöð og kvistir hafi rekið sunnan að með straumum og síðan sokkið til

---

[1]) *O. Olavius:* Oeconomisk Reise igennem Island. Khm. 1780, bls. 598—602. Lýsing Zieners er aftan við þá bók, bls. 737—56.

[2]) *E. Henderson:* Iceland; or the journal of a residence in that island during the years 1814 and 1815. Edinburgh 1818. Vol. II., bls. 114—118, 125—126

[3]) *G. G. Winkler:* Island, der Bau seiner Gebirge und dessen geologische Bedeutung. München 1863, bls. 214—224.

botns, orðið föst í leirnum og látið för eftir sig[1]); en þetta er mjög ósennilegt; surtarbrandslögin benda til þess sjálf á ýmsan hátt, að þau séu mynduð á landi, og svo er það ólíklegt, að blöðin hefðu getað haldist svo vel alla þessa löngu leið, mörg hundruð mílur, að sunnan, blöðin eru svo fögur og óskemd í steininum, að hinar minstu æðar sjást glögglega; hver snepill og hver skora í blaðröndinni er eins glögg eins og á lifandi jurt. Steingjörvingar sömu tegundar í mörgum öðrum heimskautalöndum sanna það fullkomlega, að jurtir þessar og tré hafa vaxið þar í landi á fyrri tímum, þegar hiti jarðarinnar var miklu meiri en nú, enda eru nú allir náttúrufræðingar á eitt sáttir um þetta.

Í Andvara 1880, bls. 40—104 hefir áður verið stutt yfirlit yfir myndunarsögu jarðarinnar, og í Tímariti Bókmentafélagsins (1882 bls. 80—99) um steingjörvinga; í ritgjörðum þessum er sýnt fram á þá skoðun manna, að jörðin hafi eitt sinn í öndverðu verið glóandi hnöttur; síðan fór hún að kólna, svo skurn myndaðist utan á; þá fóru að koma í ljós dýr og jurtir, sem í byrjun voru mörg ófullkomin, en urðu fullkomnari eftir því sem fram liðu stundir. Hafa menn skift sögu jarðarinnar í ýmsa kafla, eftir dýrum þeim og jurtum, sem þá voru til; fyrst framan af voru lífsskilyrðin alstaðar á jörðinni hér um bil þau sömu, og dýralífið og jurtalífið var þá alstaðar nærri eins; en því nær sem dregur vorum tíma, því breytilegri verða lífsskilyrðin. Lengi fram eftir var hiti jarðarinnar sjálfrar svo mikill að innan, að eigi bar neitt á hitabeltum; þær jurtir, sem nú vaxa að eins við miðjarðarlínu, gátu eins þróast í heimskautalöndunum eins og annarstaðar; seinna, þegar jörðin kólnaði, fór jurtalífið að raða sér niður um hnöttinn eftir áhrifum sólarinnar. Eins og kunnugt er, þá er Ísland samsett af eintómum eldbrunnum jarðlögum, og þó einkum af blágrýti og móbergi; en engin veit hvernig sú jarðmyndun er, sem öll þessi ókjör af eldgosamyndunum hvíla á, því hún kemur hvergi sýni-

[1]) *C. W. Paijkull*: Bidrag till kännedomen om Islands bergsbyggnad. Stockholm 1867, bls. 47.

lega fram, að því er menn nú vita. Þegar blágrýtislögin voru að myndast, hefir náttúrlega oft orðið hlé á gosunum, sumstaðar um langan tíma, um margar aldir og ef til vill margar þúsundir ára; þá var tími til fyrir jurtir að setjast að, vaxa og þroskast. Myndunartími surtarbrandslaganna er nokkurs konar hvíldartími í myndunarsögu landsins, og af hinum steinrunnu trjáblöðum á Vesturlandi sést, að skógarnir, sem þessar leifar eru af, uxu þar á því tímabili, sem jarðfræðingarnir kalla »miocene«.

*Oswald Heer* (1809—1884) var einn af hinum fremstu náttúrufræðingum á þessari öld. Hann rannsakaði urmul af steinrunnum jurtaleifum úr ýmsum löndum, og ritaði um það margar bækur. Eitt af hinum nafnfrægustu ritum hans er lýsing á jurtaleifum heimskautalandanna: »Flora fossilis arctica«, sem kom út á árunum 1868—1883, sjö þykk bindi í 4to. Lýsir hann jurtaleifum þeim, sem norðurfarar hafa haft heim með sér úr ferðum sínum, og í fyrsta bindinu því, sem þá var kunnugt frá Íslandi. Af því hann þekti plönturnar svo ágætlega, hefir hann getað lýst náttúru og loftslagi heimskautalandanna á ýmsum jarðtímabilum, því lífsskilyrði þau, sem hver jurt er bundin við, benda til þess, hvernig náttúran þá hefir verið. *A. G. Nathorst* í Stokkhólmi er einn af hinum frægustu jarðfræðingum, sem nú eru uppi; hann hefir ritað margt og mikið um steindar plöntur frá Svíaríki, Japan og fleiri löndum, og hefir einkum orðið frægur fyrir, að hann sýndi fram á það, að margar menjar í jarðlögum hinna elztu myndana, sem menn héldu að væru leifar af þara og þangjurtum, eru ekki annað en för eftir orma og önnur lægri dýr, sem í fyrndinni hafa skriðið um leirinn á hafsbotninum; þurfti hann til þess að gera ótal tilraunir, og sýndi mesta dugnað og skarpleika, enda hafa uppgötvanir hans haft mikla þýðingu í jarðfræðinni. Prófessor Nathorst hefir góðfúslega tekist á hendur að rannsaka jurtaleifar þær, sem eg safnaði á Vesturlandi.

Þegar surtarbrandurinn myndaðist á Brjámslæk, voru þar stórir skógar. Algengast allra trjánna var hlynur (*Acer otopterix*); sú trjátegund óx þá um alt Vesturland; blöðin

voru stór og fögur, handrifjuð og þrískift. ávextirnir með löngum, himnukendum vængjum; við Brjámslæk var líka stór grenitegund (*Sequoia Sternbergi*) algeng; var tré þetta mjög líkt grenitré, sem nú vex í Kaliforníu (*Sequoia gigantea*), og eru þau tré einna stærst af öllum trjám. sem til eru. Þar uxu 4 furutegundir (*Pinus Steenstrupiana*, *P. microsperma*, *P. æmula* og *P. brachyptera*), birkitré (*Betula prisca*), elri (*Alnus Kefersteinii*), álmur (*Ulmus diptera*), eik (*Quercus Olafssonii*), hnottré (*Juglans bilinica*), krossþyrnir (*Rhamnus Eridani*), túlipantré (*Liriodendron Procaccinii*) og vínviður (*Vitis islandica*). Þar sem surtarbrandurinn hefir myndast, hefir líklega verið votlent, og hefir úr blaðaleifunum og trjástofnunum í fyrstu orðið nokkurs konar mómyndun, og alt svo orðið að surtarbrandi, þegar blágrýtislögin lögðust ofan á með öllum sínum þunga. Túlipantréð er mjög fagurt tré og vex nú í Bandaríkjunum sunnan til; það nær ei lengra norður en á 40° n. br.; í Európu hefir það þó verið ræktað töluvert norðar; sunnan til á Írlandi hefir það t. d. verið ræktað; þar koma reyndar blóm á það, en engin fræ, svo af því sést, að tré þetta getur eftir eðli sínu eigi fullkomlega þróast svo norðarlega. Sumarhitinn má eigi vera minni að meðaltali en 15° C, og meðalhitinn í janúar eigi minni en ÷4° C, til þess að tré þetta geti blómgast. Tegundir af »Sequoia« vaxa líka sunnarlega. O. Heer kemst að þeirri niðurstöðu, að meðalhiti ársins hafi þá á Íslandi eigi getað verið minni en 9° C, en þó hafi hann að öllum líkindum verið tölvert meiri (11—12° C). Meðalhiti ársins á Brjámslæk mun nú vera nálægt 2° C; en á »miocene«-tímanum hefir hitinn verið viðlíka mikill og nú í Pódalnum á Ítalíu.

Í heimskautalöndunum hafa víða fundist jurtir og tré frá þessu sama tímabili, í Alaska, Norður-Canada, við Mackenzie-fljótið, í Grænlandi, Spitzbergen, nálægt Lenafljótinu í Síberíu, á Kamschatka, í Japan o. s. frv. Þó gróður þessi yxi í svo fjarlægum löndum, þá eru jurtir og tré á þeim tíma um allan þennan landageim svo lík og skyld hvort öðru, að vart er annað hugsanlegt, en að flest af löndum

þessum hafi þá verið samföst, enda bendir margt til þess, að svo hafi verið. Jarðlögin sýna það alstaðar, að stórkostlegar breytingar hafa orðið síðan á lögun landanna og hæð yfir sjávarmál. Það er ætlun náttúrufræðinga, að þá hafi Ísland verið landfast við Grænland og Skotland; Spitzbergen var áfast við Noreg og að norðan og austan við Franz-Josephs-land og Novaja Semlja; Beringsundið var þá eigi til: Ameríka og Asía voru áfastar. A. G. Nathorst hefir í ritum sínum sýnt fram á, hvernig stendur á jurtum heimskautalandanna á þessum tíma, hvernig innbyrðis sambandi tegundanna hefir verið varið, og hversu mikil áhrif þetta hefir haft á útbreiðslu og myndun jurtagróðursins á öllu norðurhveli jarðarinnar.

Þegar tré þau, sem fyrrum uxu á Íslandi, eru borin saman við þau tré, sem nú vaxa og áður hafa vaxið í öðrum nálægum löndum, þá sést það fljótt, að hin íslenzku tré frá miocene-tímanum eru miklu skildari trjám í Ameríku en í Evrópu; en nú á tímum er jurtagróður Íslands miklu nátengdari Európu. Sama er að segja um jurtagróður á miocene-tímanum í Grænlandi og í öðrum heimskautalöndum. Nú héldu menn fyrst, að gróður þessi væri kominn frá Ameríku, en Engler og Nathorst hafa sannað það, að menn verða einmitt að leita að uppruna þessara jurta í heimskautalöndunum, og þaðan hafa þær breiðst út til Ameríku og annara landa. Frumstofn þessa gróðurs er dáinn út í hinu upprunalega heimkynni, en afspringurinn blómgvast nú í fjarlægum héruðum miklu sunnar. Sumar þær trjátegundir, sem menn hafa fundið í miocene-jarðlögum Evrópu, eru mjög líkar tegundunum í Ameríku; þær eru í fyrstu komnar frá heimskautalöndunum eftir landbrúnni, sem lá yfir Ísland frá Grænlandi. Ísland er hið eina. sem eftir stendur ofan sjávar af hinni miklu landræmu norðan við Atlantshafið. Með því að skoða jarðfræði þessa lands má finna margt, sem styður þessa skoðun. Örsökin til þess, að trjátegundir heimskautalandanna fluttust suður á við, var sú, að jörðin smátt og smátt kólnaði; þá mjakaðist jurtagróðurinn suður eftir og dó alveg út í hinum fornu

heimkynnum sínum, þegar ísöldin kom; síðan hafa heimskautalöndin ekki átt viðreisnar von. Þó nokkrar jurtir af þessum forna heimskautagróðri haldist í Evrópu, þá eru þær þó tiltölulega fáar; hefir *Asa Gray*, nafnkunnur grasafræðingur í Norður-Ameríku, bent á orsökina til þess. Þegar kuldinn og ísinn fór að færast yfir Evrópu, kom hann náttúrlega fyrst nyrðst og á hæstu fjöllin; á ísöldinni lagðist ísþakið yfir allan norðurhluta álfunnar suður að miðfjöllunum þýsku, og um leið komu stórir jöklar á Alpafjöllin, svo jurtagróðurinn gat ekki forðað sér til heitari landa, en dó út, af því há fjöll mynda nokkurs konar þvergirðingu yfir Evrópu að sunnan, og er þar ekkert hlið á. Öðru máli var að gegna í Ameríku; þar liggja fjallgarðar eftir endilangri álfunni frá norðri til suðurs, og jurtirnar gátu komist langt suður eftir undan klakanum og kuldanum að norðan. Jurtagróður heimskautalandanna á miocene-tímanum hefir breiðst út um alt norðurhvel jarðarinnar frá einum miðdepli, en hefir tekið miklum breytingum á langri leið og löngum tíma, því síðan þessi gróður var hér um slóðir, eru eflaust liðnar mörg hundruð eða jafnvel þúsundir alda, en eigi er hægt að ákveða slíkt með neinni vissu. Afkomendur þeirra jurta, sem fyr uxu í heimskautalöndunum hver hjá annari, eru nú svo dreifðar, að mörg hundruð mílur eru oft milli þeirra. Það sér hver maður af þessu, sem um það vill hugsa, að það hefir stórkostlega þýðingu fyrir vísindin, að surtarbrandslög heimskautalandanna séu rannsökuð; þau eru eins og nokkurs konar kirkjugarður, sem hefir að geyma leifar frumjurtanna; þangað eiga flestar þær jurtir kyn sitt að rekja, sem allur hinn mentaði og ræktaði heimur er bundinn við. Ef gerð væri nákvæm rannsókn á jarðfræði Íslands, surtarbrandslögum og öðru þess konar, þá hefir það eigi að eins þýðingu fyrir Ísland, heldur og fyrir heiminn allan.

Í Vaðaldal, sem gengur upp frá Hagavaðli bak við Lækjardal er nokkur surtarbrandur; í gili austanvert í dalnum kemur surtarbrandsmyndunin bezt fram; eru jarðlögin þar mjög lík því, sem er í surtarbrandsgilinu í Lækjardal.

Í gráu leirlagi fann ég nokkuð af steinrunnum blöðum og stönglum: myndanir þessar eru eflaust áfastar við þær, sem eg áður hefi lýst. Þegar riðið er upp Vaðaldal, sjást hin móleitu leirlög alt af í hlíðinni að austanverðu milli blágrýtislaganna; hækka þau eftir því sem norðar dregur, og í nyrsta horni hlíðarinnar eru þau orðin allra efst. Sést af þessu og af athugunum við Brjámslæk, að surtarbrandsmynduninni hallar allri til suðausturs.

Brjámslækur er ágætis-jörð; landrýmið er óþrjótandi; telst undir jörðina allur Vatnsfjörður út á Hjarðarnes að austanverðu; er alt reifað í skógi beggja megin við fjörðinn og Vatnsdalur eitt af hinum fegurstu skóglendum á Vesturlandi; fjöllin og dalirnir upp eftir öllu vaxnir lyngi og víðir, og bezti sauðgróður; mætti hafa þar mesta urmul af sauðfé, en hvergi sést kind. Undir Brjámslæk heyrir Engey; eru þar beztu slægjur, og hefir hún nú um tíma verið leigð Eyja-mönnum til heyskapar. Jörðin var nú í mestu órækt og niðurníðslu, húsin nærri fallin, túnið mosavaxið og í flagi, en haugarnir himinháir.

Hinn 22. júlí fórum við alfarið úr surtarbrandsgilinu hjá Brjámslæk, og héldum inn með Vatnsfirði; þegar kemur inn undir eyðikotið Þverá, fer skógurinn að byrja. Sunnan við annan eyðibæ, sem heitir Hella, rennur vatnsmikil á til sjávar, sem heitir Penna; rennur hún eftir allmiklum dal, sem nær upp undir Hornatær; það er röð af fjöllum upp á hásléttunni, eins og risavaxinn kastalaveggur með skotskörðum á milli. Rétt fyrir innan túnið á Hellu, á melbarði, er dálítið volg laug (31° C). Fyrir mynninu á Vatnsdal er ís-núið berghaft, og stórt vatn fyrir ofan; fellur Vatnsdalsá úr vatninu; hún er ein af hinum vatnsmestu ám á Vesturlandi; í henni var mikill vöxtur, svo við urðum að sundríða hana, vættum í koffortum og urðum stígvélafullir. Austan við ána taka við miklir og fagrir skógar; tjölduðum við þeim megin, og skoðuðum dalinn daginn eftir. Hér liggur vegurinn upp á Þingmannaheiði; er það alfaravegur, því mjög er krókótt og seinlegt að klöngrast kringum firðina. Vestan við ána í skóginum er sagt að rústir séu

af smiðju Gests Oddleifssonar; þar er mælt að hann hafi haft rauðablástur[1]. Eins og allir vita, er Vatnsfjörðurinn nafnkunnur í landnámssögu Íslands; þar dvaldi Flóki Vilgerðarson um vetur; »þá var fjörðrinn fullr af veiðiskap ok gáðu þeir eigi fyrir veiðum at fá heyjanna, ok dó alt kvikfé þeirra um vetrinn.« Nú er það mjög sjaldan að þar kemur fiskur. Morguninn 23. júlí riðum við inn í Vatnsdal upp með vatninu að austan. Fram með Þingmannaá, í nesinu milli hennar og vatnsins, er mikill skógur og fagur; er það kölluð Mörk; einstöku hríslur eru jafnháar ríðandi manni, stærstu lurkarnir á digurð við mannslæri. Eyjamenn hafa skógarhögg mikið í dalnum og sáust víða hrískestir við sjóinn; næst firðinum er skógurinn gjöreyddur, og víða búið að skemma fegursta skóginn, þó ofar sé; meðferðin á skóginum er hér, eins og svo víða á Íslandi, sorglegur vottur um hirðuleysi manna, hugsunarleysi og vanþekkingu. Að austanverðu við vatnið eru hlíðarnar aflíðandi hjallar, skógi vaxnir upp á brúnir, en að vestanverðu er miklu brattara. Vatnið er all-langt og mjókkar þegar inn eftir dregur; ströndin er bein að vestan, en töluvert vik bogadregið austur úr vatninu. Fram með vatninu er malarkambur, 10—20 fet fyrir ofan yfirborð þess, svo það hefir fyrrum staðið hærra en nú; dýpið sýnist vera mikið fast fyrir utan ströndina. Silungur kvað vera mikill í vatninu, en enginn var þar bátur. Við riðum inn fyrir vatn og upp með ánni, sem í það fellur, langa stund, unz dalbotninn hækkar töluvert og beygist til austurs; liggur hann langt upp til fjalla; var þar mikill snjór hið efra og mjög kaldranalegt umhorfs. Það er auðséð, að norðanveður eru mjög hörð í dalnum; hríslurnar liggja flatar út á við eftir stefnu dalsins; vindur kemur og til leiðar straumi í vatninu út með vesturhlíðinni; þar hafa gil borið grjót og sand niður í vatnið og myndað eyrar, og snúa eyraroddarnir út, eftir straumfallinu. Fram með vatninu eru víða stór björg ísnúin. Í austurbugðuna á vatninu falla niður tvö gil, og er

[1]) *Eggert Olafsson*: Reise igennem Island. I., bls. 407—408.

það auðséð á jarðmynduninni, að töluverð breyting hefir orðið við landskjálfta og lögin sigið á misvíxl. Fyrir framan vatnið er berghaft, sem áður hefir verið getið, svo það er auðséð, að vatnið er holað eins og aflangt trog niður í blágrýtis-bergið; ofan á berghafti þessu liggja malarhjallar, og hefir áin skorið sig gegnum mölina niður að föstu bergi, og eru í henni fossar, áður hún fellur til sjávar. Við fossana eru glöggar ísrákir (S 38° V), og margir smáir skessukatlar, sem hnullungarnir í hringiðunni hafa sorfið í bergið. Berghaftið fyrir framan vatnið, að sjó, er hér um bil 450 faðmar að þvermáli. Fyrir neðan fossana fellur áin niður í sprungu, sem stefnir nærri frá vestri til austurs (V 15° S); það lítur út fyrir, að sprunga þessi haldi áfram þvers upp í gegn um fjallið fyrir vestan Vatnsfjörð, en þar er hún óglöggari og grasgróin; margar fleiri sprungur jafnhliða ganga eins og grænar manir þvers upp í gegnum fjallið fyrir utan Hellu.

Þegar eg var búinn að skoða Vatnsdal, reið eg út með Hjarðarnesinu; á fjörunum inst í firðinum eru víða þangvaxnar klappir fægðar af ísnum, með glöggum rákum. Út með firðinum að austan er gamalt eyðikot, sem heitir Uppsalir; það heyrir undir Brjámslæk. Hjarðarnesið að vestanverðu er mjög örðugt yfirferðar, eintóm klungur og klappir; þar er hver blágrýtisstallurinn upp af öðrum; landið mjög fagurt og einkennilegt og alt skógi vaxið. Í yzta neshorninu eru mjög skrítnir klettar og nýpur, og mesti urmull af eyjum og skerjum fyrir framan; hallast blágrýtislögin í skerjum þessum alveg eins og lögin í fjöllunum á landi. Töluvert yfir sjó (50—60 fet) eru raðir af holum og hellrum, sem brimið hefir etið í klettana einhverntíma í fyrndinni. Það er almannarómur, að landið sé að hækka; maður sagði mér t. d., að sker væri nú þar upp úr um fjöru, þar sem fyrir 4 árum hefði brotið á; þó ekki sé alt af gott að reiða sig á slíkar sagnir, þá er þó eflaust eitthvað satt í þessu. Fjöllin framan á nesinu eru mjög brött, t. d. við Fossá, og eru þar stórkostlegar skriðuhrúgur fyrir ofan bæinn. Um kvöldið fórum við að Auðshaugi og vorum þar um nóttina.

Frá Auðshaugi héldum við inn fyrir Kjálkafjörð. Yzt við fjörðinn að vestanverðu er utan í fjallinu fjarskalegt hrúgaldur af melhólum og stórgrýti, sem nær frá sjó líklega 7—800 fet upp eftir fjallinu; eru þetta líklega bæði skriður og ísaldarmenjar; þegar dregur inn með firðinum, er gamall malarkambur fram með honum hátt yfir sjávarmáli; skógur er hér töluverður í fjallsrótunum, og fjöllin þverhnýpt fyrir ofan; fjörðurinn mjókkar inn og er örmjór inst. Vegurinn er mjög slæmur, hvort sem farið er uppi eða niðri í fjörunni, sökum stórgrýtis og bleytu. Skerjaröð er þvers yfir fjörðinn að framan og mjór áll í miðjunni; er sagt, að fjörðurinn sé að framan að eins 15 faðma djúpur, en fertugt dýpi eða meira inni í honum miðjum. Ógurlegar skriður hafa fallið úr fjallinu austanmegin fjarðar, rétt fyrir innan Litlanes; þar sem skriðurnar hafa hrunið úr fjallinu, stendur eftir þverhnýptur blágrýtisveggur, 5—600 fet á hæð. Basaltlögin sjást ágætlega; þau fleygast inn hvert hjá öðru, eru mjög misþykk og rauðar rákir á takmörkunum.

Kerlingarfjörður er að mörgu leyti líkur Kjálkafirði; langir hamratangar ganga út í fjarðarmynnið hjá Litlanesi og eins hinumegin, og grunnur áll á milli; innar í firðinum kvað vera meira dýpi, einkum að austanverðu út af Kaldrananesi innra. Fram með hlíðunum eru víða stórir skriðuhólar. Aðalstefna fjarðarins er til norðausturs, en norður úr honum gengur Mjóifjörður; við enda Mjóafjarðar er kringlóttur, mjög reglulegur botn, og streyma 7 smáár niður hlíðarnar; þar er víða skógi vaxið. Milli Kerlingarfjarðar og Skálmarfjarðar er örmjótt eiði (100—200 fet á hæð), en Múlanesið fyrir framan, líklega 15—1600 fet á hæð, þríhyrnt og bratt á allar hliðar. Á eiðinu ganga ísrákirnar frá NA til SV. Það er einkennilegt við alla þessa firði, að nesin milli þeirra eru miklu hærri en fjallið fyrir ofan, og þegar litið er á múla þessa að norðaustan, þá er lögun þeirra líka mjög einkennileg; það er eins og þeir séu skafnir að utan, og í lögununni eins og skip á hvolfi. Í Vattarfjörð rennur allstór á; hún gengur að vatnsmegni næst Vatnsfjarðará; hún kvað koma úr vatni við Glámu. Fremst

í dalnum er ísnúið berghaft og á því melhólar, eins og í Vatnsdal; sprunga er þar líka austanvert við ána, og sýnast barmar hennar vera ísnúnir.

Hinn 25. júlí gekk eg upp á Vattarnesfell. Það er fremsti núpurinn á hrygg þeim, sem gengur út á nesið milli Vattarfjarðar og Skálmarfjarðar. Fellið er 1278 fet á hæð; grjótið klýfst í hellur, og er mjög veðurbarið þar á fjallstindinum. Þar er ágæt útsjón yfir Breiðafjörð og eyjarnar, og um fjöllin og öræfin kringum Glámu. Gláma er miklu minni í raun réttri en hún er sýnd á Uppdrætti Íslands, framt að því helmingi minni. Hún er eins og fannskjöldur á efstu hálendisbungunni, og grysjar sumstaðar í svarta bletti. Upp af Þingmannaheiði eru reyndar víða stórir skaflar, en þá leysir alla, og er því ekki hægt að telja þá til jökulsins. Á Uppdrætti Íslands er Skálmardalsheiðar-vegurinn látinn liggja yfir austursporðinn á Glámu, en það er eigi rétt; þar er enginn jökull. Skálmardalsheiði er oft farin, þegar menn sækja sjó norður að Ísafjarðardjúpi. Norðan til yfir Glámu liggur vegur, sem kallaður er Glámuheiði[1]; hann fara menn úr Arnarfirði og Dýrafirði austur að fjörðunum, sem skerast inn úr Djúpinu; var vegur sá fyrrum tíðfarinn, en nú fara menn hann sjaldan. Þar fór Þorvaldur frá Vatnsfirði, er hann sveik Rafn Sveinbjarnarson[2]. 1392 reið Vigfús hirðstjóri Ívarsson með 90 manns, flestalla tygjaða, vestur yfir Glámu, er hann fór að sætta þá Björn Einarsson Jórsalafara og Þórð Sigmundsson[3]), og svo er enn víðar, að vegur þessi er nefndur í fornum bókum. Sveinn Pálsson getur þess, að til forna hafi verið vegur, sem kallaður var Fjallasýn, inst frá Ísafirði yfir Glámu vestur á Barðaströnd. Stundum var áður farið með suðurrönd Glámu úr Geirþjófsfirði í Skálmarfjörð, en nú er sá vegur hér um bil aflagður. Heiðarnar kringum Glámu eru nærri mishæðalausar, litlar grófir og lægðir með sköflum hér og

---

[1]) Fóstbræðrasaga (1899) bls. 44.
[2]) Biskupas. I., bls. 671.
[3]) Hirðstjóra-annáll. Safn til sögu Íslands. II., bls. 627.

hvar; dalverpi eru hvergi fyr en fer að draga niður að fjörðunum; þar verða fláir dalbotnar og hryggir á milli, sem ganga út á nesin. Hið lang-hæsta af þessum fjalladrögum eru fjöllin norðaustur af Kollafirði; eru þau kölluð Reiðbólsfjöll, eða Reiphólafjöll af sumum, og eru framhald af Gufudalshálsi; þau sýnast vera fram undir 3000 fet á hæð. Það sést víða glögt af fjöllunum hér, hvernig blágrýtislögunum hallar niður að Barðaströnd, og verður landhallinn þeim samfara, en aftur er þverhnýpt niður að Arnarfirði; það er eins og snögglega hefði verið brotið af jarðlögunum þeim megin.

Úr bygðum þessum liggja þrír heiðavegir norður að Ísafirði, Skálmardalsheiði beint norður í botn Ísafjarðar, Kollafjarðarheiði úr botni Kollafjarðar norður að Laugabóli, og Þorskafjarðarheiði úr botni Þorskafjarðar niður í Langadal, það er alfaravegur milli Ísafjarðarsýslu og Barðastrandarsýslu og póstleið[1]. Fyrir ofan firði þessa liggur Þingmannaheiði vestur að Vatnsfirði.

Frá Vattarnesi riðum við inn fyrir Skálmarfjörð; eru við botn hans töluverðar eyrar og undirlendi. Dalurinn upp af firðinum beygist til vesturs, alveg eins og Vattardalur. Utan í Klettshálsi eru margar sprungur jafnhliða dalnum og eins vestanmegin við Skálmarfjörðinn, alveg eins og landið hefði sokkið þar, sem dalurinn og fjörðurinn eru. Austan við fjörðinn er bær, sem heitir Illugastaðir, og þar fyrir innan eru stórar grjóthrúgur og hólar, og hinumegin í Kvígindisfirði, beint á móti, eru eins lagaðar hólahrúgur fyrir innan hornið á fjallinu, sem gengur út á nesið. Maður

[1]) Á Þorskafjarðarheiði var póstur 1889 nærri orðinn úti við þriðja mann og einn þeirra kól til skemda; höfðu menn áður af trassaskap látið sæluhús, sem þar var, falla niður í rúst. Tveim árum síðar ritar hinn sami póstur áskorun og upphvatning til sýslunefnda að byggja sæluhús á heiðinni og láta varða hana. Tvö ár liðu enn og svo var sæluhúsið bygt 1893, en ekki var heiðin vörðuð fyrr en árið 1900. Það tók ellefu ár að gera þessa litlu bót á helzta þjóðvegi Vestfjarða. Sbr. Þjóðviljinn III, bls. 52; V, bls. 80–81; VII, bls. 111 XIV, bls. 83.

gæti ímyndað sér, að þetta væri ísaldarmenjar. sem hafa staðnæmst þarna, þegar jökultangar gengu út firðina; þó hafa skriður líklega tekið töluverðan þátt í mynduninni. Kvígindisfjörður er þvengmjór og bratt á báðar hliðar; er hann ekki ósvipaður Mjóafirði fyrir austan, en fjöllin eru lægri. Klettsháls nær alla leið úr Skálmarfirði í botninn á Kollafirði; hann er 1020 fet á hæð. Hjá Fjarðarhorni í Kollafirði er stór, grasivaxin skriða. og sjást í henni gárur bylgjumyndaðar eftir steinrenslið. Um kvöldið fórum við að Eyri.

Um morguninn 26. júlí riðum við upp í Kálfadal. sem gengur til austurs innarlega frá Kollafirði. Í dal þessum er töluvert undirlendi grasi vaxið, engjar góðar og haglendi; þar er einn bær og 2 sel. Í miðjum dalnum, þvert yfir að ánni, sem þar rennur að vestanverðu, eru stórar holtahrúgur, grjótleifar framan af röndinni á gömlum skriðjökli. Efst í dalbotninum koma niður mörg gil, og hafa grafið sig gegn um þykt lag af lausagrjóti. Í einu aðalgilinu, sem kemur frá austri, er einkennileg líparít-myndun, og má finna mola þaðan niður með allri Múlaá. Þar eru stórar klappir af gulum, grænum og svörtum biksteini; hin eiginlega líparít-myndun er mórauð eða gulmógrá, og er þar hnoðað saman hér og hvar eintómum steinkúlum (»sphærolithum«). Líparítmyndanir eru mjög sjaldgæfar á Vesturlandi, og voru ekki kunnar fyr nema á einum stað, nálægt Bæ í Króksfirði[1]). Seinna um sumarið hepnaðist mér að finna þess konar myndanir á 5 stöðum á Ströndum.

Frá Eyri fór eg yfir Gufudalsháls. Hálsinn er mjög brattur að vestan, og utan í honum þeim megin hjallar af brimbörðu grjóti, 191 fet yfir sjávarmáli. Hálsinn er mjór að ofan og 1224 fet á hæð. Gufufjörður er nærri fyltur af árburði. All-langur dalur er inn af honum með töluverðu undirlendi; áin er ekki svo lítil, og tvö vötn uppi í dalnum. Ytra vatnið er miklu stærra, og hefir það myndast á

[1]) Sbr. *C. W. Schmidt*: Die Liparite Islands (Zeitschrift der deutschen geologischen Gesellschaft. 1885. 37. bindi).

þann hátt, að áin úr Álftadalnum hefir borið fram mikið af grjóti og aur þvert á Gufudalsána, svo hún hefir stíflast; við það hefir vatnið myndast. Álftadalsáin brýst gegnum háa malarkamba og út með Gufufirðinum sést hár malarkambur út í nestá, töluvert fyrir ofan sjávarmál. Við riðum fram hjá kirkjunni, sem stendur einmana á láglendinu, og er mjög fornfáleg, og yfir ána; ríður maður síðan upp skeifumyndaðan dal mjög grösugan, og svo yfir lágan háls niður að Djúpafirði.

Þegar riðið er niður af Djúpadalshálsi, er á vinstri hönd djúpt gil, og í því margt allmerkilegt í jarðfræðislegu tilliti; þar eru margir gangar, og hafa töluverðar breytingar orðið á berginu, en ýmsar steintegundir hafa myndast og sezt í glufurnar. Við riðum inn með firðinum, fyrir botn hans og yfir Hjallaháls. Þegar dregur nokkuð inn með firðinum að vestan, verða fyrir manni smámolar af silfurbergi. Blágrýtislögin í fjallinu eru mjög hraunkend og óregluleg; allhátt uppi sjást í fjallinu ljósleitir klettar; þar er sundur-etið blágrýti, og í því eintómar smáholur með »zeoliþum«, kalki og öðrum steinefnum. Litlu innar rennur lækur niður í leysingum, og verða þar dálítil gljúfur, oftast vatnslaus; má neðan frá sjó sjá þar uppi hvíta mön upp gilið, eins og þar væri hálfbráðinn, óhreinn snjór, en þar er töluvert af kalki og silfurbergi. Hefir þar einhvern tíma í fyrndinni myndast sprunga þvers upp í gegn um fjallið, en síðan hefir vatn hlaðið uppleystum steinefnum, þó einkum kalki, síast inn í sprunguna, og hefir þá kalkið og silfurbergið tekið á sig krystallamynd og fylt allar rifurnar í berginu; er auðséð, að þau lögin hafa fyrst myndast, sem næst eru sprungubörmunum, og sumstaðar hefir steinmyndunin frá báðum hliðum eigi náð saman í miðjunni, svo þar verður bil á milli; þar hefir því fremur verið ráðrúm fyrir stóra krystalla að myndast, og eru þar stórir skáteningar (rhomboedra) af silfurbergi, 3—4—5 þuml. að þvermáli. Á milli silfurbergskrystallanna eru víða lög og kranzar af »desmínum«, alveg eins og í silfurbergsnámunni á Helgustöðum. Stefnan á þessum kalkspath-gangi er nærri

frá norðri til suðurs, lítið eitt hallandi til vesturs (N 8° V); er hann sumstaðar eins og samtvinnaðar margar smásprungur og sunduretnir blágrýtis-kaflar innan um kalkið, og ofan til kvíslast úr honum smærri gangar; á einum stað ofarlega gengur yfir hann þveran önnur sprunga, full af »kalkspathi« og »zeolíþum«. Kalkið kemur neðst fram í gilinu, 300 fet yfir sjó, en gangurinn nær að öllum líkindum þvers upp úr fjallinu, og er víðast 3—4 fet á þykt; mjög ilt er að klöngrast þar upp eftir. Þar sem ég kom efst (450 fet y. s.) fóru sprungurnar að skiftast nokkuð, en enganveginn var þar orðin veruleg rénun á kalki. Myndun þessi öll er mjög lík því, sem er í Helgustaðafjalli við Reyðarfjörð á Austurlandi; ekki er gott að vita, nema til sé grafið, hve gott silfurbergið er, en hér er auðsjáanlega mikið af bezta kalki, þótt örðugt sé að ná því.

Úr Djúpafirði fór ég yfir Hjallaháls (1147 fet) yfir að Þorskafirði: fjörður þessi er, eins og sést á Uppdrætti Íslands, fjarska langur og mjór, og er æði-leiðinlegt að ríða inn fyrir hann, þegar ekki fæst fjara. Í firðinum hjá Hjöllum eru svokallaðar Kóngavakir; ganga ýmsar munnmælasögur um, að þar sé undirgangur alt norður í Ísafjörð[1]). Kóngavakirnar eru langur og djúpur áll í fjarðarbotninum, og verður þurt að þeim um stórstraumsfjöru, og er í þeim ákafur straumur; standa þær líklega eitthvað í sambandi við flóð og fjöru, því inn á löngum og mjóum fjörðum, langt frá úthafi, koma af því sterkir straumar og getur svo hafa haldist opin einhver rifa, sem frá því í öndverðu var í fjarðarbotninum; aur og leir hafa borist burt og eigi getað sezt þar vegna straumhörkunnar. Kóngavakir þessar eru ekki neitt fjarska djúpar, eftir því sem kunnugir menn sögðu mér; þær voru mældar, þegar reynt var að slæða upp lík Friðriks prófasts Jónssonar, er druknaði í þeim 1840, en sögumaðurinn mundi ekki dýpið, er hann sagði mér[2]). För-

[1]) Sbr. *Jón Árnason*: Íslenzkar Þjóðsögur I. bls. 662—63.

[2]) Sveinn Pálsson talar um Álfavakir í Þorskafirði og segir: »þurt er að þessari gjá um stórstraumsfjöru og brúnirnar þverbrattar. Ís

um við út með Þorskafirði öllum austan megin og út fyrir Reykjanes. Háir malarkambar brimbarðir eru beggja megin við fjörðinn og eru þeir einstaklega glöggir fyrir utan Laugaland og eru þar 120 feta háir yfir sjó. Á Laugalandi eru laugar, eins og nafnið sýnir; eru tvær í túninu; er hiti í þeirri, sem nær er bænum, 58° C, en 65° C í hinni; vatnið kvað vera meira í laugum þessum við flóð en fjöru, enda er það eðlilegt, því þær eru að eins fá fet yfir sjávarmáli. Niðri í fjörunni fyrir neðan og utan bæinn kemur í fjörusandinum víða fram heitt vatn; er sandurinn sumstaðar samfastur; loða kornin saman af hverahrúðursveru, sem sezt hefir úr vatninu; heitast í fjörunni var 66° C. Í horninu á Reykjanesfjallinu eru margir gangar og sumir stórir, snýr einn hliðinni við og sýnist vera eins og þil utan í hlíðinni, alveg eins og gangur sá, sem fyr hefir verið nefndur hjá Bíldudal. Komum við að Stað og riðum svo að Reykhólum.

Það er mjög staðarlegt að horfa heim að Reykhólum, enda hefir þar, sem allir vita, ávalt verið eitt hið mesta höfuðból hér á landi. Bújörðin er stór og ágæt, og selveiðin og dúntekjan eru hér hin mestu hlunnindi. Fyrir vestan Reykhóla eru fjarska mikil engi og grassléttur; sjálfur bærinn stendur á lítilli hólaþyrpingu, sem verður eins og ávalt hvel upp úr sléttunni; kring um bæinn standa alstaðar reykirnir upp úr hverunum. Útsjónin er mjög fögur; fyrir framan er ótölulegur grúi af eyjum og skerjum, og segir Eggert Ólafsson að þar séu 300 eyjar; Snæfellsjökull blasir við og fjöllin á Snæfellsnesi; út með norðurströnd Breiðafjarðar teygir hver höfðinn og hamarinn sig fram fyrir annan alla leið vestur í Skor, en Skarðstrandarfjöllin, há og mikilfengleg, blasa við beint á mót fyrir sunnan fjörð-

leggur aldrei á vakirnar, hve mikið frost sem er. Við vorjafndægrastórstraum verða hlíðar þessa kanals alþaktar ætikufungum (Trit. lapillus), íbúar fara þangað í flokkum og safna þeim og sjóða þá strax í fjörunni með skel og öllu. Þetta fiskirí er ekki hægt að hafa nema þrjár fjörur hverja eftir aðra, því þá segja menn að fiskur kuðungsins breytist og verði að krabba! (Journal III. bls. 270).

inn. Malarhólarnir, sem Reykhólabær stendur á, eru allstórir um sig, og kemur heita vatnið út undan rönd hólanna og þó mest að sunnan og suðvestan. Hólahrúga þessi hefir einhverntíma í fyrndinni verið í sjó, grjótið er alt brimbarið, leirlög og möl á víxl. Meðan Reykhólar enn þá voru í sjó — líklega nærri landi —, kom heita vatnið upp á milli steinanna og safnaðist þá töluvert dýralíf að velgjunni. Kring um marga af hverunum er mesti urmull af skeljum og skeljabrotum; hafa sumir ímyndað sér, að hér væru leifar fornmanna, er þeir hefðu soðið skelfiska í hverunum; en það er auðséð á skeljunum, að þessu er ekki svo varið; þar er mest af óætum smákúfungum og smáskeljum af ýmsum tegundum, sem engum manni hefði dottið í hug að fara að hrúga upp í kringum hverina. Suðvestur af bænum gengur dálítill höfði út úr hólahrúgunni og á honum eru tvær nibbur; heita þær Hellishólar[1]). Framan í nyrðri nybbunni má glögt sjá sprungu og hafa jarðlögin þar gengið á misvíxl; um slíkar sprungur kemur heita vatnið að neðan. Neðan undir hólum þessum eru aðalhverirnir: fyrst Kraflandi (97° C) og norður af honum Gullhver (90°), Pétursherver (85°) og Runkhúsahver (91°). Kraflandi er dálítill, reglulegur, kringlóttur bolli í fasta klöpp, tvö fet að þvermáli og tvö á dýpt, og gengur hola inn undir hólinn; vatnið er síbullandi, en sýður þó ekki nema rétt upp á barmana. Eggert Ólafsson segir[2]), að þá hafi Kraflandi gosið við og við 2 álnir í loft upp, en áður miklu hærra; en bæjarmenn, sem vildu sjóða í hverunum, ráku steina niður í götin í botninum. Enn þá eru hverir þessir notaðir til að sjóða í og er það mikill eldiviðarsparnaður. Lækur rennur úr hverjum hver niður í sameiginlegt síki. Þegar farið er suður og austur með hólunum, eru enn þá fleiri hverir; fyrst er Þjófahver (89°), 150 fet fyrir suðaustan Kraflanda, og Þvottahola (87°), þá

[1]) Þar eru 9 faðmar milli klettanna og eru það munnmæli, að þeir Þorgeir, Þormóður og Grettir hafi haft sér til gamans að stökkva þar yfir.

[2]) Reise igiennem Island I. bls. 383; þar er talað um Reykhólahveri bls. 382—85, 409 og 410.

Kúatjarnarhverir, 2 eða 3 holur upp af dálítilli tjörn, svo Hveralækjahverir. Utan í smábarði sunnan í túninu er næst stærsta hveraþyrpingin; kemur þar fram leir með hnullungum, alveg eins og í Hellishólum, og er töluvert af skeljum kring um hverina; þar hæst uppi er Þvottahver (90°) og Berghver litlu utar; þar nálægt er Grettislaug (59°); auk þess eru hér og hvar aðrar smáholur; ekki þarf nema lítilfjörlega að grafa í jörðina, þá kemur þar fram heitt vatn. Norðaustan við bæinn er Fjóslaug (55°); þangað er sótt vatn frá bænum. Fyrir suðaustan Grund er Kötlulaug (58°); hún er 2 fet að þvermáli og harðir bakkarnir í kring. Kippkorn fyrir neðan Reykhóla niður undir sjó er malarhóll með hveraholum, þar heita Einirreykir; hóllinn er kringlóttur og hér um bil 20 álnir að þvermáli, en 10—15 fet á hæð og er hvilft ofan í hann miðjan; í heitustu holunni við hólröndina voru 83° C; þar er mikið safn af alls konar skeljum í hólnum[1]. Norðvestur frá Reykhólum er sandmelur upp úr mýrum, sem heitir Bolasker; þar kvað vera nokkrir hverir og eins kvað vera 3 laugar hjá Höllustöðum.

Jarðhitinn á Reykjanesi hefir gert það að verkum, að til forna spratt korn þar miklu betur en annarstaðar, eftir því sem segir í Sturlungu: »Á Reykjanesi voru svo góðir landkostir í þann tíma, at þar voru aldrei ófrjóvir akrar, svo þar var jafnan nýtt mjöl brúkat til eins ok annars ágætis«. Á öldinni sem leið hugsuðu menn mjög um að nota jarðhitann á Reykhólum til þess að brenna salt úr sjó. Eggert Ólafsson ræður til þess í ferðabók sinni, að nota hverina til saltbrenslu. Magnús sýslumaður Ketilsson[3]) skoðaði hverina og gerði tilraunir í þá stefnu 1754. Árið 1770 var sett þriggja manna nefnd til að íhuga ástand lands-

[1]) Þar eru kræklingar, aða, gimburskeljar, Mya truncata, Buccinum undatum, Littorina litoralis, L. obtusata, Trophon clathratus, Purpura lapillus, Balanus o. m. fl.

[2]) Sturlunga, Kmh. 1817. I. kap. 13. bls. 23.

[3]) Deo, regi, patriæ. Soröe 1768, bls. 234—36. *M. Ketilsson*: Islandske Maanedstidender, 3. Aarg. bls. 157—166.

ins og gera uppástungur til þess að bæta úr högum þess; þessi nefnd tók meðal annars til álita, hvort ekki skyldi koma á saltbrenslu á Reykhólum og Reykjanesi í Ísafjarðarsýslu; árangurinn varð sá, að menn settu á stofn saltbrenslu á Reykjanesi í Ísafjarðarsýslu 1773, en það varð þó eigi að verulegum notum. Á Reykhólum þótti verra viðfangs sökum hafnleysis, þó voru þeir *Walter* og *Usler* sendir þangað 1776; komust þeir að þeirri niðurstöðu, að þar mætti hafa 124 saltpönnur og álitu, að þar mætti fá 125 tunnur af salti á mánuði, en töldu þó saltbrenslu á Reykhólum mjög kostnaðarsama, enda varð ekkert af þessu[1]. Nú á dögum mun varla vera tilvinnandi að hafa saltbrenslu hér á landi, af því saltið fæst svo ódýrt frá öðrum löndum; öðru máli var að gegna á fyrri öldum, þegar samgöngur allar og aðflutningar voru svo örðugir. Eggert Ólafsson (bls. 409) segir, að Hornstrendingar hafi á þeim dögum soðið salt úr sjó til heimilisbrúkunar, af því þeir gátu eigi náð í það úr kaupstöðum, og í fornöld var saltbrensla alltíð, sem sjá má af sögunum, fornum bréfum og skjölum.

Við fórum frá Reykhólum 30. júlí inn með Berufirði. Í fjallinu fyrir ofan Reykhóla eru margir gangar og stórir; hliðin sést á einum gangi upp í gilskoru í fjallinu og heitir hann Sléttaberg og er á landamerkjum milli Reykhóla og Miðhúsa. Fyrir neðan fjallið er samanhangandi hjalli með brimbörðu grjóti og eru Reykhólar (tilsýndar að sjá) fremst á rönd þessa hjalla. Fyrir innan Barma eru stórkostlegar skriðuhrúgur (Barmahraun), og þar fyrir innan kemur Barmahlíð; hlíð þessi er einstaklega fögur, eins og um hana hefir verið kveðið. Þar eru lyngivaxnar brekkur, skógur og víða blágresi og önnur fögur fjallablóm. Inn með hlíðinni allri eru tveir hjallar, hvor upp af öðrum, og eru þeir merki um tvenna sævarhæð á fyrri tímum; er neðri hjallinn hjá Barmahrauni, 124 fet á hæð yfir sjó, en hinn efri 226 fet; efri hjallinn er 80 faðmar á breidd, en hinn neðri rúmir 130 faðmar. Hjallar þessir eru glöggir kring um all-

[1] Sbr. *O. Olavius*: Oeconomisk Reise igiennem Island. Kbh. 1780, formáli bls. 175—178.

an Berufjörð. Þegar hafið stóð hærra en efri hjallinn, hefir Reykjanesfjallið annaðhvort verið frálaus ey, eða mjög lágur grandi hefir tengt það við meginlandið. Inn af Berufirði er grösugt land, en bak við eru Vaðalfjöll (1636 fet), breið og ávöl, með klettastrýtu upp úr, sem er eins og kýrspeni að sjá frá Berufirði. Austan við fjörðinn gengur fram einkennilegur tangi, Borgarnes, eru tveir fjallshnúðar á nesinu og breiðir, flatir hjallar á milli, en fremst á nestánni heitir Bjartmarssteinn. Hjallarnir á Borgarnesinu eru hinir sömu og Barmahlíðarhjallarnir eða framhald af þeim; hærri hjallinn er slitinn í sundur um mitt Borgarnesið og í dæld þeirri, sem þar verður austan til, eru tvær tjarnir; hefir þar áður auðsjáanlega verið eitt vatn, töluvert stærra en báðar tjarnirnar. Neðri hjallinn dregur sig inn með Króksfirði öllum og á honum standa bæirnir, en hærri hjallann má greina fyrir ofan bæina. Austan í Borgarnesinu er á einum stað hellir í berginu, og er hann jafnhátt og efri hjallinn; auk þess eru hellar neðar en lægri hjallinn. Um Borgarnesið eru í mölinni víða líparítmolar, og hafa þeir eflaust fyrrum borist úr fjöllunum fyrir ofan Bæ í Króksfirði. Hvergi á landinu hefi ég séð jafn miklar og glöggar menjar þess, að sjórinn hefir til forna náð hærra upp en nú. Má fylgja þessum malarkömbum og hjöllum alla leið inn í Gilsfjarðarbotn, þó sumstaðar verði hlé á; Saurbærinn hinum meginn fjarðar sýnist vera hjallamyndun af sama tagi. Í fjöllunum upp og inn af Bæ í Króksfirði eru miklar líparít-myndanir og sjást þar tilsýndar gulir, hvítir og grænleitir blettir. Um Geiradalinn fer að verða nokkur breyting á halla blágrýtislaganna; hingað til hallast lögin inn með öllum Breiðafirði til suðausturs, en nú fara þau að hallast til norðurs og norðausturs, og stendur það í nánu sambandi við myndun Steingrímsfjarðarins. Úr Gróustaðamúla hafa fallið niður stór björg af samanhnoðuðum hraunmolum og móbergi, og efst í fjöllunum norðan við Gilsfjörðinn, upp undir brúnum, eru móleit og gulleit móbergslög milli basaltlaganna; má vel vera, að jarðlög þessi standi í sambandi við surtarbrandsmyndanirnar í Steingrímsfirði. Gilsfjörður er grunn-

ur mjög að framan, svo menn verða að sæta sjávarföllum til þess að komast þar inn á skipum; hlíðarnar eru brattar beggja megin. Botn fjarðarins hjá Kleifum er skeifumyndaður, hver hamrastallurinn upp af öðrum og fellur Kleifaá þar niður; í henni er Gullfoss, og nokkrir smáfossar eru þar aðrir. Fyrir neðan Kleifar eru sléttar engjar mjög blautar, síki og forir; hættir ókunnum við að ríða fram með sjónum, því þar sýnast ekki vera neinir örðugleikar og hefir því ýmsum orðið hált á því; við áttum t. d. töluvert örðugt með að ná upp hesti, sem ofan í fór; vegurinn liggur ofar, hjá Brekku og Kleifum, og er ekki sem beztur.

Í Ólafsdal var eg einn dag um kyrt hjá Torfa Bjarnasyni. Ólafsdalur er djúp dalhvilft, lukt háum fjöllum á alla vegu, nema út að firðinum; sjást þar ýmsar menjar eftir jökulhreyfingu á ísöldinni; ganga gilskvompur niður í dalbrúnirnar, hin mesta inst og tvær að vestan, en að austanverðu er djúp hvilft í fjallið og ekkert gil fram úr; nokkur líkindi eru til þess, að hvilft þessi sé mynduð af hringhreyfingu á jökli þeim, sem gengið hefir út dalinn; jökulhreyfingin að vestanverðu úr báðum giljunum þar hefir þröngvað aðaljöklinum upp að austurbrúninni og getur þá hvilftin hafa orðið til. Slíkar skálar, gillausar, eru eigi mjög sjaldgæfar og standa ávalt í sambandi við jökla á ísöldinni. Jökulalda hefir orðið eftir um þveran dalinn, þegar jökullinn fór að bráðna og er þar holtahjalli eftir, sem áin hefir etið sig gegnum; nær grjótalda þessi hátt upp í hlíð að vestanverðu og á henni stendur bærinn að austanverðu; fyrir ofan er lægra og hefir þar líklega áður verið vatn, sem hefir fylst af leir og árburði og síðan orðið að mýri, enda er þar gott mótak við ána; þegar vötn fara að fyllast, verða oft fyrst úr þeim mýrarsund með töluverðum gróðri; myndast mórinn á mýrarbotninum, en svo hylur árburður aftur mýrina. Það er gaman að koma að Ólafsdal og sjá alt það, sem þar hefir verið gert að jarðabótum; en það eru líka sjaldfengnir hér á landi aðrir eins dugnaðar- og framfaramenn eins og Torfi Bjarnason. Að lýsa jarða-

bótum í Ólafsdal á ekki heima í þessari ritgjörð, en vonandi væri, að einhver, sem er betur fær til þess en eg, vildi birta almenningi lýsinguna á Ólafsdal og því sem þar hefir verið gert, og væri það fróðlegast, ef Torfi Bjarnason vildi gera það sjálfur.

## 2. Strandasýsla.

Úr Barðastrandarsýslu fór eg 2. ágúst frá Kleifum og í Kollafjörð. Haftið, sem tengir Vestfirði við aðallandið, er ekki nema tæp míla á breidd, en það er 737 feta hátt, þar sem það er lægst hjá Krossárvatni; þar skiftast vötn og renna austur og vestur. Haft þetta er eins og fjöllin í kring, hamrabelti úr blágrýti, og seint yrði tilvinnandi að grafa það í sundur. Niður hjá Kleifum í botninn á Gilsfirði fellur Kleifaá; af því hamrabelti er í dalbotninum fyrir ofan bæinn, myndast hár foss, sem heitir Gullfoss. Fossinn er mjög fagur, 160 fet á hæð; fellur hann þráðbeint ofan af klettunum niður í sprungu; undir fossinum er djúpur ketill nagaður í bergið. Kleifaá kemur úr allstóru vatni uppi á heiðinni í dæld við Snartartunguheiðarveginn. Úr tjörn þar í nánd fellur kvísl í Krossá. Upp af Kleifum eru stallar, hallandi botnar og holt. Krossárvatn er að eins lítil tjörn og þaðan fellur Krossá niður í Bitru. Eggert bóndi á Kleifum fylgdi okkur yfir fjallið; við fórum beint upp frá Krossárvatni niður í Mókollsdal; þar eru á fjallinu urðaröldur, stórgrýti og hellur, skaflar, mosaflár og pollar; eru þar kallaðir Brunar; hæðin er í kringum 1600 fet, en fyrir sunnan Krossárdalinn, suður af Snartartunguheiði, er miklu hærra, og þegar enn sunnar dregur, verður aftur lægra, og eru lágar heiðar milli Hvammsfjarðar og Hrútafjarðar. Þegar við sáum austur af, sást hvergi í sjó; mjallahvítur þokubakki lá yfir öllum flóanum og teygði armana upp í gegnum dali og firði; ísinn var þá nýfarinn og hafði

verið að hrekjast fram með Ströndum allan júlímánuð. Glaða sólskin og bezta veður var í Gilsfirði, en þokufýla og rigning þegar kom austur af. Allan júlímánuð var ágætis-veður í Barðastrandarsýslu, meðan eg var að ferðast þar; en meðan eg fór um Strandir, voru sífeldar rigningar og illviðri.

Efst í brúnunum á Mókollsdal er móberg, en blágrýti undir. Þar í dalbotninum vex mikið af fremur sjaldgæfri sóleyjartegund (*Ranunculus pygmæus*); dalurinn er mjög grösugur upp undir brúnir, grasið þýtur undir eins upp, þegar afléttir snjónum; ofviðri eru hér fjarskaleg á stundum; stórar torfur lágu hingað og þangað um dalinn, ofviðrin rífa þær upp á vorin og kasta þeim niður á skaflana og svo bráðnar undan þeim. Hér og hvar í dalnum eru líparítmolar á við og dreif, enda eru hér nokkrar líparit-myndanir í föstu bergi. Leirtegund sú, sem hér hefir fundist og er kölluð »bleikja«, er líklega sundurliðað líparit með ögnum af brennisteinskísi. Á öldinni sem leið var mikið talað um þessa jarðtegund; *Eggert Ólafsson* lýsir leirnum og segir, að menn háfi haft hann við sár í plástra og að leiguliði nokkur hafi ætlað að svíkja landsdrottinn sinn með því að senda honum bleikju í staðinn fyrir leignasmjör, og varð mál út úr[1]) *Olavius* sagði, að þar væri postulínsjörð[2]) og tók af því tvo kúta til Kaupmannahafnar; en það þótti ekki nóg til tilrauna, og þá var *Nicolai Mohr* 1780 sendur til landsins til þess að grenslast eftir þessu nánar, enda gerði hann það vel og nákvæmlega og sendi 3 tunnur af leirnum af stað til Hafnar, en skipið fórst á leiðinni. Lítur út fyrir að leir þenna megi nota við postulínsgerð, en flutningurinn á honum til sjávar er bæði örðugur og kostnaðarsamur. Mohr lýsir eigi að eins leirhólunum í Mókollsdal[3]); ferð hans varð líka til þess, að hann safnaði saman

---

[1]) Reise igiennem Island I. bls. 393.

[2]) *O. Olavius:* Oeconomisk Reise igiennem Island, bls. 566—67.

[3]) *N. Mohr:* Forsög til en islandsk Naturhistorie. Kbhavn 1786. bls. 287—293.

í eina bók því, sem menn þá vissu um náttúru Íslands. Um kvöldið reið eg út með Kollafirði að Kollafjarðarnesi; eru þar sumstaðar einkennilegar móbergsmyndanir út með firðinum og stórir gangar eins og standar og bríkur út við sjóinn.

A Kollafjarðarnesi sjást mörg merki þess, að landið hefir hækkað; þegar túnið var plægt, kom þar upp mikið af rekaviði og skeljum; í skurði við túnjaðarinn að norðvestanverðu, hér um bil 90 faðma frá sjó, sá eg bæði malargrjót og mikið af skeljum. Þegar Ásgeir alþingismaður Einarsson bjó á Kollafjarðarnesi, er sagt, að fengist hafi farmur á áttæring af rekavið upp úr túninu. Í mýrinni fyrir utan bæinn kemur víða niður á rekavið, ef stungið er, og er hér um bil ein stunga niður að spítunum. Á Kollafjarðarnesi hafa verið gerðar miklar jarðabætur og svo er víða hér um slóðir; búskapurinn er í syðri hluta Strandasýslu í bezta lagi, eftir því sem um er að gera hér á landi, en hin seinustu harðindaár hafa mjög sorfið að mönnum, svo menn hafa eigi getað gert jafnmiklar jarðabætur sem fyr. Frá Kollafjarðarnesi fór eg að Tröllatungu. Veðrið var gott, þegar við fórum inn með Gálmaströnd, sjórinn spegilfagur og alstaðar krökt af æðarfugli með unga sína; ströndin er slétt, en mjó, og hamrabelti fyrir ofan, gamlar malarrastir hátt upp eftir, en gangbríkur úr fjallinu hið efra; rekaviðarkubbar voru alstaðar í fjörunni; Skálholtskirkja átti áður $^3/_4$ af þessum reka. Í Tröllatungu dvaldi eg 5 daga, til þess að skoða surtarbrand og steingjörfinga þar í nágrenninu[1]).

Steingrímsfjörður er stærstur allra fjarða í Strandasýslu; hann er um mílu á breidd um mynnið og $3^1/_2$ míla á lengd; gengur hann fyrst til vesturs, en mjókkar svo og beygir til norðvesturs, en insta totan stefnir hér um bil í hávestur. Fjöllin eru fremur lág beggja megin fjarðar, en jarðlögunum hallar beggja megin niður að firðinum, að sunnan til

[1]) Ítarleg lýsing á surtarbrandinum við Steingrímsfjörð er í ritgjörð minni »Nogle Iagttagelser« o. s. frv. bls. 132—139.

NA, en að norðan til SA, þó mjög ójafnt á ýmsum stöðum. Að norðanverðu ganga engir dalir upp frá sjónum; gengur þar jöfn hálshlíð jafnhliða sjónum og er þar mjög hrjóstrugt, klungur og klappir víðast hvar fram í sjó, fremst er Bæjarfell eins og höfði framan á þessari hlíð. Sunnanfjarðar ganga stórir dalir út að Steingrímsfirði; yzt gengur suður í fjöllin Heydalur og svo Miðdalur; upp frá Húsavík gengur allbreiður dalur eða lægð suður á við og skiftist hjá Tröllatungu í tvent, heitir eystri dalurinn Tungudalur, en hinn vestari Arnkötludalur. Ganga ýmsir vegir suður heiðar niður að Breiðafirði og Gilsfirði, og eru þessir helztir: Hallruni úr Miðdal suður að Brekku við Gilsfjörð, Tröllatunguheiði suður í Geiradal, og Bæjarheiði úr Arnkötludal niður að Bæ í Króksfirði, og er hún tíðfarnasti vegurinn. Þegar kemur inn undir Kálfanes, fer suðurströnd Steingrímsfjarðar að verða hrjóstrugri; ganga þar fram fell og mýrar og dallivilftir og skvompur á milli, en inn af fjarðarbotninum ganga tveir allmiklir dalir með töluverðu undirlendi, sunnar Staðardalur, en norðar Selárdalur; hafa dalir þessir áður verið fjarðarbotnar og hafa þá úr insta hluta Steingrímsfjarðar gengið tvær kvíslar, önnur í vestur, en hin til norðvesturs.

Niður eftir Arnkötludal og Tungudal renna tvær ár samnefndar dölunum; renna þær saman, áður en þær falla út í fjörðinn, og heitir þar Hróá. Tunguá rennur í gljúfrum niður hjá Tröllatungu. Við vesturbakka árinnar í árgljúfrinu er surtarbrandurinn og steingjörvingarnir, rúma 600 faðma fyrir sunnan bæinn. Surtarbrandsmyndunin kemur fram undan hán stuðlabergi, og sjást þar hvít leirlög niðri við ána. Surtarbrandurinn er mikill og góður og hæglega má losa stórar og þykkar hellur, sem væru ágætar til eldsneytis, ef menn vildu nota þær. Surtarbrandsmyndunin kemur fram hér um bil á 60 álna sviði, og eru þar ýmisleg leirlög, flest gráleit; neðst í smágjörvum hvítum leir eru trjáblöðin, og sjást þau einstaklega vel, svört blöðin á hvítum grunni; sést hver taug glögglega og hver skora á blaðröndunum. Næst blágrýtinu er surtarbrandur hnoðaður

saman við hraunskánina neðstu; á einum stað í holu neðan í blágrýtisröndinni fann eg leifar af trjástofni, sem hefir orðið fastur í hrauninu, er það rann. Sum af leirlögunum eru full af vikurmolum og hafa vikurgos auðsjáanlega eytt skógunum fyr á tímum; halli surtarbrandslaganna eftir gilstefnunni til norðurs er hér um bil 4°. Í Tungudal vottar víðar fyrir surtarbrandsmynduninni í giljum, t. d. í Bjarnagili rétt fyrir suðvestan Tröllatungu, vestan við ána, og eins fyrir neðan Hlíðarsel ofar í dalnum, en hvergi gat eg þó fundið steingjörvinga; í giljunum niður með hlíðinni alla leið niður að Húsavík sjást leirmyndanir hér og hvar. Af þessu sést, að surtarbrandsmynduninni hallar allri niður að firðinum, alveg eins og blágrýtislögunum, sem að henni liggja. Í Arnkötludal vottar fyrir hinum sömu jarðlögum; við læk fyrir austan bæinn er nokkur surtarbrandur; eins fann eg surtarbrand í holti undir Svarthamri, ofarlega í dalnum að austanverðu, all-langt fyrir ofan Vonarholt; að vestan heita þar Hrafnabjörg; eru þar stór gil á báða vegu; í gilinu sunnan við björgin eru mjög miklar leirmyndanir, rauður leir og hvítur leir mjög feitur; en gilin voru svo full af snjó, að eigi var hægt að skoða þau til hlítar; hvergi fann eg steingjörvinga í Arnkötludal og getur þó vel verið, að þeir séu þar, og finnist, ef leitað er á góðu sumri, þegar snjóar eru leystir úr giljum.

Hinn 9. ágúst fórum við frá Tröllatungu niður að Húsavík, og skoðaði eg surtarbrand og steingjörvinga, sem þar eru. Kippkorn fyrir vestan bæinn hefir lækur rétt við veginn grafið sér farveg niður í gegnum klettahjalla, og koma töluverðar surtarbrandsmyndanir fram í gilinu fyrir neðan dálítinn foss, sem þar er. Fyrir neðan fossinn er mest af rauðleitum leir, járni blöndnum, en fyrir ofan fossinn er gráleitur leir með vikurmolum og ýmislega lit móbergslög. Í rauða leirnum er dálítið af surtarbrandi og kúlur og hnúðar af leirjárnssteini; innan í þessum kúlum eru för eftir blöð og ávexti. Þar hafa fundist blöð af birki (*Betula prisca*), elri (*Alnus Kefersteinii*) og af »Dombeyobsis islandica«; var sú planta skyld þeim trjám, er teljast undir kakaó-ættina.

Winkler var hinn fyrsti, er fann steingjörvinga á þessum stað[1]). Surtarbrandsmyndaninni má fylgja alla leið niður að sjó; rauði leirinn kemur alstaðar fram undir blágrýtinu í hjallaröndinni; rúmum hundrað föðmum fyrir neðan gilið fann eg undir blágrýtinu trjástofna steinrunna, uppstandandi; þeir voru 1—$1^1/_2$ fet að þvermáli; hefir kísilblandað vatn síast gegnum þá, svo þeir eru orðnir harðir og þungir, en árhringir og hvolfabygging öll sést glögglega.

Frá Húsavík riðum við inn með firði; á leiðinni eru eintóm smáfell ísnúin, og hallar þeim öllum norður og austur, en eru þverhnýpt að suðvestan; hjá Kálfanesi ganga fjöllin nær sjó og eru fellahrúgurnar stærri og óreglulegri og djúpar hvilftir innan um. Hjá Ósi er hringmynduð hvilft inn í bergið og botninn marflatur með mýrum og flóum; hefir sjór áður náð inn í þetta vik, enda eru malarkambar, sem benda á hækkun landsins, út með öllum Steingrímsfirði að sunnan. Staðardalurinn er breiður og sveitarlegur og flatur í botninn; áin, sem um hann fellur, er æði-vatnsmikil, en þó er sú stærri, sem rennur um Selárdalinn. Það var fremur kaldranalegt að líta inn í Selárdalinn, skaflar niður í miðjar hlíðar; melahrúgur nokkrar eru í dalmynninu, en ofar er hann marflatur og mjög grösugur; kvað þar vera gott undir bú.

Uppúr Staðardal er vegur yfir hálendið niður að Ísafjarðardjúpi, heitir hann *Steingrímsfjarðarheiði* og liggur niður Langadal (og Lágadal), vegurinn er talinn þingmannaleið, er farinn sumar og vetur og er allgóður yfirferðar, en heiðin er löng og flöt og því villugjörn í dimmviðri, svo mönnum hefur á vetrum alloft hlekst þar á[2]). Um Stein-

[1]) *G. G. Winkler*: Island. Der Bau seiner Gebirge und dessen geologische Bedeutung, bls. 137—139.

[2]) Vatnsfjarðar annáll hinn yngri getur þess, að maður einn lagði 2. apríl 1774 uppá Steingrímsfjarðarheiði í þykku og frosthægu veðri, þá gerði fjúk, hann viltist og lá úti með öllu matarlaus í 15 dægur, fanst loks úr Gufudalssveit, mjög kalinn og máttvana, var færður að Kirkjubóli í Langadal og varð græddur að heilu. Í desembermán. 1887 viltist líka maður í norðanbil á heiðinni og lá úti í 6 dægur, komst þó til bygða nokkuð kalinn. Þjóðviljinn II, bls. 16.

grímsfjarðarheiði fer fjöldi vermanna úr Strandasýslu milli nýárs og páska, er þeir leita til sjóróðra vestur að Djúpi og sömuleiðis er hún tíðfarin fyrri hluta sumars af Strandamönnum til flutninga heiman og heim.

Út með Steingrímsfirði er slitróttur vegur og mörg klif og hamrar, smánes og tangar, sumstaðar litlir hólmar við landið með töluverðu æðarvarpi, t. d. hjá Hellu. Alstaðar eru klappirnar ísnúnar, og sjást rákirnar sumstaðar ágætlega vel, einkum þar sem jarðvegurinn er nýlega rifinn af klettunum. Alstaðar eru kópar að leika sér á steinunum og skerjunum, enda er ströndin kölluð Selströnd. Nokkurn spöl fyrir utan Kleifar gengur inn breið vík, sem heitir Reykjavík; þar við víkurbotninn að austanverðu, rétt í flæðarmáli, eru hverir fyrir neðan kletta, sem heita Hverakleifar. Hverarnir hafa myndað tvo litla hjalla við sjóinn úr samanbökuðu hverahrúðri og basaltmolum. Ytri hverahjallinn er um 6 fet á hæð yfir sjávarmál, um 70 álnir á lengd og 20 á breidd um miðjuna; streymir vatnið niður af hjallanum í sjóinn og kemur mest upp um 3 göt, og eru myndaðir djúpir farvegir niður frá hverju gati; þó koma líka vatnsbólur upp um rifur hér og hvar og myndast þar volgir smápollar. Olavius lýsir hverum þessum í ferðabók sinni; segir hann hitann í syðstu holunni 55° R. (= 69° C.), en miklu minni í miðholunni, en í nyrztu holunni gat hann ekki mælt, því sjór féll þar yfir; nú var hitinn jafn í öllum holunum, 76° C.; eftir mynd Olavíusar og lýsingu, er alt útlit til þess, að hverir þessir hafi nokkuð breyzt, síðan hann fór þar um, 1777. Minni hjallinn er hér um bil 12 föðmum innar; hann er um 30 álnir á lengd og 2—3 álnir á breidd; er sprunga eftir honum endilöngum og streymir heita vatnið upp um suðurenda hennar; hitinn er þar $77^1/_2$° C. Í basaltklettinum, sem undir er, eru margar smásprungur, og eru þær fullar af kalki og öðrum steinefnum, sem vatnið hefir leyst úr berginu. Olavius getur ekkert um þessa innri hveri, og má vera, að þeir hafi ekki verið til, er hann fór þar um, en hafi myndast seinna. Hverar þessir í Reykjavík sýnast

vera bundnir við sprungu, sem liggur nærri frá suðri til norðurs (N 10° V); í minni hjallanum er vestari sprungubarmurinn hærri. Úr Reykjavík fórum við að Gautshamri, og vorum þar tvo daga í tjaldi til þess að skoða steingjörvinga og surtarbrand, sem þar er víða í fjöllunum.

Rétt fyrir utan Gautshamar renna tveir lækir til sjávar og hafa grafið sér djúpa farvegi; kemur annar niður með Margrétarfelli að austan, en hinn austan með Torffelli; fram með lækjum þessum koma alstaðar fram mislit leirlög og önnur jarðlög, er fylgja surtarbrandinum. Um miðjuna á eystra gilinu hafa fundist steingjörvingar í leirjárnsteini á líkan hátt eins og við Húsavík. Þar hafa fundizt: hlynur *(Acer otopterix)*, víðirtré *(Salix macrophylla)*, *„Rhus Brunneri"*, eltingartegund *(Equisetum Winkleri)*, og nokkurs konar brúsahöfuð *(Sparganium valdense)*. Vestan í Margrétarfelli, í brattri brekku, eru tölnverðar surtarbrandsmyndanir; þar fann eg dálítið af blöðum steingjörðum, einkum af furutegund. Surtarbrandur er þar eigi all-lítill, einkum í miðri brekkunni. Töluverðan kipp fyrir utan Gautshamar er gil, sem heitir Gunnarsstaðagróf; þar er líka surtarbrandur, steinbrandur og mislitar leirtegundir, mest hjá fossi nálægt sjó, en líka norðar, uppi undir Bæjarfelli; steingjörvinga fann eg þó enga á hvorugum staðnum. Meðal annars gekk eg upp á Bæjarfell; það er hér um bil 1000 fet á hæð. Þaðan er góð útsjón yfir heiðina alla milli Steingrímsfjarðar og Bjarnarfjarðar; eru þar eintómar klappir með dældum og öldum, og vötn hér og hvar; það er eins og heiðin sé nýkomin undan jökli; alt er þar slétt og fágað. Af fellinu gat eg talið yfir 20 vötn og tjarnir á heiðinni; Urriðavötn upp af Kleifum eru einna stærst og svo Bæjarvötn norður af fellinu; hallinn á blágrýtisrákunum sést glögglega og hallar þeim öllum til SA, og bak við hina uppstandandi enda á blágrýtislögunum að norðvestan eru vötnin og tjarnirnar; heiði þessari hallar jafnt og þétt upp að Trékyllisheiði. Bæjarfell er þverhnýpt að framan, og eru þar eintóm mislit leirlög og móberg og surtarbrandur nokkur. Meðan eg var við Steingrímsfjörðinn að skoða surtarbrandinn og

safna steingjörvingum, var alt af rigning og krapakafald og hitinn sjaldan meiri en 2—4°, og var það mjög ilt og óþokkalegt verk, að safna steingjörvingum í gorblautum leirskriðum í jafnvondu og kaldranalegu veðri.

Frá Gautshamri fór eg út með firði að Bæ, og þaðan norður Bjarnarfjörð. Skamt frá landi í mynni Steingrímsfjarðar er klettótt eyja, sem heitir Grímsey; þar er dálítið af surtarbrandi, leirlög og móbergsmyndanir allmerkilegar, sem Winkler hefir lýst[1]). Eyja þessi er nú óbygð, en þar var bær á öldinni sem leið (1771—86). Skálholtskirkja átti eyna, en seldi hana 1790 fyrir 44 ríkisdali. Í Bjarnarfirði eru margar laugar. Í Kaldrananesi er dálítil laug niður við sjóinn (33° C.); í Ásmundarnesi er laug lítið fyrir vestan túnið (31° C.); auk þess eru laugar á Bakka, Svanshól, Goðdal og mest á Klúku; þar er laug, gömul, í móhellu, upphlaðin, skamt fyrir norðvestan bæinn, og er hiti í henni 39½°; utan við túnbarðið er önnur laug upphlaðin, dálítið heitari (42½°); þar er kálgarður hjá lauginni og er það mjög sjaldgæft á Ströndum. Bjarnarfjörður er grunnur og fjarar töluvert út úr honum; dalbotninn inn af er flatur og mjög lítið yfir sjávarfleti; malarkambar og ýms önnur merki eftir hækkun landsins eru hér víða. Á Kaldrananesi eru skeljar nokkuð fyrir ofan sjó og gamall rekaviður í jörðu. Í Reykjavík eru engar laugar, þó nafnið sýnist benda á þær; þar er dálítill kálgarður, á stærð við meðalstofugólf.

Úr Bjarnarfirði reið eg norður Bala í Reykjarfjörð. Rétt fyrir utan Reykjavík er malarkambur hátt yfir sjó, og helst hann norður með strönd, norður fyrir Eyjar. Undirlendi er ekkert á Bölum, að svo megi heita; ekkert nema flatur fjallsfóturinn með sjónum; er þar mjög gróðrarlítið og kaldranalegt, enda eru fjöllin há, úti við reginhaf og sífeldir kuldanæðingar norðan úr Íshafi. Í Bjarnarfirði er miklu grösugra; þó skaflarnir næði víðast hvar niður undir tún, þá var þó oft skrúðgrænt fram með röndum þeirra.

---

[1]) G. G. Winkler: Island. Der Bau seiner Gebirge etc., bls. 142—144.

Asparvíkurdalur er eini dalurinn, sem gengur inn í fjöllin fyrir sunnan Eyjar; er það djúpur skeifumyndaður botn með fönnum, mýrum og lyngbrekkum á víxl. Bærinn í Eyjum stendur á hrjóstrugu nesi; er ilt að ná í slægjur, en aðalhlunnindin eru æðarvarp, því af eyjum fyrir framan fást 50—60 pd. af æðardún. Slægjur verður að sækja inn í Bjarnarfjörð. Í skerjunum fyrir framan vex mikið af skarfakáli; og eins vex það utan í bæjarveggjunum og á þakinu. Skarfakálið er notað á ýmsan hátt: saxað niður og haft í súpur og grauta, súrsað í því slátur o. s. frv. Hér í fjörðunum eru bæjarveggir víðast hvar hlaðnir úr klumbuhnausum; þeir eru þríhyrndir og ganga toturnar á misvíxl inn í vegginn; strengir eru hafðir milli klumbulaganna til að binda. Frá Eyjum liggur leiðin út með Eyjahyrnu og fyrir Kaldbakshorn. Fjöllin eru há og þverhnýpt upp af Eyjum; fellur þar niður á, sem heitir Blæja; nokkru utar er skál niður í fjallsbrúnina, sem heitir Vambaldahvolf, og koma þaðan oft snjóflóð á vetrum. Vambaldar heita sker fyrir framan. Kaldbakshorn er þverhnýpt og mjög hrikalegt, og fyrir neðan liggur vegurinn yfir urð af eintómum stórbjörgum; að norðanverðu gengur hrikaleg gjá upp í gegnum fjallið; hún heitir Svansgjá; þar er sagt, að Svanur gamli hafi gengið í gegnum fjallið.[1]) Í Kaldbaksvík er mjög einkennilegt land; fjöllin há og hrikaleg á báða vegu; óvíða hefi eg séð bygt land eins stórhreinlega fallega-ljótt eins og hér, og úvistlegt sýnist hér vera fyrir þann, sem kemur úr frjósömum héruðum; það var ekkert undarlegt, þó Önundur gamli tréfótur léti sér þetta um munn fara, er hann varð að yfirgefa óðul sín í Noregi: »Kröpp eru kaup, ef hrepp ek Kaldbak, en ek læt akra«.[2])

Frá Kleifum í Kaldbaksvík fórum við upp dalinn, til þess að skoða Hveratungur fyrir ofan dalbotninn; vatn er rétt fyrir ofan bæinn og í því nokkur silungsveiði; fórum við upp með Kaldbaksá; er þar mýrlendi mjög snögt, og þegar innar dregur, stórir blettir af gulvíðir og eyrarrós.

[1]) Njálssaga (1894) bls. 40.

[2]) Grettissaga (1900) bls 18, 20.

Fjöllin eru þverhnýpt og hroðaleg gljúfur á báða vegu, eins og hyldýpissprungur gegnum hamrabeltin. Inst í dalnum eru tveir hólar, sem eru kallaðir Önundarhaugar; en á þeim er ekki mannaverk að sjá; það eru haugar af stórgrýti, geysistórir, sem jökull hefir ekið á undan sér. Niður hamrana í dalbotninum fellur áin fossandi alla leið og breiðir sig út um bergið, svo hvergi er sérstakur farvegur; að norðan fellur í hana á úr Norðdal; það er gljúfradalur, sem kvað ná yfir í Veiðileysu; en nú var hann alfullur af snjó. Við gengum upp klettana í dalbotninum, upp með fossunum í ánni, og þegar kemur upp á brúnirnar að norðanverðu, þá eru þar Hveratungur; alt var nú hulið 1—3 faðma þykkum snjósköflum og bráðnað stórt hlið í skaflana, þar sem laugarnar eru. Heita vatnið (72°) spýtist út úr klöpp, úr gati, sem er ekki víðara en flöskustútur; rennur þaðan lækur niður í ána og blandast saman kalda vatnið úr sköflunum og heita vatnið úr hverunum; nokkra faðma fyrir neðan hveropið var hitinn á yfirborði lækjarins 50°, en á botninum 40°. Neðar við lækinn fann eg tvö önnur op með heitu vatni (70°). Fram með læknum er mesti gróður; við randirnar á fönnunum kafgresi og fögur blóm innan um, alls konar burknar, hvannir, blágresi, lokasjóðsbróðir o. fl. Hveratungur eru 765 fet fyrir ofan sjávarmál.—Frá Kaldbaksvík riðum við fyrir Skreflur fram hjá Kolbeinsvík og Byrgisvík í Veiðileysu; þar er fremur vondur vegur í bröttum skriðum við sjóinn og fyrir Veiðileysuklif; þar eru hamrar í sjó fram, og hefir sjórinn nagað skvompur inn í bergið; er riðið þar undir í stórgrýti og á hálum klöppum, og er það oftast hér um bil ófært um flóð, einkum þegar brim er. Þar fyrir innan tekur við malarkambur fram með firðinum, töluvert yfir sjó; þar eru líka brimetnir skútar í klappirnar, á sömu hæð og malarkambarnir. Úr Veyðileysufirði er farinn stuttur háls yfir í Kúvíkur; en hann er fremur illur yfirferðar, mýrar og fúadý, slarkfær, ef rétt er farið eftir holtahryggjum. Um kvöldið hinn 16. ágúst komum við í kaupstaðinn á Reykjarfirði. Á Reykjarfirði er stórkostlegt og fagurt yfir að líta í góðu veðri; fjöllin eru há og hrikaleg;

að sunnanverðu Kambar yzt, þverhnýptar eggjar með súlum og nálum upp úr, þá Veiðileysuháls og svo Háafell (2482 fet); að norðan eru yzt há og þverhnýpt fjöll: Örkin (1984 fet), Sætrafjall og svo lægri háls fyrir innan, sem farið er yfir beina leið að Árnesi; upp af fjarðarbotninum eru heiðarnar vestur af Ófeigsfjarðarfjalli. Líparít er á nokkrum stöðum við Reykjarfjörð; bæði hátt upp í dalbotninum inst og eins utar að norðanverðu; spölkorn fyrir utan Reykjarfjarðarbæ er stór líparítgangur, og eins er hin sama bergtegund í fjallinu vestur af Naustavík. Af því eg vildi fara út í Gjögur, þá fór eg fram með sjónum, svokallaða Kervogshlíð, og má heita þar ófært með hesta, þó stundum sé þar farið með laus hross. Dálítið fyrir utan Naustavík er hættulegt klif, sem kallað er Sætraklif; fyrst er farið utan í snarbröttum skriðum, en svo kemur aðalklifið, örstutt, utan í þverhnýptum hömrum, 160 fet yfir sjó; er þar skarð niður í sjóinn, sem hestarnir verða að fikra sig yfir á örmjóum helluröndum; er sjórinn 160 fet fyrir neðan, en bergið hinum megin skútandi fram yfir; verður að taka ofan allan áburð, svo hestarnir reki sig ekki í bergið; eg var hissa á því, hvað klárunum tókst vel að vega salt eftir þessari hamra-rönd, án þess að verða fótaskortur til muna. Út með allri hlíðinni er versti vegur, eintóm klif, klappir og svaðar, kolsvört gil, hamrar og skriður; fjallalækirnir voru allir í vexti eftir rigningarnar og ultu fram mórauðir langt út úr farvegunum, en alt af heyrðust skellirnir í steinunum og klettamolunum, sem voru að detta. Undirlendi er hér ekkert og maður verður að ríða gegnum urðina utan í snarbrattri hlíðinni. Við riðum út að Gjögri og þaðan að Reykjanesi, og vorum þar um nóttina.

### 3. Hornstrandir.

Hornstrandir kalla menn í daglegu tali strandlengjuna norður af Húnaflóa vestanverðum fyrir sunnan Horn; þó er það eiginlega aldrei fast ákveðið, hver takmörk þau héruð eigi að hafa, sem svo eru kölluð. Mér finst eðlilegast, að telja Hornstrandir frá Trékyllisvík, því að þaðan

beygist ströndin til vesturs alt norður á Horn. Þessi strandlengja telst undir tvær sýslur, Strandasýslu og Ísafjarðarsýslu, en fyrir margra hluta sakir þykir mér betur fara, að hafa hér sérstakan kafla um Hornstrandir, sem eina heild, því náttúran öll og þjóðlífið er á allri þessari strandlengju eins, og breytist ekki, þó maður komi í aðra sýslu; auk þess ætlaði eg mér að rita dálítið öðruvísi um þessi héruð en hin, sem eg áður hefi nefnt: nánar um þjóðina, atvinnuvegi og lifnaðarháttu manna, sökum þess, að Hornstrandir eru með öllu ókunnar í öðrum hlutum landsins.[1])

Á Gjögri eru töluverðar fiskiveiðar; þó eru hákarlaveiðar einna mest stundaðar á vetrum, frá því í janúar þangað til í miðjum apríl; ganga þar 10—11 skip til hákarlaveiða og eru 9—11 manns á hverju skipi. Á Gjögri eru sjóbúðir með loftum líkt og baðstofur; er sofið og etið uppi, en veiðarfærin geymd niðri. Það er ekki fyrirhafnarlaust að ná í hákarlinn á miðjum vetri; menn verða oft að liggja 3—5 mílur undan landi í grimdarfrosti á opnum bátum dag og nótt og stundum í heila viku; oftast er útbúningurinn lélegur og viðurværið ilt og lítið; í austan- og norðanátt er lending mjög örðug í stórbrimum og moldviðri. Á síðastliðnum vetri brást allur hákarlsafli á Gjögri; lögin um niðurskurð á hákarli tóku fyrir allan afla; þeir, sem utarlega bjuggu, skáru undir eins niður fyrir utan línu þá, sem ákveðin er í lögunum, svo hákarlinn hljóp út; þeir fengu ekkert, sem innar bjuggu.[2]) Afleiðingarnar urðu al-

[1]) Á Hornströndum mun það vera málvenja að kalla ströndina frá Geirólfsgnúpi vestur að Kögri við Fljót Hornstrandir, Sbr. Þjóðviljinn XIV, bls. 197.

[2]) Margar sögur ganga um lyktnæmi og græðgi hákarlsins. Eitt sinn var í Grímsey í Steingrímsfirði haus af höfuðsóttarhrút kastað í sjóinn og hann kom næsta dag uppúr hákarli á Gjögri. Guðmundur á Dröngum sagðist eitt sinn hafa fengið uppúr hákarli torfu, sem hann hafði haft yfir beitutunnu og kastað út, hann snaraði henni út aftur og þá kom hún uppúr öðrum. Hákarlar eta meðan í þá kemst, en stundum eru þeir alveg tómir eða með þangblöðrum og ormarusli. Beinhákarlar sjást stundum við Strandir, en eru ekki veiddir. Úr því jaktir eru komnar út og farnar að skera niður hákarl, segja menn hér, að eigi sé lengur hægt að fá hákarl á opin skip.

mennur bjargarskortur og skyrbjúgur, þegar þetta bættist ofan á öll önnur vandræði. Upprunalega voru tvær hákarlaveiðistöður í Strandasýslu, Gjögur og Skreflur, og um seinustu aldamót gengu 3 eða 4 skip frá hverri. Skipin voru sexæringar og vertíðin frá sumarmálum til messudaga; aflinn að meðaltali ein lýsistunna til hlutar, og var allur veiddur hákarl fluttur á land, og var þá eigi lengra til miða sótt en hálfa aðra viku sjóar. Nú er hætt að róa í Skreflum, en á Gjögri voru 1838 20 róðrarskip.[1]) Óvíða á Íslandi er víst hákarl jafnmikið hafður til matar eins og á Ströndum; alstaðar sjást hákarlahjallarnir; þeir eru svo, að 4 steinstöplar eru hlaðnir og þak yfir úr torfi og rekavið. og svo rær undir með hákarli. Eggert Ólafsson getur þess í Skjaldmeyjarkvæði, að hákarlinn sé eitt ágætið á Hornströndum; »hvað er betra en hákarlinn hér á landi að finna«, segir Eggert, og svo rétt á eftir: »af honum hengjast ósköpin upp í hjall á stöngum»; það sést víða af kvæðum Eggerts, að hákarlinn hefir þá verið álitinn rammíslenzkur kosta-matur, því »hákarls-kaup herða tær og fingur«.

Reykjanesið alt hefir einhvern tíma verið undir sjó; það sést glögt af Reykjaneshyrnu; austur af Reykjanesbænum er vik upp í landið, og þar er hver brimbarinn malarkamburinn upp af öðrum; nesið er að ofan flatt og á því vötn og tjarnir; Gjögurvatn er stærst, svo eru Hólmavatn, Stekkjarvatn og Mjóavatn minni. Sunnan í nestánni við Gjögur er roksandur. Suðaustur frá Reykjanesbæ eru björg við sjóinn, og fyrir utan þau er Laugavík; þar í fjörunni er gamall basaltgangur (N 14° V), og fram með vesturhlið hans bullar upp heita vatnið, og er hitinn þar víðast 65—68°, mestur 69°, en nokkru utar, vestan við Akravík, í laugum, er fylgja sprungu í sömu stefnu, 73°. Blágrýtið kringum þessar laugar er fult af sprungum og í þeim kalk, silfurberg og

[1]) Gestur Vestfirðingur 1848, 2. árg., bls. 5. Í Lýsingu Árnesssóknar 1852 stendur: »Hákarl fiskaður seinni part vetrar á sexæringum og áttæringum frá Gjögri, svo er líka róið til hákarls úr Trékyllisvík, frá Melum, Finnbogastöðum og Krossnesi«.

»zeolíþar«. Í Akravík eru sandbakkar og í bökkunum á köldum læk kemur heitt vatn upp um sandinn ($68^{1}/_{2}^{0}$); víða eru þar rekadrumbar í jörðu. Til þess að komast í Trékyllisvíkina frá Reykjanesi, verður að fara ofarlega í Reykjaneshyrnu, því hið neðra eru sökkvandi mýrasund og forir. Í Trékyllisvíkinni er fallegt landslag; undirlendi töluvert, höfðar og vogar á víxl. Lifa menn hér mest á sjófangi, en fátæktin er fjarskalega mikil.[1]) Líparít er töluvert í fjöllunum milli Ingólfsfjarðar og Trékyllisvíkur, en hvergi varð eg var við þessa bergtegund norðar á Ströndum. Inn af Árnesi eru víða stórir basaltgangar fram í sjó, og eru sumir í skringilegum myndum; spölkorn fyrir utan bæinn er drangur við sjóinn, svo kátlega lagaður að efsti hluti hans er tilsýndar mjög líkur skeggjuðu mannsandliti með hjálmi, og segir sagan, að þetta sé nátttröll.

Frá Árnesi fór eg í Norðfjörð, og svo út að Krossnesi. Spottakorn fyrir utan Krossnes, við rönd á mýrarveitu, eru dálitlar laugar (60—70°); í hlíðinni fyrir utan Krossnes við sjóinn eru grágular móbergsmyndanir; síðan fórum við að Norðfirði aftur. Jörðin er ekki nema 3 hundruð, en 4 ábúendur. Frá Norðfirði fórum við yfir eiði, sem er ekki meira en 280 fet á hæð niður að Ingólfsfirði; norðar er annað skarð frá Melum í Trékyllisvík; liggur það hærra, en er tíðfarnara. Ingólfsfjörður er langur og brattar hlíðar á báða vegu; þó er gras töluvert í hlíðunum og grænt upp að snjó; þetta er algengt hér á Ströndum, einkum móti sólu, en undan sólu er miklu gróðrarminna. Eggert Ólafsson segir frá því í ferðabók sinni, að þegar hann kom í Ingólfsfjörð, þá urðu íbúarnir hræddir og hlupu á burtu; bóndinn þar hafði þá eigi í 16 ár komið í kaupstað; járn og aðra nauðsynjavöru hafði hann fengið úr Trékyllisvík.

---

[1]) Gamall bóndi úr Bitrunni, sem kom í Trékyllisvík 1880, sagðist hafa séð þar þrjú náttúru-undur: 1° grasið í Loðnugjótu í Árnesey, sem tók honum undir hönd. 2° Rauðaviðartré, sem rak þar 1877, 27 álna langt og hálfur annar feðmingur að ummáli, rétt fyrir ofan rótina. 3° júfur á kvígu einni í Árnesi.

Úr botninum á Ingólfsfirði liggja sneiðingar útnorður upp á fjallið; heitir þar Ófeigsfjarðarbrekka, og er það einn með hinum bröttustu fjallvegum, sem eg hefi farið; meðalhalli hlíðarinnar 25—30°; það vill til, að götutroðningarnir eru í brúkanlegu standi; annars væri þar illfært; ef hestur dytti, gæti hann naumlega fótað sig og ylti ofan í sjó. Fjallið er mjög mjótt að ofan, og þaðan smáhallar stall af stalli niður eftir fláum botni, niður að Ófeigsfirði; þar er reisulegur bær og góð bygging; stórir túngarðar úr steini og nátthagar. Ófeigsfjörður er góð jörð og töluverð hlunnindi; þar fást 60—70 pund af dún og 100 kópar á ári. Uppúr Ófeigsfirði má fara yfir fjöllin til Ísafjarðar og er þar kölluð *Ófeigsfjarðarheiði*, liggur sá vegur niður í Hraundal upp af Langadalsströnd. Frá Dröngum er líka farið upp Meyjardal og yfir suðursporðinn á Drangajökli ofan í Skjaldfannardal; ekki er sú leið fær nema um hásumar og fóru þar fyrrum helst Ísfirðingar, er sóttu reka að Dröngum.

Hinn 21. ágúst hélt eg frá Ófeigsfirði norður á við; rétt fyrir utan bæinn fellur Húsá niður hlíðina; er í henni stór foss, sem breiðir sig eins og ullarkemba yfir bergið. Hér er alstaðar með fjörunni rekaviður að koma upp úr börðum og þúfum. Norður með öllum Ströndum eru rastir af gömlu fúatimbri undir grassverðinum við sjóinn, og kemur það oft fyrir, að hestarnir reka lappirnar niður í holurnar milli drumbanna. Spölkorn fyrir utan Ófeigsfjörð fellur Hvalá til sjávar; hún er hið mesta vatnsfall á Ströndum. Áin fellur í fossum niður af hjöllunum, breiðir sig svo út og verður allmikill ós, áður hún rennur í sjó. Hvalá er riðin rétt fyrir neðan fossana, en er þó oft ófær. Alstaðar er grúi af sel á skerjunum fram með ströndinni; þeir liggja svo þétt, að hver ýtir á annan, og verða oft úr því áflog og ryskingar; þegar riðið er fram hjá, steypir allur hópurinn sér í sjóinn með busli og ólátum, en rétt á eftir koma upp hausarnir hér og hvar um sjóinn, og horfa stórum augum á lestina, sem fram hjá fer. Inn með Eyvindarfirði er versti vegur. Þar er mjög hrjóstrugt og ljótt,

eintómar klappir og urðir, hallandi fella-flesjur, hæstar og brattastar til vesturs eftir lagahallanum; þar heita Básar. Eyvindará er allmikið vatnsfall og fellur niður háar klappir í fjarðarbotninum. Klappirnar eru fjarskalega ísnúnar; á einum stað sá eg ísrák 8 feta langa, 1 fet á dýpt og 1½ fet á breidd. Fyrir ofan þetta klettahaft fellur áin á eyrum í kvíslum, og er þar gott vað á henni, sem heitir Stangarvað. Á eyrunum við sjóinn í fjarðarbotninum fann eg mikið af baunagrasi *(Lathyrus maritimus)*, á sama stað sem Eggert Ólafsson hafði fundið það. Við fjörðinn að norðanverðu er gamalt eyðikot, sem nú er notað frá Drangavík, og heitir það Engines; það hefir verið í eyði síðan 1740. Út með firðinum að norðanverðu eru margir gangar og berghleinar fram í sjó; á Skerjasundsnesinu er ein þess konar bergbrík með stóru gati eða hliði, sem vel má ríða í gegnum. Í Drangavík sá eg í fyrsta sinni hið forna byggingalag á Hornströndum. Flest eldri hús á Ströndum eru svo gerð, að veggirnir eru hlaðnir upp úr staurum í mörgum lögum og mold á milli; bæjardyragöngin eru oft flórlögð með eintómum drumbum, en stéttir eru mjög óvíða við bæina, og því oft mjög óþrifalegt í kring um þá, einkum þegar rigningar ganga.[1]) Í nýrri húsum er eigi eins mikið í borið af timbri; veggirnir eru úr mold, hlaðnir upp úr klumbuhnausum og strengjum, og sumstaðar þiljað innan milli stafs og veggjar með flettum rekatrjám. Á einstaka stað eru timburskemmur nýbygðar, t. d. á Dröngum og Horni, og þar er gestum boðið inn. Stofuhús sá eg hvergi

---

[1]) Í sóknarlýsingu Aðalvíkur 1847 er komist svo að orði um bygging á Hornströndum: »Þar er nær því eingöngu hafður rekaviður til alls, sem viður er til hafður; á Ströndum er hann hafður í gólfið og veggina með þeim hætti, að reft er þétt yfir gólfið, en upp við stafina utanverða eru neðan frá gólfi, og svo hátt sem veggurinn á að ná, lagðir raftar eða viðarhleypingar endilangir upp á rönd, hver ofan á annan og mokað jafnóðum mold að, svo hvert spyrnir á móti öðru viðurinn og moldin, og svo er veggurinn hlaðinn upp að utan og endist það vel, ef moldin er vel troðin og hleðslan vönduð að utan og þeir veggir hygg eg standi veggja bezt með jafnri vöndun. Viðirnir í þessum veggjum eru kallaðir »veggskífur«.

fyrir norðan Trékyllisvík undir palli, eins og annars er títt á Íslandi, nema í Ófeigsfirði.

Drangavík er skeifumyndaður botn milli fjallanna, og er allmikill dalur upp af; yzt í honum er, eins og í Eyvindarfirði, berghaft ísnúið; sléttara fyrir ofan og áin í bugðum. Yzt við fjallið, að norðanverðu við víkina, eru hinir nafnkunnu Drangar; það eru ógurlegar, risavaxnar hamrastrýtur, sem líklega eru í fyrstu svo til orðnar, að fjallalækir hafa beggja megin grafið geilar í fjallsbrúninni unz þær náðu saman, og svo urðu strýturnar eftir, því alt af dýpkuðu geilarnar meir og meir; í dröngunum eru blágrýtislögin áframhaldandi, eins og í fjallinu fyrir ofan. Efsti drangurinn er hæstur, oddhvass eins og nál að ofan; þá er annar breiðvaxnari, flatari í toppinn; þá hinn þriðji, nærri, eins breiður og hinir báðir, en sýling niður í hann miðjan, svo úr honum verða einhverntíma tvær strýtur; þá er fjórði dranginn miklu lægri, með skoru í toppinu, og hinn fimti yzt, lang-minstur. Efsti dranginn er á að gizka 800 fet á hæð. Út með hlíðinni og gegnum Drangaskörðin er illfær vegur; þar er stundum farið af gangandi mönnum. Eftir myndinni í ferðabók Eggerts er ekki ólíklegt, að Drangarnir hafi nokkuð breyzt, síðan hann fór þar um. Hvergi á Íslandi hefi eg séð jafnhrikalegt náttúrusmíði í þessari röð, eins og drangarnir eru. Drangarnir sjást langt að norðan úr hafinu, þegar siglt er til Norðurlandsins; þeir eru eins og risavaxnir stólpar, sem benda norður í Grænlands óbygðir. Hér er víst óvistlegt á vetrum, þegar hafísinn þekur hafið og beljandi stormar þjóta í skörðunum. Drangarnir eru hið virðulegasta og heppilegasta minnismark yfir einu hinn þrekmesta Íslending, sem uppi hefir verið, því á Dröngum var Eiríkur rauði upp alinn. Það var ekkert undarlegt, þó sá maður væri sprottinn úr þessari náttúru, er fyrstur varð til þess að draga blæjuna frá hinum ókunna klakageimi við heimskautin.

Frá Drangavík fór eg yfir Drangaháls; hann er mjög brattur, en þó eigi eins og Ófeigsfjarðarbrekka. Hálsinn er 1000 fet á hæð og örmjór að ofan; hryggurinn er ekki

nema rúmir 20 faðmar, þar sem vegurinn liggur. Af hálshryggnum var skringileg útsjón og kaldranaleg; Drangavíkurdalur fyrir neðan, eins og hann sé skorinn með bjúghníf niður í bergið; alt hvítt upp af honum, skafl við skafl. Til norðurs sést höfði af höfða norður eftir öllum Hornströndum, og eru nyrztu fjöllin hæst og hrikalegust, en rauðleit og fjólublá blika liggur yfir Íshafinu. Til vesturs sjást heiðarnar kringum Drangajökul, og sjálfur hann, breiðar fannbungur, og sjást að eins tveir höfðar upp úr hjarninu norður frá, Hrolleifsborg og Hljóðabunga. Syðsti sporðurinn á Drangajökli nær ekki lengra suður heldur en rúmlega á móts við Drangaháls. — Niður af hálsinum var fremur örðugt að norðanverðu; ríður maður vestan í skálmynduðu dalverpi, og voru snjóhengjur þar efra, sem mikla varúð þurfti við. Þegar kemur niður úr dalverpinu, er bretta mikil og klappir, og alla leið inn að Drangabæ er illur vegur, stórgrýtt, klappir, kleifar og svaðar. — Bærinn Drangar stendur á litlu nesi innarlega í vík; gróðurlítið er hér í kring, hingað og þangað svolitlar fúnar fjallamýrar; annars bara mosi og skófir. Aðalhlunnindin eru varpið; þar fást í meðalári 70 ℔ af dún; 1804 stendur í jarðabók, að æðarvarp á Dröngum sé ekki teljandi; það hefir alt komið upp á seinni árum. Í þá daga fékst 1 ℔ af hreinsuðum dún í Drangavík, nú um 10 ℔. Það lítur ekki út fyrir, að æðarvarp hafi verið mikið stundað um aldamótin á Vestfjörðum, því þá fengust að eins 2 ℔ af dún í Æðey á Ísafjarðardjúpi. Drangar heyra nú undir Vatnsfjarðarkirkju; þjóðsaga er sögð um það, hvernig kirkjan eignaðist Dranga. Bóndi nokkur gaf jörðina fyrir sálu sinni og í legkaup, og mælti svo fyrir, að sig skyldi flytja í Vatnsfjörð, er hann dæi; hann dó um hávetur og var líkið dregið á sleða yfir Drangajökul; en á leiðinni gerði slíkt vonzkuveður, að líkmenn töldu ómögulegt að koma kistunni; tóku þeir þá til bragðs, að þeir skáru höfuðið af karli, fluttu til Vatnsfjarðar og jörðuðu þar, en kroppurinn hvílir sig enn þá uppi á Drangajökli.

Trjárekinn hefir löngum þótt stórhlunnindi á Ströndum, enda hefir hann fyrrum verið mjög stórkostlegur; en nú

kvarta allir yfir því, að rekinn sé orðinn miklu minni en áður. Sögðu gamlir menn að í tíð feðra þeirra hefði verið svo mikill reki sumstaðar, að varla hefði sést högg á vatni, þó hlaðinn væri áttæringur á sama stað. Ekki fanst mér nú samt þurfa að kvarta undan trjáleysi; en satt mun það vera, að reki hefir stórum minkað á þessari öld.[1]) Þegar kemur norðan til á Strandir, er fjaran öll hvít af rekavið; mest er þar þó af fúnum sprekum og gömlum trjám; malarkamburinn er eintómur viður og út undan moldarbörðum, í lækjarfarvegum nálægt sjó og í mýrum, sjást alstaðar staurar og rótarhnyðjur; þessi viður verður ekki notaður til annars en í eldinn. Víða í Strandasýslu kemur viður úr jörðu, sem fyr hefir verið frá sagt, í mýrum og moldarbörðum, mörg hundruð faðma frá flæðarmáli; víða finnast þar líka hvalbein og rostungsbein langt frá sjó, enda hefir Vesturlandið síðan á ísöldinni hækkað um 100—200 fet. Þó rekinn sé minni en áður, þá fá þó Hornstrendingar nægilegt af nýjum viði til allra þarfa sinna, og mun betri væri byggingin hjá þeim, ef þeir hefðu kunnað að hagnýta sér þessa blessun, sem berst svona upp í hendurnar á þeim. Rekinn hefir verið fjarska mikill, er landnámsmenn settust að á Hornströndum; í Grettissögu segir svo, er Eiríkur snæra skifti landnámi sínu með Önundi tréfót: »en um reka var ekki skilið, því þeir voru þá svo nógir, að hver hafði sem vildi.« Í fornöld þótti ágætt til fanga á Ströndum og leituðu þangað margir sakir hvala, sela og trjáreka. Í Grettissögu segir líka að Þorgils Másson »var atdráttarmaður mikill, ok fór á Strandir hvert ár; aflaði hann þar hvala ok annara fanga«. »Þorgils var fullhugi mikill, hann fór alt á Almenninga hina eystri« og þar drápu þeir Þorgeir Hávarðsson og Þormóður Kolbrúnarskáld hann saklausan.[2])

[1]) Veturinn 1899 til 1900 var óvanalega mikill trjáreki á Hornströndum. Bændur á Ströndum gátu ekki bjargað undan sjó nærri öllum þeim við, er barst að landi og mundu elztu menn ekki slíkan reka (Þjóðviljinn XIV. bls. 48).

[2]) Grettissaga (1900) bls. 80, 82. Sbr. Fóstbræðrasaga (1899) bls. 15, 23, 28, 30, 125.

Í Þórðarsögu hreðu er getið um ferju, sem gekk til Stranda til fangs,[1]) og Víga-Glúmur fór norður á Strandir að rekum.[2]) Finnbogi rammi settist að í Trékyllisvík »ok lét mjök sækja útróðra, var ok skamt at sækja, því at mjök svá mátti kasta á land«. »Gerðist þá mjök fjölbygt í víkinni; var þá hálfr fjórði tögr bæja, bæði miklir ok góðir.« Var þangað »mikil ferð á haustum at skreiðarkaupum«.[3]) Í Bandamannasögu er getið um ferjur og farmflutninga mikla af Ströndum til Norðurlands.[4]) Á Sturlungaöld þótti enn fangsælt á Ströndum; þar lét Kolbeinn ungi 1244, eftir Flóa bardaga, brenna hvali og reka, svo menn Þórðar kakala eigi gætu hafst þar við.[5]) Þótti þetta á Sturlungaöld, þegar svo mörg illmennskan var framin, þó vera ódæði. Fyrst framan af virðist hafa verið almenningur á Hornströndum nyrzt, sem allir áttu aðgang að, en snemma hefir þó rekum víst verið skift; á Sturlungaöld eru þeir þegar orðnir eign kirkna og einstakra manna. Þórður frá Vatnsfirði galt Sturlu meðal annars 18 hdr. í reka á Reykjanesi og í Skjaldabjarnarvík.[6]) Síðar hafa verið gerðar nákvæmar ákvarðanir um þetta; nú er rekinn á Hornströndum sjaldan eign jarðanna þar sem rekur; hann hefir oftast verið seldur eða gefinn frá jörðunum á fyrri tímum. Eins og vanalegt er, þá eru það einkum kirkjurnar, sem eiga ítök þessi, og það sumar fjarlægar, t. d. eins og Reykholtskirkja. Hinn 8. des. 1431 gefur Guðni Oddsson Smiðjuvík til Ögurkirkju fyrir sál konu sinnar og Rekavík hjá Höfn til Mýrakirkju[7]) og svo munu flestar rekajarðir og partar í rekum hafa komist undir kirkjur í sálugjafir, og hafa þær mjög skifst til fjarlægra staða, sem sjá má af hinum mörgu rekaskrám, sem prentaðar eru í Fornbréfasafni. Einkum hafa Vatnsfjarðarkirkja, Helgafellsklaustur og Skál-

[1]) Þórðar saga (1900) bls. 10.
[2]) Reykdæla (1896) bls 85.
[3]) Finnbogasaga (1897) bls. 82, 91, 92.
[4]) Bandamannasaga (1901) bls. 3, 4.
[5]) Sturlunga II. bls. 63.
[6]) s. st. I. bls. 298.
[7]) Dipl. Isl. IV. bls. 485.

holtsstaður náð í rekana þar nyrðra; sagt er að Jón biskup Sigurðsson (1343—48) hafi lagt flesta rekana undir Skálholtsstól.[1]) Þess er seinna getið að Sveinn biskup Pjetursson 1471 »gaf út bréf til Vestfirðinga og Strandamanna um viðartillag til byggingar Skálholtskirkju.«[2])

Hornstrendingar gefa viðartegundum þeim, sem reka, ýms nöfn, t. d. rauðiviður, rauðagreni, hvítfura, tjarfura, línfura, stafaeik, selja, brúnselja o. s. frv. Mestur rekaviður er ótiltegldur, barkarlausir trjádrumbar, með róta- og greinaöngum; þó rekur náttúrlega líka töluvert af tegldum viði, skipsflekum og þess konar, og eru það aðrar trjátegundir en þær, sem nefndar hafa verið; eru sumar þeirra taldar í ferðabókum Eggerts Ólafssonar og Olaviusar.[3]) Líklega kemur nokkuð af viði þessum með straumum frá Ameríku, en mest þó frá fljótunum í Síberíu.[4]) Rekinn hefir farið að minka, þegar bygðist fram með fljótunum og skógurinn fór að eyðast. Það hefir borið við, að samtengdir flotar af ótegldum trjám hafa rekið; þess konar flota láta menn oft berast með straumi niður eftir fljótunum, og getur þá borið við, að sumir flækist út úr ánum út í haf. Olavius nefnir það, að þá hafi oft rekið flekar samfestir með tágum; Jón Eiríksson bætir því við, að 1740 eða 1741 hafi með hafís rekið í Múlasýslu bát á stærð við fjögramannafar, sem allur var bundinn saman með tágum, og negldur saman með trénöglum; en í honum var hvergi járn.[5]) Í hitt eð fyrra (1884) rak í Munaðarnesi við Ófeigsfjörð reykjarpípu með reyrlegg, eins og rauðir menn hafa í Ameríku. Árið 1797 rak á Ströndum og á Norðurlandi mikið af vestindiskum sykurreyr, »og þótti furðanlegt«.[6]) Enn þá rekur stundum á Ströndum sunnan úr löndum digra leggi af bambusreyr; eru sumir

---

[1]) Dipl. Isl. II., bls. 785.

[2]) Árb. Esp. II., bls. 77. Dipl. Ísl. V., bls. 604—605.

[3]) *E. O.*: Reise igjennem Island. I., bls. 511, og *Olavius*: Oeconomisk Reise igjennem Island, bls. 127.

[4]) Lýsing Íslands I., bls. 47.

[5]) Olavius l. c., bls. 141.

[6]) Esp. Árb., XI., bls. 86. Minnisverð tíðindi I., bls. 436—437.

alt að því 9 álna langir, holir að innan og hólfaðir allir í sundur, svo Hornstrendingar brúka liðina til að geyma í ýmislegt smávegis. Sá eg marga slíka leggi og leggjarbúta á Ströndum.

Áður á dögum sóttu menn úr fjarlægum héruðum rekavið frá Ströndum. Eftir bruna Skálholtskirkju 1527 lét Ögmundur biskup auk annars viðar sækja rekavið af Ströndum[1]) og hann lét smíða skútu, vel haffært skip, vestur í Vatnsfirði[2]) og hefir hún líklega verið bygð úr rekaviði. Eggert Ólafsson segir frá því, að seint á 17. öld hafi menn frá Barðastrandar-, Ísafjarðar-, Stranda- og Húnavatnssýslum sótt þangað við á stórum byrðingum. Smíðuðu menn fyrst sterkan áttæring mjög stafnaháan, og fóru svo 8—12 manns saman norður á Hornstrandir. Þegar þar var komið, var tekið til starfa, sagað, heflað og smíðað, stafnarnir hækkaðir og þykkum borðum slegið á hliðarnar, unz skipið var orðið svo borðhátt, sem þeim þótti þurfa; var síðan troðið mosa í allar holur og rifur, og skipið síðan fermt með viði og drumbum, og auk þess dró það á eftir sér stóran timburfleka. Þegar byrðingurinn var alfermdur, var áttæringurinn alveg kominn í kaf, nema hníflarnir, og var svo bundið reipum um byrðinginn og farminn. Byrðingar þessir voru þungir til róðra og var aldrei róið á þeim nema í logni, en annars voru höfð 2—3 stór segl. Í byrjun 18. aldar hættu flestir að nota þessa byrðinga, en sóttu rekavið á áttæringum og teinæringum, og var það miklu örðugra, kostnaðarmeira og hættulegra. Eiríkur bóndi Snorrason á Skjaldvararfossi á Barðaströnd var þjóðhagasmiður, hann sótti snemma á 18. öld þrisvar viðarbyrðinga á Hornstrandir og flutti alla leið suður á Barðaströnd, sáust um 1849 enn menjar af viði þessum í húsum á Barðaströnd.[3]) Jón Eiríksson getur þess, að maður einn, sem enn var á lífi 1736, hafði á ungum árum verið skips-timburmaður í Hollandi, en er hann kom heim til Íslands, bygði hann sér

[1]) Safn til sögu Íslands I., bls. 66.
[2]) Biskupasögur II., bls. 238.
[3]) Gestur Vestfirðingur III., bls. 108 - 109.

skútu úr rekavið og sótti á henni tré til Stranda og birgði mest Norðurland með timbri unz skútan fórst.[1]) Síra Teitur Pálsson á Skutulsfjarðareyri druknaði með öllum skipverjum sínum haustið 1728 í Strandaferð eftir rekavið. Með honum fórust 9 menn. Timburfloti sá, sem þeir höfðu meðferðis, leystist sundur og mikil tré ráku af honum vestur um Fjörðu og á Rauðasand, svo að skip voru smíðuð úr rekavið þeim, en trúað var, að þau færist með heldur undarlegum hætti, því næstu kveld áður en þeim var síðast róið, sögðu menn, að kjólklæddur maður sæist ganga kringum þau og sumir þóttust heyra hann berja þau utan.[2]) Um aldamótin 1800 fékk Ólafur bóndi Ólafsson á Torfalæk verðlaun fyrir stóran byrðing, sem hann hafði smíðað á Ströndum og síðan nokkrar ferðir flutt þaðan á honum trjávið til Húnavatnssýslu.[3]) Nú kemur það varla fyrir, að menn geri sér ferð norður á Hornstrandir langt að, til þess að sækja við; einstöku sinnum selja Strandamenn viðarfarma yfir á Skagaströnd eða annarstaðar í Húnavatnssýslu. Árið 1862 fórst teinæringur fyrir Balaströnd hjá Eyjum með viðarfarm af Hornströndum.[4]) Hinn 26. og 27. september 1864 var haldið í Reykjavík uppboð á heilum skipsfarmi af rekavið »fluttum vestan af Hornströndum, girðisvið, rauðavið og svo annari rekafuru hentugri til undirviða í hús.«[5]) Af þessu sést, að menn þó við og við fram eftir 19. öld hafa verið að sækja rekavið norðan af Ströndum úr fjarlægum héruðum.

Menn fóru á fyrri öldum miklu oftar langferðir kringum Vestfirði á opnum skipum en nú. Oddur Sigurðsson lögmaður átti skip 25 álna langt og 13½ álnar breitt, sem fór til flutninga kringum Vestfirði úr Steingrímsfirði til Reykhóla.[6]) Byrðingarnir hafa verið alltraustir til

---

[1]) Deo, regi, patriæ, bls. 274.
[2]) Bréf Finns Jónssonar til Árna Magnússonar 3. okt. 1729. A. M. Access. 1. Fol. Fjallkonan XII. (1895) bls. 15.
[3]) Minnisverð tíðindi II. Fylgiskjöl, bls. 27.
[4]) Norðanfari I. bls. 56.
[5]) Þjóðólfur XVI (1864) bls. 173.
[6]) O. Olavius: Oeconomisk Reise, bls. 154.

sjóferða; þess er t. d. getið um Bjarna Bjarnason († 1723), sem bjó að Hesti í Önundarfirði, að hann lét gera sér rekaviðarbyrðing vorið 1688, og flutti sig búferlum suður í Dalasýslu; tók hann með sér á byrðinginn lausafé sitt mestalt, konu, börn og hjú, og fór fyrir framan Vestfjarðaskaga og Bjargtanga, inn Breiðafjörð til Bjarneyja, og þaðan upp Kross-sund að Arnarbæli í Dalasýslu.[1]) Á þessari (19.) öld hefir það og borið við, að menn hafa verið djarfir til sjóferða kringum Vestfirði; árin 1878 og 1879 fór t. d. unglingsmaður á litlum báti frá Skutulsfirði norður fyrir Horn og á Skagaströnd.[2])

Sumstaðar eru allgóðir smiðir á Ströndum; smiða þeir á vetrum kyrnur og sái, aska og amboð af ýmsu tagi; selja þeir þetta þegar kaupendur fást, en samgöngurnar eru svo örðugar, að þeim getur lítið orðið úr vinnu sinni. Sáir, askar og fötur eru sívafðar með gyrði og kilparnir úr skíði; er flest smíðið úr rauðavið, sem þykir einna beztur til slíkra hluta; sumir smíða skip og báta, og velja mjög til þess viðinn. Fyrrum höfðu menn mikla hjátrú á því, hver viður ætti að vera í skipinu; selja var einkum illa ræmd, og svo eik, sem kölluð var blóðeik. Ekki er hjátrú þessi gjörsamlega farin, þó fæstir leggi trúnað á slíkt. Gömul kona, sem eg átti tal við um skiptapa, sem orðið hafði, sagði meðal annars: »Það hefir víst ekki verið spöruð blóðeikin í skipið það.« Brúnselja er fremur sjaldgæf; úr henni smíða menn helzt pontur og annað þvílíkt. Þegar flotar reka af samtengdum trjám, þá er það helzt tjarfura, og ef stór tré reka af henni, þá eru oft á þeim einhver mannaverk; það sést t. d. á þeim, að þau hafa verið höggvin í skógi, þó eigi séu þau tiltegld. Hvítfura og tjarfura eru og mikið notaðar til smíða. Fyrrum var miklu meira smíðað af sáum, öskum, skálum, ausum o. fl. á Hornströndum; gengu þá heilar lestaferðir yfir Drangajökul frá Langadalsströnd og

---

[1]) *Bogi Benidiktsson:* Feðga-æfi. Viðey 1823, bls. 24—26. Ísl. Þjóðs. I., bls 540

[2]) Norðanfari. 19. árg. 1880, bls. 19.

Snæfjallaströnd; en nú er miklu minna um slíkar ferðir en áður. Á 18. öld fóru Hornstrendingar líka sjálfir langar ferðir með varning sinn, jafnvel suður á land, og komu á Þingvöll um þingtímann með kyrnur sínar.[1]) Þegar í fornöld hefir rekaviður á Ströndum verið notaður til kyrnusmíðis, 1234 er getið um Otkel reikunarmann »hann fór með konu ok bar keröld af Ströndum til sölu.«[2]) Í skrá yfir fjármuni Reykholtskirkju 1392 er getið um »Strandasái tvo stóra«.[3]) Í Biskupasögum er þess getið, að drengur einn, Þorlákur Styrsson, drukknaði í Selá, »er hann fór á Strandir með föður sínum, reið ofan á hesti, sem bar sái, og náði vatnsstraumurinn sánum og féll þar inn; snaraðist svo af hestinum. Sá Styr alleina hér uppá og gat ei að gjört.«[4]) Rekaviðurinn kemur oft til landsins á vetrum með hafísum, og Eggert Ólafsson (bls. 522) segir, að það hafi komið fyrir, að trjádrumbar núist svo fast saman milli ísjakanna, að í þeim kviknar, og hefir þetta gefið tilefni til ýmislegra skröksagna í gömlum ferðabókum og lýsingum af Íslandi.[5])

Bæði fyrir innan og utan Dranga eru ýmsar menjar þess, að sjórinn hafi áður náð hærra eða landið hafist; þar eru malarkambar og ægisandur hvítur í börðum, og koma þar fram bæði trjádrumbar og hvalbein.

Hinn 22. ágúst fór eg frá Dröngum norður að Skjaldabjarnarvík. Vegurinn út með er fremur góður út á Vatnshöfða; þar er dálítið vatn hér um bil 25 fet yfir sjó og er malarkambur gamall fyrir framan. Alstaðar er hér viður og fúasprek í jörðu og með sjónum, og telja menn það þó varla nóg til eldiviðar, af því þeir muna eftir þeim ókjörum af rekavið, sem hér fengust áður. Við fórum fyrir

[1]) Olavius, bls. 193.
[2]) Sturlunga (Oxf.) I., bls. 319.
[3]) Dipl. Island. III., bls. 482, 503.
[4]) Biskupasögur II., bls. 605.
[5]) Í sóknarlýsingu Aðalvíkur 1847 segir: »Stundum hafa menn séð viðarrastir brenna í hafi og rekur þá oft mikið af brendum og sviðnum viði. Það kenna menn því, að viðurinn núist svo ákaflega saman í ísnum að í honum kvikni.«

framan Meyjardal yfir á samnefnda töluvert vatnsmikla; í björtu sést jökullinn bak við dalinn. Áin kemur mest úr lækjum á heiðunum, en í hana kvað þó líka renna undan jökli, samt var nú enginn jökullitur á henni. Þegar kemur inn í Bjarnarfjörðinn, fer vegurinn að versna; eru þar ótal klappir, klettahnúðar og klif, líkt og í Eyvindarfirði; þar sáum við sel á hverjum steini að heita mátti. Fjörðurinn er langur og mjór og sjaldan farið inn með honum, en gangandi menn á vetrum eru ferjaðir yfir mynni hans. Innarlega er nes að sunnanverðu, sem heitir Langanes, og undan því má um fjöru ríða þvers yfir fjörðinn, en svo var ekki fallið út, að við gætum farið þar, og urðum við að fara inn fyrir. Tangi úr Drangajökli, líklega skriðjökull, gengur niður drögin niður undir dalbotninn, en við sáum ekki vel til fjalla fyrir þoku og rigningu; úr jöklinum fellur kolmórauð á, Bjarnarfjarðará; fellur hún á mörgum eyrum í fjörðinn og verður oft ófær, en þá má ríða fyrir utan um fjöru, sem fyr var sagt. Nokkru utar en Langanes, norðan við fjörðinn, riðum við sneiðinga upp fjallið og yfir Hjarandaskarð (650'). Efst er hálsinn mjög brattur og fannir stórar, svo hestarnir lágu oft í. Það var einkennilegt af brúnunum að sjá niður í Bjarnarfjörðinn í þokunni; það var eins og hyldýpi, og skaflarnir eins og smátjarnir hér og hvar; en fjöllin sunnan fjarðar náðu upp úr og sýndust risavaxin og tröllaukin. Fyrir norðan Hjarandaskarð tekur við allbreiður dalur, Sunndalur; er þar nokkur gróður, en þó smávaxinn, á eyrunum, og verða nokkrar engjar, þegar neðar kemur; leiðin liggur niður með ánni, og stundum yfir hana, unz maður kemur niður að Skjaldabjarnarvík.

Bærinn Skjaldabjarnarvík stendur sunnan undir Geirólfsgnúpi, og er þar fremur hrjóstrugt land; það er nyrzti bær í Strandasýslu, og nyrztur í Árnesprestakalli; er mjög örðugt að fara þaðan til kirkju, enda gera menn það ekki nema einu sinni á sumri, þegar bezt er tíðin. Í Landnámu er getið um Skjalda-Björn; þar segir svo: »Hella-Björn, son Herfinns ok Höllu, var víkingr mikill; hann var jafnan óvinr Haralds konungs; hann fór til Íslands, ok kom í

Bjarnarfjörð með alskjölduðu skipi; síðan var hann Skjalda-Björn kallaðr; hann nam land frá Straumnesi til Dranga; hann bjó í Skjalda-Bjarnarvík, en átti annat bú í Bjarnarnesi; þar sér miklar skálatóptir hans.«[1]) Á nesinu suður af Skjaldabjarnarvík eru háir urðarhólar, og er sagt að Skjalda-Björn sé þar heygður.

Einhverjar surtarbrandsmenjar eru hér í fjöllum, því eg sá í Skjaldabjarnarvík stóran, steingjörvan drumb, sem hafði komið niður bæjarlækinn, en ekkert fann eg þar fleira af því tægi. Í Skjaldabjarnarvík var tvíbýli, bæjarhúsin hlaðin upp af staurum og mold, göngin voru einnig öll flórlögð með staurum, þau voru nú samt öll forug í hinum sífeldu rigningum. Við tjölduðum á bala hjá kvíunum og áttum illa nótt vegna kulda og vætu.

Frá Skjaldabjarnarvík fórum við í Reykjarfjörð. Liggur leiðin upp dalbotn norðvestur af bænum. Fremsta brún dalsins, sem heitir Norðdalur, er ofurlítið hærri en miðbik hans. Engjar eru töluverðar í dalnum, en mjög blautar; verður að ríða eftir á, sem hlykkjast yfir engjarnar, og síðan upp á hálsinn bak við Geirólfsgnúp. Af skarðinu sjást í góðu veðri fjöllin norður á Horn, múli fram af múla, og Kálfstindur fremst á Bjargi. Sigluvík gengur inn fyrir norðan Geirólfsgnúp; Geirólfur, sem gnúpurinn dregur nafn af, hefir ef til vill búið þar. Út með landi að sunnanverðu er sjórinn kolmórauður af jökulleir úr Reykjarfjarðarós. Í Sigluvík er mikill reki; þar var fjárhús bygt úr nærri eintómum rekadrumbum í mörgum lögum, og var þar kafgresi í kring; þar er nú í eyði. Inn með firðinum er riðið utan í skriðum við sjóinn, og eru þar tæpar götur og fremur glæfralegur vegur. Út í Reykjarfjörð rennur allmikil jökulá kolmórauð; er hún mjög viðsjál vegna sandbleytu. Í dalnum eru flatar eyrar fram með ánni, og allur dalurinn er sléttur, svo að segja upp að jökli, að undanteknum fáeinum holtum, sem upp úr standa. Bærinn Reykjarfjörður stendur norðaustan til við fjörðinn. Það er sá

[1]) Landnáma, 1843, bls. 156.

eini bær, sem nú er þar bygður.[1]) Þegar Eggert Ólafsson kom hér 1754, var engin bygð í Reykjarfirði. Sunnan við ána eru tveir eyðibæir, Kirkjuból og Sæból; bænahús eða kirkja var fyrrum á Kirkjubóli, á 16. öld; sagt er, að hinn seinasti prestur, sem þjónaði þar, hafi heitið Panti, og verið göldróttur mjög. Pantaleon Ólafsson var prestur á Stað í Grunnavík, og dó 1575; en Kirkjuból hefir þá verið annexía frá Grunnavík. Á Kirkjubóli hefir verið búið við og við fram á þessa öld. Ósinn — eða áin réttara sagt — hefir brotið af hinn forna kirkjugarð, og um aldamótin fyrri sáust líkkistubrot með beinarusli stundum í ósnum, og töldu sumir af því standa mikla reimleika. Sæból er nokkuru utar, og var sá bær nýlega bygður, en lagðist í eyði 1885. Einsetumaður bjó til skamms tíma í kofa sunnanfjarðar nærri Sigluvík og á Þaralátursnesi er eyðibýli, sem lagðist niður eigi fyrir alllöngum tíma. Árni Magnússon getur um forna eyðijörð, sem hét Knittilstaðir, og stóð bærinn við Reykjarfjarðarós uppi undir jökli; en ósinn hefir brotið landið; sáust þar tóftir 1710.

Niður í botn á Reykjarfirði gengur skriðjökull úr Drangajökli alveg niður á sléttlendi; þessi jökull gengur lengst niður af þeim skriðjöklum, er ganga frá Drangajökli austanverðum. Við riðum upp undir jökul og tjölduðum þar rétt fyrir utan jökulgarðinn. Fyrir dalbotninum myndast svif eða botn í Drangajökul, milli Hrollaugsborgar og tindsins hjá Hljóðabungu; frá Hrollaugsborg gengur hryggur á jöklinum út að Miðmundahorni á hálsinum fyrir norðan botn Bjarnarfjarðar; hitasumarið 1880 stóð hryggur þessi nærri allur upp úr jökli. Skriðjökullinn fellur allbrattur niður í efsta botn dalsins, en er dálítið flatvaxnari að neðan, en mjókkar þó út. Fyrir ofan efsta gras í dalnum liggur boginn jökulgarður (moræne) yfir dalinn þveran, hér um bil 800 faðma frá jökulsporðinum. Milli jökulgarðsins og

[1]) Árið 1657 »brann bærinn á Reykjarfirði á lítilli stundu og þar 9 menn inni; komust þrír úr baðstofunni af. einn mjög skemdur úr Bolungarvík, varð einn af þeim skipverjum, er þeir með voru, ofsterkur« (Vatnsfjarðarannáll eldri. J. S. 39. Fol.).

jökulendans eru sléttir melar með núnu grjóti og smá grjóthrúgum hér og hvar; sumstaðar eru djúp vatnsaugu innan um grjóthrúgurnar ofan til. Eftir því, sem gömul kona sagði mér, sem fyrrum átti heima á Kirkjubóli, þá gekk jökullinn fram fyrir 40 árum síðan, og ók á undan sér jökulgarðinum; fanst úr honum mikil jökulfýla, og ósinn var ófær alt sumarið; litlu seinna fór jökultanginn að minka, en fór hægt í fyrstu, og 8—9 árum seinna var ekki meira bil en 8—10 faðmar milli jökulrandarinnar og grjótgarðsins; en síðan hefir jökullinn farið sí-minkandi ár frá ári, svo nú er orðið svo langt á milli, sem fyr var sagt. Skriðjökullinn hefir fyrrum verið miklu þykkri; við jökulendann, sem nú er (1886), hefir þyktin verið 2—300 fet; þetta sést á jöklagrjóti og núnum björgum, sem orðið hafa eftir í miðjum hlíðunum á báða vegu. Áin kemur kolmórauð undan hvelfingu í jökulendanum; ber hún með sér gráan leir, sem hleðst niður milli hnullunganna á eyrunum fyrir neðan. Á jökulröndinni eru víða stór björg, og sumstaðar koma aurrákir og möl upp úr honum. Það var einkennilegt að sjá litinn á neðsta jökulsporðinum; nýr snjór lá víða á jöklinum, en hinn gamli jökulís var bláhvítur á milli; mismunurinn á lit hins gamla og nýja snævar var ekki ósvipaður litnum á rjóma og undanrenningu. Jökulvatnið var ískalt, þar sem það kom út undan jökulröndinni, hiti þess $\div {}^1/_2$—$^3/_4{}^0$ C. Þegar við tjölduðum við jökulinn, var, aldrei þessu vant, bezta veður, glaða sólskin og hin bezta fjallasýn, en um kvöldið steyptist koldimm þoka yfir dalinn; um nóttina var hellirigning, og hélzt hún án þess nokkurn tíma stytti upp í heila viku, nema hvað hún einstöku sinnum breyttist í krapakafald.

Drangajökull er sýndur miklu stærri á Uppdrætti Íslands en hann er í raun og veru; eptir Uppdrættinum ætti hann að vera hér um bil 15 ferh. mílur að flatarmáli, en hann er varla meira en 6—7 ferh. mílur; jökullinn er á Uppdrættinum látinn ná suður á Steingrímsfjarðarheiði, en það er ekki nærri neinu lagi; hann nær varla lengra suður en á 66$^0$ 2‘ n. br. Út frá Drangajökli ganga ýmsir skriðjöklar; en ekki gat eg rannsakað neinn þeirra, nema þann, sem

gengur niður í Reykjarfjörð, vegna illviðrauna. Jökultangi gengur niður undir botninn á Bjarnarfirði, og er endi hans líklega um 800 fet yfir sjó; jökulendinn í Reykjarfirði er varla meira en 100 fet yfir sæ; þá gengur skriðjökull niður í botn Þaralátursfjarðar, og er endi hans tæp 400 fet yfir sjó, og í Furufirði gengur jökulálma niður undir Skorarheiði, á að gizka 600 fet yfir sjó. Hæzta bungan á Drangajökli er 2837 feta há. Að vestanverðu ganga skriðjöklar niður í Leirufjörð og Kaldalón, nærri niður að sjó.

Eins og nafnið bendir á, eru heitar laugar í Reykjarfirði. Sunnan við ósinn hjá Kirkjubóli kvað laugarnar vera mestar; en þangað kom eg ekki; norðan við ósinn sá eg laugar á tveim stöðum; rennur vatn frá þeim í sandgrafningum niður að mýrum; í efstu lauginni var hitinn mestur 53° C.[1]) Dalurinn er rennisléttur og grösugur, en klappahnúðar hér og hvar upp úr og alt ísnúið. Í Reykjarfirði er mikill trjáreki; hvergi sá eg á Ströndum jafnmikið af nýju og gömlu timbri í fjörunni eins og þar. Fjörubeit er hér líka töluverð, en fé flæðir oft; fyrir skömmu flæddi alt fé í Reykjarfirði, hver skepna.

Hinn 25. ágúst fór eg frá Reykjarfirði norður á við. Liggur leiðin fyrst yfir lágan háls í Þaralátursfjörð; hálsinn er varla meira en 360 fet á hæð; eintómar ísnúnar klappir og ísborin björg. Það var mjög kaldranalegt að horfa ofan í Þaralátursfjörð; jökullinn gengur niður í dalbotninn, og frá honum fellur jökulá, sem kvíslast um hina mjóu undirlendisræmu alveg út að hlíðunum beggja megin. Flestar eyrarnar eru graslausar; ískalt, skolmórautt jökulvatn streymir yfir þær við og við, svo jurtagróðurinn getur ekki haldist. Eftir því sem Benedikt bóndi í Reykjarfirði sagði mér, hefir jökultanginn í Þaralátursfirði dregið sig nokkur hundruð faðma til baka á seinustu 20 árum. Í Þaralátursfirði er nú engin bygð, en þar var þó kot um nokkur ár, þangað til 1885; ekki er jörð þessi metin nema 80 álnir. Fyrrum hefir jörðin ekki verið bygð í 2 eða 3 aldir, enda er þar

[1]) Í Þorlákssögu er getið um laugar þessar (Bps. I., bls. 288).

fremur óvistlegt, kuldalegt, graslítið og afskekt. Á 17. og 18. öld voru umrenningar og strokumenn úr ýmsum héruðum mesta landplága á Ströndum; þangað flýðu þeir og voru óhultir; en bændurnir á kotunum þar nyrðra gátu aldrei verið öruggir, því þessir þorparar stálu öllu, sem þeir gátu náð í, hræddu börn og konur, og það kom jafnvel fyrir, að þeir ráku einhvern lítilsigldan kotunginn burtu, og settust að reitum hans. Eggert Ólafsson getur oft um þessa óaldarseggi; þegar hann fór um Hornstrandir, hafði t. d. þjófur að sunnan sezt að með konu sinni í Enginesi. Þar sem Eggert kom á bæi, urðu íbúarnir stundum hræddir, því þeir héldu, að ófriðar væri von, er þeir sáu mannaförina. Nú er það sjaldgæft, að þess konar »hlauparar« leiti norður á Hornstrandir; þó var þar fyrir fám árum þjófur norðan af Akureyri, sem strokið hafði úr fangahúsinu; hann var um tíma í Paralátursfirði.[1]) Sjaldgæft hefir það verið hér á Ströndum, að menn legðust út og hefðust við á fjöllum uppi; ilt er að lifa í bygðinni, en þó er það hátíðlegt í samanburði við fjöllin, sem ekki eru annað en urð og klaki. Þess er þó getið 1681, að Loptur nokkur úr Strandasýslu hafi lagzt á fjöll; »hann fór á fjöll með konu sína og fylgikonu, og lifðu við sauðastuld; hann náðist í Vatnaflóa, er þau ætluðu í Surtshelli, og voru með þeim 4 börn, og önnur konan með barni. Var Loptur höggvinn í Strandasýslu«.[2])

Úr Paralátursfirði fórum við upp Svartskarðsheiði, sem er 1281 fet á hæð. Eggert Ólafsson segir, að það sé hinn versti fjallvegur, sem hann hafi farið. Það er sjálfsagt, að heiði þessi er ill yfirferðar, en þó fundust mér sumir fjallvegir á Norður-Ströndunum verri. Fyrst framan af eru urðarhjallar með nokkru grasi; svo fór snjórinn að verða meiri, skafl við skafl; var þar mikil ófærð, en brettan hvergi mjög mikil. Efst á heiðinni voru mestu umbrot fyrir hestana

[1]) Í bréfi 27. febr. 1712 ávítar Sigurður Björnsson lögmaður Markús Bergsson sýslumann fyrir, að hann hafi látið Brimarhólmsfanga Magnús Benediktsson hlaupa um í sínu umdæmi í Aðalvík og Jökulfjörðum. Á. M. 410. Fol.

[2]) Árb. Esp. VII., bls. 102.

í sköflunum, og mjög örðugt að koma þeim áfram. Að norðanverðu er miklu brattara; var ljótt að líta þar niður fyrir í dimmunni og rigningunni, því ekki sást landið né sjórinn gegnum þokuþykknið; það var eins og lestin ætlaði að steypast niður í undirdjúpin; þegar neðar dró, sá vel yfir Furufjörðinn; dalurinn er fagur og breiður og mjög grösugur. Furufjörður er talinn ágætisjörð, og er þar margbýli. Eftir því sem segir í jarðabók Árna Magnússonar, þá var fyrrum bænhús í Furufirði, og var embættað tvisvar á ári. 1710 var þar í eyði eftir bóluna, og höfðu þar þó áður verið margir bæir. Upp úr dalbotninum gengur Skorarheiði í Hrafnsfjörð; þar er ekki nema ³/₄ mílu þvers yfir landið; yzta klóin er nærri klipin frá. Heiðin er að ætlan minni um 600 fet á hæð; er vegurinn góður, svo þetta er aðalleiðin fyrir þá, sem eitthvað þurfa að fara vestur að Djúpinu, og kirkjuleið allra Hornstrendinga fyrir norðan Geirólfsgnúp; það hefir jafnvel borið við, að menn hafa dregið báta á sleðum á vetrardegi yfir heiðina. Fyrrum var þó umferðin yfir Skorarheiði miklu meiri, þegar svo mikið var sótt af rekavið til Hornstranda. Í jarðabók Árna er það talið til ókosta í Furufirði, að þar sé »óbærilegur troðningur og kostnaður af gestakvæmd þeirra, er úr Jökulfjörðum koma þangað með hesta eftir viði vetur og sumar, og verða þar að dvelja, meðan trén eru lögð á hestana«. Hvergi væri á Hornströndum jafnhentugt að hafa bænhús eða kirkju eins og í Furufirði; en Hornstrendingar höfðu enn ekki getað orðið á eitt sáttir um þetta mál.[1]) Eggert Ólafsson fór á ferð sinni 1754 ekki lengra norður en í Furufjörð og fór þaðan vestur Skorarheiði Telur hann ófært með hesta norður með ströndinni norður á Almenninga, enda er það enn þá aldrei farið nema með 1 eða 2 lausa hesta. Björn Gunnlaugsson komst 1842 ei lengra en í Árnes, kom alls ekki á Hornstrandir.

Þó alt af væri sama illviðrið, héldum við áfram norð-

[1]) Með styrk úr sparisjóði Ísafjarðar og úr sýslusjóði reistu Hornstrendingar loks bænhús í Furufirði í ágústmán. 1899. Þjóðviljinn XIV., bls. 171.

ur í Bolungarvík. Fram með Bolungarvíkur-bjargi er allra mesti tröllavegur, og er þar eigi hægt að klöngrast með hesta nema um fjöru. Bjargið er þverhnýpt og örmjó urðarrönd fyrir neðan, og sumstaðar slæm klif. Eg var svo óheppinn, að það var rétt komið undir flóð, þegar við komum undir bjargið. Eru fyrst tvö klif yfir að fara, og svo hin svo kallaða Ófæra. Við gátum ekki komist fyrir klifin, og urðum að bíða nærri tvær klukkustundir, af því svo var hásjávað, og þar að auki foráttubrim. Stóðum við þar undir kletti í húðarigningu og bleytu-slettings-kafaldi, þangað til flóðið var dálítið farið að bresta. Loks komum við hestunum yfir klifin, þó seint gengi; urðum við að fara með þá selflutning, einn og einn, taka ofan koffortin og sæta svo færi milli laga, og berja þá fram yfir glerhálar klappirnar; áttu klárarnir ilt með að fóta sig á brimsorfnu grjótinu, og stundum þeyttist brimlöðrið á þá, og þyrlaði þangruslinu í háaloft. Sjálf Ófæran var lang-verst; þar eru háir standar, sem brimið spýtist upp með, og verður að fara um brattar klappir, hála hnullunga og örmjóar skorur; tókst þó með þolinmæði og snarræði að koma hestunum yfir. Um háfjöru er miklu skárra að fara þessa leið. Fyrir utan Ófæruna er alt af stórgrýtisurð og brimbarðir malarsteinar alt út á Drangsnes. Nes þetta tekur nafn af háum klettastandi, sem stendur þar úti í sjónum. Það er gangbrot, afar-hátt og mjótt, og er furða, að slík súla skuli geta staðist brimið, án þess að falla. Fyrir nokkrum árum tók snjóflóð prestinn frá Grunnavík og tvo menn aðra undir Bolungarvíkurbjargi, og komust þó allir lífs af; einn fór langt út á sjó, en honum skolaði þó lifandi á land aftur.

Bolungarvík (eða Buðlungavík) er stutt og breið, girt þverhnýptum fjöllum á alla vegu; undirlendið er allstórt upp frá sjó, vel grasgefið og engjar góðar; en nýtingin er hér, eins og annarstaðar á Norðurströndum, mjög ill, svo grasið verður bændum að litlu liði; hafísinn, þokurnar og votviðrin hrjá og hrekja menn og skepnur árið um kring. Hér eru tveir bæir, Bolungarvík og Bolungarvíkursel, norðaustan við víkina. Í jarðabók Árna Magnússonar er nefnt

örnefnið Auðnir í Bolungarvíkurlandi, ei all-langt frá bænum við sjóinn; þar sáust rústir og girðingar, og er sagt, að Bolungarvík hafi staðið þar til forna, en bærinn hafi verið fluttur sökum stórviðra. Þar segir og, að bænhús hafi verið í Bolungarvík til forna, en ekki hafi þar verið tíðir veittar í manna minnum, en húsið hafi fallið af stórviðrum fyrir meir en 40 árum. Tveir lækir eða smáár falla niður í víkina og myndast þar dálítið stöðuvatn framarlega á undirlendinu miðju, og fellur úr því ós til sjávar. Þessi skvompa upp í bergið hefir sumpart fyllst af árburði úr fjöllunum og sumpart af sjávarburði. Reki hefir þar fyrrum verið mikill, og má sjá mikið af fúadrumbum í lækjarfarvegum og moldarbörðum töluvert frá sjó.

Þegar við um morguninn fórum frá Bolungarvík, var alt hulið snjó niður í sjó; þegar rofaði dálítið til, þá héldum við af stað. Ætluðum við norður yfir Barðsvíkurskörð, og er það örðugasti og brattasti fjallvegurinn á öllum Hornströndum, enda er þar aldrei farið með áburð, þó stundum séu teymdir lausir hestar yfir fjallið. Upp af Bolungarvíkurseli eru snarbrattir hjallar grasivaxnir með töluverðum jarðvegi og eintómum dýjum; var þetta alt uppbólgið af rigningunum, og öklasnjór ofan á; grasbrekkurnar voru svo hálar, að varla var hægt að fóta sig, og þurfti að hafa mestu varúð og fyrirhöfn með hestana, því þeir ýmist duttu eða lágu í. Þegar við vorum komnir hér um bil 400 fet upp, á efstu brúnina á grashjöllunum upp af selinu, gekk annar af fylgdarmönnum mínum á undan og teymdi koffortahest; klárinn lá í efst í hjallabrúninni, byltist og brauzt um, veltist svo um hrygg og gat ekki stöðvað sig á brúninni, vegna þungans á koffortunum, og hentist svo niður fyrir; oss datt ekki í hug, að við sæjum hestinn lifandi aftur; það var eins og hvolpi hefði verið kastað af hendi; hesturinn snérist 4 sinnum við í loftinu, er hann hentist hjalla af hjalla niður alla hlíðina; loks kubbaðist klyfsöðullinn sundur, og gjarðirnar og koffortin hoppuðu niður undir jafnsléttu, en klárinn stöðvaðist hálfur á kafi í dýi; við héldum, að í honum hefði brotnað hvert bein, en svo var eigi; hesturinn

var að mestu óskaddaður, hafði hann hvergi komið á stein, alt af fallið á gljúpan jarðveg og í dý, og svo höfðu koffortin hlíft honum. Eftir þetta óhapp héldum við áfram upp fjallið; tóku við urðir og hamrastallar fyrir ofan grasbrekkurnar með stórum sköflum, og mjökuðumst við upp að skarðinu með því að fara ótal sneiðingar. Fjallið er eggþunnt að ofan, eins og saumhögg, og ganga tvö skörð niður í eggina, eins og þau væru skorin með knífi. Hæðin í skarðinu var 1135 fet yfir sjó; en efsta fjallseggin var hér um bil 500 fetum hærri. Að norðanverðu er enn þá brattara, og verður ekki komist niður nema á einum stað; verður þar að fara langan veg eftir hverjum hamrastalli til þess að hitta á skarð eða einstigi niður á næsta hjalla, og svo koll af kolli, og er þetta æði-örðugt og seinlegt. Bæði á þessum og öðrum fjallvegum á Hornströndum urðum við alt af að ganga og teyma, bæði vegna brettunnar, klungranna og ófærðarinnar; þótti okkur mesta hátíð, þá sjaldan við gátum setið á hestunum kippkorn.

Barðsvík er mjög lík Bolungarvík; undirlendið mjög grösugt, mýrar og engi, tjörn og á með líku sniði og mikill gróður í neðstu hlíðunum; slægjurnar eru ágætar, en þokuúðar og óþerrar mjög til meins. Það eru munnmæli, að áður hafi verið akkerislega í Barðsvík hjá Staðarhóli, sem er töluvert frá sjó, þar sem farið er yfir ósana. Fyrir utan Barðsvík tekur við lægra og ávalara fjall; einn hjallinn er upp af öðrum, og mýrar og forir undir urðarbörðunum, þar sem ekki eru stórir skaflar. Fórum við niður grunt skarð niður í Smiðjuvík. Smiðjuvík er grynnri skál í bergið en hinar víkurnar og nær ekki niður að sjó; eru hamrar fyrir neðan bæinn niður að sjónum, björg fyrir utan og innan, og fossar niður bergið. Við riðum út Smiðjuvíkurbjarg fram með brúnunum; hallar bjarginu inn, og eru þar smátjarnir hér og hvar, og töluvert gras nærri brúnunum; götur eru víða tæpar yzt við bjargröndina; eru það troðningar eftir þá, sem sækja fugl út í Hornbjarg; nú var hér nærri alveg fuglalaust; hér og hvar sást einstaka rita á flugi. Leiðin liggur utarlega um Drífandadal; það er

hvolf niður í bjargið, og hár og mikill foss fram af berginu; þar fyrir utan er enn dalskvompa, sem heitir Hólkabætur, áður maður kemur að Bjarnarnesi.

Bjarnarnes er hamratangi út í sjóinn, undan lægð eða dal, sem hér verður fyrir sunnan Axarfjall; þar er urð við sjóinn, og ilt að setja skip; er land hér mjög hrjóstrugt og gróðurlaust. Jörð þessi hefir oft verið í eyði sakir harðinda og grasleysis. Sóknarlýsing Grunnavíkur 1840 segir: »fólkið lifir í Bjarnarnesi einungis á sjáfarafla, káli, fjallagrösum og fuglatekju úr Hornbjargi«. Þetta er einn með afskektustu bæjum á landinu, engin bygð nærri; snjófjöll og öræfi fyrir ofan, en Íshafið fyrir utan; hér hafa menn ekkert að skemta sér við nema brimlöðrið við bjargtangann, hafísinn og fuglagargið. og er mikið að nokkur maður skuli haldast við á þessum eyðiklöppum. Bóndinn, Jón Guðmundsson, er hinn eini, sem heldur fréttablað hér á Norður-Ströndum, og les þær nýjar bækur, sem hann getur náð í; en það má nærri geta, hve fljótt og greiðlega blöð og bækur berast á þenna útkjálka, þar sem engir póstar koma nærri; Guðmundur Ólafsson í Smiðjuvík er í Þjóðvinafélaginu, og veit eg ekki til að það séu aðrir en þessir tveir menn á allri strandlengjunni frá Geirólfsgnúp að Horni, sem eftir föngum reyna til að fylgja því svolítið, sem gerist annarstaðar á landinu.[1]) Jón Guðmundsson leiðbeindi mér ágætlega hér um fjöllin, og gaf mér margar góðar upplýsingar um ýmislegt, er snerti Hornstrandir, enda er hann manna kunnugastur, því hann hefir búið 13 ár í Bjarnarnesi.

Frá Bjarnarnesi riðum við yfir Hrollaugsvíkurdal, og upp á Axarfjall; var þar vondur vegur og mikill snjór nýr. Komum við síðan niður í Látravík; það er kvos niður í bjargröndina með nokkru grasi, mýra- og dýjaflesjum í botninum. Hér er hátt niður að sjó, og verður bóndinn að hafa stiga til þess að komast niður að bát sínum, og hefir

[1]) Hornstrendingur einn komst svo að orði, að þeir Guðmundur í Smiðjuvík og Jón Guðmundsson í Bjarnarnesi væru hinir einu „vísindamenn“ á Hornströndum, annar væri í Þjóðvinafélaginu, hinn héldi Þjóðólf.

hann mist hvern bátinn eftir annan í brimum. Bóndinn, sem býr í Látravík, er úr Húnavatnssýslu, og hefir látið mæla sér nýbýli hér í bjargkvosinni, og mætti þó ætla, að hann einhverstaðar á landinu hefði getað fengið sér skárri blett til búnaðar. Nokkru fyrir ofan Látravík, á bjargbrúninni, eru rústir af öðru nýbýli, sem nýlega er aftur komið í eyði. Við riðum fyrir ofan bæinn í Látravík, og svo út með bjargröndinni. Hornbjarg er stórkostlegasta fuglabjarg á landinu, 1600 fet þverhnýpt upp úr sjó. Veður var ilt, hvassviðri og kafald, og 1° frost á fjöllunum. Við komumst seint um kvöldið yfir Almenningaskarð (826') að Horni. Það var ein hin hrikalegasta og ljótasta útsjón, sem eg hefi séð, þegar eg leit í kringum mig af bjarginu í þessu veðri. Við vorum að fikra okkur fram með bjargsbrúninni, vaðandi snjóinn í hné; teymdum suma hestana, en rákum suma; það var ilt að verða að berja þá á móti veðrinu, og hins vegar að forðast að þeir færu fram af; á hægri hönd var hyldýpið, 1000 feta háir hamraveggir niður að sjó; á vinstri hönd þykkasta kafaldsdimma; þó grylti einstaka sinnum í hamrabrúnir og nybbur. Verði manni litið fram af berginu, sjást djúpt niðri brimlöðrandi hamrastandar upp úr sjónum, en einstaka fugl með úfnum vængjum er að baxast á móti vindinum við brúnirnar; í suðri glórir í hamragirðingar í undarlega óhreinni birtu. Þegar ofar dró, var ófærðin orðin svo mikil af nýjum snjó, að hestarnir brutust um, en illviðrið var orðið að kolsvörtum kafaldsbyl. Klöngruðumst við svo gegn um Almenningaskarð niður dalbotn snævi þakinn, og um mýrar að Horni; var þá komið myrkur um kvöldið, og vorum við þar um nóttina.

Næsta dag var sama illviðrið, sem verið hafði undanfarna daga, en eftir miðjan dag birti upp og kom sólskin dálitla stund; þó var kalt eins og á haustdegi. Það er ljómandi fallegt að líta yfir Hafnarbásinn í góðu veðri; þverhnýpt björgin himinhá eru á báða vegu, fjöllin hvít niður í miðju, en svört og dimmblá að neðan, en hafið hvítglitrandi fyrir utan. Fjörðurinn allur milli Hælavíkur-

bjargs og Hornbjargs er kallaður Hafnarbás, og er undirlendi töluvert fyrir fjarðarbotninum, og skeifumyndaður fjallaveggur bak við. Fyrir fjarðarbotninum er Hafnarsandur; er hann að framan hár og bunguvaxinn, en lægri að sunnan. Allstór ós fellur til sjávar austanvert í víkinni, og renna þangað ár úr botninum fyrir ofan (Víðisá, Torfdalsá, Gljúfrá og Kýrá). Í brúnina á Hælavíkurbjargi eru reglulegar hvilftir, eins og þær væru skornar með bjúghníf; eru þar yzt Festarskörð, þá Hvannadalur og Rekavík næst höfninni. Hér gæti verið fagurt stæði fyrir fiskiþorp við fjarðarbotninn; höfnin er ágæt, rúmgóð og góður botn; fiskur nógur fyrir utan, og í viðlögum er alt af nógur matur í björgunum. Á Hornvík (eða Hafnarbás) koma oft þilskip og liggja þar fyrir illviðrum. Skipalegan er hér í vesturhorni flóans út af Hafnarbæ. Á Horni er nokkurt útræði; þangað sækja menn úr víkunum og fjörðunum fyrir sunnan; þó ganga þar ekki nema 4—5 skip til fiskjar. Af því að hafísinn er svo tíður við Hornstrandir, þá eru hvítabirnir altíðir gestir, en sjaldan gera þeir mikinn skaða, og eru heldur ekki til mikils gagns. Þess er þó stundum getið í annálum, að þeir hafi gert mein; 1321 »kom hvítabjörn mikill af ísum norðr á Ströndum ok drap 8 menn í Heljarvík, ok reif alla í sundr en át suma. Hann var drepinn Vitalis messu«.[1]) 1648 gengu 14 birnir á land á Ströndum, og margir annarstaðar[2]) o. s. frv. Það sést eins við Hafnarbás, sem annarstaðar á Vestfjörðum, að landið hefir hækkað að mun; þar gengur marbakki gamall eins og hjalli kringum alla víkina; stendur Horn-bær framan á hjallabrúninni; eins sést hjalli þessi glögt í Rekavík, beint á móti, og fyrir innan básinn. Olavius segir, að við Höfn sé rekaviður mosavaxinn 500 faðma frá sjó; þar var áður grafreitur í túninu, og sá Olavius þar 9 eða 10 leiði, sem sneru, eins og vant er, frá austri til vesturs, en eitt frá norðri til suðurs; þar hafði þá nýlega verið grafinn gamall, sérvitur bóndi, og hafði hann látið grafa með sér bænabók

[1]) Ísl. ann. bls. 395.
[2]) Esp. Árb. VI., bls. 125.

og Úlfarsrímur.[1]) Úr Hafnarbásnum er hár og örðugur fjallvegur suður í Jökulfirði, og heitir þar Hafnarfjall. Í fjarskalegu roki og sjávargangi haustið 1879 kom svo mikill sandur að allri austurströnd Hafnarbássins, að ganga mátti frá Hornkletti og út í Hafnarnes; hvergi sást steinn upp úr, og var þar þó áður stórgrýti og urð; allur viður þurkaðist burt af ytri ströndinni og inn á Hafnarsandinn, en grjót og smáviður barst upp á neðsta jaðar túnsins á Horni, fast upp að brekkunni fyrir neðan bæinn. Sjór gekk þá upp að bæ í Bjarnarnesi, upp fyrir klettana. Haustið eftir tók allan sandinn burtu, sem borist hafði upp á ströndina.[2])

Hið eiginlega Hornbjarg nær frá Hornkletti í grasfles, sem heitir Sleppir, norðvestan við Látravík. Bjargið er þverhnýpt upp úr sjó, samsett af eintómum blágrýtislögum og stöllum, en rauðar móbergsrandir eru hér og hvar á milli. Hæsta nybban á Hornbjargi er Kálfatindur; hann er 1614 fet á hæð; en víðast mun bjargið vera frá 1000—1400 fet. Ýmsir hlutar af Hornbjargi heita ýmsum nöfnum, eins og á Látrabjargi, og tel eg hér nokkur örnefni, eftir því sem kunnugustu menn sögðu mér. Upp af Hornkletti er Núpur, svo Yzti-dalur, svo Miðfell, þá Miðdalur, Kálfatindur og Innsti-dalur, í Innstadal Eilífstindur og Harðviðrisgjá; svo Skófnaberg, sem nær að Almenningaskarði eða Sigmundarhjalla; þá Stórabrekka og neðar Litlabrekka, en Sleppir innst við Látravík. Í rönd Kálfatinds að norðan er standur, sem heitir Jörundur, en að sunnan Gíslamiðarhögg. Undir Hornbjargi er dálítil möl og urð á stöku stað. Niður af Miðdal er Miðdalssandur, og fyrir austan þessa möl tangi, sem heitir Örfiður, svo Malarstrengur, þá Mellönd, svo Rani[3]) undir Kálfatindi og Hólmsbót undir

[1]) *O. Olavius*: Oeconomisk Reise, bls. 45.

[2]) Hinn 3. nóv. 1898 var aftaka norðanveður með miklum sjóargangi, svo sjór gekk 150 faðma á land upp á Hafnarsand, þar sem hann er lægstur (Þjóðviljinn XIII. bls. 74).

[3]) Í sóknarlýsingu Aðalvíkur 1847 er talað um rastir út af Látrabjargi, þar segir svo: „*Ørfiðursröst* er út af Ørfiðrinu og *Ranaröst* fyrir Rananum. Milli þeirra rasta er straumhver eða straumgigur á

Innstadal; er þar frálaus hólmi, sem hún dregur nafn af; svo Forvaðabót, sem liggur austur að skeri, sem heitir Forvoði eða Forvaði; Fjalabót undir Sigmundarhjalla; en þar fyrir utan eru klettastandar, gangbrikur, sem sjórinn hefir etið utan af, og heita þær Fjalir, af því þær eru flatar eins og hellur. Fyrir utan Látravík eru gangbrot í sjónum, sem heita Brýni. Fyrir suðaustan Látravík tekur við Axarbjarg; austan til við Bjarnarnes er Bæjarbjarg, svo Hólkabætur; Digranes er þar við sjóinn milli Hólkabóta og Drífandabjargs, en Drífandi heitir foss, sem fellur fram af bjarginu; þar fyrir sunnan kemur Smiðjuvíkurbjarg að Bunulæk, fyrir norðan bæinn í Smiðjuvík. Djúpavík er spölkorn fyrir innan Smiðjuvík, þá Hvannakrar, þá Barð, og Barðsvíkursker þar fram af. Þar fyrir innan er enginn fugl teljandi í björgum.

Í Hornbjargi er ótölulegur grúi af fugli; þar er almenningur og einskis eins manns eign; þangað sækja menn jafnvel alt sunnan úr Víkursveit og úr Grunnavík, en lítið úr Aðalvík og víkunum þar fyrir norðan, því þaðan sækja menn meira að Hælavíkurbjargi. Byrjað er að síga í 8. og 9. viku sumars, en hætt í 15. viku. Sjaldan er sigið meira en 70—80 faðma af brún, en ef neðar er farið, þá er sigið eða gengið af syllunum. Nú eru alstaðar hafðar kaðalfestar, en áður höfðu menn ólarfestar, fer- og fimmfaldar, úr nautshúð; neðst í festinni er festarauga; það er riðið sæti fyrir stigamanninn; er fótunum stungið gegnum riðin göt eða smokka, og axlabönd ganga upp um herðarnar í kross

djúpu róðrarleiði undan Hornbjargi og heitir *Kringla*. Í kringum hana, en einkum í henni, verður í sjógörðum ófær sjór, því þá slær saman báðum röstunum og haföldunni og Kringlu í eitt. Menn vita reyndar ekki af hvaða atvikum Kringla myndast, þó er ágetandi að breytileg lögun hafsbotnsins hjálpist að með afturkastinu, straumnum úr báðum röstunum, þar sem því slær saman. Annars er hún löguð einsog kúpan ofan á sogskál (tregt) og er djúp ofan í sjóinn, en á þvermál eftir ágizkun framt að 10 föðmum og snýst straumurinn þar í hringiðu. Kringla sjálf er ætíð ófær og það segja menn, að hún hafi sést soga ofan í sig fiskiduggu, enda stækkar hún og versnar mjög í görðum.“

framan og aftan. Fuglastangirnar eru 6—7 álna langar; er skíðisræma í stangarendanum, og tágar- eða hrosshárssnara. Þegar egg eru tekin, er sigamaður í pilsi, sem heitir »kvippa«; það er gyrt uppi undir höndum, faldurinn síðan brotinn upp og bundinn um mittið, en op verður að framan; þar eru eggin látin inn; í eina kvippu komast alt að því 200 egg; 9—10 álna langar stangir hafa sumir, sem fara með brún og snara fugl. Steinhrun er oft fjarska mikið í bjarginu, og furða, að ekki verður oftar slys að, en fjöldi fugla fær bana af grjótkastinu úr hömrunum, og fæst stundum nærri eins mikið af dauðum fugli neðan við bjargið, þar sem malarræmur eru eða urð, eins og menn geta náð frá vaðnum á hyllunum. Stundum er gengið að neðan í bjargið. Sumstaðar er mjög langt loftsig; í Dyraskörðum, milli Jörundar- og Kálfatinda, er oft sigið 50 faðma loftsig, og líkt í Hrómundarkvöpp undir Miðdal. Í Látrabjargi er sigið um nætur, sem fyr var sagt, en Hornbjarg snýr undan sólu; þar er því sigið frá morgni til náttmála. Mest er hér í Hornbjargi af svartfugli, langvíu, nefskeru og hringvíu; auk þess er mikið af álku, ritu og lunda, og nokkuð af fýlungum, svartbak og máfum. Í Smiðjuvíkurbjargi og Drífandabjargi er mest af fýlunga. Kofa er mjög lítið tekin og eins rituungar. Svartfugl og lundi eru farnir í 18. viku sumars. Það hefir stundum borið við, að svartfugl hafir drepist hrönnum saman, án þess menn með neinni vissu hafi vitað orsök til þess. Ár 1337 segir Espólín, að dáið hafi svo mikill fugl, að fuglabjörg á Vestfjörðum gjöreyddust, og 1797 rak mikið af dauðum svartfugli um Norðurland alt.[1]) Það ber og við í hörðum vetrum, að bjargfuglar villast frá sjó og drepast á landi hrönnum saman; veturinn 1880—81 flæktust stórhópar af haftirðlum (mergulus alle) upp um sveitir og fjöll á norður- og norðaustur-landinu, og lágu þar helfreðnir í sköflunum.

Hælavíkurbjarg nær frá Hælavík að Hvannadal; það

[1]) Esp. Árb. I. bls. 73; XI., bls. 85; sbr. Ísl. ann. 1847, bls. 222, og Flateyjarannáll. bls. 555; þar er fugladauðinn settur árið 1327.

er víst nærri eins hátt og Hornbjarg. Klettur fyrir utan bjargið heitir Hæll. Bjargið er þverhnýpt niður í sjó, en bergbríkur sumstaðar fyrir utan bjargið í sjónum.[1]) Þangað sækja Aðalvíkingar og menn úr Hælavík, Kjaransvík, Hlöðuvík og öðrum víkum fyrir vestan Horn. Í Hælavíkurbjargi, þeim megin, sem snýr að Hafnarbás, heitir á einum stað Heiðnabjarg, og var þar fyrst sigið fyrir rúmum 30 árum; þar voru þá ókjör af fugli, og var hann svo spakur, að það mátti ná honum með lítilli stöng, og gjöreyða hyllurnar. Básinn þar upp af heitir Festarskörð, og er þaðan fertugt sig í stóra hyllu, sem gengur út eftir bjargi, og er svo aftur sigið úr henni. Þangað síga 6—8 í einu, og hafa þeir stundum fengið 12 þúsund fugla í einni ferð; fuglinum er kastað niður, og eru hafðir bátar fyrir neðan til að taka á móti. Í þessu bergi segir sagan, að Guðmundur góði hafi vígt festarþáttinn;[2]) þá kom grá loppa út úr berginu, og brá skálm á vaðinn, og var sagt um leið: »Dugðu nú, Gvendar-þáttur«, og þátturinn dugði og bjargaði sigamanninum. Hælavíkurbjarg er miklu meira notað en á öldinni sem leið. Jarðabók Árna Magnússonar (1710) segir um Hælavík: »Þarf þar að síga í vað, og er ábúandi sjaldan svo efnaður, að hann geti upp á vaðinn kostað, sem vera þarf undir 100 faðma langur, eða svo fólkmargur, að hann geti sigið, þó vaðurinn væri til«. Horn hafði þá legið í eyði síðan um bóluna, og segir í jarðabókinni um Hornbjarg: »eggver og fuglaveiði í Hornbjargi merkilega

[1]) Í lýsingu Aðalvíkursóknar 1847 er getið um Súlnastapa „austan við Hælavíkurbjarg skamt frá landi, beinn upp og niður, lang-feretrendur, nær sextugur ummáls, 15 faðma hár fyrir ofan sjó og jafnhár niðri í sjó. »Árið 1727 strandaði Höfðaskipið 22. oktobr. á skeri því er Fjalir heita, við Hælavíkurbjarg á Hornströndum, í áhlaupaveðri. Kaupmaðurinn hét Grönbech, en skipherrann Sören Sörenssön. Komust þá nokkrir í land, dóu þó allir; tveir bræður lögðu uppá fjall, dó annar þar, en hinn að nafni Castian, komst af til bæja, kalinn á fótum, svo hann lá allan veturinn, og gat ekki gengið síðan, kom til Hafnar árið eftir. Þar misti eg nokkrar gagnlegar bækur og annað meira« segir Jón Ólafsson frá Grunnavík Add. 25 4°.

[2]) Sbr. Biskupasögur II, bls. 111.

góð, en stórlega erfið, því síga þarf fertugt og sextugt bjarg, og hefir ábúandi sjaldan verið svo liðaður, að hann hafi getað nýtt þetta að fullu.«

Eg hafði ætlað mér að fara frá Horni suður Hafnarfjall og í Jökulfirði, en það var eigi hægt; Hafnarfjall var talið alveg ófært af snjó. Illviðri voru á hverjum degi, rigning og kafald á víxl, og sagðist Stígur á Horni eigi muna annað eins sumar þau 30 ár, sem hann hefði verið þar. Við vorum auk þess orðnir mjög þjakaðir af ferðalaginu, þreyttir af að ganga og vaða snjóinn, og vesalir af óhentugu viðurværi og aðbúnaði; höfðum mjög sjaldan verið í þurrum sokkum og nærfötum tvær seinustu vikurnar, og, eins og eðlilegt var, voru hestarnir í mjög lélegu standi. Það var því eigi um annað að gera, en hið fljótasta að halda á stað og klöngrast sömu leiðina til baka; ófærðin var víðast hvar orðin mikil á fjöllum, og búast mátti við, að hausthretin færu að dynja yfir, og eigi tilvinnandi að snjóa inni á þessum útkjálka. Hinn 28. ágúst snerum við aftur sömu leið. Það var kuldi, eins og vant var, snjóýringur og þoka; snjórinn freðinn á fjöllunum og broti, og alstaðar mjög erfitt yfirferðar; þó komumst við slysalaust í Bolungarvík um kvöldið, og fylgdi Jón Guðmundsson í Bjarnarnesi okkur alla leið. Næsta dag var bálviðri og stórrigning og alveg ófært veður, ekki hundi út sigandi, svo við urðum að halda kyrru fyrir í Bolungarvík. Morguninn 30. ágúst var veðurhæðin minni, en samt rigning og þoka allan daginn, en samt komumst við alla leið í Reykjarfjörð við Geirólfsgnúp, og ætluðum við þó sumstaðar ekki að geta komist áfram á fjöllunum fyrir ófærð. 31. ágúst fórum við að Dröngum, og 1. september að Ófeigsfirði, og var alt af sama illviðrið og rigningin, nema hvað stytti upp seinni hluta dagsins, er við fórum í Ófeigsfjörð. Um kvöldið tjölduðum við til þess að reyna að þurka tjald, föt og farangur, en þerririnn var skammvinnur og varð að litlu liði. Alt var farið að skemmast hjá okkur. Eg hafði meðal annars safnað töluverðu af jurtum á

Hornströndum, en nærri alt plöntusafn mitt myglaði, drafnaði sundur og ónýttist með öllu.

Nóttina fyrir hinn 2. september var rokhvasst, en þó þurt að mestu, en um morguninn fór að rigna. Þann dag fór eg úr Ófeigsfirði í Reykjarfjörð beina leið yfir Ófeigsfjarðarfjall, og hreptum við versta veður á fjallinu, enda gekk rok og stórrigning þann dag yfir alt land; skriður féllu víða á Suðurlandi og gerðu stórskaða; lækir og ár féllu úr farvegum sínum og flæddu yfir engjar og tún. Frá Ófeigsfirði riðum við upp Húsárdal; það er langur dalur og fell og klappir á báða vegu. Innarlega í dalnum riðum við upp á fjallið að austanverðu, og kemur maður þá brátt fyrir botninn á Ingólfsfirði; þar nálægt brúnunum er allstórt vatn, sem heitir Mjóavatn. Alt af hækkar fjallið, og verða fleiri og fleiri skaflar, og hvassviðrið óx, svo ilt var að komast áfram. Þegar kom upp undir brúnina á allra hæsta fjallshryggnum. áður maður kemur ofan í Reykjarfjarðardalinn, var orðið slíkt bálviðri. að varla var hægt að koma hestunum áfram, þótt allri harðneskju væri beitt og sumum þeirra sló flötum, skarann reif svo á móti okkur, að það var verra en hin mesta haglhríð; þetta var eitt hið hvassasta veður, sem eg hefi verið úti í, og það var mikil lausn, þegar við sluppum niður fyrir brúnina að sunnanverðu. Ófeigsfjarðarfjall er 1578 fet á hæð. Síðan riðum við niður dalbæturnar, og var þar alt mjög vetrarlegt. Það var mjög einkennilegt að sjá fossana á fjallsbrúnunum; þeir stóðu eins og hverareykir í háa loft af storminum, en bergið var þurt fyrir neðan. Upp af Reykjarfirði er nokkuð undirlendi grasgefið og allgóðar slægjur; þar eru líparítklettar hér og hvar. — Um kvöldið komumst við í kaupstaðinn, og hvíldum okkur þar hálfan annan dag.

---

Sökum þess, að svo lítið hefir verið skrifað um Hornstrandir á íslenzka tungu, þá ætla eg hér að bæta við dálitlum almennum athugasemdum um Hornstrandir og lifnað-

arháttu íbúanna, eins og þeir eru nú; það gæti ef til vill einhver haft gaman af að bera það saman við aðra hluta landsins.

Eins og sjá má af ferðasögunni hér að framan, kalla eg Hornstrandir strandlengjuna frá Trékyllisvík norður á Horn, og af henni má líka sjá, hvernig landslagið er; fjöllin eru alstaðar þverhnýpt fram í sjó; skiftast þar á fjöll og firðir, höfðar og núpar; undirlendið er svo að segja ekkert, dálitlir dalbotnar upp af fjörðunum, og sumstaðar standa bæirnir í skeifumynduðum hvilftum eða skvompum, sem eru holaðar niður í bjargbrúnirnar. Vegir eru ákaflega vondir, og langt á milli bæja. Víðast er mjög gróðurlítið, einkum sunnan til á Hornströndum; aftur eru dalbotnarnir miklu grasgefnari fyrir norðan Geirólfsgnúp. Það er oft komið fram á mitt sumar, þegar snjó leysir af túnum; en undir eins og snjó tekur af, þýtur grasið skrúðgrænt undan skaflaröndunum. Undir eins og kemur upp á fjallabrúnirnar, verða fyrir manni alveg gróðurlaus öræfi, klappir og urðarhjallar, og hvergi sést stingandi strá. Heiðarnar upp af dölunum upp að jökli eru mestan hluta ársins snævi þaktar, skafl við skafl, melar og aur, og hér og hvar vötn og krapapollar. Sumstaðar ná skriðjökulstangarnir, eins og fyr hefir verið sagt, nærri niður að sjó. Loftslag er alstaðar á Ströndum mjög votviðrasamt, sífeldir þokuúðar og óþerrar, og þó gekk þetta sumar fram úr öllu, sem menn mundu. Heyin skemmast stórkostlega af þessum óþurkum, fúna og brenna til ösku. Mislingasumarið 1882 fengust á Dröngum, einni af stærstu jörðunum á Ströndum, að eins 4 sátur af útheyi. Þegar eg fór suður eftir Ströndum í byrjun septembermánaðar 1886, var þar ekki búið að hirða eina tuggu af heyi á neinum bæ, og í sumum víkunum norður frá var sólargangurinn nærri búinn, það er að segja: fjöllin eru svo há og aðkröpp, að sólina sér eigi, þegar hún er komin svo lágt á loft. Þó að engjar og graslendi séu einkar fögur, t. d. í Furufirði, Barðsvík og Bolungarvík, þá geta menn lítið sem ekkert notað sér þessi gæði vegna fúlviðranna, sem þar ganga árið um kring. Lofts-

lagið var þetta sumar einstaklega kalt og hráslagalegt; hitamælirinn sté sjaldan yfir 4° Celsius um hádegi; vanalega var hitinn um miðjan dag 2—3°, og kvöld og morgun 0—1°. Oftast lá kolsvört þoka yfir landinu, en samt var húðarigning í bygð og krapaslettingur, þegar dálítið dró upp í fjöllin. Þegar hafís kemur hér að landi, rekur hann vanalega fyrst að Hornströndum, og svo suður með ströndinni inn á Hrútafjörð; við Strandir liggur ísinn líka einna lengst; þegar nokkur hafís til muna kemur að landinu, þá liggur hann við Hornstrandir fram á mitt sumar; til þess að bræða ísinn gengur svo mikið af sólarhitanum, að ekkert verður eftir handa jurtagróðrinum, og þegar ísinn loksins fer, er sumarið nærri búið. Sökum veðurlagsins og annara ókosta eru atvinnuvegir manna mjög stopulir, og af því leiðir aftur fátækt og framtaksleysi. Búskapurinn allur er á völtum fótum, og jarðirnar liggja til skiftis í eyði: ef einhver bóndinn hættir að búa eða flytur sig burtu, fæst ekki ábúandi aftur svo áratugum skiftir; þó hefir þetta fyrrum verið tíðara en nú. Á Hornströndum voru nú fleiri jarðir bygðar í einu, en nokkurn tíma hefir áður verið á tveim hinum síðustu öldum, eftir því sem sjá má af jarðabókum og öðrum skjölum. Leigukúgildi eru mjög óvíða á jörðum á Ströndum, jarðir hafa þar svo oft verið í eyði, að ekki hefir verið hægt að hafa slíkt í lagi. Um Móðu-harðindin, á öldinni sem leið, er sagt, að aðeins 4 bæir hafi verið bygðir á Hornströndum. Það er og í munnmælum, að þá hafi þar að eins verið ein ær, svartkollótt. Í landnámstíð settust margir stórhöfðingjar og ríkir menn að á Hornströndum, t. d. Skjalda-Björn, Þorvaldur faðir Eiríks rauða, Önundur tréfótur o. fl. Geirmundur heljarskinn hafði og, sem kunnugt er, mörg af búum sínum á Hornströndum. Í þá daga hefir það eigi verið svo óálitlegt, að setjast að á þessum útkjálka, því hlunnindin hafa verið stórkostleg, bæði af trjáreka, hvalreknm, selveiði og öðrum veiðiskap, og hefir þetta alt í þá daga verið svo margfalt meira en nú á seinni öldum. Í Barðarstrandarsýslu, og víða annarstaðar á Vestfjörðum, eru miklir skógar í dalabotnunum, en

á Ströndum sést hvergi hrísla, enda hafa þar líklega aldrei verið skógar, síðan land bygðist; votviðrin, hafviðrin og kuldinn hefir staðið öllum trjávexti fyrir þrifum.

Það hefir lengi verið til þess tekið, hve feitt féð væri á Hornströndum, og mjólkin kostagóð; því kveður Eggert í Skjaldmeyjarkvæði:

Á Ströndum eru fén svo feit,
að fæstir síður eta
þeir, sem eru' úr annari sveit,
en innlendir það geta;
mjólkin, þó að hún sé heit,
hnígur tíautt um bólið þéls;
góður þykir grautur méls;
skeifan flaut um ijómareit;
mig rankar til þess löngum,
ef mér skemtir skjaldmeyjan á Dröngum.

Fé er víðast fátt á Ströndum, en það gerir gott gagn, sem er; áður voru víða sauðir, en nú eru þeir fáir, af þeim harðindum, sem ganga. Það kemur ei sjaldan fyrir, að 3-vetrir sauðir skerast með 2 fjórðungum mörs og 8—9 fjórðunga falli; veturgamalt skerst oft með fjórðungi mörs eða meiru. Þegar bezt viðrar, stendur fé inni í 18 vikur, vanalega rúmar 20 vikur; nú hin seinustu harðindaár sjaldan minna en 27 vikur. Í meðalári fæst oft fjórðungur smjörs undan ánni; meðaltal töldu Hornstrendingar 15—20 merkur. Lömb eru víðast færð frá eftir gömlu lagi um Jónsmessu, en reyndir bændur töldu það ekkert vit, að færa frá fyr en í 12. viku sumars. Á seinni árum eru sumir farnir að gefa fé og kúm þorskhausa, skötu og hákarl, og telja menn skötu og hákarl ágætan til mjólkur. Kýr gera fremur gott gagn, en þær verða að standa inni 40 vikur eða meira, og oft verður að taka þær inn á sumrin, þegar eitthvað hretið dynur yfir. Ær eru fáar á hverjum stað; á einum bæ sá eg 5 stúlkur vera að mjólka 13 ær, en þar var líka margbýli. Hestar eru mjög fáir á Hornströndum, og er það ekki undarlegt, því vegirnir eru svo vondir, að menn fara mestalt gangandi eða á sjó; víðast hvar eru þó einn eða

tveir hestar á bæ, til þess að reiða heyið heim af engjunum. Það er auðvitað, að skepnunum leiðist einveran, og að þeim þykir skemtilegt að sjá jafningja sína; því þegar 6 hestar og stundum 7 komu á bæina í för minni, þá létu heimahestarnir mjög vinalega, og eltu mína hesta á röndum, og var oft ilt að koma þeim burtu. Lítið er hér um hnakka og önnur reiðtygi, og á öllum Ströndum fyrir norðan Dranga eru ekki til nema tveir kvennsöðlar.

Eg hefi hér að framan nokkuð lýst atvinnuvegum og hlunnindum á Hornströndum, og ætla því að eins að nefna það hér. Fiskiveiðar eru helzt stundaðar á Gjögri og í Trékyllisvík; þangað sækja menn frá Suður-Ströndum, en að Horni af Norður-Ströndum. Hákarlaveiðar hafa verið mikið stundaðar á Ströndum; þar veiðist og töluvert af skötu og lúðum. Lúðumagar útblásnir eru sumstaðar brúkaðir til að geyma í fiður og fjallagrös. Ekki er mönnum hér um slóðir vel við Ameríkumenn þá, sem á seinni árum voru farnir að leita til Vesturlandsins til lúðuveiða, enda var mesti óþjóðalýður á flestum skipunum. Um bjargfuglinn og trjárekann hefir áður verið talað. Hvalrekar voru þar mjög tíðir til forna og hin mestu hlunnindi fyrir íbúana og rekaeigendur, nú eru þeir sjaldgæfir, þó stöku sinnum geti mikil höpp komið. Þess er getið sumarið 1800, »að þá léku hvalir og aðrir stórfiskar sér um firði og fiskileitir við Strandasýslu, svo fáir þorðu um hvítasunnu þverfirðis fyrir stórfiskum.« Þá ráku um haustið í Strandasýslu 18 stórir hvalir og auk þess 30 smáhvalir beggja megin Hrútafjarðar.[1]) Sumstaðar á Suður-Ströndum eru allmikil hlunnindi af æðarvarpi og selveiði, t. d. á Dröngum, í Drangavík og Ófeigsfirði. Garðrækt er alls engin á Hornströndum, enda geta víst hvorki kartöplur né rófur þróast þar vegna loftslagsins. Víða er töluverð grasatekja, en skarfakál er miklu minna notað en skyldi; þó er skyrbjúgur miklu minni en á fyrri öldum, og kemur það líklega af því, að mjölmatur er miklu meir brúkaður en áður. Af kvæði Eggerts sést,

[1]) Minnisverð tíðindi II, bls. 419.

að mjölgrautur hefir þá verið álitinn sjaldgæft sælgæti. Hafnir eru óvíða góðar, nema á Hafnarbás; lausakaupmenn hafa þó stundum komið á Norðurfjörð.

Samgöngurnar geta varla verið verri en þær eru á Hornströndum, og eru mestu undur, að nokkur maður skuli geta unað við slíkt; en svo má illu venjast, að gott þyki. Þar kemur aldrei póstur, og frá því í Ófeigsfirði og norður á Horn var hvergi fréttablað á neinum bæ, nema í Bjarnarnesi undir Hornbjargi. Á sumrum eru flestar ferðir farnar sjóveg; fjallvegirnir eru varla færir nema gangandi mönnum og lausum hestum; á vetrum verður hver að kúra í sínu hreysi, án þess að vita nokkuð um það, sem annarstaðar gerist. Skíði eru lítið notuð, enda er það örðugt vegna landslagsins; en víða hafa menn »þrúgur«, þegar þeir ganga í ófærð á vetrum. Þrúgurnar eru svo gerðar, að ólum eða snærum er riðið innan í allstóran sviga, og er þvengi brugðið upp um tána og hælinn; ilt mun vera að ganga á þessu fyrir óvana, því menn verða að ganga gleiðir og sletta til fótunum, svo hver þrúgan komi ekki í bága við aðra. Rauðu mennirnir norðan til í Ameríku brúka þrúgur á vetrum, alveg eins og Hornstrendingar. Verzlunarferðir eru langar og örðugar fyrir Hornstrendinga, sem von er; sunnan til á Ströndum verða þeir að fara langa sjóleið, annaðhvort á Reykjarfjörð eða Skagaströnd; en norðan til hafa þeir orðið að leita til Ísafjarðar[1]); urðu þeir þá að fara landveg í Jökulfirði, annaðhvort yfir Skorarheiði eða Hafnarfjall, og svo sjóveg þaðan yfir Djúpið. Fyrir hér um bi 25—30 árum fór Stígur Stígsson á Horni að fara sjóveg alla leið, og ýmsir fleiri úr nágrenninu; þó þetta væri hægra til flutninga, þá er það mesta hættuför, að fara á opnum bátum kringum kjálkann, er vestur gengur, úti á reginhafi; þurfti til þess stóra báta, marga menn og duglega, og eigi hægt að fara nema í beztu sumartíð, og gátu menn þó orðið veðurteptir vikum saman. Fyrst 1882 gátu fengist samtök til þess, að menn lögðu drög fyrir skip til lausakaupa frá Ísafirði á Hornvík.

[1]) Nú líka á Hesteyri.

Bygðin á Hornströndum telst undir 3 kirkjusóknir; Arnessókn nær norður að Geirólfsgnúpi, þá tekur við Grunnavíkursókn að Hornbjargi, en bæirnir þar fyrir norðan og vestan eru í Aðalvíkursókn. Því má geta nærri, að það er enginn hægðarleikur, að sækja kirkjur á þessum útkjálka, þar sem jafnlangt er á milli bæja og vegir ákaflega torsóttir; og þó það sé nú ekki eins ilt og munnmælin segja, »að börnin á Hornströndum verði að fara sjálf gangandi til kirkju til þess að láta skírast«, þá er prestsþjónusta öll mjög örðug, bæði fyrir bændur og presta. Það er ekki þægilegt fyrir prestana að fara um sóknir sínar; þeir verða víðast hvar að fara gangandi, og eru margar hættur og torfærur á leiðinni. Víðast geta menn ekki farið til kirkju nema einu sinni á ári í blíðasta sumarveðri, og eru þó sumstaðar 4—5 daga á kirkjuferðinni, og jafnvel lengur, ef illa viðrar. Erfiðast af öllu er að koma líkum til kirkju, og á vetrum er það oft alveg ómögulegt, svo menn verða að láta líkin liggja í snjó, þangað til veðrið og færðin verður betri. Í fyrra vetur dó maður í Bjarnarnesi, og var færður að Stað í Grunnavík; en ferðin gekk æði skrykkjótt. Fyrst varð að fara um sveitina til að fá líkmenn, en það er nú svo sem ekki hlaupið að því í jafn-strjálbygðu héraði. Þegar líkmennirnir voru komnir að Bjarnarnesi, urðu þeir veðurteptir í viku, en svo var haldið á stað með kistuna á sleða. Ætluðu þeir að draga hana á sleða yfir fjöllin, sem eru 2000 feta há, niður í botninn á Lónafirði. Á fjallinu gerði á þá öskrandi byl, og var eigi hægt að komast áfram fyrir ófærð og illviðri. Skildu þeir þá kistuna eftir á fjallinu og komust við illan leik heim aftur. Á fjallinu lá kistan í 3 vikur. Þá dó annar maður, í Smiðjuvík. Var nú efnt til nýrrar ferðar, og fengnir 6 röskustu mennirnir í sveitinni til fararinnar. Komust þeir upp á fjallið, og fundu eftir nokkra leit kistuna í fönninni, og klöngruðust stórslysa-lítið með báðar kisturnar niður í botninn á Lónafirði; það er einn af Jökulfjörðum. Ís lá á firðinum, og gekk greitt að draga sleðana út eftir; en þá þraut ísinn, og var autt fyrir framan; urðu menn þá á nýjan leik að skilja eftir kisturnar

á ísnum; fóru þeir síðan norður að Kvíum, fengu þar bát og fluttu kisturnar fyrir framan mynnið á Hrafnsfirði og Leirufirði, og komust þær svo loks eftir langa mæðu á kirkjustaðinn. Ekki vóru menn of heimtufrekir fyrir vinnu sína, og þó kostaði flutningurinn á líkinu frá Bjarnarnesi að Stað 142 krónur. Til samanburðar set eg hér, að annað lík var flutt um há-sumar frá Bjarnarnesi í Grunnavík, og kostaði flutningurinn 60 kr. Var þá farið með kistuna sjóveg út fyrir Hornbjarg og svo inn að Höfn, þaðan landveg yfir Hafnarfjall í Veiðileysu, og út að Steig; það er bær austanvert við fjörðinn; og síðan var farið sjóveg yfir Jökulfirðina að Stað. Það var mesta nauðsyn á því, að gerð væri kirkja eða bænahús á Hornströndum; það kom til orða, að gera bænahús í Furufirði, en það komst ekki upp fyrr enn 1899. Furufjörður liggur vel við fyrir alla þá, er búa norðarlega á Hornströndum, og þangað er hægt að komast fyrir prestinn; enginn fjallvegur á milli nema Skorarheiði, og er það lægsti og greiðfærasti heiðarvegur á Hornströndum. Eins og fyr hefir verið getið um, hafa bænahús verið hér og þar á Hornströndum á fyrri öldum; en þau hafa öll lagst niður fyrir 1700. Á 18. öldinni hafa menn eins og nú fundið til þess, hve örðugt er að flytja lík til kirkju; sést það meðal annars á konungsbréfi 21. maí 1706 til Ulrich Chr. Gyldenlöve. Jón biskup Vídalín hefir sótt um að gera mætti kirkjugarða á hentugum stöðum á Hornströndum, af því prestarnir í Grunnavík og Aðalvík hafa kvartað undan því, að ómögulegt væri á vetrum, að flytja lík til kirkju. Biður konungur Gyldenlöve að segja álit sitt um þetta[1]). Hvaða árangur þetta hefir haft, er mér ókunnugt; en líklega hefir grafreiturinn í Höfn þá verið gerður.

Læknisleysið hefir líka verið mikið mein og hafa menn oft orðið að nota ýmsar hrossalækningar við sjúka. Bóndi einn sagði mér frá því, að kona hans fékk ígerð í hálsinn og ætlaði að kafna, hann sá þá ekki önnur ráð en hella

[1]) *Magnús Ketilsson*: Forordninger og aabne Breve. III., bls. 424.—425.

ofan í hana pela af steinolíu, sem hér er brúkuð við mörgum meinum, það hreif, ígerðin sprakk. Sumir komu til mín og spurðu mig ráða, og nokkrum gat eg hjálpað um meðul.

Mannfundir eru fágætir á Hornströndum; þó eru brúðkaupsveizlur allfjölmennar Er þá veitt sem bezt eru föng til, og stendur veizlan stundum í 2—3 daga. Eins og alkunnugt er, þá er hér á landi alstaðar siður, að veizlan byrjar undir eins og brúðhjónin eru komin úr kirkjunni, sama daginn; en af því svo hagar til um kirkjuvegina hér á Ströndum, sem fyr er sagt, þá leiðir af því, að brúðhjónin eru stundum búin að vera gift nokkra daga—á ferðinni yfir fjöll og klungur—áður en þau eru komin heim til sín, eða þangað, sem veizlan er haldin. Brúðkaupið stendur þá stundum yfir í viku, með öllu ferðalagi brúðhjóna og boðsmanna. Nákunnugur bóndi á Hornströndum lýsti fyrir mér veizlu á þessa leið: um morguninn fyrsta veizludaginn fá boðsmenn kaffi, lummur og brennivín; nokkru seinna er morgunverður borinn á borð, »smurt« brauð og brennivín; þá er sunginn borðsálmur. Önnur máltíð um miðjan dag er steik, kaffi og lummur; þriðja máltíð, undir kvöld, rúsínugrautur eða vínsúpa, og síðan er sezt að drykkju og sungið og kveðið sér til skemtunar. Veizlan sjálf stendur oftast hjá efnaðri bændum tvo daga, og fer fram seinni daginn sem hinn fyrri. Borðgestirnir borga fyrir sig, þegar þeir fara, 2—10 krónur, eptir efnum og ástæðum.

Því hefir verið lýst hér að framan, hvernig bæir eru bygðir á Ströndum: úr rekadrumbum og mold á víxl; er furða, að menn skuli ekki hafa fundið upp að gera sér betri hýbýli, þegar efnið var svo gott rétt við hendina; en samgönguleysið hefir hindrað allar framfarir. Mjög óvíða á Ströndum eru stéttir við bæina, og af því leiðir í hinum sífeldu votviðrum, að þar verður óþrifalegt kringum bæjarhúsin, og rof og torf vex upp með veggjunum Víðast hvar er portbygging, eins og annarstaðar á landinu. Flestir hlutir innan húss eru með gamla laginu; en mjög víða á landinu hefir húsbúnaður allur, áhöld o fl tekið miklum

breytingum á seinustu tíu árum; en hér er svo afskekt, að breytingarnar koma ekki fyrri en löngu seinna. Steinolíu eru menn þó alstaðar farnir að nota nokkuð til ljósmatar, en gömlu lýsislamparnir eru þó víðast hvar notaðir líka. Matarhæfi er líkt því, sem annarstaðar, nema hvað mjölmatur er ótíðari, af því svo örðugt er að ná til kaupstaða. Norðan til á Ströndum lifa menn mestmegnis á bjargfugli og eggjum. Fiskmeti er þar mikið etið þó einkum hákarl og skata. Bræðing hafa menn víða til viðmetis; er mörinn hnoðaður á haustin, bræddur, og svo látið saman við ¹/₃—¹/₄ af sellýsi eða skötulýsi. Sumstaðar hafa menn hvannir til matar; leggirnir eru skornir og soðnir 2 - 3 stundir, og síðan látnir í súr. Fjallagrös eru notuð söxuð með mjöli í graut og mjólk. Kjöt er mest hengt upp í eldhús, en lítið er saltað. Vanalegt vinnumanns-kaup er 40 krónur (mest 50 kr.) og tvær spjarir, stundum ívilnun með kindafóður; kvennmannskaup 8—10 krónur, og 7—8 álnir vaðmáls. Kvennfólk brúkar víða sköturoð í skó; hákarlsskrápur er líka notaður. Gamli karlmannabúningurinn, stuttbuxurnar, úlpan (stutthempan) og skotthúfan hefir víst haldist lengur á Ströndum en annarstaðar; fyrir fáum árum dó karl í Skjaldabjarnarvík, sem alt af var í stuttbuxum.

Það er oft til þess tekið, að málið sé einkennilegt á Hornströndum, og að þar heyrist bæði orðskrípi og hjákátlegir talshættir. Eg varð þess ekki var, að málið væri í neinu verulegu frábrugðið vanalegri íslenzku; eg heyrði þar að eins fáein orð, sem eg ekki hafði heyrt áður; eg hefi heyrt miklu fleiri einkennileg orð í ýmsum öðrum afskektum héruðum. - Bókleg mentun er ekki mikil á Hornströndum, enda verður varla við því búist þar sem hvorki eru samgöngur manna á milli né póstferðir; þó kann alt yngra fólk að lesa, og flest að skrifa; en til er gamalt fólk ólesandi, þó ekki sé það margt. Af bókum er varla nokkuð til, nema guðsorðabækur, og rímur sumstaðar. Menn vita sáralítið um það, sem gerist í heiminum, og ekki varð eg var við pólitiskt líf, eða hugsanir í þá átt. Í skammdeginu skemta menn sér með því að kveða rímur; rímurnar eru þar enn þá í svo miklum metum, að börnin eru látin heita rímna-

nöfnum, t. d. Bæringur, Reimar, Falur og Angantýr. Sumstaðar eru og lesnar sögur. Skemtanir eða samkomur geta menn ekki haft, þar sem jafn-strjálbygt er. Glímur voru fyrrum töluvert tíðkaðar á Gjögri, einkum meðan Torfi alþingismaður var þar formaður. Af lýsingu Eggerts Ólafssonar má sjá, að töluverðar framfarir hafa orðið á Hornströndum, síðan hann fór þar um; fólk er orðið miklu mentaðra og mannalegra, þó enn sé mörgu ábótavant. Þegar Eggert fór um Strandir, var þar alt fult af hjátrú og hindurvitnum, og sést það víða á ferðabók hans; nú er slíkt að mestu leyti um garð gengið. Þegar brennuöld var á Íslandi, á 17. öld, þá voru Vestfirðingar álitnir mestir galdramenn, enda voru þar flestir brendir; það eimir eftir af því í sumum héruðum, að menn halda, að enn séu til fjölkyngismenn á afskektum stöðum á Vestfjörðum, t. d. í Arnarfirði og á Hornströndum; þó eru þeir víst eflaust fáir, ef þeir annars eru nokkrir, sem trúa slíku, og hafa undir hendi gamla galdrastafi og aðra markleysu. Eins og alkunnugt er, var til alls konar hjátrú og galdratrú í fornöld; en aldrei kvað þó eins mikið að slíku eins og á 17. öldinni; alþýða var þá hætt að tilbiðja helga menn og önnur katólsk skrípi, og tók þá báðum höndum við drauga- og galdratrúnni. Lærðustu menn voru engu skynsamari en alþýðan, enda var það ekki óeðlilegt, því reynslu-vísindin voru ekkert stunduð; öll þekking á náttúrunni var í reyk og þoku, svo lærðir menn hér á landi voru litlu eða engu fróðari en óbreyttir leikmenn. Þeir, sem fóru að fara með kukl og særingar, trúðu því sjálfir og meðgengu hiklaust alls konar vitleysu, sem menn báru upp á þá. Það er mjög algengt á 17. öld, að menn héldu, að móðursýki (hysteri) og önnur amasemi í kvennfólki væru gjörningar, af því menn höfðu enga hugmynd um eðli sjúkdómsins. Sýki þessi er mjög algeng á Íslandi, og sýnist hafa verið mjög tíð á Ströndum á 17. öld. Eitthvað þessu líkt hefir það verið, sem gerðist í Trékyllisvík 1654, og segir Espólín svo frá því: »Þá var margræddast á Vestfjörðum um þau ærsli, er á konum voru i Trékyllisvík á Ströndum; þóttist prestr eigi framið geta messu fyrir

hljóðum þeirra, mási og froðufalli, oc voru bornar oft úr kirkju margar í senn. Jón Magnússon oc Þorleifr Kortsson höfðu þar þá sýslu; þeir létu taka Pórð Guðbrandsson, er haldinn var hinn fjölkunnugasti maðr, oc valdr at þessu, oc tvo aðra, Egil Bjarnason oc Grím Jónsson, því menn þóttust þar mjög ásóttir af aptrgöngu, oc voru þessir þrír brendir hinn 20ta oc 25ta Septembris mánaðar; en þat þótti flestum skörungsskapur«[1]. Þó það ekki eiginlega komi við Hornströndum, get eg ekki á mér setið, að geta hér um annan viðburð, sem varð á Hólum 1598, af því það sýnir mætavel, hve hjátrúin var mögnuð, jafnvel hjá fremstu mönnum þjóðarinnar. Gvendur nokkur, sem kallaður var Loki, átti sökótt við Þorkel Gamlason ráðsmann á Hólum, og heitaðist við hann, dó nokkru seinna, og var grafinn í Goðdölum. Litlu síðar varð Sigríður dóttir Þorkels veik af undarlegum sjúkdómi, og steinn kastaðist í andlit á síra Arngrími Jónssyni, er hann reið niður traðirnar á Hólum, svo hann meiddist; þetta var alt kent Gvendi Loka. Síðan fóru Hólamenn upp að Goðdölum; grófu Guðmund upp, stungu af honum höfuðið; létu Sigríði ganga milli bols og höfuðs og brendu svo búkinn. Batnaði Sigríði síðan, »þó veikleg væri, varð ei gömul«. Björn á Skarðsá segir frá þessu, og bætir við: »Þessar tiltektir lögðu sumir óvinir Hólastaðarmanna þeim til lýta, líkasvo Herra Guðbrandi, samt Þorkeli sjálfum, sem gamall veraldarinnar háttur er«[2]. Frásagnir um þenna atburð hafa eflaust borist til Danmerkur, því 25. febrúar 1609 gefur konungur út tilskipun til Íslendinga; segist konungur hafa frétt, að Íslendingar sumir leggi það í vana sinn, að grafa upp dauða menn, skera af þeim höfuðið, og brenna síðan, og bannar konungur þetta stranglega.[3]

---

[1]) Esp. Árb. VI., bls. 151.

[2]) Annálar Björns á Skarðsá, II., bls. 23.

[3]) Lovsamling for Island, I., bls. 171—72, og *Magnús Ketilsson*: Forordninger og aabne Breve, II., bls. 250. Magnús Ketilsson setur einkennilega athugasemd við þetta bréf. Þar segir meðal annars svo: »Dette eneste vil vi anmærke, at om det er altsammen Overtro, som

Trú á drauga og afturgöngur er að mestu horfin á Hornströndum, eins og annarstaðar á landinu, því það er ekki teljandi, þó einhver fáfróður fáráðlingur sé eigi með öllu laus við það; sjaldan hverfur slíkt með öllu; það snýst þá í aðra mynd; í staðinn fyrir trú á drauga er nú komin hér á landi trú á anda, skottulækningar, kynjalyf o. s. frv. Það sögðu mér sumir á Ströndum, að þar hefði áður verið mikill draugagangur og magnaðir galdramenn, en nú væri það alt horfið og galdramennirnir dauðir. Sögðu sumir sunnan til á Hornströndum, að nýlega hefði verið galdramaður í Aðalvík, er Finnur hét, og hann hefði dáið sömu nóttina og illviðrið mikla var á Eyjafirði og norsku skipin brotnuðu (11. sept. 1884). Hann hefir þá að líkindum átt flæðarmús. Þegar norðar dró, nær Finni, sögðu þeir, að hann hefði ekki kunnað neitt og að þetta væri orðasveimur einn og vitleysa. Helzt getur það verið, að einhverjar vofur vitji manna úr sjónum, einkum þó þegar hafþök eru af ísi. Einu sinni svváfum við í útihúsi við sjó, og spurði gömul kona um morguninn, hvort við hefðum orðið nokkurs varir um nóttina; en við kváðum nei við því og sagði hún þá: »Ó já! svo er nú það, en menn verða nú samt stundum varir við slæðing og ótukt úr sjónum hérna, einkanlega fyrir garða[1]«.

Það er víst óhætt að segja, að stríðið og stritið fyrir lífinu er hvergi örðugra en á Hornströndum, og það einkum í þessum vondu árum, sem þá gengu yfir landið; þó hafa Hornstrendingar hvorki fengið hallærislán né gjafakorn; lífið

---

man tilforne har troet om deslige Ting, og om de Plagedes Helbredelse ved at opbrænde de saakaldte Gjengangeres döde Legeme, saa kan Overtroen gjöre ligesaavel Vunderverk, som den sande apostoliske Tro; dette maa man nödes til at tilstaa, om man ikke vil nægte sine Sandser.« Þetta ritar Magnús Ketilsson 1778. Magnús Stephensen er aftur á móti laus við að trúa á slíkt; hann segir 1783: »Langt sé frá því, að eg tortryggi alla þá sannorða menn, sem séð hafa og orðið fyrir vofum. Þó neita eg því öldungis, að það sé púkar og árar úr víti, ellegar sálir eður líkamir framliðinna, hvað enginn skynsamur maður ætti að láta til sín heyra.« (Um meteora. Rit Lærdómslista-félagsins, III., bls. 165).

[1] Langvarandi hvassviðri af sömu átt heita á Vesturlandi »garðar«.

er: eintóm barátta og ekkert í aðra hönd. Suma heyrði eg tala um, að þá langaði til að flytja burtu, ekki til Ameríku, heldur í betri héruð hér á landi, en það er miklum örðugleikum bundið, því þeim getur ekki orðið neitt úr því litla sem þeir eiga, enginn vill kaupa og ekki er hægt að flytja reyturnar burt af þessum útkjálka. Allflestir voru þó nokkurn veginn ánægðir með lífið á Ströndum, nema hvað þeir óska betra veðurlags en þessi seinustu ár. Hornstrendingar eru duglegir og ósérhlífnir í því að bjarga sér, að svo miklu leyti sem þeir kunna og hægt er; verknaður allur og verklagni hér er, eins og reyndar alstaðar á landinu, á mjög lágu stigi. Hornstrandir og Suðurland eru eins og tveir heimar hvað landkosti og veðráttu snertir, og þó er ekki fjarska mikið á munum hvað dugnað snertir og menningu í sumum sveitum sunnanlands. Hornstrendingar eru nærri allir bláfátækir, en þeir gera ekki miklar kröfur til lífsins og lítið er þar um verzlun og verzlunarskuldir. Alstaðar var mér sýnd mesta gestrisni og greiðvikni og alt í té látið, sem frekast voru föng til.

---

Frá suðurferðinni segi eg hér eigi nema með fáum orðum, því héruð þau, sem við fórum um, eru mörgum kunn, og svo fórum við svo hart yfir landið, að enginn tími var til rannsókna. Um miðjan dag hinn 4. september héldum við á stað heimleiðis frá Reykjarfirði og fórum nú suður yfir Trékyllisheiði. Heiði þessi er all-löng og rúm 1500 fet á hæð. Ríður maður frá kaupstaðnum smáhallandi hálsa til suðvesturs upp undir Háafell; fell þetta er þverhnýpt og eins og saumhögg að ofan; það er 2482 fet á hæð; er riðið suðvestur með fellinu, og hækkar þá mest, er kemur að töglum þeim, sem ganga vestur úr fjallinu; sér þá að norðanverðu niður í daldrögin niður undir botn Reykjarfjarðar, en að sunnan niður í Goðdal; var þar alt þakið sköflum ofan til í dalnum; eftir Goðdal rennur á niður í Bjarnarfjörð Trékyllisheiði gengur til suðurs niður að Bólstað í Selárdal, en til norðurs má fara af henni fyrir ofan

Reykjarfjörð. Göngumannaskarð ofan í Árnesdal og Trékyllisvík. Heiðin er lægri sunnan við Goðdalinn og eru þar einlóm öldumynduð holt, eins og algengt er á heiðum: þar eru sunnan til á heiðinni vötn og smátjarnir. Riðum við síðan fyrir botn Steingrímsfjarðar og vorum í Kálfanesi um nóttina. Næsta dag riðum við út með Steingrímsfirði og kring um Kollafjörð, upp á Bitruháls og síðan niður Broddadal að Broddanesi. Hinn 6 september fórum við frá Broddanesi út fyrir Ennishöfða; þar eru stórkostleg klettaklungur og hrikaleg náttúra fremst á nesinu; fjallið er etið sundur af vatnsrennsli og stórar gangbríkur liggja víða fram í sjó; einn gangurinn nær alveg upp úr fjalli og stendur fram að neðan, en er þar skorinn í sundur í stóra odda og tinda, og heita þeir Broddar. Klif er suður af Broddunum, sem áður var varla gengt, á syllu, og urðu menn að halda sér í snæri; nú hefir þar verið lagður góður vegur og sprengt úr klettunum og eins inn með hlíðinni; þar var áður ófær urð. Þenna veg er nýfarið að nota; var áður farinn vondur vegur yfir hálsinn niður að Skriðnesenni. Innan til í hlíðinni er ganghlein, sem heitir Kýrhamar; lækjarbuna steypist fram af syðri hluta hamarsins og kom hún fram, er Gvendur góði vígði hamarinn; þá kom hönd og höfuð óvættarins út úr klettinum og sagði: »Hættu að vígja, herra; einhverstaðar verða vondir að vera«. Inn með Bitrunni eru víða menjar eftir hafningu landsins, malarkambar hátt yfir sjó og annað þvílíkt. Töluvert graslendi er fyrir Bitrubotninum, þar sem dalirnir koma saman; sunnan með Bitrunni ríður maður út með brattri hamrahlíð; önnur gatan er við sjóinn, hin fremur tæp upp í klettunum; fórum við síðan út fyrir Guðlangshöfða; þar er nýgerður vegur og klungur og hamrabríkur framan í höfðanum, líkt og í Ennishöfða. Um kvöldið komum við að Skálholtsvík. Þar eru stórir malarbakkar og aðrar menjar eftir hafningu landsins, og slíkar menjar sjást inn með öllum Hrútafirði alveg suður að Melum. Á Skálholtsvíkurdal hafa eigi alls fyrir löngu fundist hvalbein langa leið frá sjó, og víða inn með Hrútafirði hafa fundist rekadrumbar í börðum langt frá fjöruborði. Menn eru í

suðurhluta Strandasýslu langt komnir í búnaði að mörgu leyti, og óvíða sjást jafnmiklar jarðabætur; menn voru komnir á góðan framfaraveg áður en harðindin komu, en nú er ekki gott að vita, hvernig fer; en hvað sem á dynur, þá hefir manndáð og dugnaður altaf góðar afleiðingar, bæði fyrir þessa og komandi kynslóðir. Í suðurhluta Strandasýslu eru mjög víða stórir nátthagar og hafa menn með því kostnaðarlítið aukið stórum afrakstur jarðanna. Jón alþingismaður Bjarnason í Ólafsdal var hinn fyrsti, sem fór að byggja nátthaga, og þaðan hefir þessi þarfa jarðabót breiðst út um næstu héruð.

Hinn 7. sept. fórum við að Bæ í Hrútafirði og þaðan sem leið liggur vanalegan veg suður Holtavörðuheiði. Vorum við nokkra daga um kyrt í Borgarfirði, og komum 15. september í Reykjavík.

## 4. Ísafjarðarsýsla.

Eg fór frá Reykjavík 1887 sjóveg til Ísafjarðarsýslu í byrjun júlímánaðar, en Ögmundur Sigurðsson fylgdarmaður minn fór landveg með hestana vestur í Reykhólasveit, yfir Þorskafjarðarheiði í Ísafjarðarbotn, þaðan yfir Glámu í Arnarfjörð og svo á Ísafjörð. Frá Ísafirði fórum við fyrst um firðina þar fyrir sunnan og vestan, alt í Suðurfirði, síðan kringum Djúp og norður í Aðalvík; kannaði eg þannig á þessum tveimur sumrum alla Vestfirði, nema ytri hlutann af nesinu milli Arnarfjarðar og Tálknafjarðar og nokkra af Jökulfjörðum. Sá hluti af Vestfjörðum, sem eg fór um sumarið 1887, er að flestu leyti líkur því, sem eg kannaði 1886; fjallalögunin hin sama, firðirnir líkir og jarðlögin eins; með þessari ferð fékk eg fullkomið yfirlit yfir þenna stóra skaga, sem er eins og sérstök heild fyrir sig og að mörgu merkilegur í jarðfræðislegu tilliti, því hvergi fæst eins skýr hugmynd um bygging hinna eldri jarðlaga landsins.

Hinn 12. júlí vorum við ferðbúnir á Ísafirði og héldum á stað til Súgandafjarðar; riðum við inn með firðinum og

upp frá Tungu, síðan upp dal og yfir Botnsheiði. Bæði með firðinum og í dalnum eru ísmenjar hér og hvar; melhjallar og leirbörð ganga frá kaupstaðnum inn með firðinum og kringum hann allan; hér og hvar eru laus björg með ísrákum; á fjallsporðinum milli dalanna er mikið af alls konar lausu grjótrusli, hefir það ekist út dalina og orðið á milli skriðjöklanna, þar sem þeir mættust. Ísrákir sjást hér og hvar á klöppum við sjóinn, sumar aftur miklu hærra, t d. uppi á Botnsheiði, 1571 fet yfir sjó, þar er stefna þeirra beint frá vestri til austurs. Dalurinn upp að heiðinni er allgrösugur, smátt skógarkjarr, lyng og grasbrekkur upp undir brúnir, einkum þó þeim megin, er mót sólu veit; á rennur niður dalinn um blágrýtishjalla, og eru þar margir fossar og sumir rétt laglegir. Þegar kemur upp undir brúnirnar, er hin fegursta útsjón yfir Skutilsfjörðinn og tangann með öllum húsunum. Þegar kemur upp á Botnsheiði sjálfa, er ljótt og hrjóstrugt umhorfs; það er nærri alstaðar eins á háheiðum hér vestra, hvergi grastó, alstaðar urðir og klappir, holt og skaflar í hverri laut: efstu brúnirnar eru skornar sundur í eintóm slitur af sífeldu vatnsrennsli um þúsundir alda, milli giljanna standa eftir saumhöggsmyndaðar fjallseggjar, strýtur og nybbur, en alstaðar liggja blágrýtislögin lárétt og óhögguð þrátt fyrir allar misjöfnur; þau hafa ekki raskast hið minnsta, en vatnið hefir sagað skörð og gljúfur gegnum þau. Niður í Súgandafjörðinn verður maður að hitta mjótt skarð; er vegur þar fremur slitróttur og bratt að fara niður. Súgandafjörður er þvengmjór og brött fjöll á báða vegu; fjörður þessi er mjög líkur Mjóafirði eystra, en fjöllin eru þó ekki eins há. Í hlíðum Botnsdalsins er ákaflega grösugt móti sólu, sumstaðar dýjavermsl, sumstaðar djúpur jarðvegur fram með lækjum, og hafa lækirnir oft grafið sig djúpt niður og renna sumstaðar neðanjarðar: í skrúðgrænum grasbrekkunum eru hér og hvar stórar gulgrænar skellur, og hélt eg í fyrstu langt til að sjá, að þar væri skógarkjarr og gulvíðir í brekkunum, en þegar nær kom, var það eintómur skógur af burknum eða tóugrösum, og hafði eg aldrei áður séð

þess konar gróður, en sá þó seinna nokkuð líkt víðar í fjörðunum. Burknarnir eru 2—3 fet á hæð, standa þeir saman í runnum og er hver runnur 2—4 ferhyrn. faðmar að flatarmáli, en graslendi er á milli þeirra með vallgresi, súrum, sóleyjum og fíflum; sumstaðar er aftur mýrlendara, sumstaðar dý og sumstaðar lyng með blágresi og lokasjóðsbræðrum innan um; sumstaðar lykst burknaskógurinn saman yfir lækjarfarvegunum. Tóugrösin þroskast líklega svo vel, af því skepnurnar vilja ekki eta þau. Neðst í dalnum er móskurður mikill og sækja menn þangað frá mörgum bæjum; í mónum eru ákaflega digrir lurkar, og sést á því, að hér hefir áður verið mikill skógur, þó langt sé síðan.

Hjá Botni í Súgandafirði er dálítið af surtarbrandi. Lítil á rennur niður úr fjallinu fyrir sunnan og ofan bæinn og eru í henni margir smáfossar, því hlíðin er mjög brött; neðan við stærsta fossinn er surtarbrandsmyndunin 437 fet yfir sjó, og er blágrýti bæði undir og ofan á. Í litlu barði vestan við fossinn er í klettunum dálítil rauð leirskriða og í henni er surtarbrandurinn; myndun þessi er 8—10 fet á þykt og hallast lítils háttar til suðausturs; þar eru engir steingjörvingar, en aðeins þunnar flögur af surtarbrandi og flatir lurkar efst næst blágrýtinu, og er þykt lagsins eigi meiri en $^1/_2$—$1^1/_2$ þumlungur; í hinum rauða leir eru leirsteinshnúðar líkt og sumstaðar við Steingrímsfjörð, en ekki eru neinar blaðaleifar í hnúðunum, þó sumir hafi sortnað lítið eitt af jurtaefni[1]) Um kvöldið riðum við sunnan fjarðar út að Suðureyri. Sunnanverðu við fjörðinn er óslitin hamrahlíð út eftir, nema hvað dalaskvompur ganga niður í brúnirnar nálægt Botni; að norðanverðu ganga dalir frá firðinum, þar er yztur Selárdalur og litlu innar Gilsbrekkudalur og má fara um þá báða niður í Bolungarvík. Blágrýti er hér alstaðar í fjöllum og sjást glögglega deili basaltlaganna, klípast endar þeirra sumstaðar hver á milli annara. Fjörðurinn kvað varla vera meir en 6—8

[1]) Sóknarlýsing Staðar í Súgandafirði (1834) segir að norðan til í Geltinum hafi orðið vart við dálítið af surtarbrandi.

faðmar á dýpt, en nokkru dýpri fyrir utan Spillir. Suðureyri er tangi úr skeljasandi, sem gengur út í fjörðinn að sunnanverðu, en Norðureyri á móti; grynningar eru þar þvers yfir fjörðinn milli eyranna og fellur svo af þeim um stórstraumsfjöru, að þar verður alþurt, nema 3 álar, og er miðállinn dýpstur og líklega fær hafskipum, en þau fara aldrei inn fyrir eyrarnar. Í Súgandafirði er mjög skriðuhætt, einkum að norðanverðu, og skriður og snjóflóð hafa tekið af bæi hvað eftir annað. Niður gilið fyrir ofan bæinn á Norðureyri hafa oft komið stórkostleg snjóflóð með miklum grjótburði; fyrir 5 árum síðan (1882) fór snjóflóð alveg yfir fjörðinn og upp á malirnar hjá Suðureyri og færði þar sexæring upp á annan bát. Áður fyrir löngu (1836) tók af bæinn á Norðureyri og fólkið fórst[1]) Öll norðurhlið fjarðarins hleypur við og við, og úr fjallinu fyrir innan Gilsbrekku hefir hlaupið þvers yfir fjörðinn að Kvíanesi; braut þá upp ísinn og splundraði öllu, er fyrir varð. Nóttina milli 19. og 20. marz 1818 tók snjóflóð hjall að veggjum á Bæ í Súgandafirði og flutti út á sjó og fjárhús á Gelti með 20 kindum, sem allar fórust; í Vatnadal varð og fjárhús fyrir snjóflóðinu og kindurnar fórust, en manni, sem gekk frá fjárhúsinu, varð bjargað með litlu lífi. Sömu nótt tók snjóflóð bæinn Auguavelli í Skutilsfirði og urðu 9 menn undir, 4 dóu, en hinir meiddust mjög[2]) Spölkorn fyrir utan bæinn á Suðureyri eru nokkrar verbúðir; róa menn hér úr Súgandafirði og Önundarfirði og afla töluvert af steinbít. Þetta er nyrzta veiðistaða, þar sem nokkuð fæst til muna af þessum fiski; hann er þó talinn ná norður að Straumnesi við Aðalvík, en fiskast aðeins á stangli þar nyrðra. Á Suðureyri eru hér og hvar skeljar (kúskeljar, hörpudiskar o. fl.) kippkorn frá sjó og um 10 fet yfir fjörumáli.

Frá Suðureyri fórum við út fyrir Spillir; það er yzti höfðinn á hamranesinu milli Suðureyrar og Staðar; þar eru þverhnýptir blágrýtisklettar niður í sjó og burnirót í skútum

[1]) Lýsing Íslands I, bls. 154.
[2]) Klausturpóstur I. bls. 94—95.

á syllunum, en fyrir neðan er stórgrýtisurð, ill yfirferðar. Fyrir framan Staðardalinn eru malarhjallar með núnu grjóti, merki um hærra yfirborð sjávarins fyrr á tímum; hefir áin brotist gegnum hjallana og eru engi fyrir ofan, gamall vatnsbotn; uppi í dalnum er þvergirðing af urðarhólum og smávötn fyrir ofan; eru þetta líklega jökulöldur og ef til vill skriður saman við. Frá Stað í Súgandafirði fórum við yfir Klofningsheiði í Önundarfjörð. Frá Stað er brött brekka upp í mynnið á Klofningsdalnum, en þegar kemur upp á brúnina á brekku þessari, taka við ótal holt og urðarhólar með ýmsri lögun; er þar tildrað saman ótal blágrýtisbjörgum utan í hólunum, sumstaðar hvilftir, djúpar dældir og bollar; í sumum bollunum hefir myndast svo mikill jarðvegur, að þar má skera mó. Alt þetta grjóthrúgaldur er eflaust framakstur eftir jökul, sem gengið hefir út dalinn. Inn á milli efstu hólanna er dálítið vatn ofarlega í dalnum, hefur það áður verið stærra, en vatnsbotninn er orðinn að mýri. Basaltfjöllin beggja megin við dalinn eru þverhnýpt og mjög hrikaleg; þegar jökullinn á ísöldinni gekk út dalinn, hafa hamrabrúnirnar staðið upp fyrir á báða vegu og hefir síðan hrunið úr þeim niður á jökulinn; af því stafa stóru björgin utan í holtunum, sem mynduðust, er jökullinn bráðnaði. Dalbotninn er mjög brattur, og örðugur vegur upp á heiðina; voru stórir skaflar uppi undir brúnunum og var örðugt að sneiða sig þar upp með hestana. Þegar komið er upp á heiðina, er maður kominn jafnhátt hálendi því, sem firðirnir hafa skorist niður í gegnum; verður þar alt eins og ein slétta mishæðalaus fyrir auganu, dalirnir og firðirnir hverfa gjörsamlega og sjást ekki fyr en maður kemur út á brúnirnar. Klofningsheiði er um 2000 fet á hæð; þar er hellu-urð og sáralítill gróður, mosatægjur á einstaka stað. Af heiðinni er snarbratt niður í Önundarfjörð, og er mjög einkennilegt að líta af brúnunum niður í djúpið, fjörðurinn er blágrænn fyrir neðan, fjöllin þverhnýpt fyrir sunnan með alls konar dölum, skvompum, fellum, kistum og múlum. Þó bratt væri niður af heiðinni, þá var þar þó engin ófærð af snjó, gatan

sneiðir í ótal bugðum urðarskriður og lausagrjót, unz maður kemur niður í dalbotninn, þar taka við stórkostlegar skriður og holurðir og hjallamyndun neðst við sjóinn. Litlu utar er gangur niður í sjó; heita þar Klofar milli ganghlutanna og hefir heiðin líklega tekið nafn af því. Um nóttina vorum við á Flateyri.

Fjöllin í kringum Önundarfjörð eru skorin sundur af fjölda mörgum dölum, kvosum og giljum; þetta tekur sig annars upp um alla Vestfirði; hafi maður séð einhvern af stærri fjörðunum, þá veit maður hér um bil, hvernig allir hinir eru; jarðlögin eru hin sömu, eilíf blágrýtislög í fjöllunum með litlum eða engum halla og alstaðar hafa áhrif vatns og snjóar orðið lík, af því krafturinn var hinn sami og efnið líkt. Mjög víða eru hjallar fram með sjónum, sumstaðar er í þeim eintómt malargrjót, hnullungar og saudur, sumstaðar er blágrýti innan í, og hefir þá hjalli þessi áður verið brimsorfinn fjallsfótur. Malarkambar eru hér og hvar með Önundarfirði að norðanverðu, t. d. á leiðinni frá Flateyri að Selbóli, og hjá Breiðdal og Veðurá. Tangar eða eyrar ganga út í nærri alla firði hér vestra, þó eru flestir í Dýrafirði; tangar þessir eru sumpart myndaðir úr möl og sjávarsandi, sumpart úr skeljasandi. Holtstangi er hinn stærsti í Önundarfirði; í honum er fjarska mikið af skeljarusli og smágjörvum, þurrum leir; hefir þar eigi alls fyrir löngu fundist rostungshaus í sandinum;[1]) malarkambar fram með sjónum sýna hækkun landsins; Hjarðardalsá rennur langt út með einni grjótröstinni og svo inn með henni aftur, af því hún hefir eigi getað brotist gegn um hinn gamla og harða malarkamb. Frá Flateyri fórum við inn með firðinum og yfir hann á vöðlunum fyrir innan Holt, þar voru stórhópar af óðinshönum í fjörunni; síðan fórum við út með, út í Valþjófsdal. Út með hlíðinni er fremur vondur vegur utan í skriðum og ófæra á einum stað; eru þar tré lögð yfir skarð í klettunum og reft yfir. Valþjófsdalur er grösugt og snoturt dalverpi; þar eru 6—7 búendur

[1]) Árbók hins íslenzka Fornleifafélags 1883, bls. 6.

og kirkja á Kirkjubóli. Þaðan fórum við yfir Klúku niður að Gerðhömrum í Dýrafirði; heiði þessi er örmjó, hrjóstrug hið efra og 1830 fet á hæð. Fjallið skiftist hið efra í álmur og rana, því dalir ganga inn úr öllum áttum, Valþjófsdalur, Mosdalur, dalirnir upp af Ingjaldssandi. Nesdalur og Gerðhamradalur. Af Klúkuheiði fór eg út á Þorsteinshorn (1590'); það er þverhnýptur kambur, sem gengur út á milli dalanna upp af Ingjaldssandi og er þar af yzta horninu bezta útsjón yfir dalinn og sandinn; var fremur torsóttur vegur út á hornið, því fjallið er eintóm holurð hið efra. Ingjaldssandur hefir tekið nafn af sandræmunni fram með sjónum;[1]) þó mætti heldur kalla þetta bygðarlag dal en sand; að austanverðu takmarkast bygðin af þverhnýptri hamrahlíð óslitinni, en að suðvestan smáhallar upp á heiðarnar og eru þar góðir hagar fyrir sauðfé. Nesdalur er fjöllum girtur á alla vegu og hafa menn þar nautgripi á sumrum, þar kvað vera allmikill surtarbrandur norðan við dalinn hátt uppi í Barðanum, og sunnan við dalinn heitir Surtarbrandshylla. Í fjallinu milli Valþjófsdals og Mosdals hefir og fundist surtarbrandur í klettum neðan til í miðju fjalli.[2]) Af Sandheiði riðum við niður í Gerðhamradal; eru holtahrúgur miklar í dalbotninum, miðdalurinn sléttur með engjum og mótökum, en neðst í dalsmynninu eru stórkostlegar urðaröldur, með heljarbjörgum á víð og dreif; það eru eflaust stórar jökulöldur; beggja megin í dalmynninu eru garðar, sem fylgt hafa jökulröndinni (hliðarmórenur); taka síðan við háir malarkambar (rúm 200 fet) með sjónum inn undir Alviðru. Hjá Gerðhömrum koma stórir gangar fram í fjallshorninu og hefir etist frá þeim, svo þeir standa eins og háar bríkur og girðingar upp úr jarðveginum; líklega hefir bærinn tekið nafn af þessum tröllahlöðum. Þeg-

[1]) Dr. Björn Ólsen hefir ritað um Ingjaldssand í Árbók fornleifafélagsins 1885, bls. 1—7.

[2]) Í sóknarlýsingu Mýraprestakalls 1840 er sagt að fyrir utan Gerðhamra finnist »oft surtarbrandsstykki sundurmoluð, af sjó rekin, og vita menn, að klöpp er þar frammi í sjónum, sem ekki fellur sjór fullkomlega af, hvaðan hann brotnar upp í haust- og vetrarbrimum.«

ar kemur inn undir Alviðru og Gnúp, verður undirlendið meira, og er þar all-sveitarlegt að líta yfir bygðina. Basaltlögin í fjöllunum hallast nokkuð inn á við til suðausturs, þó einna mest í Mýrafjalli. Það er langur og leiðinlegur vegur að fara inn fyrir Dýrafjörð; ströndin, fjöllin og dalskvompurnar beggja megin eru alstaðar eins, fjöllin eru öll grafin í sundur og standa fram múlar og fell milli kvosanna; eyrar eru mjög víða út í fjörðinn frá báðum hliðum, malarkambar við sjóinn og holtahjallar og urðir í hverju dalmynni. Því innar sem dregur, því minna eru fjöllin sundurskorin, hvilftirnar eru grynnri og brúnirnar oft óslitnar langa leið. Víða hafa skriður fallið í sjó fram; á einum stað innarlega að norðanverðu hafði myndast þvengmjó bryggja langt út í sjó af eintómu stórgrýti, sem fallið hafði niður í sjó; mesti urmull af æðarblikum hafði leitað skjóls hlémegin við bryggjuna. Dalurinn inn af Dýrafirði er örstuttur; þar er skeifumyndaður fjallabotn með mörgum sköflum, því fjörðurinn hefir skorist svo langt inn í landið, að Gláma er rétt fyrir ofan brúnirnar. Upp úr Dýrafirði má fara yfir Glámu og eins úr Arnarfirði niður í ýmsa dali upp af Djúpi. Var þar oft farið í fornöld, sem sjá má af Sturlungu.[1]) Vegir þessir eru illir yfirferðar og oft ófærir langt fram á sumar vegna snjókrapa og aura. Á Kollabúðarfundum 1855 og 1856 var talað um að finna nýjan veg yfir Glámu, en ekkert varð úr því nema umtalið.[2]) Á Dýrafirði eru ágætar hafnir hver fyrir innan aðra, bak við eyrarnar, sem ganga á misvíxl. Frakkar vissu hvað þeir vildu, þegar þeir 1855 og 1856 reyndu að ná í Dýrafjörð til nýlendustofnunar,[3]) og Íslendingar voru sumir á því og það jafnvel sjálfur Jón Sigurðsson að veita þar stórveldi ítak í landinu, en varla mundi Einar Þveræingur hafa fall-

[1]) Sturlunga (Oxf.) I, bls. 184, 258; II, bls. 299, 307.
[2]) Þjóðólfur VII, bls. 124; VIII, bls. 134. Um þingmannaferðir yfir Glámu til forna sjá Árb. fornlf. 1883, bls. 14.
[3]) Alþingistíðindi 1855 bls. 494—495. Þjóðólfur VIII, bls. 137—139. Ný Félagsrit XVI. bls. 122—123.

ist á það. Það vildi til að Englendingar tálmuðu því að nokkuð yrði úr þessari fyrirætlun.[1])

Frá Þingeyri fórum við með sjó fram út fyrir Hafnarnes að Lokinhömrum. Í Haukadal er þorp allstórt, barnaskóli og höfn góð. Haukadalsbót; við urðum að flýta okkur vegna aðfalls, af því tvær ófærur eru á leiðinni, komumst við klaklaust fyrir innri ófæruna; þar ganga þverhnýptir hamrar í sjó fram og hefir brimið sorfið í þá hellra og skvompur, sjást víða í holunum stórir hnullungar, sem hringsnúast í briminu og sverfa bergið. Björgin eru þverhnýpt út með og sjást blágrýtislögin glögglega eins og strengir í vegg, en örmjó malarræma er með sjónum og verður maður að klöngrast eftir henni með hestana, og er þó víða mjög stórgrýtt; við komum snöggvast við í Hraunsdal; það er dalkvos líkt og Valþjófsdalur og hár malarkambur fyrir framan; fremst í dalnum eru urðarholt ill yfirferðar og hefir dalurinn líklega tekið nafn af þeim. Fyrir utan Hraunsdal er versti vegur og varla fær með hesta, enda er þar víst sjaldan farið; við urðum oftast að teyma hestana, því í fjörunni er eintómt eggjagrjót og skriður sumstaðar, en á milli hált og brimsorfið stórgrýti; komumst við með illan leik fyrir ytri ófæruna, af því svo mikið var fallið að, að við urðum að fara með hestana selflutning fyrir hamrana um stórgrýtisurð, sem sjór var fallinn yfir, svo víðast var í kvið. Yzt á nesinu, rétt fyrir norðan Höfn, myndar fjallsfóturinn grasivaxinn hjalla, og stöldruðum við þar við dálitla stund, til þess að hvíla hestana eftir torfærurnar. Brimið hefir fremst á nesinu etið sig inn í klettana og hafa svo myndast einkennilegir hamravogar og klettastandar úti í sjónum. Yzt á nesinu eru tveir kotbæir, Höfn og Svalvogar. Fyrir ofan Höfn

[1]) Í Sóknarlýsingu Mýraþinga segir Jón prestur Sigurðsson 1840 um Dýrfirðinga: »Siðferði er ekki í lakasta máta, en ekki heldur í betra lagi; sjálfsagt er að í sumu er því ábótavant, svosem lausmælgi eða kvisi og óhlýðni við yfirboðara, orsakast það mest af drottnandi sjálfbyrgingsskap, sem Dýrfirðingar framar öðrum hafa haft orð fyrir, þó ekki megi telja alla seka í því efni.«

eru hrikalegir fjallamúlar og dalur á milli; þar er Helgafell að norðan en Hafnarhyrna að sunnan; hún er þverhnýpt og örmjó, eins og hnífsegg; ógurlegar skriðuhrúgur eru fyrir neðan fjallið fram í sjó og verður maður að þræða örmjóa götuslóða milli bjarganna; þeim er tildrað hverju ofan á annað og eru ein og tvær mannhæðir að þvermáli. Í Svalvogum er mjög einmanalegt; túnbleðillinn er vaxinn upp í rönd á skriðu, og heljarbjörg, stór sem hús, liggja á við og dreif kringum bæinn. Frá Svalvogum riðum við utan í hlíðinni alla leið að Lokinhömrum; þar er urðarhjalli utan í hlíðinni undir hömrunum og liggur vegurinn eftir honum; landslagið er hvergi nærri frýnilegt, þverhnýptir hamrar fyrir ofan og neðan, stórgrýtisurð á hjallanum og gilskorur sumstaðar niður úr.[1]) Á einum stað liggur flatt grasivaxið nes (Sléttanes) út í sjó; það er eins og annar hjalli undir hinum efra; innar er Dalsdalur, hömrum girtur á þrjá vegu. Um kvöldið 16. júlí komum við að Lokinhömrum; þó bærinn sé afskektur, þá er hann þó æði reisulegur; þar er tvíloftað timburhús og vel umgengið, enda býr þar einn af mestu útvegsbændum á Vesturlandi. Hingað og héðan fara menn allar ferðir á sjó, því landveg má þar heita ófært með hesta, þó einstaka sinnum sé farið með einn og einn hest. Sólskin og blíðviðri hafði verið dagana á undan, en nú gerði húðarigningu um nóttina, og var það hepni fyrir okkur, því skriðurnar inn með voru orðnar svo harðar af þurkunum, sem gengið höfðu, að þær voru því nær ófærar; leirinn í skriðunum harðnar, svo hestar geta eigi staðið, en nú bötnuðu þær töluvert við rigninguna. Fyrir innan Lokinhamra eru snarbrattar hamrahlíðar inn undir Stapadal, björgin eru þverhnýpt, 16—1800 fet á hæð, og verður maður að sneiða brattar skriður við sjóinn eða klöngrast yfir stórgrýti í fjörunni. Lakast er að komast yfir Hilluháls, það er klettanef í sjó fram; fótgangandi maður getur

[1]) Sóknarlýsing Álftamýrar (1842) segir, að vegur frá Lokinhömrum að Stapadal sé „illur yfirferðar og ofboðslegur, því að þétt með stálbergi háu er farið, fram af hverju sífeldlega er steinn á flugi eður aurfall.“

þrætt sig eftir hillu, mannhæð fyrir ofan sjávarmál, en þegar farið er með hesta, verður að fara miklu ofar; er þar glæfralegt að teyma hestana utan í snarbröttum skriðum, enginn götuslóði eða troðningur getur haldist, brettan er svo mikil, og í þurkum eru skriðurnar glerhálar af leirnum, sem í þeim er, svo enginn hestur getur fótað sig, en nú markaði vel fyrir spori, af því rignt hafði, og komum við hestunum yfir skriðurnar, þó ekki væri það álitlegt.[1]) Fyrir innan Hilluháls fer maður alt af með sjó undir háum hömrum; í fjörunni eru stór björg og hnullungar, og er það mjög ógreiðfært, þar sem hestarnir verða að vega salt á hnullungunum og stikla af einum á annan. Björgin, sem riðið er undir, eru slétt upp úr og engin lagskifting á þeim; það virðist svo sem klettar þessir hafi myndast af einu basaltrensli, og eru þó blágrýtislögin sjaldan svo þykk (2—300 fet); hér og hvar eru holur í bergið hið efra, sem ef til vill hafa myndast af gufum, er blágrýtishraunið rann. Brimið hefir holað hellisskúta inn undir björgin og skútir bergið fram yfir lestina, sem fer fyrir neðan. Stapadalur hefur nafn af dranga miklum niðri við sjó, sem er 4—5 mannhæðir og 10—12 faðmar ummáls, að ofan er hann grasi vaxinn og hvergi er hægt að komast upp á hann. »líkist hann útlendum skipsskrokk, ávalur fyrir ytri enda, en þunt barð í innri enda, líkt og móti fyrir stýri«.[2])

Frá Stapadal og inn að Rafnseyri eru einlægar hjallamyndanir fram með sjónum, og þegar kemur inn undir Auðkúlu, er mikið af ljósu grjóti í fjörunni, því þar er töluvert af líparíti í fjöllunum fyrir ofan, enda sést það á lit þeirra langt í burtu, t. d. frá Bíldudal. Frá Rafnseyri fórum við inn með Borgarfirði og hallast blágrýtislögin í fjöllunum lítið eitt til suðausturs; gangbrot eru hér og hvar í fjörunni jafnhliða fjarðarstefnunni. Botninn á Borgarfirði

[1]) Innantil í fjallinu milli Dýrafjarðar og Arnarfjarðar »er eitt merkilegt *hvannstóð*, sem heitir Lokinhamrató, þangað komast ekki nema færir menn, því þar er þrítugt berg ofan, hvar hvannaflinn er látinn síga« (Sóknarlýsing Álftamýrar 1842).

[2]) Sóknarlýsing Álftamýrar 1842. Hdrs. Bókmf.

nær upp undir Glámu og má þar komast upp á jökulinn, þó það sé torsóttur vegur. Fjöllin eru hér alstaðar nærri þverhnýpt úr sjó og undirlendi ekkert, bæirnir standa oft á skriðuhrúgunum fyrir framan litla afdali og gilskvompur. Í Dynjandavíkinni dvöldum við um hríð, til þess að skoða fossinn. Dalurinn og víkin takmarkast af skeifumynduðum blágrýtishjöllum og tekur hver við af öðrum upp á brún, en undirlendi er lítið sem ekkert. Dynjandaáin rennur niður hjá bænum og er töluvert vatn í henni. Bærinn hefir fengið nafn af hinum sífeldu dunum í fossinum, sem í góðu veðri heyrast langar leiðir yfir fjörðinn. Fossinn sést langt að, blasir t. d. við frá Rafnseyri, og er hann einn af hinum mestu og tignarlegustu á Íslandi, hann er 316 fet á hæð,[1]) og fellur niður af blágrýtishömrum þverhnýptum, þó eiginlega ekki í einni bunu; bergið er svo stöllótt undir fossinum, að insta vatnið fellur hillu af hillu, en ytri vatnslögin breiða yfir bergið hvíta slæðu, sem breiðist eins og ullarkemba yfir svarta klettana, en hér og hvar markar fyrir hamrasyllunum gegnum hvítan vatnslopann. Fyrir neðan fossinn eru breiðir klettastallar niður að sjó og er foss niður af hverjum stalli, svo þeir verða alls 5 eða 6, en þó miklu minni en aðalfossinn. Hæðin frá efstu fossbrún niður að sjó er 593 fet. Milli blágrýtislaganna eru hér og hvar þunn rauðleit móbergslög og gefa þau hér og annarstaðar tilefni til fossmyndana. Undir öðrum fossinum fyrir neðan Dynjanda kvað vera hellir og manngengt fyrir innan bununa. Fyrir ofan bæinn á Dynjanda er dálítil laug, hiti laugarinnar var 21. júlí $26^1/_2{}^0$, en lofthitinn $10^1/_2{}^0$ C.; laugin er hlaðin upp, hún er aðeins dálítið auga, um $1^1/_2$ ferhyrningsalin á stærð, og rennur þaðan lítill lækur. Í fjallinu vestan við Dynjandavíkina eru ofarlega há og mikil hamrabelti með mörgum smáhellrum og holum milli laganna; í sjónpípu sá eg, að skvompur þessar eru

[1]) Árbók Fornleifafélagsins 1883 segir, að fossinn hafi verið mældur og hafi hæðin verið 84 faðmar, en það er alt of mikið, enda er ómögulegt að mæla foss með færi, svo í lagi sé, vegna hallans og straumsins í ánni.

mjög einkennilegar, þær hafa etist svo í stuðlabergið, að súlurnar eru miseyddar og etnar að ofan og neðan, svo þær standa í röðum inni í hellrunum, eins og organspípur. Frá Dynjanda má fara yfir fjallið í Geirþjófsfjörð, Dynjandaheiði, en það er mjög vondur vegur um stórgrýtisurðir og ekki fært með hesta nema kunnugum mönnum um hásumarið.[1])

Frá Dynjanda fór eg út í Mosdal, og er vondur vegur fram með hlíðinni; þar er ein skriða, sem má heita nærri ófær með hesta nema fyrir nákunnuga, sem geta þrætt krókagötur innan um stórgrýtið í urðinni. Um nótt vorum við á Skógum og héldum svo enn út með hlíðum í Hokinsdal. Mosdalur er allvíðáttumikill, þar eru 5 bæir og undirlendi töluvert. Tæpan fjórðung úr mílu fyrir utan Laugaból er dálítil laug; þar eru mýradrög undir hlíðinni og laugin í skurði; hefir hún áður verið hlaðin upp og notuð, en er nú full af slýi, hitinn er 39° C.; fleiri smálækir undir hlíðinni kváðu vera volgir. Hokinsdalur er breiður og grunnur og sléttir melhjallar graslitlir yfir að fara; engjablettir eru hér og hvar milli holtanna, einkum að vestanverðu, og bær efst í dalnum. Í Hokinsdal er góður vegur, svo hægt er að spretta úr spori, og er það sjaldgæft hér um slóðir. Frá Hokinsdal fórum við yfir Langanesið, lágan háls, niður að Steinanesi, hálsinn er ekki nema rúm 600 fet á hæð og örmjór, en fremur ilt að komast niður af honum að sunnan og verður maður að ríða langa leið eftir hjalla, unz fært er með hesta niður hlíðina. Það hafði verið þoka og rigning um daginn, en þegar við komum á brúnina, létti af þokunni, og var fagurt að líta yfir sjóinn og landið: Suðurfirðir eins og spegilfagrar vatnsgreinar með svörtum múlum á milli, en há snævi þakin fjöll fyrir sunnan, Hornatær og aðrir tindar upp af Vatnsfirði og Brjámslæk. Geirþjófsfjörður er lengstur og mjóstur, en mjög djúpur; var mér sagt að hann væri undan Stöpum

---

[1]) Sbr. *Sigurður Vigfússon*: Rannsókn um Vestfirði. Árbók Fornleifafélagsins 1883, bls. 42.

móti Sperðlahlíð 80 faðmar, en við Steinanes 75 faðmar. Mynni Arnarfjarðar kvað vera töluvert grynnra. Frá Steinanesi riðum við inn hlíð; er þar, eins og vant er hér við firðina, illur vegur, urðir, skriður og klappir og varla troðningur að sjá. Í fjörðum þessum sjást óvíða ísrákir eða ísnúnar klappir, því grjótruslið er svo mikið ofan á; þó sá eg fágaðar klappir á klettanesi spölkorn fyrir utan Botn. Í Botni er mjög fagurt, skeifumyndaður dalur með hjöllum upp á brún og er alt reyfað í skógi; útsjónin er einkarfögur út fjörðinn og fjöllin tignarleg fyrir ofan. Norðanverðu við fjörðinn er víða skógur hátt uppi í hömrum, eins sprotar niður eftir hillunum, en enginn neðar; hefir skógurinn auðsjáanlega fyrrum verið miklu meiri og líklega náð niður undir sjó, en þegar farið var að rífa hann, kom los á skriðurnar, svo alt hefir skemst og orðið að urð og klöppum. Geirþjófsfjörður er frægur í sögunum, sem kunnugt er, og hefir Sigurður Vigfússon ágætlega lýst sögustöðunum í Árbók Fornleifafélagsins 1883. Við Geirþjófsfjörð eru 4 bæir, tveir að norðan, Steinanes og Krosseyri, Botn við fjarðarendann og Sperðlahlíð að sunnan. Í fjallinu fyrir ofan Krosseyri kvað hafa fundist lítilfjörlegt af surtarbrandi.

Hinn 20. júlí fórum við frá Botni suður í Reykjarfjörð og til baka aftur, og svo um kvöldið að Skógum í Mosdal. Í Trostansfjörð liggur leiðin út fyrir Ófærunes og er þar sumstaðar ilt að komast fyrir klettanef, sem ganga í sjó fram. Trostansfjörður er stuttur og breiður, og tveir dalbotnar upp af, þar er mjög fagurt, útsjón út í Arnarfjarðarmynni, múli fram af múla, svo langt sem augað eygir; dalirnir eru skógi vaxnir og Hornatær blasa við fyrir ofan. Fjaran er öll þakin af strandbúa (*Cakile maritima*) og leggur sætan ilm af blómunum á móti manni, þegar komið er niður úr hlíðinni; þar eru töluverðir sandar með sjónum og urmull af skeljum, en háir marbakkar fyrir ofan. Í Reykjarfirði eru tveir bæir; þar er líka töluverður skógur og ægisandur með sjónum, sem fýkur mjög og spillir túnum og engjum í norðanveðrum. Reykjarfjörður hefur nafn sitt af

laugum, sem eru spölkorn fyrir neðan bæina. Efri laugin er hlaðin upp og notuð til þvotta og er hitinn þar 55° C.; mýralækir hálfvolgir (21°) renna í hana að ofan, á börmunum er töluverður gróður af muru, græðisúrum, engjarósum o. s. frv. Slýið í læknum fyrir neðan fer að geta þróast þar sem hitinn ekki er meiri en 51°. Í lauginni og kringum hana var töluvert af ýmsum smáum sjóskeljum og kuðungum, en þær voru aðbornar, komnar þangað með þangi, sem afvatnað hafði verið í lauginni fyrir kindur. Laug þessi er rúm 600 fet frá bænum; hin laugin er um 250 fetum nær sjónum í mýri, og mýrgresi á bökkunum, í henni er hitinn ekki nema 48° og hún er full af slýi. Volgt vatn kvað enn vera á einum stað uppi í dal.

Suðurfirðir sýnast vera gott og björgulegt pláss, en þó er þar alstaðar mesta fátækt og eymdarskapur. Hvalir eru oft í firðinum; áður fyrrum komu að sögn vissir hvalir annaðhvort ár inn á Arnarfjörð til þess að gjóta, og voru ungarnir drepnir; hvalamæður þessar þektust á vissum einkennum og voru kallaðar sérstökum nöfnum, t. d. Skeifa, Vilpa, Króka og Manir tvær, eldri og yngri. Fullorðnir selir og kópar eru hér töluvert algengir; fiskiafli mikill er úti í Arnarfirði og fjarðbotnarnir algrónir skógi og beztu beitarlönd. Menn fara hér mjög snemma að sækja sjó, þó ekki á skipum eða bátum, er þeir sjálfir eiga, en ráða sig á fiskiskútur frá verzlunarstöðum og stórbændum í öðrum fjörðum; jafnvel smádrengir fara undir eins á jaktir og eru þar »kokkar« eða því um líkt; enginn sinnir landbúnaðinum, nema konur og gamalmenni, svo alt gengur í drasli og árangurslitlu sjógutli. Vesaldómur og menningarleysi er sagt að sé mjög algengir sjúkdómar í Suðurfjörðum; hjátrú er enn þá megn hjá einstökum mönnum, enda hafa menn alt af verið álitnir göldróttir og forneskjulegir í Arnarfjarðardölum. Eg heyrði ýmsar skoplegar drauga- og galdrasögur, sem báru þess ljósan vott, að trúin á slíkt er engan veginn horfin. Sumir gamlir menn trúða því og töluðu um það með lotningu, hvað margfróður síra Sigurður Jónsson á Rafnseyri hefði verið og eins Hrólfur ráðsmaður hans.

Síra Sigurður gat jafnvel komið fyrir »latínudraug« af franskri fiskiskútu, sem aðrir galdramenn í Arnarfirði voru búnir að gefast upp við. Jón forseti, sonur síra Sigurðar, var líka álitinn fjölkunnugur, og til marks um það gjörði hann, eftir að hann var seztur að í Kaupmannahöfn, boð eftir skinnblaði (sjálfsagt úr galdrabók, sem hann hafði séð í ungdæmi sínu, en þá eigi sint), »þetta var pilturinn búinn að læra.«

Seinni hluta dags fórum við frá Botni yfir Kirkjubólsheiði í Mosdal. Riðum við fyrst upp dalinn, hjalla af hjalla; er þar alt vaxið skógarkjarri og margir smáfossar í ánum. Verður að taka á sig þennan krók upp í dal, af því fjallið er svo bratt hjá Botni, að það er eigi fært hestum beint upp á heiðina, en úr dalbotninum ríður maður út með brúnum, þangað til komið er móts við bæinn í Botni; þar eru tvær vörður á brúninni og má svo fara nærri beint yfir fjallið niður í Mosdal. Á heiðinni er eintóm urð og stórgrýti, vegur enginn, en einstaka vörðubrot hér og hvar. Af suðurbrún heiðarinnar er góð útsjón yfir Geirþjófsfjörð og hamragirðingarnar í kring, en til suðausturs sjást heiðalöndin upp undir Glámu, urðarhjallar með aflöngum stórsköflum í hverri lægð. Yfir suðurfjöllin mæna Hornatær eins og kastalarústir, og er bergveggurinn, sem þær standa á, örmjór, og sér fljótt út á Breiðafjörð, þegar komið er upp á fjöllin fyrir sunnan Geirþjófsfjörð. Kirkjubólsheiði er 1622 fet á hæð, og smáhallar henni niður að dalbótunum upp af Mosdal; ríður maður niður með gili, svo að það er á vinstri hönd. Í Mosdalsbotninum er skógarkjarr og fagrar lyngbrekkur, mjög gott fyrir sauðfé; dalurinn er allbreiður og eru þar ofantil sumstaðar holtahjallar fram með ánni, en neðar eru mýrar og engi töluverð. Vorum við síðan aðra nótt í Skógum og riðum svo aftur að Dynjanda, kring um Borgarfjörð og að Rafnseyri. Þaðan fórum við vanalega þjóðleið á Ísafjörð; frá Rafnseyri yfir Rafnseyrarheiði, sem er 1728 fet á hæð; sjóveg með hesta og farangur yfir Dýrafjörð frá Þingeyri, svo yfir Gemlufallsheiði; þar skerst fjallgarðurinn nærri í sundur, og er heiðin því ekki nema

749 fet á hæð; síðan frá Holti í Önundarfirði yfir Breiðdalsheiði; hæð hennar er 1906 fet. — Þessa daga var kalsaveður, af því hafísinn var að hrekjast nálægt landi, svo um miðjan dag 23. júlí var hitinn upp á Breiðdalsheiði ekki meiri en ÷ $^1/_2{}^0$ C., og varð þó töluvert kaldara næstu daga á eftir.

Hinn 25. júlí fór eg frá Ísafirði út í Bolungarvík til þess að skoða surtarbrandinn í Stigahlíð. Skamt fyrir utan Ísafjörð er dalverpið Hnífsdalur; þar er útræði mikið og snoturt fiskiþorp, eitt hið laglegasta á Íslandi; þaðan liggur vegurinn út með Óshlíðum, út í Bolungarvík; vegurinn er allgóður, en göturnar liggja hátt og eru tæpar, sumstaðar ganga klettarnir beint niður í sjó, sumstaðar er urð í fjörunni, en hrikalegir klettar fyrir ofan; ilt er að halda hér góðum vegi, af því sífelt steinhrun er úr klettunum. Upp af Bolungarvík er nokkurt undirlendi og ganga tveir dalir upp milli fjallanna, eystri dalurinn er stærri, eru þar sandar miklir framan til, en vatn fyrir ofan og bæir við vatnið að vestanverðu og fyrir ofan það. Vestar standa búðirnar í röðum fram með sjónum, og er það stórt þorp að sjá tilsýndar og mannmargt, þegar vermenn búa þar. Nýrri búðirnar eru flestar allvel bygðar, eins og baðstofur á lofti, og eru veiðarfærin geymd niðri; eldri búðir eru líkar búðum í Grindavík og Selvogi. Í Hnífsdal eru efnaðir menn og duglegir, en Bolvíkingar eru fátækir og lítilsigldir, og hafa ekki orð á sér fyrir að vera neinir sérlegir snyrtimenn; en vonandi er að þessi gullfallega veiðistaða taki framförum með tímanum. — Til þess að komast að surtarbrandinum, gengum við upp fjallshornið fyrir utan Bolungarvík og svo út Breiðhillu; þar er surtarbrandurinn 750 fet yfir sjó. Það er ilt að ganga eftir hillunni og ekki fyrir lofthrædda, þverhnýptir hamrar eru fyrir ofan, svo koma brattar leirmyndanir með surtarbrandi (30—35°) og þar fyrir neðan 700 feta háir hamrar niður í sjó; verður maður varlega að þræða sig fram með berginu í efstu leirskriðunum. Efst er þar gráblár leir, hvítur og rauðleitur á yfirborði, síðan steinbrandur, svo móleitur leir og hvítur;

liggja surtarbrandslögin þar innan um, en hvergi sá eg neitt votta fyrir steingjörvum blöðum í leirnum. Surtarbrandsmyndunin öll er 40—50 fet á þykt. Surtarbrandurinn er nokkuð notaður til eldsneytis og bera menn hann stundum á bakinu inn eftir hillunni, en stundum hafa menn látið stykkin renna niður gilskorur niður að sjó, þar sem einhver fjara er undir. Á öðrum stað er og surtarbrandur í Bolungarvík, kippkorn fyrir ofan bæinn Gil í eystri dalnum; þangað fórum við seinna um daginn, riðum frá Hóli yfir sandana að vatninu og svo upp með því að Gili. Á fellur niður hjá bænum úr dalnum vestan við hann, ríður maður upp eftir holtabörðum með ána á vinstri hönd, svo yfir þverá, er kemur frá suðvestri, og svo um stund upp með aðalánni, unz dálítið klettanes myndast, þar sem lítill lækur fellur í ána. Þar er foss í ánni og vestanverðu við fossinn djúpur hellisskúti; 7—8 föðmum fyrir neðan fossinn er eins og brik, basaltgangur yfir ána þvera, sem hún hefir brotið skarð í (N 20° V). Í skútanum við fossinn er þykt surtarbrandslag, samanhangandi, hér um bil 2 fet á þykt, án þess nokkur leir sé á milli; í surtarbrandinum eru eintómir útflattir trjástofnar, og leir fyrir ofan og neðan; þar hefir verið tekið allmikið af surtarbrandi, en síðan hafa menn hætt því, af því búið var að grafa svo mikið undir bergið, að hættulegt var orðið að taka þar brandinn. Ofan á surtarbrandinum liggur stórgjört móbergslag. Surtarbrandurinn er hjá Gili 494 fet yfir sjávarmál.

Hinn 28. júlí hélt eg á stað frá Ísafirði inn með Djúpi; fórum við fyrsta daginn inn fyrir Skutilsfjörð, kring um Álftafjörð og að Eyri í Seyðisfirði. Melhjallar eru fyrir framan báða dalbotnana, sem ganga inn af Skutilsfirði, og hafa árnar brotist í gegn um þá; þar eru ísrákir fornar, sem ganga eftir dalastefnunum til sjávar. Innarlega austanverðu við fjörðinn er dálítil eyri, spölkorn fyrir innan tangann að vestan, sem kaupstaðurinn stendur á; á nesi þessu eru margar smátjarnir ofan til og eru þess konar tjarnir sumstaðar á eyrum þeim, sem ganga út í firðina hér vestra, og hafa ef til vill orðið eftir, er grjót barst að og eyrarnar

mynduðust af straumum og sjávarföllum. Beint á móti kaupstaðnum er djúp hvilft eða skál í fjallsröndina, og önnur nokkru innar; ekki hafa skálar þessar neitt afrensli; þær eru eins og djúpir bollar og urðarrusl og grjót á röndinni og fyrir neðan; þar hafa líklega á ísöldinni verið jökulfannir í litlum gilskvompum og haldist lengi fram eftir. Við fórum fyrir Arnardal, yfir Arnardalsháls í Álftafjörð, er þar fremur slæmur vegur með hlíðinni, töluvert hefir verið gert við hann, en óðar hrapa skriður aftur í götuna. Í Álftafirði eru margir bæir og töluvert grösugt undirlendi; þar er yzt Súðavík, snoturt bæjarþorp, og nokkru innar Langeyri; þar hafa Norðmenn tekið sér aðsetur til hvalaveiða, verður maður fljótt var við þá, er komið er í fjörðinn, því öll fjaran er þakin af hvalþvesti og innýflum; er það alt maðkað og úldið og leggur ódauninn langar leiðir á móti manni. Á Langeyri er stórt vinnuhús með gufuvélum, íbúðarhús, geymsluhús, smiðja o. s. frv. Ekki er þar þrifalegt, alt smitar í grút og brækju, enda er ekki á öðru von, þar sem slík atvinna er rekin með jafnmiklum krafti. Vinnuhúsið er bæði hátt og stórt og margloftað; þar lá hvalur á stokkunum og voru Norðmenn önnum kafnir við hvalskurðinn, rista þeir spikið í langar ræmur með skaftlenzum, eru krókar festir í ræmurnar og belgurinn dreginn af hvalnum með gufuafli. Í kjallaranum er geymsluhús með lýsistunnum; á fyrsta lofti eru stóreflis ker, sem spikið er soðið í, og gufuvél; hvert ker tekur 10 smálestir af spiki og er gufunni hleypt í þau úr vélinni; úr aðalvélinni ganga dragreipi í ýmsar smærri vélar á efri loftunum, og gjöra þær ýmislegt, er þarf: aðalvélin stýrir ein öllum verkum. Gufan dregur spikið upp á efsta loft, og hreyfir geysistóran hníf, er brytjar sundur hvalinn, og er hann fluttur í smávögnum í pottana. Norðmenn voru í sumar búnir að fá um 30 hvali, enda höfðu þeir tvö gufuskip til veiðanna, »Reykjavík« og »Ísafold«. Skutlarnir eru ljótu morðtólin; á þeim eru 4 agnhöld, sem rísa upp, þegar hvalurinn tekur viðbragðið, en við það kviknar í þristrendri sprengikúlu úr stáli, sem er fremst á skutlinum, svo hún springur inn í

hvalinn. Ef skutullinn kemur vel á, drepst hvalurinn þegar í stað, en oft fær hann þó ekki banasár af skotinu, og hleypur margar mílur með skipið og stenzt þá ekkert við, þó gufuvélin sperrist á móti af alefli, unz hvalurinn mæðist svo, að hægt er að vinna á honum. Það þarf sterka kaðla til að þola slíkt átak; kaðlarnir eru margreyndir áður og verða að geta þolað 40 þúsund punda þunga, og þó bila þeir stundum. Norðmenn kvörtuðu sáran undan háhyrningunum; þegar hvalirnir eru skutlaðir, safnast háhyrningarnir þar að í hópum og rífa þá út úr höndunum á Norðmönnum, það er að segja, rífa úr þeim stórar flyksur og fara illa að mat sínum; þeir voru nú að búa út minni skutla og fallbyssur, til þess að vinna á þessum boðflennum.

Frá Langeyri og inn fyrir botn á Álftafirði eru hjallar fram með sjónum og eins út með að austanverðu; þar eru í hjöllunum brimbarðir hnullungar og möl, og er hún sumstaðar í fastri samsteypu, af því járnlá úr mýrunum fyrir ofan hefir sitrað gegnum mölina. Við riðum út hjá Kambsnesi og yfir lágan háls, sem gengur eins og lægra nef fram undan eggþunnu, bröttu fjalli, líkt og Arnardalsháls að vestanverðu, og komum að Eyri í Seyðisfirði um kvöldið. Þar er ágætt skipalægi fyrir innan eyrina og leggjast þar oft verzlunarskip. Eyrin er rúmlega 10 feta há, mynduð úr hnullungum. — Járn er hér alstaðar töluvert í fjöllunum, einkum í hinum örmjóa kambi milli Seyðisfjarðar og Álftafjarðar, og er bergið þar víða rautt af járnlá, sundurétið og ummyndað. Í Seyðisfirði eru 4 bæir. Austan við fjörðinn gengur fram einkennilegt nes; er þar fremst hátt fjall, líklega um 1600 fet, það heitir Hestur, en fyrir ofan fjallið er lágt eiði (105 fet), og er þar örstutt yfir í Hestfjörð. Á eiðinu eru ísfágaðar klappir, og lausum stórbjörgum er þar stráð á víð og dreif; hafa þau auðsjáanlega borist þangað á ísöldinni. Þegar kemur niður af eiðinu, ríður maður um stund inn með Hestfirði hátt upp í hlíð, en fyrir innan urð nokkra liggur vegurinn neðar; fjörðurinn er langur og mjór, eins og görn, og þverbrött fjöll á báða vegu og undirlendi ekkert. Dólerit er þar víða í klettum, og í fjörunni eru

klettarnir sundurétnir og holóttir af áhrifum sjávarins; þegar inn eftir dregur, er skógur mikill í hlíðunum, en fult er þar af hrísköstum, og alt rifið og tætt, sem næst er bæjunum, svo þar eru hlíðarnar berar og skriðuhlaupnar; kalviðurinn er ekki hirtur, en nýgræðingurinn vægðarlaust rifinn Fyrir fjarðarbotninum er svo að segja ekkert undirlendi; lítið er hér um gil og skvompur í hlíðunum, enda er það eðlilegt, því eggjarnar milli fjarðanna eru svo örmjóar, að þar getur ekki safnast svo mikið vatn, að það geti haft nokkur veruleg áhrif á klettana. Út með austurströnd fjarðarins er mjög vondur vegur og illfær með hesta, sökum stórgrýtis; þar eru víða uppi í hlíðinni stórar gráviðisskellur og sýnast þær í fjarska líkar dýjum. Þrír bæir eru við Hestfjörð, allir að vestan. Yzt að austanverðu er stórkostlegt hrúgaldur af lausagrjóti upp með hlíðinni, nærri móts við bæinn yzta að vestanverðu, og fórum við þar yfir dálítinn háls að Hvítanesi; þar eru í hálsendanum glöggar ísrákir með stefnunni N5°A, yfir þær ganga aðrar rákir með stefnunni N30°V. Sumstaðar eru vindnúnar klappir á milli.

Daginn eftir fórum við frá Hvítanesi kringum Skötufjörð; það er ákaflega langur vegur og torsóttur. Skötufjörður kvað vera jafndjúpur eins og Ísafjarðardjúp fyrir utan, að sögn um 70 faðma; þar gengur inn allmikill fiskur, en ekki á hina firðina, því þar eru berghöft fyrir framan, t. d. í Mjóafirði og Hestfirði, þó djúpt sé innra. Ísrákir eru víða við Skötufjörð eftir fjarðarstefnunni, og fágaðar klappir koma við og við fram úr urðinni; alstaðar eru brattir hamrahjallar, skriður og stórgrýti; þar er illur vegur, og þó nærri lakastur þar sem menn hafa verið að myndast við að gera að honum, því þar eru lagðar hellur í göturnar, sem hestarnir hæglega geta dottið á eða rekið lappirnar niður um óteljandi glufur og göt. Botn fjarðarins er eins hrjóstrugur, þar eru tveir bæir, og gengur ós inn á milli, innan um ísnúin klapparholt. Fyrir utan Borg og að Hjöllum er vegurinn einna verstur; þar heitir Fossahlíð, og er hún nafntoguð hér vestra. »Fjandinn ríði Fossahlíð, eg fyrirbýð það mönnum« stendur í vísunni. Hjá Hjöllum

verður maður að fara yzt utan í háum hamrabrúnum og þræða bláeggina, því kviksyndismýri er fyrir ofan og út á brún; í Fossahlíð verður maður víða að klöngrast hátt upp í fjalli. Fyrir utan Hjalla batnar vegurinn stórum, og fer maður úr Skötufirðinum yfir lítinn háls fyrir utan fjallsnefið að Ögri.

Ögur hefir lengi verið stórbýli og er það enn, því sú jörð er prýðilega setin. Jakob Rósinkarsson hefir gert þar miklar jarðabætur, bygt stórt íbúðarhús, látið gjöra vatnsmylnu, stíflu í ána, svo veita má vatni um stokk á túnið o. s. frv. Jörðin er sjálf ekki stór, en þar er ágætt útræði og sjósókn mikil. Í kirkjunni í Ögri eru ýmsar merkilegar myndir, t. d. af Ara bónda Magnússyni í Ögri og konu hans, — hún er nú komin á Forngripasafnið, — af Magnúsi Bergssyni o. fl. Frá Ögri fór eg að Vatnsfirði kringum Mjóafjörð, fyrst yfir dálítinn háls, síðan inn fyrir Laugarvík, Þernuvík og fleiri víkur. Nesin milli víkanna eru mjög hrjóstrug og gróðurlaus, eintómir hamrastallar, klappir og urðir og klettanef og ranar fram í sjó. Upp af Laugavík er Laugadalur, þar eru laugar á Laugabóli, en ekki kom eg þangað. Fyrir sunnan Látravík er Mjóifjörður, mjög mjór; klettahólmur er í mynninu, og klettanes frá eystra landinu, rétt fyrir innan Skálavík. Fjöllin við Mjóafjörð eru lág og grösug, lyngi vaxin á stöllum; þar er góður vegur og greiðfær með firðinum víðast hvar. Innarlega að vestanverðu gengur stór og mikill dalur, Heydalur, upp frá firðinum; þar er skógur nokkur, grösugt og sveitarlegt, og eins er nokkur skógur í fjarðarbotninum. Frá Skálavík fer maður yfir lítinn háls að Vatnsfirði; svo er hér alstaðar við Djúp, að menn fara yfir smáhálsa og klettanef yzt á nesjunum milli fjarðanna. Hér og hvar austan við Mjóafjörð vottar fyrir volgum lækjum undir hlíðinni, og sumstaðar við sjóinn dálítið fyrir ofan fjörumál er sambreyskingur af hnullungum, sem líklega er til orðinn af áhrifum heita vatnsins

Vatnsfjörður er, eins og allir vita, eitt hið helzta prestsetur á landinu; þar hefir lengi verið höfðingjasetur; þar bjó Þorvaldur Snorrason, níðingurinn alræmdi, og ættmenn hans,

og var bærinn illa ræmdur á Sturlungatíð, því þar bjuggu illmenni og ribbaldar; seinna voru þar merkir höfðingjar, eins og t d. Björn Einarsson Jórsalafari; 1530 eignaðist kirkjan Vatnsfjörð, eftir langt þras og málaferli. Landið í kringum Vatnsfjörð er mjög hrjóstrugt og gróðurlítið, en fram á fjalli upp af dalnum er ágætur sauðgróður, og er þar haft í seli; Borgarey út af firðinum er aðalhlunnindi staðarins. Séra Stefán Stephensen var nýbúinn að láta reisa þar mikinn bæ, svo þar var nú eitt af hinum bezt húsuðu prestsetrum á landinu.

Frá Vatnsfirði fór eg 1. ágúst á Reykjanes. Landið er á leiðinni, eins og alstaðar hér á annesjunum, mjög hrjóstrugt, eintómar klappir og hamrabelti, en fjöllin eru lág; þau lækka töluvert þegar dregur inn með Djúpinu. Reykjarfjörður er mjór, einkum að framan, því þar breikkar nesið austan við fjörðinn, svo innsiglingin verður mjög mjó. Á Reykjanesi eru hverir allmargir og laugar, og er það orðið frægt fyrir saltsuðuna, sem þar var höfð á öldinni sem leið. Reykjanes er breitt að framan, en örmjótt hið innra; það er hömrótt og hrjóstrugt og hæst utarlega um miðjuna; vestantil er nesið eintómar klappir með sjó fram, en að austanverðu er sléttara með sjónum og allgóður vegur. Fremst á nesinu er sléttast og minna um klappir; þar eru hverirnir. Hjá hverunum tjölduðum við og dvöldum þar eina nótt og hálfan dag, til þess að skoða hverina. Þar sjást enn þá margar menjar eftir saltsuðuna, garðhleðslur, grjótstéttir undan saltpönnunum o. fl. Magnús Ketilsson segir gjörla frá saltverkinu á Reykjanesi. Árið 1772 skipaði konungur svo fyrir, að Conrad Walther skyldi fara til Íslands og skoða Reykjanes; Walther þessi var embættismaður við »Vallö Saltværk«; með honum fóru saltsuðumaður, múrsveinn og timburmaður og Jón stúdent Arnórsson. Jón þessi átti að læra saltsuðuna, til þess hann seinna gæti haft umsjón með starfinu. Þeir félagar komu þangað í júnímánuði 1773; voru þá þegar reist hin nauðsynlegustu hús og múraðar 3 saltpönnur, og 6. septembermán. byrjaði saltsuðan. Næsta ár fór Walther aftur til Íslands samkvæmt

konungsúrskurði 3. janúar 1774, og 21. febr. s. á. varð Jón Arnórsson sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og átti hann um leið að hafa umsjón með saltsuðunni. Það ár var aukið við 9 pönnum stórum og 2 litlum og einni þurkunarpönnu, og 1775 voru enn settar 6 pönnur, svo þá voru þær alls orðar 21. Árið 1776 fór Walther í seinasta sinni til Íslands, var þá enn bætt við 11 pönnum, svo þá voru þar um haustið alls 32 pönnur til saltsuðu. Af pönnum þessum voru 27 úr blýi, þær voru ferhyrndar og 2 álnir á hverja hlið, 12 þumlunga djúpar og 1/4 þuml. á þykt; 2 voru ein alin á hlið; en þurkunar-pönnurnar tvær voru úr blikki, 6 fet á lengd, 4 fet á breidd og 1 fet á dýpt, og ein ferhyrnd, 5 fet á hvern veg. Hver blýpanna var 2 skippund og 4 lísipund á þyngd. — Þá voru fleiri hús á Reykjanesi en nú, því nú er þar enginn kofi; þar voru tvö íbúðarhús, 5 suðuhús, 2 þurkunarhús, 2 dæluhús, stórt salthús og geymsluhús handa sjó. Þar var sjórinn geymdur í stóru trogi, það var 26 fet á lengd, 18 fet á breidd og 6 fet á dýpt; sjónum var pumpað upp í opinn stokk og rann úr honum í trogið, en úr botni trogsins gengu pípur inn í öll suðuhúsin; sjórinn hófst þannig 28 fet upp frá sjávarmáli og varð að fara 57 faðma frá sjávarmáli upp í trogið stóra. Heita vatnið undir pönnunum spýttist upp um 31 gat í suðuhúsunum.[1]) Magnús Ketilsson segir, að 3 hverir séu ofar á nesinu, sem enn séu ekki notaðir, er hann ritar (1776), og segir hann, að þar megi hafa 24 pönnur, og að hverirnir séu 34 fet yfir sjávarmáli um flóð; segir hann, að hæglega megi stífla það vatn með múr nærri 100 feta löngum og leiða vatnið svo í stokk niður eftir, og ef vatnshjól væri notað, mætti spara vinnukraft, svo eigi þyrftu að vera nema 4 menn í stað 6 vinnumanna, sem þá voru þar. Ekki var saltið mikið sem fékst í Reykjanesi. Frá því 6. september 1773 til ársloka 1774 fengust þar 75 tunnur, 1775 128 tunnur, og frá ársbyrjun 1776 til 13. júní s. á. 92 tunnur.

[1]) Magnús Ketilsson segir, að hiti hveravatnsins sé 191° (líklega er það Fahrenheit eða 88° C.). en 182° F. (83° C.) eftir að vatnið er búið að fara um 200 feta langan múraðan stokk.

Magnús vonar þó, að menn geti fengið þar 325 tunnur salttunnur á ári.[1]) Saltið var ágætt og reyndist vel bæði við fisksöltun og kjötsöltun. Af þessari skýrslu er það auðséð, að það gæti engan veginn borgað sig að brenna þar salt með þeim saltprísum, sem nú eru.

Árið 1776 kom Walther enn þá einu sinni til Íslands til þess að gera uppástungur um saltverkið, svo það yrði aukið og gjört sem fullkomnast. Ári seinna var þar bygt nýtt íbúðarhús fyrir vinnumenn og efnið í það tekið úr hinum eldri suðuhúsum, sem þóttu of lítil og óhentug; þá var keyptur stór bátur til flutninga, sleði og ýmislegt fleira. Konungur keypti jörðina Reykjarfjörð í makaskiftum fyrir Auðkúlu og Birnustaði, en Jón sýslumaður Arnórsson fékk ábúð á jörðinni með vanalegum leigumála; átti hann að hafa eftirlit með saltbrenslunni, og var því hentugast að hann byggi þar í nánd. Uppástungur Walthers voru nú lagðar fyrir námuráðið í Kaupmannahöfn, og félst það í alla staði á ákvarðanir hans; síðan voru tilbúnar ýmsar vélar, er nota skyldi við saltbrensluna, t. d. vatnsvél til þess að pumpa sjóinn upp í pönnurnar o. m. fl. Vorið 1778 voru vélarnar sendar til Reykjarfjarðar, og með skipinu voru smiðir og vélameistari, er átti að setja verkfærin saman. Nú var ákveðið, að byggja skyldi öll húsin úr múrsteini eða íslenzku grjóti, af því viður fúnaði of fljótt i hveragufunum; samningur var gjörður við kaupmenn á verzlunarstöðum vestra um kaup og flutning á saltinu; áttu þeir að fá hverja tunnu (10 sk.) fyrir 2 rd.[2]) Árangurinn af öllu þessu varð lítill eða enginn; saltbrenslan stóð með veikum burðum í 13 ár og var með öllu fallin niður, þegar Jón sýslumaður Arnórsson dó 1796;[3]) árið 1780, nóttina milli 1. og 2. maí, brann timburstofa á saltverkinu með mestöllu lausafé Jóns Arnórssonar.[4])

[1]) Magnús Ketilsson: Islandske Maanedstidender. Juli 1776, bls 157—166.

[2]) *Jón Eiríksson* í formála fyrir ferðabók Olavíusar bls. 172—175.

[3]) Árbækur Espólíns XI. bls. 78. Á Reykjanesi hefir stundum á seinni árum verið höfð sundkensla.

[4]) Vatnsfjarðar annáll Hdrs. J. S. nr. 39 fol.

Á fremsta, sléttasta hluta nessins eru hverirnir, sem fyrr var sagt; er þar einkum austan til mýrlendi með smáum tjarnapollum, en þurlendara nokkuð að vestan, og þar eru hverarnir mestir. Hverarnir eru í 3 þyrpingum. Við austasta hverinn eru engin mannvirki; þar spýtist vatnið upp í endanum á löngum skurði, hitinn er þar 77°. Þar vaxa á bökkunum tegundir af undafífli (Hieracium), af marghyrnu (Polygonum aviculare og P. persicaria), mura, lifrarjurt o. fl. Slý er ekki í læknum, nema þar sem hitinn er að eins 60° eða minna. Rúmum 60 föðmum vestar er annar hver undir klettunum í melbarði; þar er hitinn 86½° C; rétt fyrir ofan hverinn eru tveir gangar, sem skerast. Á nesi þessu eru yfir höfuð að tala mjög margir gangar, og stendur hveramyndunin líklega í nánu sambandi við þá. Hjá hver þessum er mölin bökuð saman af hitanum og dálítill hverahrúður í botninum, rennur lækur frá hvernum, og eru 4 heitar hveraholur í bökkunum (hiti þeirra 88½°, 84°, 85½°, 64½°). Þar hefir garður verið hlaðinn fyrir neðan, svo vatnið safnast saman í dálitla tjörn; garðurinn er úr stóru grjóti, og hafa holurnar milli steinanna verið fyltar með leir. Þetta eru líklega hverirnir, sem Magnús Ketilsson talar um að megi stífla og setja á 24 pönnur. Meginþorri hveranna er utar á nesinu, norður frá þeim, sem nú hefi eg lýst. Hér um bil 25 föðmum neðar fann eg litla, bullandi hverholu, hitinn þar var 88° C.; vatnið ólgar upp aðra hverja mínútu; hvert skifti sem vatnsgusan kom að neðan, var vatnið 88°, en þess á milli var hitinn að eins 85°. Hér um bil 50 föðmum neðar taka við aðalhverirnir þar eru mikil mannvirki, hverarnir hlaðnir upp í ferhyrninga og rennur vatnið á milli pollanna, á einum stað hafði enn þá haldist steinstokkur; gamlir múrsteinar í hverunum voru búnir að fá kísilskorpu að utan. Gegnum hveraþyrpinguna rennur mýrarvatn hér og hvar úr nágrenninu, og frá þeim öllum heitur lækur niður í sjó í vík, sem gengur inn í nestána; þar er stór kartöflugarður við sjóinn hjá læknum. Þar kvað líka koma heitt vatn upp á mararbotni fyrir utan; meðan eg stóð þar við, höfðu mörg þúsund

æðarfuglar safnast þar á víkurnar í velgjuna. Hitinn í holunum við norðurhverina er mjög misjafn; í heitustu holunni voru 93° C., en víðast milli 80° og 90°. Vestanvert við hverina eru harðir balar, og vaxa þar pétursfíflar mjög þétt. Ofar í nesinu kvað vera hver allstór, en hann sáum við ekki.

Frá Reykjanesi héldum við inn með Ísafirði, fjöllin á báða vegu eru hvergi há, líklega oftast 7—800 fet; þar er ekki ógrösugt; skógur hefir þar verið áður, en mest er búið að rífa burtu. Nokkru fyrir utan Eyri eru ýmsar hveramyndanir við sjóinn; komum við fyrst að lítilli laug, rétt fyrir ofan flæðarmál; hún hefir verið hlaðin upp og er hitinn þar 46½°; hér hefir áður verið miklu heitara, því hér um bil 30 skrefum innar við sjóinn er klöpp af samlímdum basalthnullungum, möl og sandi, og enn innar er önnur stærri samlímd klöpp við sjóinn, og á henni sunnanverðri spýtist heitt vatn, 47½°, út um rifu. Víðar eru hér við sjóinn menjar eftir fornar hveramyndanir. Fyrir innan Eyri er malarkambur úr brimsorfnu grjóti hér um bil 50 fet fyrir ofan sjó. Hlíðin er nú fremur ógreiðfær inn í Ísafjarðarbotn og klungrótt, og víða riðið uppi í hlíð. Gangar eru hér margir í fjöllunum í ýmsar stefnur, bæði jafnhliða firðinum og eins til N.V. og V. Við fjarðarbotninn eru fjöllin hærri, líklega um 1000 fet. Malarkambar eru fram með sjónum hjá Kleifakoti og Gjörfudal, eins hjá Laugabóli og fram með ánni upp í dal.

Eins og nafnið sýnir, er á Laugabóli töluverður jarðhiti; þar eru neðan undir túnbarðinu laugar, í hinni yztu var hitinn 18°, í annari, sem notuð er til þvotta, voru 36°, og í hinni þriðju innar og ofar 32°; alt eru þetta smáholur með slýi; kálgarðar hepnast hér mjög vel, sökum jarðhitans, af því þeir eru líka hafðir nálægt laugunum. Nálægt sjó fyrir neðan túnið er allstór pyttur með slýi og hitinn þar 31°, og í brunni hjá bænum var hitinn 11°; sama dag var lofthitinn 9° C. Volgt vatn kvað koma víðar úr jörðu hér í nánd, t. d. hjá Múla, spölkorn fyrir neðan túnið, og eins rétt fyrir utan Gjörfudal í Sauðhúsnesi. Laugaból er eitt

af helztu stórbýlum við Djúpið, og hafa þar verið gerðar miklar jarðabætur. Frá Laugabóli riðum við út Langadalsströnd, eru þar víðast hvar góðir vegir, undirlendi nokkuð og fjöllin lág næst fyrir ofan. Eftir Langadalnum rennur vatnsmikil á, og fellur hún út í stóran ós hjá Nauteyri; norðan með ánni eru háir melhjaliar og haldast þeir með sjó fram alt norður að Kaldalóni. Kippkorn fyrir ofan bæinn á Nauteyri, í mýrarsundi milli holta, er dálítil laug; laugin sjálf er hlaðin upp, og er hitinn þar $42^{1}/_{2}{}^{0}$, en ofar í smágötum $30-34^{0}$ hiti; frá lauginni rennur lækur í ýmsum krókum niður að bænum og gegnum bæjarhúsin. Volgt vatn kvað vera víðar í landareigninni. Á Nauteyri var nýbúið að byggja timburkirkju mjög snotra; þar eru líka spunavélar, og hefir verið bygt handa þeim gott hús og lækur notaður til þess að hreyfa vélarnar; alt stóð þar nú kyrt, er eg kom þar. Um kvöldið 3. ágúst komum við að Ármúla, sem stendur á hjöllunum við mynnið á Selá; það er mikil á og djúp á vaðinu hjá Ármúla, þar á að fara í bug niður á eyri, sem er í ánni, en við fórum skakt, nefnilega beint yfir, mikill vöxtur var í ánni og lentum við í miðjum strengnum og urðum að slarka á sundi yfirum. Selá kemur undan suðvestursporðinum á Drangajökli og er jökulvatn; rennur hún niður Skjaldfannardal. og eru miklar holtahrúgur og melhjallar í dalmynninu. Sunnan við ármynnið er Melgraseyri; það er alllangur tangi í sjó fram og tvöfaldir hjallar fyrir ofan; ennþá ofar er aftur gamall jökulgarður með leirlögum innan um; þar fyrir ofan eru holtahrúgur með hvilftum og bollum, og slétta fyrir ofan í dalnum, líklega gamall vatnsbotn. Selá hefir líklega fyrrum runnið niður milli hólanna rétt fyrir utan Melgraseyri og myndað tangann, en síðan hefir hún brotist fram hjá Ármúla og skorið sig niður í gegn um melöldurnar, svo vatnið hefir þornað upp.

Þeir, sem farið hafa uppá Drangajökul, hafa farið upp Skjaldfannardal. *Hans Frisak* gekk fyrstur á jökulinn 1806

og 4 sinnum kom hann þar 1809[1]). Miklu síðar kom enskur maður, *C. W. Shepherd*, þangað, 1862, og hefir hann lýst ferðinni, en hann sá lítið fyrir þoku[2]).

Spölkorn fyrir norðan Ármúla gengur inn fjörður, sem heitir Kaldalón; þangað fórum við daginn eftir. Í Kaldalóni er mjög grösugt, hlíðarnar fagrar, vaxnar grasi, víðir og lyngi Fjörðurinn sjálfur er mjög grunnur og leirur inn af; þar er riðið yfir um fjöru. Frá fjarðarbotni er hér um bil ½ míla fram að jökli, og er þar eggslétt, nema hvað 3 jökulgarðar ganga í boga milli hlíðanna; yzti jökulgarðurinn er grasi vaxinn og hefir fyrrum verið vaxinn skógi; miðgarðurinn er gróðurlaus og sá insti líka, sem eðlilegt er. Fyrir utan jökulgarðana eru eintómar leirsléttur, en fyrir innan þá og milli þeirra er sléttan þakin hnullungum og stórri möl. Fyrir 20—30 árum náði jökullinn út að insta garðinum, en hefir síðan dregist til baka, svo nú eru 2—300 faðmar frá garðinum að jökultanganum. Upp að jökli frá firðinum er svo eggslétt og hallalítið, að hæðarmunurinn mun varla vera meiri en 70—80 fet. Á grjóteyrunum upp við jökulinn er stráð stórum björgum, mörg þeirra eru ísnúin að utan, en þó þau séu úr eitilhörðu blágrýti, eru þau öll sprungin af þrýstingnum, sem þau hafa orðið fyrir undir jöklinum. Basalt- og dólerítmolarnir hafa nokkurn veginn haldist, en móbergssteinarnir eru muldir smátt og eru víða smáhrúgur gular og rauðar á söndunum, leifar af þess konar grjóti, sem er orðið að dusti af áhrifum jökulsins, það eru þó ekki nema hörðustu steinarnir, sem hafa getað haldið sér svo; hinir eru orðnir að leir og hafa borist með jökulkvíslunum. Basaltmolarnir eru núnir og rispaðir af jökulhreyfingunni, en sumir eru orðnir alveg hnöttóttir, af því jökulárnar hafa tekið við þeim og núið þeim saman; þar sem jökulvatnið sitrar gegnum malargrjótið, hefir sumstaðar myndast sambreyskingur af leir og hnullungum. Fram með suðurhlíðinni eru stórar hrúgur og

---

[1]) Landfræðissaga III, bls. 265. 270—71 [2]) s. st. IV. bls. 75—76.

hólar af jökulrusli, og sumstaðar urðir og stórgrýti, sem jökullinn áður hefir ekið fram. Skriðjökullinn gengur töluvert niður í dalbotninn að norðaustan; hann er eins og dálítið uppbólginn að framan, og er hátt upp á röndina, 4—500′; sést hér og hvar í gamlan jökulís ljósbláan eða þó fremur blágráan, en ofan á liggur yngri snjór mjallhvítur tilsýndar í 6—7 lögum; sprungurnar eru óteljandi og lagskiftingin í eldra bláa jöklinum er öðruvísi en í hvítara jöklinum ofan á. Þar sem jökullinn fellur niður, eru að sunnanverðu Votubjörg; þar er gömlum jökli klínt utan í hamrana töluvert fyrir ofan aðaljökulinn, við og við brotna stór stykki úr þessari jökulspildu, og heyrast þá dunur og dynkir, brak og brestir, svo kveður við í fjöllunum, þegar jökulskriðan fellur niður hlíðina á aðaljökulinn. Aðaljökullinn er auðsjáanlega að minka, og hefur verið miklu þykkri og lengri ekki alls fyrir löngu. Úr snjóportum í jökulröndinni renna kolmórauðar jökulkvíslar; þær dreifa sér um sandana og beygjast svo allar að norðurhlíðinni. Á leirunum við fjarðarbotninn eru oft miklar sandkvikur, sem geta verið hættulegar fyrir ferðamenn. Daginn eftir riðum við yfir Lónið, var vaðall í hné og kvið fyrir hestana og blautt undir, en hvergi varð sandkvika fyrir okkur, en maður sem fór rétt á eftir sömu leið, lenti í töluverðri sandbleytu. Við yzta jökulgarðinn var fyrrum að norðanverðu bær, sem hét Lónhóll, en Trimbilsstaðir sunnan ár; þar er nú alt í auðn, eintómir sandar og grjót; Trimbilsstaðir hafa fyrir mjög löngu farið í eyði, því jarðabók Árna Magnússonar getur þeirra 1710 að eins eftir munnmælum og segir engin merki sjást til bæjarins, en á Lónhóli segir hann að sjáist rústir; á Vestanseyri, þar sem selið er frá Ármúla, segir hann eftir munnmælum, að til forna hafi bygð verið.

Þegar við komum upp úr Lóninu, riðum við um á Lónseyri og svo út með hlíðum, fram hjá bæjum og að Unaðsdal; eru þar malarkambar með ströndinni alla leið. Snæfjallaströndin er nokkuð kaldranaleg tilsýndar; þar eru altaf langir skaflar í hlíðunum, sem aldrei þiðna, þó heit

sumur séu; snjórinn hleðst saman á hinum breiðu blágrýtisfjöllum, en jurtagróður er mikill og kjarngóður á sumrum, jafnvel fram með skaflaröndunum, en mjög er þar vetrarhart; þá skeflir af fjallaröndunum niður í sjó og alt fer í kaf; innistöður eru þar mjög langar, og verður þá að gefa fé eins og kúm og hestum, því fannkomurnar taka fyrir alla beit[1]). Niður hjá Unaðsdal rennur allmikil á, sem heitir Dalsá; hún er bæði ströng og stórgrýtt. Frá Unaðsdal fórum við út í Æðey; ey þessi er tæpan $^1/_2$ stundar róður frá landi; hún er hálend og hólótt og öll úr blágrýti; nyrzt á eyjunni blasa við þrjár borgir úr landi: Stóraborg, Miðborg og Grunnborg; um miðjuna er lægra, en sunnan á eynni eru þyrpingar af kollóttum hólum. Hæðirnar eru allar úr föstu bergi og ísnúnar, þó ekki sjáist þar glöggar ísrákir; milli hæðanna eru mýrabollar hér og hvar. Fremsti oddi eyjarinnar heitir Klettur, en landtanginn Kvíahólmar. Í landsundinu er Æðeyjarhólmur, lítill, grasivaxinn að ofan. Í Æðey er lítil höfn og grunn (um 2 faðmar), en allörugg, því tveir hólmar liggja fyrir framan: fyrir botni víkurinnar er bærinn; það er allmikið húsaþorp, hjallar, geymsluhús o. s. frv. Vestan á eynni eru hamrar fram með sjónum og á norðurendanum er töluvert af lundaholum; kríur eru hér líka margar og dálítið af teistu. Æðarfuglinn hefir gefið eynni nafn og gert hana fræga, enda er hvergi á Íslandi jafnmikið varp á einni ey; um aldamótin fengust þar að eins 2 pd. af dún, nú (1887) fást þar 4—500 pd.; um varptímann er æðarfuglinn um alla eyna og jafnvel uppi í gluggatóptum bæjarins. Árni Magnússon segir í jarðabókinni 1710: »eggver og dúntekja þaraf hefur að góðu gagni verið, en smámsaman farið til þurðar og nú varla teljandi í margt ár«. Hann segir og, að þar hafi áður verið annað býli, sem hét Norðurtún, og bætir við: »ekki má hjer aftur byggja, því heimajörðin má einskis í missa«. Landskuld af Æðey þá til helminga borguð í skreið, en helmingur í

[1]) Sóknarlýsing Snæfjalla 1839 segir, að hvorki séu kál né kartöflugarðar til á Snæfjallaströnd.

landaurum. Undir Æðey heyra töluverðar slægjur á landi uppi á Snæfjallaströnd; vatnsból er fremur ilt, er vatnið heiðgult af járnefni; þar er engin mús og enginn köttur.

Hinn 6. ágúst fór eg frá Unaðsdal yfir Dalsheiði; allbratt er upp á heiðina og lítið um veg, en vörðubrot hér og hvar: þegar kom upp á heiðina, voru alt af urðir og skaflar á víxl, urðirnar í hjallaröndunum og skaflarnir í dældunum; við þræddum skaflana til þess að fá bærilegan veg; það var úða-rigning og þoka, þegar við fórum á stað, en uppi á heiðinni var kafald og á háheiðinni voru eintómar fannir. Efst á heiðinni heitir Kjölur; það er urðaregg, sem upp úr sköflunum stendur; þar er varða og skarð, sem maður fer um, til þess að komast norður af. Dalsheiði er 2104 fet á hæð. Að norðanverðu kemur maður ofan í skeifumyndaðan botn; þegar kemur niður í dalinn, er á vinstri hönd einkennilegt fjall, sem heitir Tröllafell; þar er mikið stuðlaberg í fjallinu og standa sumar blágrýtissúlurnar sérstakar, eins og stólpar á brúninni. Við fórum niður með Dynjandaá um holt og urðir niður að sjó, höfðum við verið tæpar 4 klukkustundir yfir fjallið milli fjarða. Það er ekki neitt blómlegt að líta norður yfir Jökulfirðina, en þó má útsjónin þykja heldur falleg eða þó fremur einkennileg, ekkert sést nema svartir og brattir múlar og höfðar með snjóslettum hér og hvar og fjarðakvíslirnar inn á milli; grænn litur sést varla nokkurstaðar. Með suðurlandinu er sjórinn allur kolmórauður af jökulvatninu, sem rennur út úr Leirufirði. Þegar við komum af Dalsheiði, riðum við undir eins inn í Leirufjörð og tjölduðum þar inn undir jökli.

Í Leirufirði er mjög líkt því sem er í Kaldalóni, stórar leirur við fjarðarbotninn og flæðir yfir þær; áin kvíslast um láglendið alt upp til beggja hlíða; þar er grösugt sumstaðar á eyrunum og góður sauðgróður í hlíðunum.

Skriðjökullinn í Leirufirði er nyrsti jökullinn, sem gengur niður úr Drangajökli; jökullinn blasir við frá firðinum, og er mjög reglulegur og fallegur tilsýndar; en þegar nær kemur, sést urðaruslið á yfirborðinu, sprungurnar og aurinn.

Að sunnanverðu er vik upp í jökulsporðinn, og hefir þar auðsjáanlega nýlega sprungið fram stórt stykki; að því er mér var sagt, varð þetta fyrir 4 árum. Þar sem þessi sýling er í jökulröndina, sést ágætlega bygging jökulsins; þar eru hyldýpissprungur blágrænar, og sjást íslögin í jökulveggjunum og milli þeirra rákir af aur og grjóti; í jökulsporðinum eru víða heljar-björg í ísnum, eins og hnoðuð inn í hann, og sýnast þau vera á leiðinni upp eftir milli laganna; stórir steinar detta niður í sprungurnar, og af því hreyfing íslaganna er mismunandi, þá komast þeir upp á milli laganna og alla leið upp á yfirborð jökulsins. Sumstaðar voru íslögin margbeygð í kring um stóru steinana. Dálitið vik er líka upp í jökulsporðinn að norðanverðu, en ekki nærri eins stórt. Úr suðurslakkanum kemur allmikil jökulkvísl og rennur hún norður með jökulröndinni og bætist þar alt af meira og meira í hana; líklega hefir vikið í jökulsporðinn myndast af vexti í jökulánum, sem undir jöklinum renna. Í einu jökulportinu sá eg, hvernig jökullinn fer að fægja klappirnar; þar lá jökullinn á blágrýtishellu; í ísnum voru fastir margir smáir steinmolar, sem höfðu gert rákir í helluna og fægt hana þar sem þeir fóru yfir. Fyrir framan jökulsporðinn var lítill jökulgarður, bogadreginn eftir röndinni, en þar sem vikið var að sunnan, var hann kippkorn (70 faðma) frá jökulhömrunum. Skriðjökull þessi er að minka, alveg eins og jökullinn í Kaldalóni, jökullinn í Reykjarfirði við Geirólfsgnúp o. fl. Fjórir lágir jökulgarðar eru hér á leirunum fyrir framan jökulinn; er þar tildrað upp stórgrýti hverju ofan á annað, og alt er núið og rispað af jökulhreyfingunni. Kunnugir menn sögðu mér, að jökullinn hefði fyrir 40 — 50 árum náð út að yzta jökulgarði; síðan hefur hann þá stytst um rúma 500 faðma. Allir jöklar, sem eg þekki hér á landi, eru að minka, og hefir þeim stórum munað á hinum síðustu 50 árum. Í Alpafjöllunum hafa menn tekið eftir hinu sama[1]). Í suðurhlíðinni við Leirujökul sjást margar menjar þess, að jökullinn hefir fyrrum verið miklu þykkri en nú. Fyrir utan

[1]) A. Heim: Gletscherkunde. Stuttgart 1885, bls. 509.

yzta jökulgarðinn eru grasi vaxnar eyrar; nokkur gróður er fyrir innan yzta garðinn, en svo hverfur hann skjótt, eftir því sem maður nálgast jökulinn, og sést ekki stingandi strá fyrir innan þriðja garðinn.

Fjöllin, sem liggja að Leirujökli, eru öll úr blágrýti, eins og önnur fjöll hér vestra, en undir blágrýtinu fann eg beggja megin við jökulinn mjög einkennilegar og sjaldgæfar myndanir. Sunnan við jökulinn hallast lögin í þessum myndunum 3—4⁰ inn á við; þar eru efst samlímdir malarsteinar smáir, núnir og rendir af vatnsrensli, sumir molarnir eru úr blágrýti, sumstaðar mikið af kvartsi innan um, sumstaðar eru gráleit eða gul leirlög, en neðst rautt móberg. Basaltgangar eru sumstaðar þvers í gegn um þessar »conglomerat«-myndanir, og er »tachylyt«-skorpa á takmörkunum og sumstaðar greinar út úr göngunum milli leirlaganna. Basalt-gangar í fjöllum hér vestra ná alstaðar upp í gegnum öll blágrýtislög fjallanna, en hér ná þeir að eins upp í gegnum »conglomerat«-myndanirnar, og sést af því, að þeir hafa myndast, áður en aðalefni fjallanna—blágrýtislögin—lögðust ofan á. Þessar jarðmyndanir sjást enn þá betur í norðurhlíðinni; þar fellur á einum stað niður lækur úr fjallinu með breiðum fossi og fellur fossinn yfir gráar leirmyndanir; lögin sjást glögt í leirnum alla vega bogin, og eru sum smágjör, sum nokkuð stórgerðari; þar eru alstaðar hvít og svört núin steinkorn innan um. Þvers í gegn um þessi lög ganga mjóir basalt-gangar. Litlu utar kemur sama leirmyndunin fram í hlíðinni, og eru mjóir basalt-gangar þar margtvinnaðir í ótal greinum gegn um leirlögin. Innar undir jöklinum sést sama myndunin í hlíðinni enn þá þykkri; þar er neðst mjög stórgerður sambreyskingur, og innan um núin björg af rauðleitu og dökku dílagrjóti. Öll myndunin er þar rúm 300 fet á þykt. Þessar »conglomerat«-myndanir hefi eg hvergi séð annarstaðar á Vesturlandi.

Til þess seinni menn geti séð hreyfingu jökulsins, þá klappaði eg krossmark í klöpp 90 skref frá jökulröndinni að norðanverðu; þar eru ísfágaðar blágrýtisklappir nálægt jöklinum, og engar aðrar klappir nálægt þeim megin. Hæð-

jökulendans yfir sjávarmál er hér um bil 120 fet. Jarðabók Árna Magnússonar 1710 segir að fornt eyðibýli sé í botninum á Leirufirði og heiti Öldugil, en það hafi eigi verið bygt í 2—3 hundruð ár og hafi eyðst af jökulhlaupum, »það litið sem eftir sést af tóptarústum er nú við sjálft jökulbarðið og hefir jökullinn í manna minnum hlaupið yfir alt þetta pláss, þar sem bærinn hefir að fornu verið«. Í máldaga Grunnavíkur kirkju 1367 er sagt, að kirkjan eigi Faxastaði í Öldugili og er það líklega sami bær (Dipl. Isl. III, 229).

Frá jöklinum fórum við út með suðurhlíðinni, sem heitir Ölduskarðshlíð, út að Dynjanda, og svo að Stað í Grunnavík. Ýmsir sögðu mér, að fjörubeit væri hættuleg fyrir fé á Dynjanda og nokkrum öðrum bæjum; sögðu þeir, að fé dræpist þar,[1]) ef það gengi í fjöru frá því í miðgóu þangað til 3—4 vikur af sumri; þetta kalla þeir »fjörufall« og segja það komi af því, að kindurnar eti sjávarorma (skera), sem þá eru í þanginu; hvernig þessu er varið eða hverjar orsakirnar eru, veit eg ekki með vissu.[2]) Fyrir neðan Höfða er marbakki hár með leirlögum; fyrir ofan Höfðaströnd er móskurður fjarska þykkur utan í hlíðinni; stálið er oft 4—5 álnir á hæð. Á leiðinni frá Höfðaströnd að Stað er háls, sem heitir Staðarheiði; hann er 389 fet á hæð. Upp frá Stað gengur Staðardalur, mikill dalur og grösugur, og beint á móti dalur frá Snæfjallaströnd upp frá Skarði; þar eru miklar ísaldarrústir í dalmynninu, og örskamt yfir fjallgarðinn. Hjá Stað er graslendi mikið og engjar, og niður við sjóinn er kotahverfi dálítið. Á Stað er torfkirkja fremur fornfáleg; þar er Maríumynd gömul í kirkjunni og málaður prédikunarstóll með myndum af guðspjallamönnum og af prestinum, sem gaf hann.

Frá Stað í Grunnavík fór eg yfir í Aðalvíkursókn sjóveg yfir Jökulfirðina að Sléttu. Mér þótti of mikil tímatöf og

[1]) Sbr. Landfræðissaga II, bls. 88. [2]) Í sóknarlýsingu Svalbarðs í Þistilfirði er þess getið, að fé bráðdrepist af þaraáti, en orsökina vita menn eigi, halda sumir að það sé eiturormur, er kemur niður í féð, og kalla hann þaranál.

ógjörningur að hrönglast með hestana inn fyrir Jökulfirði, og höfðum við því ekki annan farangur með okkur en hnakkana og töskur, og ætluðum svo að fá hesta í Sléttuhreppnum, en það gekk mjög treglega, því flestöll hross höfðu fallið um vorið úr harðrétti, svo hnakkarnir urðu okkur aðeins til trafala, því við urðum víða að fara gangandi. Tveir menn fluttu okkur á kænu yfir að Sléttu, og var útbúningur allur hinn lélegasti. Úr Grunnavíkinni rérum við inn með Staðarhlíð inn undir Gathamra, en úr því mátti koma við segli yfir að Sléttu. Gathamrar eru ekkert annað en basaltgangur, sem stendur út úr berginu, og eru tvö göt í gegnum hann; ganga kalla menn hér vestra oft strengberg, af því þeir ganga eins og strengir upp í gegnum björgin. Á Sléttu gátum við aðeins fengið eina bykkju yfir heiðina að Stað í Aðalvík; hinar voru dauðar úr hor. Slétta er kristfjárjörð, en presturinn í Vatnsfirði fær leigur og landsskuld með þeim skilmála, að hann taki þyngsta ómaga hreppsins til framfærslu. Í jarðabók Árna Magnússonar 1710 stendur: »kvöð hefir sú verið langvarande að færa prestenum að Vatnsfirði einn brennivínskút ásamt landskuld og leigum, sem ekki hefir til reiknings komið upp í nokkur þeirra skuldaskipti, en fyrir 15 eða 16 árum voru 2 ábúendur og skeinkte þá sinn kútenn hvör, sem sagt er að staðarhaldarenn hafe þó að nockru launað«. Garðanes fyrir utan Sléttu við sjóinn segir jarðabókin að áður hafi verið verstaða, og hafi þar gengið 4—6 skip, og galt hver maður, er réri, staðarhaldaranum í Vatnsfirði einn fjórðung fiska í vertoll. Staðarheiðin er stutt, en fremur hrjóstrug; hún er jafnhá Grænuhlíðum og 838 fet á hæð. Niður af heiðinni fer maður niður í botninn á Fannadal, niður bratta skafla; blasir þar við Aðalvíkin, og er þar mjög grösugt og fagurt að líta yfir landið. Upp frá Stað eru fagrar engjar og þar er vatn allstórt, og melar fyrir framan; vatnið er grunt og kvað ekki vera meira en 4 álnir á dýpt; úr því rennur lækur, sem kallaður er Strengur. Upprunalega hefir líklega vatnið verið lón upp af víkinni, og hefir síðan skilist frá sjó, eins og mörg önnur vötn hér í víkunum. Seinni hluta dags fórum við gang-

andi upp í Staðarskörð, til þess að skoða surtarbrandinn, sem þar er. Gengum við upp með Skarðagili, og er þar ofarlega, 400 fet yfir sjó, Brandbrekka, og í gilinu að vestanverðu rauðleitar skriður. Efst í barðinu er nokkuð af surtarbrandi, en alt neðar hulið rauðleitum, fitukendum leir. Sumstaðar er leirinn bleikur og í honum rauðir hnúðar og kúlur, en enga fann eg þar steingjörvinga. Barðið er um 30 fet á hæð; þar er neðst gráleitt móberg stórgert. Við smáfossa rétt fyrir ofan hefir blágrýti brotist gegnum surtarbrandsmyndanir þessar, og eru úr því ýmsir útvextir og kvíslir til hliðanna, og hefir alt bakast saman af hitanum. Austan í gilinu kemur fram gulleitt berg með blágrýtisgöngum, en öll er myndun þessi óglögg, og fátt að sjá, af því bergið kemur svo lítið fram undan lausagrjótinu. Fyrrum var grafið eftir surtarbrandi við þetta gil, og var hann notaður til brenslu og til smíðakola. Hinu megin í fjallinu, í Grænuhlíð, er töluverður surtarbrandur í Breiðhillu, líklega á sömu eða líkri hæð; *C. Ziener* hefir lýst þessum surtarbrandi í ferðabók Olaviusar (bls. 740—742), en telur ógjörning að vinna þar að brandnámi, því bæði er leið þangað örðug og hættuleg, og surtarbrandslögin þunn, en heldur að fremur mætti gera tilraunir við Skarðagil, en hefir þó ekki séð surtarbrandinn þar. Eftir því, sem eg hefi séð, væri ekkert vit í að leggja þar nokkuð í verulegan kostnað, þó ef til vill nokkuð megi brúka af brandinum til heimabrúkunar á næstu bæjum, og mun þó bæði vera þar lítið og örðugt að ná því.

Eg hafði komið í Aðalvík einu sinni áður á ferð með *Johnstrup* 1876, þá lágum við á herskipinu »Fylla« þrjá daga vegna hafíss á víkinni. Þá var blíða logn og sólskin á Aðalvík, en þykkur þokubakki út af Straumnesi, og er við komum inn í hann, var myrkviðri, rigning og hvassviðri þegar nálgaðist ísinn, en sama blíðviðrið á Aðalvík eins fyrir það. Eg kom þá á nokkra bæi í víkinni sem túlkur með skipslækninum, sem margir þurftu að spyrja, einkum var »hysteri« afaralgengur sjúkdómur þar eins og svo víða á Íslandi, einkum á útkjálkum. Meðan við stóðum við á Að-

alvík, var skipshöfnin stöðugt að draga fiskiun, sem virtist þar óþrjótandi. hvenær sem rent var, þorskur, ísa og lúður; 80 puuda þung lúða var dregin á þrítugu djúpi og söfnuðum við þar miklu af ýmsum einkennilegum sjódýrum handa dýrasafninu í Kaupmannahöfn. Hafísinn hefur stuudum fært höpp til Aðalvíkur, 1817 kom þangað með ísum grúi vöðuselskópa og var hver báturinn fyltur eftir annau; 1837 hlupu ellefu stórhvalir þar á land undan ísum. Ekki er fjölfarið um Aðalvíkina og sjaldan koma menn þangað úr öðrum bygðarlögum. Brynjólfur biskup Sveinsson vísiteraði þar 1642 og hafði þar þá eigi verið vísiterað í meir en 100 ár.[1])

Hinn 9. ágúst 1887 fórum við frá Stað í Aðalvík niður að Sæbóli, til þess að fá þaðan flutning yfir Aðalvíkiua að Látrum, og fengum við bát og tvo menn; það var bezta veður og logn, engar bárur nema litilfjörleg kvika af hafi; hnýsur að koma upp hér og hvar og svartfuglahópar á víð og dreif. Það er víst sjaldnast, að svo er stilt á víkinni, sem liggur fyrir opnu hafi. Við fórum fram með fjallinu, milli Þverdals og Miðvíkur; þar er þverhnýptur hamrahöfði, sem heitir Hyrningur; þar er hin alræmda Hyrningsgata, kirkjuvegurinn að Stað í Aðalvík frá víkunum fyrir norðau. Þar verður að fara eftir örmjórri hillu, og á einum stað verður að fara 20—30 faðma niður, og styrkja menn sig oftast með handvað; verst er á einum stað, þar sem klettaskvompa þverhnýpt gengur inn í bergið; þar heitir Posavogur; er sagt, að vogurinn hafi nafn af því, að maður, sem var að færa barn til skírnar að Stað og hafði barnið í poka, misti pokann með barninu niður fyrir hamrana í sjóinn. Hátt uppi í miðri Hyrnunni sýnist vera gulrauðar surtarbrandsmyndanir, og eins í Straumnesinu fyrir utan Kví, enda kemur fram nokkur surtarbrandur í því nesi beggja megin. Þegar farið er úr Miðvík að Látrum, verður að fara yfir djúpan ós; gamall maður, sem muudi það, er þeir Jónas Hallgrímsson og Steenstrup ferðuðust um Aðalvíkina, sagði,

[1]) Annálar Björns á Skarðsá II. bls. 264.

að Jónas sökum hestaeklu hefði orðið að þrímenna yfir ósinn, og hefði þá orkt: »Þegar þú kemur þar í sveit, sem þríment er á dauðri geit« o. s. frv.[1]) Jónas hafði verið þungur á sér og oftast verið heima í tjaldi, en Steenstrup hafði klifrað eins og köttur upp um öll fjöll. Fyrir neðan Látra og út með er hár malarkambur með núnu grjóti; roksandur er þar töluverður í opi Látrabássins, og hefir hann rokið hátt upp í fjall að sunnanverðu; engjar fyrir ofan eru góðar, en skemmast mjög af sandroki; fyrir ofan sandinn er dálítið vatn. Á Látrum er mjög skriðuhætt, og skemdist túnið stórkostlega 1878 af skriðum. Landslag hér í Aðalvík er töluvert líkt því, sem er á Hornströndum; upp frá víkinni ganga skvompur og dalir inn í þverhnýpt fjöllin, og eru háir múlar og hyrnur á milli; dalir eru hér þó töluvert stærri og meira undirlendi. Hér er yzt Skálardalur út við Rit, þá Staðardalurinn, Þverdalur, Miðdalur og Látravík; Kví heitir hvilft í Straumnesinu, og er sagt, að við hana sé kent Kvíarmið, sem Þuríður sundafyllir setti.

Frá Látrum fórum við yfir lágt eiði yfir í Rekavík, um 170 fet á hæð. Við fengum eina bykkju lánaða í Látrum undir farangurinn yfir eiðið, halta og horaða, sem ekki gat farið nema hægasta klyfjagang. Í Rekavík er allstórt vatn, og annað lítið ofar (Hálsvatn). Fyrir framan stærra vatnið er malarkambur við sjóinn, sem kvað hafa vaxið töluvert á hæð á seinni árum; úr því rennur lítilfjörlegur lækur til sjávar; mesta dýpi í því kvað vera 17 faðmar, en víðast 4—8 faðmar. Í Rekavík er fremur fallegt, heldur grösugt, og góð útsjón yfir vatnið, sjóinn og hin þverhnýptu fjöll á báða vegu. Í Rekavík var að sumu leyti fornt Hornstrandalag á bæjarhúsum; gamlir staurar sumstaðar í veggjum, og stétt úr rekadrumbum. Mýrlent mjög er fyrir ofan bæinn, enda var mjög óþrifalegt í kringum hann; þar

[1]) Í vísunni er tíkargörn = ólartaumar, tóuvömb = tóuskinn; þar var enginn hnakkur til og þeir Jónas riðu á tóuskinni. Útgefendur Jónasarkvæða telja (bls. 397) vísuna óskiljanlega. Að vísan sé kveðin til Jóns Sigurðssonar forseta, sem stendur í Nýju Kirkjublaði 1913, bls. 183, nær engri átt.

lágu tveir í taugaveiki og einn í skyrbjúgi; meðan eg stóð þar við, sá eg lítið barn, 2 eða 3 ára, sem auðsjáanlega hafði snert af skyrbjúgi, vera að vappa fram með bæjarveggnum og tína upp í sig skarfakál, sem þar óx, svo það var eins og náttúran ræki þenna óvita til þess að gera það, sem mennirnir hér um slóðir alt of mikið forsóma. Þetta vor höfðu verið óvanalega mikil harðindi í Aðalvík og á Hornströndum; ekkert heyjaðist um sumarið 1886, sakir votviðra, svo peningur féll hrönnum, og þó menn ekki beinlínis dæju úr hungri, þá svarf þó mjög mikið að mörgum, og óholt viðurværi kom til leiðar sjúkdómum, sem útbreiðast mjög á þessum útkjálkum, ef þeir eru næmir, vegna þess, að hreinlæti er þar enn á mjög lágu stigi. Í Aðalvíkursókn dóu, frá því á nýári 1887 þangað til í ágúst, 32 af tæpum 400, sem eru í sókninni. Nyrztu víkurnar mega varla heita byggilegar menskum mönnum, og þó einhvern búskap mætti hafa, þá kunna menn lítið til þess, og eru svo afskektir, að þeir geta eigi kynt sér siðu annara manna. Taugaveiki var á flestum bæjum, þar sem eg kom, sumstaðar voru menn nýdánir og á mörgum bæjum var verið að smíða líkkistur. Búfræðingur, sem kom í sveitina sama sumar, veiktist og lá lengi, en við Ögmundur kendum okkur einskis meins, þó við kæmum á alla þessa óhreinlegu sóttnæmisbæi og gistum á þeim við misjafnan aðbúnað. Víða gekk um vorið skyrbjúgur og útsláttur (»ruði«), og hefir það líklega mest komið af því, hvað viðurværið hefir verið lélegt og engin tilbreyting. Annar bóndinn á Sléttu var nýfluttur þangað, og hafði um veturinn búið í Hlöðuvík; hann sagðist í fyrra haust hafa safnað að sér eins miklu af skarfakáli og hvönnum, og hann gat, og notaði það með öðru stöðugt til matar, og sýktist enginn hjá honum; en á næsta bæ, í Kjaransvík, varð um miðjan vetur að taka upp alt fólkið og skifta því niður á aðra bæi, því það var orðið matarlaust, veikt og lémagna; hafði það etið saltaðan bjargfugl í alla mata og ekkert kálmeti, svo ekki var furða, þó skyrbjúgurinn settist þar að. Í Rekavík bak við Höfn höfðu og verið mikil bágindi, og eins víða á Austurströndunum.

Í nyrztu víkunum í Aðalvíkursókn er töluverð fuglatekja úr Hælavíkurbjargi, og úr Aðalvík er dálítið tekið af fugli úr Ritnum; þar er bæði sigið eftir fuglinum og hann líka veiddur á flekum í hrosshárssnörur, líkt og við Drangey. Ilt er að ná fuglinum úr Ritnum, því óvíða verður þar sigið og svo eru þar brött grasfles, sem sigamenn geta eigi loðað í, en fjara engin undir.

Rekavík bak Látrum er grunn og stórsteinótt, og er þar oft foráttubrim og ómögulegt að lenda; nú var bezta veður, og fengum við því bát og mann, og fórum fyrir Hvestu í Fljót. Hvesta er þverhnýpt fjall í sjó fram, líkt og Kögur norðan við Fljótin, basaltið er í hrikalegum tröllahlöðum upp á brún, og fleygast lögin hvert á milli annars, en sumstaðar eru rauðar rákir á milli. Við bergið er sker, sem heitir Flati-Sleppir; þaðan og í Geirólfsgnúp á Ströndum á Vatnsfjarðarkirkja 40 vættir í hverjum hval, sem rekur. Fljóta-megin í Hvestunni eru gular og rauðar leirmyndanir, og eru þær líklega eitthvað í sambandi við surtarbrandinn, sem hér er svo víða í fjöllum. Í Fljótavíkinni er sandur fyrir botninum, og er þar ófær lending, ef hvast er, en þá má lenda utarlega við Atlastaðahlíð, þó það sé reyndar hvergi nærri gott fyrir stórgrýti og brimi. Nú var svo gott í sjóinn, að við gátum lent við sandinn fyrir neðan Tungu, og þó urðum við að sæta lagi til þess að ná lendingu. Bárum við síðan farangurinn upp sandana, og svo yfir eyrar og mýrar að Tungu. Hér er allmikill dalur, fjöllum luktur á þrjá vegu; má komast þaðan landveg yfir Tunguheiði, í Látrabás, og gangandi um lítið skarð í dalbotninum yfir í Kjaransvík. Í Fljótunum er allmikið undirlendi, og sýnist vera grösugt í fljótu bragði, en mjög er jurtagróður hér kyrkingslegur, og jurtategundir og vaxtarlag þeirra líkt eins og í Grímsey eða í grasblettunum við Ódáðahraun. Fyrir dalbotninum er breiður hringmyndaður fjallabotn og fannir í hverri lægð; hér er mjög harðindalegt, og oft koma hér stór hret um hásumar, einkum þegar ísinn er að hrekjast fyrir landi. Seinast í júlímánuði í sumar var veður fremur kaldranalegt á Ísafirði og syðri fjörðum, frost á háheiðum,

og snjóaði efra, svo gránuðu fjallabrúnir; þá lá snjór á túnum í Fljótum í 6 daga, og varð að gefa kúm inni.[1]) Bygðarlag þetta hefir fengið nafnið Fljót, af því þar er stórt vatn, sem að miklu leyti fyllir út dalinn til beggja hliða, og úr því rennur mikill ós til sjávar; vatnið er grunt með leirbotni og verður víða ekki farið um það nema á kænum; það er salt, af því sjór fellur upp i það, hvert sinn sem hásjávað er; ósinn er oft slæmur yfirferðar vegna sandbleytu, og ekki riðinn nema um fjöru; um flóð er hann þrisvar sinnum breiðari, og oftast á sund. Þrír bæir eru í Fljótum, Tunga að sunnan, Atlastaðir að norðan og Glúmstaðir uppi í dalbotni fyrir ofan vatnið; oft hafa bæir þessir legið í eyði árum saman, stundum einhver þeirra, stundum allir. Þegar jarðabók Árna Magnússonar var samin, 1710, lágu þeir allir í eyði; Tunga hafði þá verið í eyði í 4 ár og Glúmstaðir jafnlengi, en Atlastaðir síðan um bóluna, svo allir bæirnir hafa þá líklega lagst í eyði um sama leyti; jarðabókin segir, að hafa megi á Tungu 1 kú og 6 ær, og ekki fleiri pening; á Atlastöðum megi hafa 2 kýr, 10 ær, 4 lömb og 1 hest, en á Glúmstöðum var álitið, að hafa mætti eina kú og ekki meira. Af þessu sést, að fyrrum hefir þar ekki mikil búsæld verið fremur en nú. Efnaðasti maðurinn býr nú í Tungu; Glúmstaðir eru í eyði og á Atlastöðum er tvíbýli; bóndinn á Tungu hafði séð sér svo vel fyrir heyjum haustið áður, og sett svo mátulega á, að hann misti enga skepnu; á Atlastöðum féll flestalt, og á Glúmstöðum hver skepna. Bændurnir á Atlastöðum höfðu sér nú báðir saman til viðurlífis eina kú, fáeinar kindur og 1 hest; kýrin undi svo illa hag sínum og einverunni, að hún í hvert skifti, sem hún kom út, tók undir sig stökk

[1]) Í sóknarlýsingu Aðalvíkursóknar ritar síra Jón Eyjólfsson 1847 um þetta bygðarlag: »Jarðbönn eru þar í Fljótum oftast öllum vetrum og á sumrum tíðast óþerrar með þokufýlu og stórslögum af norðri og því atkvæði mun mega áljúka, að vetur og sumar muni varla að jafnförnu verra veður á nokkrum stað á Íslandi en þar. Það má hafa til marks, að sumarið 1844 var Glúmsstaðavatn ekki alleyst í 19. viku sumars, enda voru sjaldgæf harðindi veturinn fyrir.«

og synti yfir ósinn til þess að heimsækja stallsystur sínar tvær í Tungu; mér varð starsýnt um morguninn á að sjá kúna koma syndandi yfir ósinn, og tvo stráka tvímenna á eftir á einu bykkjunni, sem til er á Atlastöðum. Þetta set eg hér til þess að sýna, hvaða eymdarlíf þessir fátæklingar hafa hér á hala veraldar. Þegar veður leyfir, róa menn til fiskjar hér frá bæjunum, og verða þá að fara út í opið Ís-hafið, og eiga oft mjög erfitt með að lenda fyrir brimi og stórgrýti; lítið fiskast hér annað en skata; sá eg hana hér í öllum hjöllum, og lítinn sem engan fisk annan. Það er víst ekki skemtilegt að búa hér á vetrum, það er sældarlíf á sumrin í samanburði við það. Bæir eru hér í sókn mjög fátæklegir sem eðlilegt er og óþrifnaður mikill einsog víðast á Ströndum. Bæjarlækir renna hér víða á þessum kjálk-um gegnum bæi og bæjarhlöð og óhreinkast svo mjög. Kýr eru alstaðar undir palli.

Í Aðalvíkinni er nú hvergi skógur, en hefir þó líklega verið nokkur áður, því stórir fauskar eru víða í mó. Í Tungu eru góðar mógrafir, svörðurinn harður í plötum, nærri eins og surtarbrandur, og 1½ mannhæð á þykt. Fljótin hafa fyrrum verið fjörður, það er auðséð á landinu, en síðan hefir myndast rif fyrir framan og svo sandur, svo vatnið hefir skilist frá sjó; á sandinum eru gamlir, lágir malarkambar hver fyrir ofan annan. Frá Tungu fór eg norður í Sandvík til þess að skoða surturbrand; fórum við yfir ósinn 4 saman, selflutning á einu hrossi, og gengum svo út með Atlastaðahlíð þangað, sem bændur hafa uppsát-ur fyrir báta sína, fengum þar bát og tvo menn með okkur. Veður var gott um daginn, en stinningskaldi; rérum við fyrst út með Atlastaðahlíð og svo fyrir nefið á Kögri; þar er röst allmikil fram af nefinu og nærri hringiða næst hömrunum, öldurnar typtar og rjúkandi, en þverhnýpt björg alstaðar í sjó fram. Þegar kom norður fyrir Kögur, kom gott skrið á bátinn, af því við höfðum norðurfallið með okkur; fyrir norðan Kögursodda byrja Vestur-almenningar; næst oddanum er lítill slakki inn í björgin, sem heitir Kögravík; þar eru tvö smásker, af því að gang-endi gengur

fram í sjóinn; inn með björgunum koma skriður stórar með stóreflis brimsorfnum björgum að neðan, og svo beygist inn í Sandvík, sem ekki er annað en lítilfjörlegt vik inn í björgin. Það var skrítið og fagurt að sjá, er við rérum með björgunum, sólina, er hún skauzt undan hyrnunum á bjarginu og sló bjarmanum á sjóinn, svo öldurnar sýndust dimmgrænar með gyltu gliti, en svo varð alt í einu koldimt, þegar hún gekk undir nybburnar á bjargröndinni. Björgin eru hér alstaðar þverhnýpt í sjó fram nema í Sandvík, þar er mjó fjara fyrir neðan björgin með stórgerðri möl og hnullungum. Upp af víkinni eru lóðrétt blágrýtisbjörg, nema hvað neðst eru snarbrattar skriður, sem naumlega eru gengar. Neðarlega í klettunum fyrir ofan skriðurnar er surtarbrandurinn, hér um bil 250 fet yfir sjó; í skriðunum er beinharður leir, sem varla er hægt að fóta sig á, og ofan á lausagrjót svo laust, að það flýgur undan fæti, ef stigið er á það; hér er einnig mjög hætt við grjóthruni úr björgunum, svo maður verður að hafa mestu varúð, þegar klifrað er undir klettunum. Á hillu rétt fyrir ofan skriðurnar er mikill surtarbrandur og yzt á klettanefi einu bólgnar lagið svo mjög, að þykt þess er 3—4—5 álnir af bezta surtarbrandi. Eg klifraðist upp fyrir skriðurnar, og Ögmundur klöngraðist eftir sjálfri surtarbrandshillunni. Við fengum þann vitnisburð hjá Hornstrendingum nú og oftar, að við værum efni í góða fuglara. Þar sem surtarbrandurinn kemur fram, er blágrýti undir og ofan á og litlar sem engar leirmyndanir; á einum stað var innan um surtarbrandinn grámórautt leirlag; utar sjást rauðar túffmyndanir og hraun-»breccia« hér og hvar á sömu hæð, eða á sama »mótinu«, sem hér er kallað, eftir endilöngu berginu. Ofan á surtarbrandsmynduninni eru þykk blágrýtislög þverhnýpt alla leið upp á brún. Við litla á fyrir innan Atlastaði, sem heitir Svíná, kvað koma fram dálítill surtarbrandur, svo lagið nær líklega úr Sandvík þvert í gegnum fjallið. Rétt fyrir utan bæinn á Atlastöðum er dálítil hvilft í fjallið gagnvart Sandvík, og er þar uppi á fjallinu djúpt vatn afrenslislaust. Á Uppdrætti

Íslands er Sandvík sett töluvert austar en hún á að vera. Þó nú surtarbrandurinn sé nógur og góður í Sandvík, þá er nærri óvinnandi verk að nota hann til muna, því ekki er hægt að lenda í Sandvík nema í bezta veðri og það er víst mjög sjaldan á árinu, að bátum er þar fært fyrir brimi; það er heldur ekki hægt fyrir aðra en færustu menn að komast upp að surtarbrandinum, og þess utan er það mesta mannhætta fyrir grjótflugi, einkum ef votviðri hafa gengið.

Þegar við höfðum staðið við tæpa klukkustund í Sandvík snerum við aftur í Fljótin; var mikil alda og barningur fyrir björgin, af því norðurfallið var á móti, sér í lagi í straumstrengnum út af Kögri; þar miðaði lítið og gaf á, þó mjög lítill væri vindur. Það var um flóð, þegar við fórum frá Atlastöðum að Tungu, og sögðu menn ósinn óreiðan, svo við fórum á flatbotnaðri kænu, og var það lítið annað en fyrirhöfnin, því við urðum að draga kænuna mest af leiðinni, því hún flaut ekki, en óðum með borðstokkunum í djúpri leirbleytu á botninum. Þegar við höfðum staðið við litla stund í Tungu, héldum við aftur á stað til Aðalvíkur, tókum prik í hönd, hrífusköft, því eiginlegir stafir voru ekki til, og gengum yfir Tunguheiði, því ekki var hesta að fá. Gengum við allkappsamlega og komumst upp á Kjöl, sem er hæst á heiðinni, á tæpri klukkustundu; þar vorum við komnir 1488 fet yfir sjó og var að fara yfir blágrá hellugrjót, sem víða eru ofarlega í heiðum. Þegar komið er upp á Kjölinn, er maður kominn jafnhátt hæstu fjöllum hér í Aðalvík, því bæði hér og annarstaðar á Vesturlandi hefir landið upprunalega verið háslétta, en hefir síðan af áhrifum íss og vatns á geysilöngum tíma klofist í sundur í álmur og múla. Af Kjölnum sést ágætlega yfir Fljót og dalina og víkurnar inn af Aðalvík, eru fjöllin öll skorin í sundur í pjötlur og strengi, og eru alstaðar smádalir og skvompur í bjargbrúnirnar og höfðar og múlar á milli; ofan til í fjöllunum eru óteljandi skaflar og snjódílar, eins og deplar á pardus-feldi. Kjölurinn er rennisléttur að ofan, og má ganga af honum niður í Kjaransvík og fleiri

víkur.[1]) Tunguheiði er mjög brött að norðan, en hallinn jafnari að sunnan, þó brött hamrabelti séu sumstaðar á milli. Spölkorn fyrir utan Látra er bær, sem heitir Nes, framan á háum marbakka; þar fengum við bát og mann og fórum yfir Aðalvíkina að Þverdal í víkinu fyrir innar Hyrning, sem hér er líka kallaður Hvannanúpur; frá Þverdal gengum við svo heim að Stað.

Næsta dag (11. ágúst) fór eg frá Stað að Sléttu, og svo yfir Jökulfirði að Stað í Grunnavík. Þaðan fór eg yfir Snæfjallaheiði að Snæfjöllum. Vegurinn liggur fyrst út með hlíð og svo skáhalt upp á heiðina; vegurinn upp eftir var góður, því nýlega var gert við hann, en uppi á heiðinni sést varla götutroðningur, þar er eintóm smáurð og stundum kviksyndisaurar á milli, en nú var þurt um og því nokkuð greiðfærara. Yzt á nesinu heitir hér Bjarnarnúpur; þar er sagt að sé að bóla á skerjum, sem eigi hafa sézt fyrr, og að landið sé að hækka; menn kvað hafa tekið eftir þess konar landhækkun hér og hvar í Jökulfjörðum; úr Grunnavíkinni og út undir Bjarnanúp er hár marbakki gamall með sæ fram. Snæfjallaheiði er 1383 fet á hæð; þaðan er í góðu veðri falleg útsjón yfir Djúpið, sést þaðan beint inn í Skutulsfjörð og er einkennilegt að sjá tangann að ofan, boginn út í sjóinn með húsunum glitrandi í sólskininu. Þegar farið er niður af heiðinni að sunnan, verður maður að ríða eftir mjög löngum hjalla inneftir, sem heitir Reiðhjalli. Heiðin var alveg leyst hið efra, en á hjöllunum að sunnanverðu, beint á móti sólu, voru víðast hvar nærri niður undir sjó langir og þykkir skaflar, en þó var grænt og grösugt víðast hvar á milli. Á Snæfjöllum fékk eg flutning yfir Djúpið, en Ögmundur fór þaðan landveg suður í Reykjavík með hestana. Hjá Snæfjöllum er gangur út í sjóinn, sem heitir Snæfjallabryggja, og er sagt, að hann standist á við Arnardalsklett

[1]) Í jarðabók Árna Magnússonar (1710) eru takmörk Hornstranda talin við Kjalarárnúp, sem skilur Kjaransvík frá Almenningum. Kjaransvík hafði þá verið í eyði í 4 ár og jörðin eydd mest af langvarandi órækt; seinasti ábúandi hafði lifað mest á að smíða amboð úr rekavið.

hinumegin, og er ekki ómögulegt, að það sé sami gangurinn, sem hefir þá verið til löngu áður en Djúpið myndaðist. Arnardalsklettur er gangbrot, sem skagar út í sjó og er gat í gegnum. Við fengum bezta veður yfir Djúpið og vorum réttar 2 klukkustundir yfir um. Frá Ísafirði fór eg sjóleið suður í Reykjavík og var þá ferðinni lokið; höfðum við alt af fengið bezta veður, enda er ilt að fara um yztu útkjálkana af Vestfjörðum í vondu veðri, þar sem maður alt af verður að vera að fara sjóleiðis yfir víkur og firði.

## VII. Rauðukambar, Kerlingarfjöll og Kjalvegur.

### 1888.

Sumarið 1883 skoðaði eg Reykjanes-skagann allan, og fjöllin og hálendin norður af Þingvallavatni upp undir Langjökul; sumarið 1888 hélt eg þessari rannsókn áfram austur eftir. Þó fjöllin milli Langjökuls og Hofsjökuls og afréttir suður og norður af séu allvel kunnar leitamönnum, þá hefir þó lítið sem ekkert verið um það skrifað; eg bjóst því við, að þar mundi verða eitthvað að sjá. Á Uppdrætti Íslands eftir Björn Gunnlaugsson eru Kerlingarfjöll sett sunnan undir Hofsjökli vestanverðum, og þar eru deplar, sem eiga að tákna, að þar séu hverir eða laugar; nú vissi eg ekki til þess, að þangað hefðu komið fræðimenn, og bar því nauðsyn til að fjöll þessi væru rannsökuð. Hveravöllum hefir ekki verið lýst, síðan Henderson enski kom þangað 1815, og svo grunaði mig, að eitthvað mundi þurfa að leiðrétta á Uppdrættinum norður af Hvítárvatni, í Þjófadölum og víðar. Þetta voru tildrögin til þess, að eg ferðaðist um þessar slóðir sumarið 1888; fór eg um leið austur í Þjórsárdal til þess að skoða þar eldgosamenjar og jarðfræði héraðanna í kring, því það lá vel við, að rannsaka þessar jarðeldastöðvar í sömu ferðinni. Veðráttan var þetta sumar hin ágætasta, og gat varla verið betri til fjallaferða.

Hinn 8. ágúst fórum við úr Reykjavík vanalega leið austur yfir Hellisheiði, og svo fyrir framan Ingólfsfjall að Laugardælum. Hellisheiði og Ölfusinu hefi eg lýst áður og

þarf því ekki að fjölyrða um það hér. Nokkra stund dvöldum við hjá Reykjum í Ölfusi til þess að skoða þar hverina; eru þar fjölda mörg hveraop hingað og þangað, meðal annars skoðaði eg Baðstofuhver, sem eg ekki kom að 1883. Baðstofuhver er kippkorn fyrir ofan Reykjabæ á árbakkanum undir melbarði; hann gýs nú einna mest af þeim hverum, sem hér eru; þar er vanalega 1½—2 mínútur milli gosa, og stendur hvert gos viðlíka lengi, vatnið kastast 5—6 fet í loft upp, og spýtist stundum upp og út á við í boga 7—8 fet. Op hversins er eins og lítill hverahrúðursskúti undir barðinu, 4—5 fet á breidd, yfirborðið á hrúðrinu er þakið smábungum og kúlum, sem eru hrufóttar að utan með smákörtum og nybbum. Töluverð brennisteinsfýla er af vatnsgufunum, þegar hverinn gýs, og í hveralækjum sezt heiðgul skán af brennisteini hér og hvar á hverahrúðrið. Á milli gosanna var hitinn á yfirborði hversins 85°. Varmá er víða volg af hveralækjunum og í henni slí; hveraop eru hingað og þangað í bökkunum; foss er í ánni rétt fyrir neðan Reyki og bullandi hola (95—98°) að austanverðu fyrir neðan hann í krikanum, og gróður töluverður í kring. Frá Reykjum fórum við eins og leið liggur að Íngólfsfjalli; er þar í viki sléttunnar, sem gengur upp hjá Gljúfri, Sogni og Hvammi, alstaðar gamall malarkambur, núið fjörugrjót og sumstaðar hörð sandlög í bökkunum, sumstaðar sambakaðir hnullungar, leir og möl; er þetta auðsjáanlega gömul strandmyndun, enda er tiltölulega stutt síðan að Ölfussléttan öll hefir verið í sjó. Í Ingólfsfjalli er móberg, eins og í öðrum fjöllum hér í kring, og hafa stór björg víða dottið niður; í björgum þessum eru basaltmolarnir þétt saman og lítið tengiefni milli þeirra, en efst eru þar grágrýtishamrar. Grjótið í yzta endanum á Ingólfsfjalli er tilsýndar hvítleitt og gráblátt, og halda sumir ófróðir menn, að það séu málmefni í fjallinu, er gjöra þann lit. Móbergið er þar mjög orðið sundurliðað (decomponerað), og holurnar fullar af zeolíþum, kalkögnum, o. s. frv.

Þegar kemur austur fyrir fjallshornið, er góð útsjón yfir Suðurlandsundirlendið alt austur í Eyjafjöll; Flóinn

blasir við á móti, hinu megin við ána; þar eru grassléttur miklar, hraun undir og sumstaðar upp úr, en bæirnir tilsýndar eins og þúfuþyrpingar hér og hvar á sléttunni. Alfaravegurinn að Laugardælum liggur upp með Ingólfsfjalli að austan og svo yfir grassléttunar niður að Ölfusá. Upp úr grassléttunni standa þar hér og hvar smá klapparholt, og er móberg í sumum. þeim, sem eru nær Ingólfsfjalli, en basalt í þeim, sem eru nær ánni. Ölfusá er á ferjustaðnum allbreið, en skiftir sér litlu neðar um eyju, og eru hávaðar þar í báðum álunum. Æðarvarp nokkuð er í hólmanum og laxveiði mikil í ánni; kemur þó selur alla leið þangað upp eftir. Laugardælir eru því töluverð hlunnindajörð; þar er nýtt, laglegt timburhús, og útsjón fögur til fjallahringsins alt í kring. Hér er alstaðar undir jarðvegi gamalt hraun með stórum hvítum feldspath-dröfnum; þess konar hraun er undir öllum Flóanum í sjó fram og upp eftir, samanhangandi við hraunin inn af Heklu. Hraun þessi eru afargömul, og þegar þau runnu, höfðu ár og vötn alt aðra farvegi á undirlendinu en nú. Í túninu á Laugardælum er dálítil laug, hlaðin upp eins og brunnur, og vatnið úr henni notað til heimilisbrúkunar. Til þess að komast sem fyrst upp í Þjórsárdal og Rauðukamba, fór eg fljótt yfir upp að Stóranúpi; í Hraungerði var polítískur fundur til kosninga á Þingvallafund, og varð eg samferða síra Valdimar Briem og öðrum fundarmönnum upp eftir. Við komum að Hvítá við enda Hestfjalls; fellur hún þar fremur þröngt við fjallsendann, og er fagurt og mikilfenglegt landslag í kring. Á eiðinu milli Þjórsár og Hvítár er Merkurhraun, og sýnist það á parti vera miklu yngra en hraunin, sem eru undir jarðvegi í Flóanum. Frá Hvítá liggur leiðin yfir Skeiðin á ská fyrir neðan Ólafsvelli yfir að Þjórsá og svo upp með henni, er þar góður vegur og víða mjög fallegt, en af því við vorum á hraðri ferð, skoðaði eg ekkert, en við fórum beina leið um nóttina upp að Stóranúpi.

Ofan til í Hreppunum er mjög fallegt land og búsældarlegt; þar eru mörg móbergsfell á víð og dreif og grasi-

vaxnar sléttur og dældir á milli, víðast hvar töluverður gróður í fellunum, og bæirnir standa undir þeim hér og hvar. Vermaður nokkur, sem fór suður að sjó til róðra, sagði svo frá ferðinni, að hann hefði fengið rjóma að drekka í Hreppunum, nýmjólk á Skeiðunum, undanrenning í Flóa, mysu í Ölfusi og vatn í Selvogi. Eitthvað líkt hefir vakað fyrir Ögmundi biskupi; því það var máltæki hans, er talað var um sveitir í Árnessþingi: Grímsnesið góða og Gull-Hrepparnir, Sultar-Tungur og Svarti-Flói.[1]) Í fellinu fyrir ofan bæinn á Núpi er djúp skora niður gegnum bergið, ísnúin, og sjást þar vel lögin í fellinu; þar eru molarnir í móberginu ofan til hornóttir og hrufóttir, eins og vanalegt er, en neðan til núnir af vatnsrensli. Þess konar lög af núnu grjóti innan um móbergið sjást hér og hvar í fjöllum og fellum á Suðurlands-undirlendi; sést á því, að þar hefir vatn átt töluverðan þátt í myndun og ummyndun móbergsins, en annars eru molarnir í móberginu vanalega eins útlítandi, eins og þeir nýlega hefðu kastast upp úr eldfjalli, og síðan ekki orðið fyrir neinum utanað komandi áhrifum en sumstaðar eru veðurbarðir og sandnúnir steinar innan um. Þjórsá prýðir mjög sveitina; hún hefir hjá Stóranúpi brotist gegnum mikil hraun alla leið, hefir hún grafið í það djúpar holur og hvilftir, og eru einkennilegir klettar og hraunstandar í árbökkunum. Hólmi dálítill er hér í Þjórsá fyrir neðan Núp (Viðey) og verpa þar veiðibjöllur; áin er þar mjög strið, enda er það eðlilegt, þar sem hún hefir orðið að brjótast gegnum hraunið. Þessi eldgömlu hraun hafa runnið upp svifin og hvilftirnar milli fellanna, en þykkur jarðvegur er ofan á, þó eru holur sumstaðar og hraunkatlar (hornitos) með klepruðum hreisturhúðum að utan. Þess konar hraunkatlar eru ekki eiginlegir gígir, en þeir myndast á þykkum hraunum, þegar þau eru að storkna og mikið er í þeim af vatnsgufum; katlar þessir eru algengir í Ódáðahrauni, einkum í hraununum utan í breiðum og kúptum eldfjöllum, eins og Kollóttu Dyngju, mest

[1]) Espólíns Árbækur III. bls. 112.

er þó af þeim í Landbroti eystra, og í Laxárdal við Mývatn.

Þjórsá er á þessu svæði mjó og ströng. Þó eru í henni eyjar, Hagaey og Ölmóðsey, rétt fyrir ofan Þjórsárholt, en þar sem áin kemur úr þrengslunum fyrir neðan Þjórsárholt er ferja á Hrosshyl; litlu neðar slær áin sér út og verða eyrar í henni, þar er Nautavað. Kippkorn fyrir neðan það skiftist áin um Árnesið og er Búðafoss í nyrðri kvíslinni við efri eyjarsporðinn, en Hestfoss í hinni syðri um mitt Árnesið. Þar eru laugar austan við ána, nærri Vindási.[1]) Árið 1734 er þess getið í annálum, að jökulhlaup hafi komið í Þjórsá, svo Nautavað skemdist.[2]) Stundum hleypur enn mikill vöxtur í Þjórsá í hlákum með jakaför, eins og t. d. 31 janúar 1896, en eiginleg jökulhlaup munu vera mjög sjaldgæf.

Hinn 11. ágúst fórum við á stað upp í Fossárdal og með okkur Ásmundur bóndi í Haga; hann er nákunnugur fjöllum hér um slóðir og hefir farið Sprengisand ótal sinnum. Frá Núpi liggur leiðin upp með Þjórsá, og ganga þar móbergsfjöll og múlar fram að ánni með dalkvosum inn í hér og hvar; múlar þessir eru í raun og veru ekki annað en röndin á hálendinu, sem Þjórsá rennur út með; land er hér grösugt og einkar fagurt, þó er vikur víða í jarðveginum, bæði hvítur og svartur; hvíti vikurinn er mjög gamall, og ekki gott að segja, hvaðan hann er kominn, en svarti vikurinn er eflaust úr Heklu, enda féll hér mikill vikur 1845. Hagafjall (1564') er einna mest af fjöllunum í hálendisbrúninni; út úr því ganga tveir smáhöfðar niður að Þjórsá, Bringa og Gaukshöfði. Vöð eru stundum notuð hér á Þjórsá, Gaukshöfðavað og annað neðar hjá Haga. Norðaustur af Hagafjalli er Ásólfsstaðafjall og Geldingadals-

[1]) Landskjálftar á Íslandi bls. 81—82.

[2]) Hdrs. J. S. nr. 159. Fol. Í sögu Þuríðar formanns og Kambsránsmanna getur Brynjólfur Jónsson þess (bls. 58) að Þjórsá hafi verið vaðin á Nautavaði. Þar er þess og getið (bls. 278) að Þjórsá ætinlega vaxi með austan vindi og kemur sá vöxtur fyrst fram í bygð að sólarhring liðnum frá því að vindurinn hefst.

fjöll, en austar Skriðufjall, og myndast þar dalvik upp á milli fjallana; þar rennur Hvammsá, sem fellur í Sandá fyrir neðan Skriðufell. Utan í hlíðunum á Skriðufelli að neðan og upp með er mikill skógur og fagur; land hefir hér upp eftir öllu verið einkar fagurt og grösugt, en hefir spilst fjarskalega af vikurfalli og stór svæði blásið upp og orðið að sandi, einkum þegar upp eftir dregur.[1]) Þegar kemur yfir Sandá, taka við eintómir vikrar og sandar, en hér og hvar eru þéttar þyrpingar af æfagömlum gosborgum, og eru sumar þeirra nú með litlu gígalagi, bara sandorpnar gjallhrúgur og haugar. Undir vikrunum eru hraun, og fylla þau upp allan neðri hluta Þjórsárdals. Við riðum upp hjá suðurendanum á felli, sem heitir Reykholt, og tjölduðum á eyrunum austan við Fossá, kippkorn frá Stangarfjalli og gagnvart Rauðukömbum.

Þjórsá kemur norðaustan af hálendinu frá Búðarhálsi, og rennur mestmegnis um hraun og vikra, eftir að Tungná er fallin í hana; rennur hún niður með Búrfelli að austan; þar er Þjófafoss; við endann á Búrfelli beygir Þjórsá snögglega til vesturs og jafnvel lítið eitt norður á við; er hún þar við fjallsendann töluvert ströng og í henni allmiklir hávaðar; þessari vesturstefnu heldur hún að Hagafjalli, en beygir þá aftur til suðurs; fylgir hún á þessari leið hálendisbrúninni, sem er sundur skorin á ýmsa vegu. Upp af þessum vestlæga árkafla er Þjórsárdalur; rennur Fossá í Þjórsá niður með Búrfells-rananum að vestan, en Sandá rennur í hana vestast fyrir neðan Skriðufell, og myndast undirlendi töluvert upp af vesturbugnum milli þessara áa, og ganga tveir dalir upp af því, Sandárdalur að vestan, en Fossárdalur að austan. Vestan að Sandárdalnum liggur hálendisbrún óslitin, nema hvað gil hafa grafist þar niður hér og hvar og smádalir, en lægri fjöll mynda hjalla niður að dalnum; heitir þar yzt Skriðufellsfjall, en ofarlega við dalinn Heljarkinn. Út á milli Sandár og Fossár liggur stutt fjallakvísl út af hárri bungu, sem heitir Fossalda; út af Fossöldu eru Rauðukambar, og svo

[1]) Til forna hafa miklir skógar verið í Þjórsárdal. Sjá Dipl. Isl. II, bls. 865—867

Reykholt, og er dæld á milli. Austan að Fossárdal liggur fjallarani út úr hálendinu; hann er brattur að vestan, en hallast austur að Þjórsá og norðaustur að hálendinu; þessi fjallakvísl austan við dalinn skerst í sundur af lægðum, og hafa fjöllin fengið sérstök nöfn; efst við dalbotninn Stangarfjall, þá Skeljafjall og yzt Búrfell, og gengur það eins og brattur höfði fram úr hálendinu, og ber mikið á því, af því sléttur taka við fyrir neðan. Þegar upp fyrir dalina kemur, tekur við öldumyndað hálendi, og er auðséð, að dalirnir í öndverðu hafa skorist niður í brún þess, og ytri fjöllin eru ekki annað en stykki úr því, sem af áhrifum lofts og lagar smátt og smátt hafa skorist frá

Hinn 12. ágúst gekk eg upp á Rauðukamba (1026') bera þeir nafn sitt af grjótinu, sem í þeim er; það er bleikrautt líparít; þeir eru 500 fetum hærri en dalbotninn, og eru áframhald af hryggjarönum þeim, sem ganga suður af Fossöldu. Í efsta hnúknum er gráleitt líparít í hellum og norðaustan í honum dálítið basaltlag, sem hallast 20—30° til suðurs; víðast hvar er laust líparítrusl ofan á, en óvíða fastar klappir; hér og hvar gægjast fram úr líparítinu gjallkend basaltlög, en aðalefnið í fjallinu er líparít. Af Rauðukömbum er góð útsjón yfir Fossárdalinn; í efra hluta dalsins er ekki hraun, en áin kvíslast um sandeyrar, gras er fremur lítið, nema á hólmanum milli árkvíslanna, er við tjölduðum á, gagnvart Rauðukömbum, enda flæðir áin yfir allan dalinn í vatnavöxtum á vorin. Við ána eru gagnvart Rauðukömbum á dalsléttunni gígir hér og hvar, og fjölgar þeim eftir því sem niður eftir dregur; áin hefir brotið suma í sundur, svo ekki stendur eftir nema helmingur eða minna; sandur er víðast á milli gíganna, en hraun líklega undir, enda kemur það betur fram, er neðar dregur; þar eru gígirnir í stórum þyrpingum, og sýnast raða sér eftir suðvesturstefnu, þó það sé mjög óglögt. Við suðurendann á Rauðukömbum, í slakkanum milli þeirra og Reykholts, er hver; sést reykurinn þaðan langt að, og dregur Reykholt líklega nafn af hvernum. Vestanvert við syðsta ranann af Rauðukömbum er lítilfjörleg hvilft eða gilskora, og sést þar dálítil

lækjarsitra; fyrir neðan gilskoruna kemur heita vatnið bullandi upp um smágöt í melnum; í mel þessum er sambland af líparítmolum og vikri, hvítum, mórauðum, gráum og svörtum. Vestan í Rauðukömbum eru víða stórar skellur af svörtum vikri í hlé, og er vikurinn líklega frá Heklu. Hitinn í hvernum eða lauginni er 71°, þar sem vatnið kemur upp; á öðrum stað 70½°. Á lækjarbökkunum er lítill gróður annar en fjólublöð, sem standa upp úr vikrinum. Reykholt er úr móbergi, en þó eru basaltgangar hér og hvar innan um; utarlega í miðju fjallinu sá eg merkilega basaltmyndun í móberginu; basaltmyndun þessi er samsett af ótal ólögulegum kúlum, sem eru þjappaðar hver fast að annari og hver inn í aðra; hver kúla er að ofan samsett af basaltþynnum, er liggja hver utan um aðra, eins og blöð í lauki, en að neðan er basaltið þéttara og lögin koma þar ekki eins vel fram. Ofan á þessari basaltmyndun liggur þéttur móbergs-sandsteinn, og ná basaltlaukarnir víða upp í sandsteininn; sumstaðar hefir móbergið klofnað í smásúlur, og hefir það líklega orðið af hitanum, er basaltið brauzt inn í það að neðan. Í sprungum á móberginu og á takmörkum basaltlaukanna eru víða »zeolíþar«.

Um dældina milli Skeljafjalls og Stangarfjalls kemur Rauðá niður af hálendinu og fellur í Fossá að austanverðu móts við Reykholt; austan við fjallaranann, sem takmarkar Fossárdal að austan, er mikið hraun og gamalt upp með Þjórsá, og hefir álma úr því fallið niður í Fossárdal um dældina, sem fyr var getið, en Rauðá hefir skorið djúp gljúfur í hraunið, og hefir, ef til vill, í fyrstu hitt fyrir hraungjár, sem vatnsrenslið síðar hefir ummyndað. Seinni hluta dags fórum við upp með Rauðá, og skoðuðum hraunin og gljúfrin. Þar sem hraunið kemur niður í Fossárdal, er það mjög þykt í dældinni og uppbelgt af þrengslunum, og myndar þar hnúka og hæðir á milli móbergsfjallanna á báða vegu. Neðra gljúfrið, sem fyrst verður fyrir manni, er kallað »Gjáin«, og er þar fagurt og einkennilegt; sést þar bezt, hve hraunið er þykt, og klofna hraunhamrarnir víða í súlur, sem eru ýmislega settar, beinar og hallandi;

þar eru margir hellrar, holur og gjótur, en á gjáarbotninum lykkjast áin innan um hamra og standa og myndar fossa og hylji; hamraveggirnir eru þverhnýptir beggja megin, grasbrekkur eru sumstaðar og hríslur hátt í hömrunum, en sumstaðar er dálítið grasivaxið undirlendi með lindum og uppsprettum. Við riðum upp með Gjánni og norðaustur hraunin; þar er alt uppblásið og sandorpið, en skógur hefir þó verið þar áður, því alstaðar er fult af sprekum. Rauðá kemur upp suðaustan til á Fossheiði, og rennur fyrst í suðaustur og suður, og rennur í hana Bleikkollugil, en beygir síðan til vesturs, og fellur þá niður í mikil gljúfur, Hellisskógagljúfur; gljúfur þessi eru mjó, eins og breið hraunsprunga að ofan, en breikka síðan nokkuð neðan til, og er þar hár foss með miklum hyl undir; en í syðri barmi bergsins efst hellir töluverður. Alstaðar eru hjer á hraununum mestu ókjör af vikri, hvítum og svörtum, og hefir þetta alt auðsjáanlega komið að austan; er vikurinn alstaðar samsafnaður í þykkar dyngjur, vestan undir hólum og hæðum, hvar sem afdrep er.

Frá Rauðá riðum við suður á Skeljafell (1332'), þegar nokkuð kemur upp í fjallið, verða fyrir manni ísnúnar dóleritklappir, eins og belti eftir fjallinu, sáum við þær langt frá, hvítblikandi í fjarska; það var rigning, þegar við vorum á ferðinni, svo að stirndi á fágaðar hellurnar. Á klöppum þessum eru alstaðar glöggar ísrákir (N30°A), dólerít er upp úr gegn í fjallinu og alstaðar ísnúið, en undir því, einkum vestan í fjallinu, kemur móberg fram undan. Efst á fjallinu að suðvestan eru töluverðar líparítmyndanir og sumstaðar mjög reglulegar líparítsúlur. Vestan við fjallið eru alstaðar ógurlega þykkar hrannir og skaflar af vikri.

Daginn eftir (13. ágúst) skoðaði eg efri hluta Fossárdals. Fossá kemur ofan af öræfum og sprettur upp suður af Rjúpnafelli hinu eystra: þar sem hún fellur niður í dalinn, er í henni hár og mikill foss, en gljúfur fyrir neðan. Skamt fyrir ofan Rauðukamba verður dalurinn mjög mjór; því þar ganga blágrýtis hamrar austur undan hryggjunum, sem ganga suður af Fossöldu, og verður þar stutt yfir í

Stangarfjall; á klöppum þessum eru ísrákir eftir dalstefnunni. Innar víkkar dalurinn aftur og verður Fossalda brattari, þar eru hátt uppi í hlíðinni gráar móbergsmyndanir og í þeim óteljandi blágrýtisgangar, er skera hverir aðra á ýmsan hátt, svo þeir eru eins og svart net á hvítgráum grunni. Þar fyrir neðan er bæjarrúst; Brynjólfur Jónsson heldur að þar hafi bærinn heitið Fossárdalur. Síðan riðum við inn eftir árgljúfrinu; er þar mjög vondur vegur vegna stórgrýtis í ánni; en þar sást ágætlega vel bygging jarðlaganna á báða vegu í hömrunum; í klettum þessum er mestmegnis grænleitt efni, sundurliðað trachyt og trachytbreccia og basaltgangar innan um, margtvinnaðir saman og á eilífum ruglingi. Alt af varð vegurinn verri, eftir því sem innar dró eftir gilinu, og loks komum við ekki hestunum lengra, en teymdum þá upp mjög bratta klauf í bergveggnum eystri; þar sem ekki eru beinlínis hamrar, fara íslenzkir hestar vanir hérumbil hið sama sem maðurinn kemst. Gil þetta er í jarðfræðislegu tilliti að mörgu merkilegt og bergtegundirnar mjög einkennilegar. Austan með gljúfrinu riðum við síðan upp að fossi; hann er mjög fagur og steypist þráðbeint fram af hömrunum í tröllslegan ketil, sem áin hefir holað í bergið; þar eru efst í berginu dóleritlög, en neðar regluleg móbergslög, sum smágjör, önnur stórgerðari; fyrir neðan fosshylinn tekur við gljúfrið, sem fyrr var getið. Fossá hefir sagað sig niður í hálendisröndina fyrir ofan fossinn og eru þar efra smáfossar og hávaðar. Vestan við fossinn er Fossalda mjög brött, nærri þverhnýptir hamrar að ofan; þar er stuðlabergslag ofarlega neðan við brúnina og gengur það á sömu hæð kringum fossketilinn og má fylgja því að austan alla leið út með brúnum á Stangarfjalli. Fyrir neðan fossinn að vestanverðu, ofarlega í Fossöldu, hefir einhverntíma í fyrndinni orðið ógurlegt jarðrask og hafa þar sprungið frá jafnhliða, langar ræmur af berginu og sigið í þrepum niður á við; sumstaðar hafa þversprungur kubbað ræmur þessar í sundur. Sprungurnar ganga jafnhliða dalstefnunni og efra árgljúfrinu; þær stefna á Rauðukamba og beint á laugina hjá Reykholti, svo hún hefir lík-

lega myndast, þegar jörðin sprakk og jarðlögin gengu á misvíxl; laugar og hverir koma líka alstaðar helzt fram, þar sem slíkar sprungur eru í jarðarskorpunni, því þar leitar jarðhitinn upp um. Frá fossinum riðum við út eftir Stangarfjalli (1457'); það er nærri eins hátt eins og Fossalda og hafa fjöllin áður verið samanhangandi, áður en dalurinn myndaðist og skar þau hvert frá öðru. Dólerít er hér ofan á, oftast lausagrjót, en þó klappir hér og hvar á milli og vottar fyrir ísrákum á stöku stað; fjallið er víðáttumikið að ofan og smá hallast til austurs niður að efri hlut Rauðár, en Sandafell er til norðausturs flatvaxin bunga líkt og Fossheiði; lítil hvilft er milli þeirra, þar sem dregur að Rauðárbotnum. Uppi á Stangarfjalli eru góðir hagar og stórir flákar vaxnir mýrgresi. Við riðum niður Stangarfjall að vestan; jarðlaga-bygging þess er hin sama eins og í Fossöldu, þar er ofan til dólerít, en móberg í öllum neðri hluta fjallsins. Hér komst eg vel að að skoða stuðlabergslagið, sem fyrr er getið; þar eru dóleritsúlur mjög fagrar, 3—4 mannhæðir á hæð; súlurnar eru mjög reglulegar og skiftast í liði; merkilegast er þó jarðlagið undir súlunum, það er hnullungaberg, 2—3 álnir á þykt og auðsjánlega myndað af vatni; þar eru ótal núnir bastalthnullungar stórir og smáir; í kringum stærstu björgin hafa sandlög, leir og malarlög lagst í ýmsum fellingum, alveg eins og sést víða við sævarstrendur eða vatna. Undir þessum hnullungalögum liggur gulleit móbergs-»breccia« og hefir vatnið fyrrum tekið úr henni mola, velt þeim og sett þá hér og hvar innan um hina aðfengnu hnullunga. Þegar stuðlabergslagið myndaðist ofan á, hefir leirinn hnoðast saman við neðstu hraunskánina á stuðlunum.

Seinni hluta dags riðum við niður með Skeljafjalli og skoðuðum neðri hluta dalsins. Fyrir neðan Rauðá er hraunið mjög sandorpið; við suðvesturhornið á Skeljafjalli, þar sem Fossá kemur næst fjallinu, eru sunnan við ána tveir gamlir gígir, sem áin hefir brotið í sundur, og sést þar ágætlega vel hin innri bygging þeirra; sjálfir gígarnir eru samansettir af hraunskánum og hraunrusli, en að neðan

sjást gangar þeir, sem gefið hafa tilefni til myndunarinnar. Gígskálarnar eru hálffullar af hvítum vikri. Þarna við fjallshornið beygist áin til vesturs og heldur þeirri stefnu þangað til fyrir neðan Hjálparfoss. Fyrir sunnan Skeljafellshornið (Sámstaðamúla) lækkar fjallsröndin og beygist hálsabrúnin suðaustur að Búrfelli; verður þar svif upp undir fjöllin og eru þar sandar og líklega gamall vatnsbotn; þetta vatn hefir myndast eftir að hraunið varð til, því ofan á hrauninu liggja fram með útjöðrum þessa gamla vatns allmiklar móhellumyndanir og á þeim aftur töluvert af mó með miklum sprekum, sést mórinn víða uppþornaður í lögum; síðan hafa hér orðið miklar breytingar, vatnið hefir þornað og nokkuð af því orðið að mýrlendi, en grassvörður og skóglendi hefir síðan blásið upp, svo nú er alt sandrokið, eintómir vikurbyngir og melar. Það er ekki ólíklegt að árnar hafi stíflast, þegar hraunið rann, og þá hefir myndast vatn, þangað til þær fengu fulla framrás. Þar sem Hjálparfoss er, fellur Fossá fram af þverhnýptri hraunröndinni, og er stór hylur fyrir neðan; í hraunhömrunum eru margir og stórir gangar og í þeim stuðlaberg, áin hefir fyrir neðan fossinn brotist gegnum einn ganginn og standa gangbrotin eins og sléttir veggir upp beggja megin; fyrir neðan fossinn verður allmikil laut inn í hraunið eða vik, og er þar fagur grasblettur milli kvíslanna.

14. ágúst fórum við upp á Búrfell (2180'). Riðum við upp slakkann milli Skeljafjalls og Stangarfjalls og austan með Skeljafjalli; hallar fjallinu öllu til austurs niður að Þjórsá og milli þess og Búrfells er slakki, litlu hærri en slétturnar austur af, en þó há brún þar niður af slakkanum að vestan, þverskorin niður að söndunum við Fossá, af því þeir liggja miklu lægra. Austan við Skeljafjall standa víðsvegar dóleritklappir upp úr og eru þær allar ísnúnar, og er líkast því sem jökull á ísöldinni hafi gengið suðvestur slakkann, ofan frá hálendinu. Hér er alstaðar mjög mikið af hvítum vikri og eru hraunirnir sumstaðar austur af Sámstaðaklifi í lautunum 2—4 álnir á þykt og molarnir stærstu eins og hálfur hnefi. Allur þessi hvíti vikur hefir komið

að austan, líklega fyrir norðan Heklu; suðurtakmörk hvíta vikurfallsins sýndust mér héðan vera sunnarlega um Heklu miðja, en norðurtakmörkin nokkuð fyrir sunnan Sandafell. Mjög ljótt er að sjá landið fyrir austan Þjórsá norður og vestur af Heklu: þar eru eintóm hraun og vikursandar og gróður víst lítill sem enginn. Búrfell er lukt háum hömrum á alla vegu, nema að norðaustan; þar smáhallast það niður að vikrunum við Þjórsá, en skagar fram á láglendið eins og geysimikill höfði, 1500 fetum hærri en sléttan við fjallsræturnar, enda er þaðan víðsýni mikið. Við riðum hægt og hægt upp Búrfellsranann að norðaustan; fjallið er þar ekki mjög bratt, en mjótt, og hamrar beggja megin. Í fjallinu eru ákaflega miklar sprungur, sem ná í gegnum það endilangt frá norðaustri til suðvesturs; upp á fjallinu sá eg, að sprungur þessar halda áfram langt upp á öræfi fyrir austan Stangarfjall; eins sjást þaðan jafnhliða sprungur fyrir vestan Fossárdal í Fossöldu og víðar, enda er það eðlilegt, þó oft hafi sprungið jörðin í þessum héruðum, þar sem jafnmikil eldsumbrot hafa verið. Búrfell er alt samsett úr stórgerðu móbergi, efstu topparnir eru úr dumbrauðu móbergi og ber liturinn af öðrum hlutum fjallsins í fjarska, svo hægt væri að ímynda sér, að þar væri líparít. Af fjallinu var bezta útsjón og sést þaðan yfir mestalt Suðurlandsundirlendið, út á Reykjanesfjallgarð, Esja og mörg fleiri fjöll, en til norðurs sést Langjökull, Hofsjökull og Tungnafellsjökull; upp undir Hofsjökli blasir við bleikrauður, tindóttur fjallgarður með stórum snjósköflum í hverri dæld; það eru Kerlingarfjöll; heiðarnar upp af Fossárdal smáhækka upp að jöklum, en að vestan við Sandárdal eru aflíðandi bungur og hjallar hver upp af öðrum. Eftir að hafa dvalið nokkra stund efst á Búrfelli gengum við út eftir því fram á yztu hamrana. Þar er á einum stað mikil sprunga niður, fær fyrir gangandi menn, en víst naumlega fyrir hesta. Sunnan af Búrfelli sér vel yfir Landið og Rangárvelli, yfir Heklu og hálsana kringum hana, alstaðar yfir hraun og sanda. Landið blasir við rétt fyrir sunnan, marflatt hinumegin við ána; þar eru eintóm gömul hraun, uppblásin og sandorpin, en

grasteygjur og gróðrarspildur í löngum rönum suður eftir; það eru víst sumstaðar hraungjár, sem gefa tilefni til þess, hve reglulegar grasspildurnar eru í laginu. Sunnan í Búrfelli er fallegt beitiland og skógur, en Þjórsá beljandi fyrir neðan brekkurnar. Þar hafa hross fyrrum gengið úti í brekkunum (og eins í Sölvahrauni norður undir Heklu). Meri ein gekk fyrir skömmu úti harðan vetur á torfu hátt uppi í Búrfelli og var spikfeit, en hrapaði til dauða á svelli um vorið. Um kvöldið snerum við aftur í húðarigningu og fórum sama veg til baka að tjaldstað í Fossárdal.

Rauðukambar eru orðnir frægir í sögu landsins fyrir gosið, sem þeim er kent um, og sagt er, að hafi eytt allan Þjórsárdal. Það er enginn vissa fyrir því, hvenær gos það hefir verið, er eyddi Þjórsárdal, þvert á móti sýnast elztu frásagnir vera í efa um, hvenær það hafi verið. Víðast (ef ekki alstaðar) mun frásögnin um gos þetta vera tekin úr biskupa-annálum Jóns Egilssonar; þar segir svo: »það skeði og hér hjá oss á fyrri tímum mjög snemma, eg þenki í tíð þessara biskupa,[1]) það eldur kom upp í Rauðakömbum: það er fyrir framan Forsá, en fyrir norðan Skriðufell. Þá var Hagi í miðri sveit, og þeirra þingstaður. Sá eldur brendi allan Forsárdal, bæði skóga og bæi; það voru alls XI bæir; til þeirra sér enn merki, og heitu (?) á Beighalsstöðum, Stöng, Steinastaðir, Sámsstaðir, þar hafði Hjalti á Núpi bú og var þá kristnin lögtekin í landi, því hefir sá eldur seinna uppkomið, en hvenær það skeði sérlega veit eg ekki datum«.[2]) Espólín tekur auðsjáanlega þessa sögu eftir Jóni Egilssyni, en setur þó ártalið 1343 við gos þetta, en á hverju hann hefir bygt það, veit eg ekki. Hinir eldri íslenzku annálar nefna engir þetta gos, það eg veit. Halldór

[1]) Næst á undan eru taldir Jón Halldórsson († 1338), Jón Indriðason († 1341). Jón Sigurðsson († 1348) biskupar, en yfir hve marga biskupa Jón Egilsson vill þenja orðin „tíð þessara biskupa“ er ekki gott að segja (ef til vill 7, sem eru nefndir í greininni á undan).

[2]) Biskupa-annálar Jóns Egilssonar kap. 4. Safn til sögu Íslands I. bls. 32—33.

Jakobsson[1]) telur Rauðukambagos 1311, en það hefir nú ekki mikið að þýða, öll bók hans er hrúgaldur af alskonar sögnum, sönnum og ósönnum, hvergi tilfærð heimildarrit, og ber hún auk þess vott um staka vanþekkingu á landafræði Íslands. Það er auðséð á frásögu Jóns Egilssonar, að hún er tekin eftir einhverjum óljósum munnmælum, sem hann hefir heyrt, án þess hann viti nokkuð nánar um þenna viðburð; það sést jafnvel á hinum síðustu orðum hans, að hann er ekki einu sinni viss um, á hverri öld eða hvenær gosið hefir orðið. Annálar Jóns Egilssonar eru, að því eg veit bezt, hið elzta og einasta frumrit, sem frásögnin um Rauðukambagosið er bygt á, og af því sést, hve lítil söguleg vissa er fyrir þessum náttúruviðburði. Annars hefi eg tekið eftir því, síðan eg fór að skoða eldfjöll á Íslandi, að maður verður að nota fornar frásagnir annála og annara bóka um eldgos með mestu varúð; sagnirnar hafa oft borist margra á milli og aflagast í meðferðinni, og auk þess hafa annálaritararnir oft verið ókunnugir landslagi kringum gosstaðina; því eldfjöllin liggja oftast í öræfum og eru ekki kunn öðrum en næstu bygðamönnum. Þegar maður skoðar Rauðukamba, er auðséð, að þeir aldrei hafa gosið; það eru, eins og fyrr hefir verið frásagt, líparít-hryggir mjög gamlir og enginn vottur fyrir eldsumbrotum. Ekki gat eg heldur séð nein merki þess, að annarstaðar hefði gosið í dalnum síðan á landsnámstíð, en þó hefir þar gosið löngu áður. Eins og fyr hefir verið frá sagt, er allur hinn neðri Þjórsárdalur og mikill hluti af Fossárdal fullur af hrauni; það er alt sandorpið og þakið vikrum, en fjöldamargir gamlir gígir eru þar hér og hvar. Hraunkvíslin, sem runnið hefir úr »Hafinu«, niður með Rauðá, niður í Fossárdal, sýnist vera eldri heldur en hraunin í dalnum, þó þau séu mjög gömul líka; þó er eigi hægt að segja slíkt með vissu, aftur á móti er það víst, að megnið af Þjórsárdalshrauninu hefir komið

---

[1]) Fuldstændige Efterretninger om de udi Island ildsprudende Bierge. Kbh. 1757. bls. 26.

upp um sprungur í dalnum sjálfum. hafa þar myndast margar gígaraðir og hraun ollið frá þeim á alla vegu; að hraunið hefir komið upp í dalnum sjálfum, sést bezt á hinum miklu »göngum«, sem í því eru upp í gígana, þesskonar gangar myndast aðeins í sprungum neðan að. Hraun þetta hefir verið alstaðar undir jarðvegi á landnámstíð, bæirnir sumir hefðu ekki getað verið þar sem rústir þeirra eru, ef hraunið hefði ekki verið til áður en þar bygðist. Sámstaðir t. d. standa utan í sjálfri hraunröndinni, þar sem hún er bólgin upp við fjallið og mjög sandorpin, já það eru jafnvel líkindi til, að Þjórsá hafi haft nokkuð annað rensli, áður en hraunið brann. Það er auðséð á mörgu, að Þjórsárdalur hefir til forna verið mjög grösugur og víða skógi vaxinn, en landið hefir alt blásið upp af vikurfalli, svo nú standa ekki eftir nema smátorfur á stöku stað; líklega hafa Vikrarnir og neðri hluti Þjórsárdals í fyrndinni verið svipaðir eins og Skriðufellsskógur, enda eru þar enn óblásnir skógarjaðrar á hraunbotni, en hitt, að hvergi hafi séð í stein í Þjórsárdal, er ótrúlegt eins og aðrar munnmæla ýkjur; það hefir þá líklega verið »þegar Skollinn lá í vöggu og allur Breiðifjörður í ljá«, eins og sagt er fyrir vestan. Bæjarústirnar í Þjórsárdal, sem eru að minsta kosti 15, eftir rannsóknum Brynjólfs frá Minna-Núpi,[1]) sýna það bezt, að þar hefir verið grösugt, annars hefði ekki slík bygð getað þrifist.

Nú erum vér komnir að þeirri niðurstöðu, að lítil líkindi séu til þess, að gosið hafi í Þjórsárdal, síðan land bygðist, og er þá þessu næst að athuga, hvernig bygðin hefir eyðst. Það er auðséð, að skógar og grassvörður í dalnum hafa eyðst af vikurfalli, eða að minsta kosti hefir vikurfall orðið tilefni til þess, að landið fór að blása upp,

---

[1]) Brynjólfur Jónsson: Um Þjórsárdal. Árbók Fornleifafélagsins 1884—85 bls. 38—60. Í þessari ritgjörð er ágæt staðalýsing af héraðinu og safnað saman öllum munnmælasögum og getgátum manna um bygðina; þar er uppdráttur af dalnum og rústunum o. fl. Væri óskandi að menn hefðu fleiri jafngóðar lýsingar af eyðibygðum eftir nákunnuga menn. Aðalefnið úr þessari ritgjörð hefir Kaalund tekið í bók sína Hist.-topogr. Beskr. af Island I. bls. 198—203.

alstaðar eru þykkar vikurhrannir bæði af hvítum vikri og svörtum, en þó mest af hinum hvíta, hann sýnist vera miklu eldri en svarti vikurinn og kemur alstaðar út undan jarðvegi, þar sem blæs upp. Skal eg tala um hann nokkuð nánar seinna. Svarti vikurinn er að mínu áliti mestallur kominn úr Heklu, og þaðan stafar eyðilegging Þjórsárdals, eins og svo mörg skemdin önnur. Hekla er ekki nema rúmar tvær mílur í suðaustur frá Þjórsárdal og þangað hlýtur að hafa komið töluvert af vikri við hvert Heklugos, en einkum þó þegar vindur hefir verið á sunnan eða suðaustan; auk þess eru vikursandarnir upp af Heklu svo nálægt, að þaðan fýkur eflaust mikið í rokviðrum af landnorðri; dalurinn hefir því eflaust verið að smáskemmast meir og meir, unz hann varð með öllu óbyggilegur. Nú eru nokkrar líkur til, að bygðin mestöll hafi farið af um miðja 14. öld, enda var þá eitt hið mesta Heklugos, sem sögur fara af, 1341. Af því gos þetta er mjög merkilegt, set eg hér sérstaklega, hvað hver annáll segir um gosið. Skálholtsannáll hinn forni, sem nær til 1356, segir frá gosinu á þessa leið: »Elds upp kvama inn setta í Heklu felli einni nótt eftir festum Dunstani, með svá miklu myrkri af öskufallinu at í sumum stöðum frá dagmálum til nóns sá ekki skrím úti heldur en menn væri blindir, ok var þó mikið myrkr allan daginn ok marga aðra síðan, tók askan í aukla undir Eyia fjöllum, ok fylgdi naut fellir mikill«.

Í annálsbroti frá Skálholti, er nær yfir árin 1328—1372, segir svo: »Ells upp kuama í Heklufelli med myklu sanndfalli ok sua storum brestum at biorgum laust saman í elldinum at naliga heyrdi um allt land sua uar ok dimt medan sanndfallid stod mest yfir, at eigi uar bok liost i kirkjum þeim er næst stodu uppkuamu ellsins, hallæri mikid, mikill fiarfellir bædi sauda ok nauta sua at midil fardaga ok Peturs messo fiell at eins fyrir Skalholti lxxx nauta«. Í Lögmannsannál, sem nær til 1392, stendur: »Þa kom vpp elldr j Heklufelle med sua miklu sannfalle at fenadr do af vm varit ok saudfe ok nautfenadr do mest vm Rangarvollu ok eyddi

naligha v reppa ok vídara annarstadar do naut manna af sandinum«.

Gottskálks annáll, sem nær til 1578, segir svo frá gosinu: »Ellds kuoma in vi. i Heklu felli med svo storum dynkjum at landit skalf alt svo at i fjarlægum stodum og hjerudum hristis skiar á husum sem fyrir vindi hvossum um langa tíma og var þa kyrt vedur, myrkr var svo mikit af oskufalli i nalægum hjerudum at ljós brann í húsum um daga. Þetta var fyrir Urbanus messo vi nottum, af þessu osku falli do mikill hluti nautfjár fyrir sunnan land svo ad marger menn urdu snauder at kvikfje ok gengu úr húsum frá eignum ok jordum sínum, eyddust margir bæer um Skalholts sveit ok Rangarvollu og nokkrir austar«.

Flateyjarannáll nær til 1394: »Ellds uppkuoma i Heklu felli vi drottins daginn næsta eftir (víg Styrkárs í Nesi á uppstigningardag) med svá miklum fádæmum ok öskufalli at eyddust margar sveitir þar í nándir ok myrkr svá mikit enn fyrsta dag uti sem þa er svartast er i husum á hávetri um nætr, dunur um allt land sem hjá væri auskufall um Borgarfjord og Skaga sua ad fenadr fell af ok huervetna þar í milli, menn foru til fjallsins þar sem uppvarpit var ok heyrdist þeim sem bjargi stóru væri kastat innanum fjallit, þeim syndust fuglar fljúga í elldinum bædi smáir ok stórir med ymsum látum, hugdu menn vera sálir, hvíta salt suá mikit lá þar um hverfis opnuna, at klyfja mátti hesta af ok brennusteini«[1]). Allir annálar þessir eru samtaka í því, að setja þetta Heklugos 1341 og er engin ástæða til að rengja það, þar sem þetta eru hin elztu heimildarrit, sem til eru; þó segir Espólín, að gosið hafi verið 1343, og tekur hann það líklega eftir Hannesi biskupi Finnssyni[2]). Það væri mjög ólíklegt, að höfundar annála þeirra, sem fyrr voru greindir, hefðu allir gleymt Rauðukambagosi 1343, hefði það átt sjer stað og gjört jafnmikinn usla eins og sagt er,

[1]) Annálskaflar þessir eru hér teknir úr Islandske Annaler indtil 1578 udgivne ved G. Storm. Christiania 1888.

[2]) Um mannfæckun af hallærum á Íslandi: Rit Lærdómslistafelagsins 14. b, bls. 57; þó vitnar H F. í þessa sömu annála.

úr því að þeir segja jafnmikið frá Heklugosinu; sumir annálarnir eru auk þess ritaðir skömmum tíma seinna, en þessi viðburður hefði átt að verða, og hefði eyðing Þjórsárdals þá orðið að vera í fersku minni. Einar Hafliðason (†1393), sem hefir ritað Lögmannsannál, var þá ráðsmaður á Hólum, um það er Heklugosið varð, hefði hann t. d. eflaust minst á eldgosin í Þjórsárdal, hefði þau orðið á þeim missirum. Það er samt mjög líklegt, að bygðin í Þjórsárdal hafi orðið fyrir töluverðum skráveifum við þetta Heklugos, því hafi 5 hreppar nálega eyðst, eins og Lögmannsannáll segir, þá hefir einhverju rignt yfir Þjórsárdal, sem er svo nálægt, og það því fremur, sem Flateyjarannáll telur öskufallið mest milli Borgarfjarðar og Skaga, því ef það er rjett, þá hefir öskumökkinn lagt beint yfir Þjórsárdal. Öll líkindi eru til þess, að áður hafi orðið öskufall frá Heklu í Þjórsárdal, t. d. 1294; þá er sagt, að ganga hafi mátt Rangá þurrum fótum af vikrafallinu og hún fór úr farvegi sínum; þar sem af kastaði straumnum í Þjórsá, var vikurinn svo þykkur að fal ána; 1300 var ógurlegt Heklugos, þá var vindur af landsuðri, sá er bar norður um land sand með svo miklu myrkri, að engi maður vissi hvort nótt var eða dagur, meðan sandinum dreif á jörðina. Frá elztu Heklugosunum er ekki svo nákvæmlega sagt, að hægt sé að ráða nokkuð af því. Við flest Heklugos, sem seinna hafa orðið, mun töluverð aska hafa fallið í Þjórsárdal, þó dalsins sé ekki getið sérstaklega að öðru en því, að Sandatunga eyddist við Heklugosið 1693. Eftir því sem hefir verið tilfært hér að framan, ímynda eg mér, að Þjórsárdalur hafi eyðst af Heklugosum, líklega mest af gosinu 1341, en hefir þó verið töluvert skemdur af eldri gosum (t. d. 1294 og 1300). Bygðin hefir ef til vill verið komin mestöll af á 14. öld, en þó hefir dalurinn spilst mikið eftir það af ítrekuðum gosum og sandroki að norðaustan.

Eg hefi áður minst á hinn hvíta og gráa vikur, sem er svo algengur í Þjórsárdal og kemur alstaðar fram undan jarðvegi, þar sem upp hefir blásið; vikur þessi verður því meiri og stórgerðari sem austar dregur, og mestur er hann

í lautunum austur af Sámsstaðaklifi. Af Búrfelli leit svo út, sem sjá mætti takmörk þessarar vikurbreiðu, og var svo að sjá, sem mest af þessum vikri hefði komið austan að fyrir norðan Heklu. Hvíti vikurinn er töluvert algengur í kringum Heklu, einkum undir jarðvegi alldjúpt niðri, t. d. í bökkunum á Selsundslæk; Þjórsá og Rangárnar bera altaf við og við töluvert fram af þessum vikri, sem skolast úr bökkunum og fýkur með vindinum, af því hann er svo lauflóttur. Að öllum líkindum hefir hvíti vikurinn komið austan undan Torfajökli löngu fyrir landnámstíð úr einhverri óþektri gosborg við Hrafntinnuhraun. Hekla hefir aldrei gosið öðru en dökkum basaltvikri, en Hrafntinnuhraun er þess eðlis, að öll líkindi eru til, að hvíti vikurinn sé ættaður einhverstaðar þar úr nágrenninu. Þetta reyndist rétt tilgáta, því næsta sumar (1889) fann eg líparítgosstaði á Landmannaafrétti.

Eftir að eg var búinn að skoða Þjórsárdal, fórum við um kvöldið hinn 15. ágúst ofan í bygð að Stóra-Núpi og þaðan daginn eftir að Hruna. Á leiðinni eru líparítmyndanir hér og hvar innan um móbergið, t. d. við Laxá hjá Sólheimum og í Galtafelli. Fellin hér í Hreppunum eru annars nærri því öll úr móbergi, en sumstaðar basaltlög og gangar innan um; landið er alstaðar mjög grösugt, fellin talsvert grasgróin og engjaspildur í dældunum. Berghylsfjall myndar samanhangandi tanga fram úr hálendinu og má fylgja hlíðinni alla leið upp fyrir Tungufell, en fjöldi af fellum eru frálaus og bollar og breiðar dældir á milli. Hinn 17. ágúst fórum við frá Hruna upp að Tungufelli, og fylgdi síra Steindór Briem okkur alla leið þangað, en síra Jóhann Briem nokkuð áleiðis. Í bygðinni skoðaði eg aðeins fátt og lítið, því við vildum fá sem bezt veður á fjöllunum og þangað var líka ferðinni heitið; vinir mínir, prestarnir í Hruna og á Stóra-Núpi, voru búnir að gefa mér allar upplýsingar, sem eg þurfti, útvega mér fylgdarmann og búa alt sem bezt í haginn, svo eg var farinn að hlakka til að komast sem fyrst upp í óbygðirnar, enda varð ferðin einhver hin skemtilegasta, því margt var að sjá og veðrið

ágætt. Á leiðinni frá Hruna kom eg að Grafarbakka og skoðaði þar hverina. Bærinn stendur á bakka við Minni-Laxá og er þar mjög mikill jarðhiti. Í horninu á kálgarði, sem nú er vestan við bæinn, var áður þurrabað, og sóttu þangað margir til lækninga; var þar grafin hola í jörðu og bygt hús yfir, sátu menn þar og svitnuðu líkt og í þurrabaðinu hjá Reykjahlíð við Mývatn. Í melhorninu fyrir neðan er rauðleitur og gráblár hveraleir, og þarf ekki annað en grafa þar holu til þess að geta hitað í potti. Þar fyrir neðan er bullandi hver í bakkanum, ákaflega heitur, $99^1/_2{}^0$ C., og er loftið óvanalega heitt upp af honum. Niður við ána eru tvær holur fyrir neðan þenna hver, var hitinn í annari $95^1/_2{}^0$ en í hinni 90—92°, eftir því hvernig á stendur, 90 stiga hiti 2—3 sekúndur í einu, svo aftur 92° jafnlengi á víxl, þegar heita vatnið kemur að neðan. Hér og hvar kemur heitt loft út um holur og sprungur í bakkanum undir bænum og sýnir það, hvað jarðhitinn er mikill. Fyrir handan á er flatvaxin klapparbunga og á henni margir hverir; þar eru tveir hverir, er gjósa á víxl, og eru 50 fet á milli þeirra, þegar syðri hverinn hættir, byrjar nyrðri hverinn að gjósa og stendur hvert gos í mínútu, norðurhverinn gýs um 4 fet, hinn syðri 2 fet í loft upp, hitinn er eins í hverunum báðum, 97° milli gosa, skál syðra hversins er flatvaxin, en hins nyrðra kröpp og djúp. Hverir þessir heita Básahverar. Ýmsir smærri hverir eru á milli þeirra og skvetta þeir upp vatni við og við. Vestan í hverabungunni eru tveir djúpir hverir, sem nú ekki gjósa, og Vaðmálahver (95°); í honum sjóða menn kál á haustin. Austan við bunguna eru hverir í ánni, þeir voru nú á þurru, því áin var mjög lítil, í þeim var hitinn 96°. Í kringum hveri þessa vaxa ýmsar sjaldgæfar jurtir, t. d. vatnsnafli (hydrocotyle), sem ekki hafði áður fundist nema við hveri í Borgarfirði, oddvarategund (polygonum persicaria) o. fl. Einn hver er hér langt uppi í mýri, sem heitir Draugahver, sagt er að konan í Reykjadal hafi öfundað konuna á Grafarbakka vegna heita vatnsins, og lét hún þá vekja upp draug og skipaði honum að sækja hver frá Grafarbakka, en draugsa

dagaði uppi, þegar hann var kominn í miðja mýrina, svo hann varð að sleppa hvernum.

Frá Grafarbakka riðum við upp Hreppana spölkorn fyrir austan Hvítá, er þar alstaðar sama búsældarlandið, ágæt beit í fellunum, mýrabollar og stórir grasflákar á milli þeirra, en afréttarland óþrjótandi, grasi vaxið upp til jökla. Fyrir ofan Hauksholt komum við að Hvítá, rennur hún þar í stokki og hefir grafið sig niður í móbergið og er þar eyja í ánni, Haukholtsey, girt móbergshömrum á alla vegu; fyrir framan eyna eru tveir móbergsstandar, karl og kerling; kerlingin er lægri og digrari, nær eynni, en karl fjær, langur og mjór. Eyjan er aflöng, móbergið skorið í þverhnýptar spildur. Við riðum út í eyna yfir eystri kvísl árinnar og gengum upp í gegnum klettaskoru upp á eyna, hún er skógi vaxin hið efra og birkitrén hæstu 7—8 álnir og stofnarnir 5—6 þumlungar að þvermáli, útsjónin er einkennileg og hrikaleg. Um kvöldið komum við upp að Tungufelli, sem er efsti bær í Hreppunum. Bærinn stendur undir endanum á Tungufelli, sem er grösugt og víða skógi vaxið í hlíðunum, einkum fram með Hvítá. Að Hvítá liggja háir malarbakkar fyrir neðan Tungufell, en móberg með hraunlögum innan um kemur framundan mölinni. Hátt upp frá ánni er lábarið grjót, alt upp undir hlíðarnar á Berghylsfjalli hjá bænum Hlíð, og vestan við ána eru háir malarkambar; þetta eru menjar þess, að áin hefir áður runnið út að hæðunum á báða vegu, áður en hún gat skorið sig niður í móbergið. Á Tungufelli er kirkja, en í sókninni ekki nema 40—50 sálir. Kirkjan er lítil og fornfáleg; þar er altaristafla með gömlu krossmarki settu steinum, glerungsmyndum o. s. frv. Efsti bær í Tungunum heitir Brattholt, hann er rétt á móti Tungufelli og þó lítið eitt ofar.

Hinn 18. ágúst um miðjan dag lögðum við upp frá Tungufelli og með okkur Snorri Jónsson frá Hörgsholti, sem er nákunnugur á fjöllunum. Riðum við fyrst upp með Hvítá upp að Gullfossi, eru þar ágætlega fögur beitarlönd, vaxin víði og lyngi, og birkiskógur hér og hvar. Á móts við Gullfoss austan megin er Hamarsholt; sá bær er nú í

eyði. Gullfoss er vatnsmikill foss og fagur, þó hann sé ekki neitt á við Dettifoss í Jökulsá; fellur áin af tveimur hjöllum niður í gljúfrið og er efri fossinn skáhallur gagnvart hinum neðri; neðri fossinn sést betur að vestan, því þar má komast rétt niður að vatni, en að austan verður maður að standa á gljúfurbrúninni. Hamrarnir í gljúfrinu eru samsettir af móbergi og blágrýti á víxl; þar er víða fagurt stuðlaberg í klettunum, sumar súlurnar beinar, sumar bognar, sumar skáhallar, en smáklofið blágrýti á milli eins og í rósum. Undir flestum fossum á Íslandi er bæði móberg og basalt og hefir þessi lagskifting gefið tilefni til fossmyndunarinnar, af því vatnið vinnur betur á, þar sem eru linari lög á milli. Lax kvað ganga upp að Gullfossi, en silungur niður að honum úr Hvítárvatni.

Fyrir ofan Tungufell taka við flatvaxin afréttarlönd upp til jökla, og er þar einhver hinn grösugasti afréttur, sem eg hefi séð; fjöll eru hér engin, en lágar öldur og hálsabungur í löngum ræmum á milli vatnsdraganna, er safnast saman í lautunum. Bungur þessar og öldur hafa flestallar sérstök nöfn og liggja margar jafnhliða frá norðri til suðurs (eða þó fremur frá N. N. A. til S. S. V.); við riðum altaf fremur nálægt Hvítá og er þar alstaðar nærri slétt land og mjög grösugt. Margar ár og kvíslar renna um Hrunamannaafrétt vestur í Hvítá, og eru sumar þeirra í leysingum á vorin ákaflega vatnsmiklar, en nú voru allar bergvatnskvíslar því nær þurrar vegna hitanna, sem gengið höfðu að undanförnu. Af bergvatnskvíslum þeim, sem vér fórum yfir, fórum við fyrst yfir Búðará; hún kemur upp fyrir austan norðurendann á Búrfelli og rennur niður með því fyrir framan það í gili, svo fyrir Búrfellsmýrar út með Hnausheiði og suður fyrir endann á henni í Hvítá, spölkorn fyrir ofan Gullfoss, síðan fórum við yfir Stangará og upp með henni; þessi á kemur úr norðurendanum á Búrfelli en rennur svo vestan með Hnausheiði og í Hvítá skamt fyrir ofan Búðará. Hnausheiði og Búrfell eru langir hálsaranar jafnhliða, en milli þeirra eru Búrfellsmýrar; þar er slegið frá Tungufelli, en þangað er afarlangur heyvegur. Hnaus-

heiði nær miklu lengra suður en Búrfell. Alstaðar eru víðivaxin beitarlönd, en möl undir í jarðvegi og sést óvíða í fasta klöpp, en þó má sjá að móberg mun vera víðast hvar undir. Um kvöldið riðum við austanvert við Harðavöll, það eru urðarholt og graslausar flatir, og tjölduðum við um kvöldið í Svínárnesi rétt hjá gangnamannakofa, sem þar er; þar eru góðir hagar, mýrar með stör og fífu og víðirflatir á milli. Svínárnes verður þar, sem Svíná fellur í Sandá, milli ánna. Sandá er mjög vatnsmikil á í leysingum, af því aðdragandi er mikill og í hana falla margar ár og lækir, kemur hún úr norðaustri og heitir efst Kerlingará og fellur í gljúfrum suður milli austur- og vesturrana Kerlingarfjallanna, en heitir Sandá, eftir að Fúlá er komin í hana að austan; neðar kemur í hana Miklumýrarlækur, sem rennur vestan með Kerlingarfjöllum og síðan að austan Rauðá, en Svíná neðarlega að austan, rennur Sandá eftir það suður með Hvítá, áður en hún fellur í hana, og myndast þar löng tunga milli Sandár og Hvítár. Veður var hið bezta um daginn og um kvöldið og var falleg fjallasýn norður í Hrútafell, Kjalfell og Kerlingarfjöll og Bláfell í vestri, en landið í kring er blómlegt, eins og í grösugri sveit.

Upp um allan þenna afrétt hefir áður verið töluverð bygð, eins og eðlilegt er, þar sem landkostir eru svo góðir, en vetrarríki er þar víst töluvert og aðflutningar örðugir. Nöfn á þessum bæjum eru enn í munnmælum og sést varla fyrir rústum sumra þeirra. Þessir voru hinir helztu, er eg hefi heyrt getið um: Rógshólar fyrir framan Stangará, þar sem hún rennur þvert vestur í Hvítá, Mörþúfur fyrir vestan Stangará, rétt fyrir framan Heygil; þá er hálfnað frá Rógshólum að Þórarinsstöðum, sem líka voru vestan við Stangará; Stöng kvað hafa verið einhverstaðar í Haugsheiði, en Laugar kippkorn frá Hvítá, suðvestur frá Þórarinsstöðum; þar eru gamlar volgrur, og sagt að þar hafi verið hver, enda er þar hveragrjót og er í munnmælum, að hverinn hafi flutt sig, þegar jörðin fór í eyði; þar er örnefnið Laugahvammar; sagt er að þar sjáist marka fyrir fjósi með 18 básum. Rafntóftir, rétt austan við

Grjótá; þar kvað enn sjást til tófta, auk þess eru nefndir Vegghamrar við Grjótá, og sagt er, að bærinn Fosslækur (eða Fosslækjartunga) hafi verið við Fosslæk, sem fellur norðvestan í Grjótá og er í mörgum kvíslum; þar sem kvíslirnar sameinast, er foss og göngumannakofi, og halda menn, að bærinn hafi verið þar. Auk þess er það í munnmælum, að tveir bæir, Fremra-Ásgarð og Innra-Ásgarð, hafi verið í Ásgarði, norðvestur af Kerlingarfjöllum, rétt upp undir jökli, og er það þó fremur ótrúlegt. Hvítá skiftir afréttum Árnessýslu í tvent; í vestari hlutanum á hver sveit sitt afréttarland upp af efstu heimalöndum, en Biskupstungur eiga auk þess sérstakt ítak fyrir innan Hvítárvatn, þangað er rekið stóð. Austan Hvítár liggja aðeins tvær sveitir, Hrepparnir, upp að afréttum. Ytrihreppur á afrétt út af fyrir sig inn með Hvítá og upp að Blágnýpujökli. Upp af Eystrihrepp er aftur sameiginlegur afréttur allra framsveita í Flóa og á Skeiðum, en Eystrihreppur á afrétt fyrir innan Fossá upp með Þjórsá til Arnarfells; skiftir Fjórðungssandur þessum afrétti í tvent, og hefir nyrðri hlutinn fyrrum mikið verið notaður til grasatekju.[1])

Næsta dag (19. ágúst) riðum við upp eftir afréttum upp tunguna milli Svínár og Sandár, fórum upp á Skygnisöldu til að líta yfir landið, og riðum svo yfir Sandá, þar sem Rauðá fellur í hana, og var hún nú mjög vatnslítil. Öldurnar eru hér alstaðar á hálendinu úr dólerít-rusli, en einstöku móbergsklettar standa upp úr ruslinu; fórum við síðan upp með Búðarfjöllum og í Miklumýrar, það er ákaflega mikið graslendi með stórkostlegum slægjum, sem því miður er ekki hægt að nota úr bygð, af því þær eru svo langt burtu. Riðum við síðan upp með kvísl, sem fellur austan í Miklumýrarlæk og upp í krikann vestan undir Kerlingarfjöllum og tjölduðum þar seinni hluta dags á Kerlingarflötum. Úr þessum tjaldstað er skamt til Kerlingarfjalla, þau eru 4500 fet á hæð, tindaröðin ber við himin og alstaðar glampar á hvítar og gular líparítskriður utan í

[1]) Sbr. Fróði I, bls. 309—311.

hnúkunum. Um kvöldið fór eg snöggva ferð upp í fjallshlíðarnar til þess að skoða hinar næstu líparítskriður; riðum við fyrst upp eftir bröttum melhjöllum (Bringur), sem eru nokkurskonar undirhlíðar fram með Kerlingarfjöllunum, þar er alstaðar móberg undir. Líparítið, sem er aðalefni tindanna, stendur upp úr móberginu og liggja móbergslögin utan á því; líparítið er einkennilegt hér í næstu skriðunum. grisjótt með langdregnum blöðrum, og alstaðar er mesti urmull af lausum hrafntinnumolum innanum skriðurnar. Við komumst ekki upp í fjöllin fyrr en um sólarlag og var þá einkennileg útsjón yfir landið fyrir neðan; beint á móti til vesturs blasir við Langjökull og Hvítárvatn í rauðu mistri, vatnið er alt þakið jökum, og skriðjöklar tveir teygja sig niður í vatnið eins og frosnir fossar; í suðvestri sér niður um allar afréttir niður á láglendi, en útsjónin er óglögg. af því myrkrið er að færast yfir, það glitrar í árnar í óbygðunum, sem kvíslast svo víða um hálendið innanum öldur og bungur, en tunglið er komið fram undan tindunum á Kerlingarfjöllunum og veður áfram í fyllingu bak við kolsvört skýjaböndin, svo það er í fjarska eins og járnbentur kútur. Þegar orðið var dimt, snerum við aftur og klöngruðumst niður Bringurnar; eru þar margar hvilftir og gilskorur á leiðinni.

Morguninn eftir héldum við snemma á stað til þess að skoða fjöllin; það var nokkur þoka, þegar við fórum á stað, en henni létti af og varð bezta veður um daginn, riðum við frá tjaldinu upp Bringur að Kerlingargljúfri, hefir Kerlingará þar skorið sér djúpan farveg niður í móbergið; áin skiftir fjöllunum í tvent, þannig að sérstakur fjallgarður verður hverju megin, þó nær hinn eystri bæði lengra til suðurs og er meiri um sig. Kerlingargljúfur er bæði djúpt og hrikalegt og eru hamrarnir víðast hvar ókleifir, þó ganga ótal skorur og gjár snarbrattar niður í barmana. Vestan við Kerlingargljúfrið ganga mörg þvergil niður eftir Bringunum og urðum við að þræða gljúfurbarminn til þess að komast fyrir botna þeirra, komumst við þannig upp á Kerlingardal og riðum upp eftir honum að vestanverðu, því

gljúfrin skera hann sundur að endilöngu; þar er varla stingandi strá, en alstaðar eru hvítar og gular líparíturðir, alt í kring eru brattir og hvassir tindar, hvítir, gulir og móleitir, og skaflar og stórar fannir í lautunum. Fremst skiftist dalurinn í tvent og er Kerlingargljúfur að vestan, en að austan er annað gljúfur, sem lækur rennur eftir suður í Kerlingará, en Klakkalda er á milli. Efst í Kerlingardalnum klöngruðumst við yfir Kerlingargljúfrið og var þó mjög ilt að fara þar með hesta, síðan sneiddum við oss upp brúnirnar fyrir ofan dalbotninn, þar er hver hjallinn upp af öðrum og þykkir hjarnskaflar í hverri laut og hverju gili, verður þar breitt haft af bunguvöxnum hæðum, og tengir það saman vestari og austari fjallgarðinn, bungur þessar eru lægri en fjallgarðarnir beggja megin, 3500 fet á að gizka, og hefir efsta bungan verið kölluð Kerlingarskygni (3918'); þaðan hallar aftur norður og niður að Hveradölum, þar fellur Ásgarðsá norður úr og renna í hana mörg gil og lækir úr fjöllunum, svo Hveradalirnir verða ekki annað en margkvíslaðar gilskorur og grafningar, alveg gróðurlausir og sundursoðnir af jarðhita; hlíðarnar í þessum dölum eru mjög marglitar, hvítar, gular, rauðar, bleikar, bláleitar og grænar, en víða koma upp reykir úr skorum og holum. Víða eru þar í hlíðunum stórkostlegir jökulskaflar með óteljandi sprungum og er mjög ömurlegt að líta ofan í þessa tröllabotna, þar sem alt suðar og urgar af gufunni, sem brýzt upp úr jörðinni; brennisteinsvæluna leggur oft langt í burt, og þegar gola stendur af fjöllunum, má stundum finna hana langt fram á afrétti. Af Kerlingarskygni höfðum við hina beztu útsjón bæði suður og norður af landinu. Suður af fjöllunum sá yfir hálendið alt og undirlendið suður í sjó, Ingólfsfjall sást glögt, en takmörk lands og sævar voru í mistri; þegar litið var norður af, sást vel fjall-lendið á hálendiskvíslinni, sem gengur norður á milli Skagafjarðar og Eyjafjarðar, Mælifellshnúkur blasir við og öll bygðafjöll vestur undir Hrútafjörð; hvít þokulæða teygði alstaðar frá sjónum armana upp í dalina fram með hlíðunum, en náði þó ekki mjög langt á land upp. Af Kerlingarfjöllum er

mikil jöklasýn yfir Hofsjökul og Langjökul; Hofsjökull nær eigi eins langt vestur eins og sett er á Uppdrætti Íslands; Blágnýpa er allbreitt fjall í jökulröndinni að suðaustan, norður af Kerlingarfjöllum, og gengur skriðjökull allmikill niður í krókinn fyrir austan hana, þar spettur upp Jökulkvísl (eða Jökulfall), sem fellur í Hvítá, í hana rennur Blágnýpukvísl og fleiri ár, sem kvíslast eins og net um sandana fyrir neðan. Til austurs sést yfir öræfin suður af Sprengisandi og hálendin alt austur í Vatnajökul, á sléttunum fyrir austan fjöllin sést sumstaðar í ár, t. d. Dalsá og Kisu; Dalsá sprettur upp syðst í eystri fjöllunum, austan við Klakk, milli hans og Rauðkolla, en Kisa kemur upp norðar og austar í Kerlingarfjöllum; suður á heiðunum sést Grænavatn og er það miklu norðar en á Uppdrætti Íslands; þar norðaustur af er Rjúpnafell og svo Leppir minni og Leppir stærri vestar, og enn fleiri fell og öldur eru hér og hvar neðar á öræfunum; lengst í austri sáum við til Fiskivatna, þó sáum við ekki nema eitt afarstórt vatn (Þórisvatn). og sýndist vera í því hálend eyja í miðju, þar fyrir suðaustan taka við fjallshlíðar í fjarska og margir tindar austur af. Í vestri blasir við Hvítárvatn, Langjökull og Hrútafell. Rétt fyrir vestan Kerlingarskygni, í djúpum gilgrafningi, eru uppsprettur Kerlingarár og eru þar miklir brennisteinshverir og rýkur ákaflega úr þeim; önnur gilskora gengur þaðan í vestur og sker vesturfjöllin í tvent; þar eru upptök Miklumýrarlækjar; næst fyrir norðan þessa gilskoru er hátt fjall hvítleitt með marglitum klettum og skriðum; þar kemur Ásgarðsá hin fremri upp vestan við fjallið, svo eru fleiri tindar og bungur til norðurs fyrir vestan Hveradalina, en Ásgarðsfjall er nyrzt og þó sérstakt. Eg fór með Snorra Jónssyni gangandi niður í Hveradalina, því hvergi er þar hægt að koma við hesti, en Ögmundur varð eftir hjá hestunum uppi á Kerlingarskygni. Undir norðurbrún Skygnisins liggja æfagamlar, stórkostlegar jökulfannir mjög brattar, með ótal jökulsprungum neðan til, liggja þessar jökulfannir niður undir gilskorur Hveradalanna, sem safnast saman eins og hríslur að aðalfarvegi Ásgarðsár hinnar innri. Gengum við norðvestur eftir fönnunum, norð-

an við hvilftina, sem skilur upptök Kerlingarár frá Hveradölum; framan af var allgreiðfært á hjarninu, en þegar neðar dró, tóku við heljarmiklar jökulsprungur; sást þar hvergi í botn, en bláminn í sprungunum varð að myrkri, er neðar dró, á sprunguröndunum voru víða kransar af ísdrönglum og krapaslettum, en djúpt niðri heyrðist sumstaðar þungur árniður; þræddum við sumstaðar spengur milli sprungnanna, stukkum hinar smærri, en fórum yfir sumar á snæbrúm og varð þá að viðhafa alla varúð, að maður ekki færi niður úr. Þannig klöngruðumst við niður í botninn á vestasta Hveradalnum, og er hann, eins og allir hinir, fullur af blásandi holum, leirpyttum, brennisteinsnámum o. s. frv. Efst í dalbotninum, sem þó mætti heldur kalla gil eða gljúfrabotn, því allar skorur þessar eru mjög þröngar, eru stóreflis urðir; er þar móbergsbjörgum allavega tildrað saman og liggur víða gamall jökull undir urðunum. Norðan við lækinn, sem rennur eftir dalnum, efst í dalskorunni, komum við að afarstórum leirhver, sem eg kallaði Snorrahver; þar er vellandi, blár leirgrautur í flatri skál, sem er um 10 faðmar að þvermáli. Niður með öllu gilinu er alt sundurskorið af grafningum og bríkum til beggja hliða og eru hliðarnar allar mislitar, þar eru gulgrænar skellur af brennisteini, hvítt hverasalt, mislitur leir, ótal sjóðandi leirpyttir, dökkbláir, ljósbláir, dökkgrænir, ljósgrænir, gulir, hvítir og rauðir; hvar sem litið er, eru ótal augu og alstaðar gufustrókar upp úr hverri rifu; á einum stað er blár toppmyndaður hver hæst uppi í snarbrattri hlíð að norðanverðu, og stendur þaðan gufustrókur beint í loft upp. Við gengum niður gilskoruna hægt og hægt, því maður varð að gá vel að sér að reka ekki fæturnar niður í gegnum skorpuna niður í sjóðandi leirinn eða stíga ofan í leirpyttina og gufuholurnar; við vorum við og við að heyra drunur neðanjarðar, eins og þegar eldgosadynkir heyrast í fjarska, og þegar neðar kom í gilið, fundum við að jörðin smákiptist til og hristist; þótti okkur þetta mjög kynlegt, þangað til við fundum orsökina; neðan í einum höfðahnúskinum, er gengur niður að gilinu að sunnan, sást op af hellisskúta, sem þó ekki var víðari en svo, að

inn hefði mátt ganga boginn, eins og um lágar hesthúsdyr; út úr þessum dyrum kom ákafur reykur og var eigi hægt að ganga móti, því bæði fylgdi gufunni brennisteinssvæla og ofsa hiti, eg hélt hitamæli augnablik í gufunni og sté hann þégar upp í 60°; lengur þoldi eg ekki að halda hendinni í gufunni, því altaf komu brennheitar strokur að innan úr hellinum. Ilt var að sjá inn í hellirinn. en þó sást. að hann víkkaði hið innra, eigi var hægt fyrir gufu og myrkri að sjá, hvernig þar var umhorfs, en þaðan heyrðust þungar dunur, þegar leiröldurnar í einhverjum ósýnilegum leirhver skullu í hellisveggina: var það að heyra eins og þungur strokkur væri skekinn niðri í jörðunni og smáhristist jörðin alt í kring. Stuttan spöl fyrir neðan þennan hverhellir komum við að stórum gufuhver, vatnsgufan þýtur þar upp um mjótt gat í jörðinni með svo miklu orgi. að við heyrðum ekki hver til annars, þó við kölluðum sem hæst við máttum, og stóðum þó rétt hver hjá öðrum. Þar sem gufan kemur upp úr jörðunni. sést hún varla, en þéttist von bráðar og verður að gufustrók, sem er 2—3 mannhæðir á hæð og hérumbil faðmur að ummáli; ilt er að komast að hverunum fyrir heitum leir og smápyttum. Neðar í gilinu er alstaðar líkt í hverri skoru, alstaðar leirhverir og brennisteinspyttir. Neðst fyrir framan þessa dalskoru rennur Ásgarðsá. og nálægt henni er annar hellishver, þar sést betur inn í. því opið er stærra, það er eins og gjá eða sprunga inn undir hlíðina, sást þar dálítið í sjóðandi leirgrautinn inn í hellinum, ekki er þessi hellir eins hrikalegur eins og hinn fyrri. og dynkirnir þaðan eru ekki eins miklir. Rétt hjá þessum hellishver er stór sjóðandi leirhver, sem kastar leirnum 5—6 fet í loft upp og hefir myndast leirskál í kring, 10—20 fet á hæð. Þegar við komum niður úr þessari dalskoru, óðum við yfir Ásgarðsá og skoðuðum síðan fleiri gilskorur með vellandi leirpyttum og þjótandi gufusúlum, varla er hægt að tylla niður fæti vegna jarðhitans. Sumir hverirnir eru í skaflaröndunum og hafa holað í kringum sig, sumir eru í giljunum undir snjónum og heyrist org þeirra og dynkir undir fótum manna, þegar gengið er eftir sköflunum. Af

því töluvert var farið að líða á daginn, klifruðum við upp úr gljúfrunum og sneiddum skaflana upp á brúnir; þar sáum við yfir eystri Hveradalina og eru þar alstaðar reykir og hveraholur, svo hundruðum, já líklega jafnvel þúsundum skiftir, en ekki var tími til að skoða þá, enda mundi það taka margar vikur að skoða alla hverina í þessum dölum og giljum. Austan í fjöllunum, við upptök Kisu, kvað líka vera töluvert af hverum. Upp úr Hveradölunum komum við austan við Kerlingarskygni; var Ögmundur þá farinn að undrast um okkur og farinn að leita, og fór alla leið niður að Snorrahver og leizt ekki á blikuna sumstaðar, þar sem stór göt voru á braut vorri yfir snjóbrýr á jökulsprungunum o. s. frv. Um kvöldið fórum við nokkuð austur í fjöllin, til þess að skoða fjöllin kringum upptök Kisu, og snerum svo aftur. Kisa kemur úr stóru gljúfri fyrir austan Loðmund, en það er hátt og bratt fjall austan til í Kerlingarfjöllum. Um kvöldið var komin þoka og mistur, og um nóttina var frost í tjaldstað vorum á Kerlingarflötum. Í Kerlingarfjöllum er alstaðar líparít aðalefni og undirstaða, en vikurbreccía og móberg sumstaðar ofan á og utan í, lausu björgin eru sumstaðar hnöttótt, þar sem þau hafa legið undir sköflum og hjarnjökli, sem hefir ekið þeim áfram. Í Hveradölunum og víðar í fjöllunum eru öll ósköp af hrafntinnu í stærri og minni molum.

Síðan eg fyrstur skoðaði Kerlingarfjöll 1888, hafa allmargir ferðamenn komið þangað og allir að norðan upp með Ásgarðsá, því þar er hægast að komast inn í fjöllin. En að því sem eg bezt get séð, hefir enginn kannað suðurhluta fjallanna eða komið í það hveragil, sem eg skoðaði; að minsta kosti hefir því ekki verið lýst. *Daniel Bruun* höfuðsmaður kom við í Kerlingarfjöllum 1897, 11. ágúst, og hefir lýst því, sem hann sá, og skýrt það með ágætum myndum.[1]) Englendingurinn *W. Bisiker* kannaði Kjalveg og mældi sumarið 1900, hann skoðaði þá líka nokkuð af Kerl-

[1]) *D. Bruun*: Tværs over Kölen fra Söderkrog til Reykjavik. København 1899 bls. 50—56.

ingarfjöllum.[1]). *W. v. Knebel* brá sér snöggvast til Kerlingarfjalla 1905, fékk vont veður og sá því nær ekkert, enda er það litla, sem hann ritaði um fjöllin, í alla staði ómerkilegt.[2]) Á rannsóknarferð sinni 1906 fór *Þorkell Þorkelsson* til Kerlingarfjalla, skoðaði þar ýmsa brennisteinshveri í Hveradölum og lýsti þeim.[3]) Sumarið 1907 kom *Maurice von Komorovicz* líka snöggvast við í Kerlingarfjöllum[4]) og 1908 kom hinn góðfrægi, þýski vísindamaður *Paul Herrmann*, sem svo margt ágætt hefir ritað um Ísland, einnig til Kerlingarfjalla, hann var því miður óheppinn með veður, fékk þoku og rigningu;[5]) þangað kom einnig *Hermann Stoll* 1910 og gekk upp á tind vestan við Ásgarðsá.[6]) Lang ítarlegast rannsakaði *L. Wunder* fjöllin 1911, hann fór um allmikinn hluta Kerlingarfjalla og gjörði landsuppdrátt af norðurhluta þeirra, mældi hæð flestra tinda og gjörði ýmsar mikilsverðar athuganir, er snerta jarðfræði fjallanna, jökulmyndanir og hveri. Kerlingarfjöll eru eftir mælingum Wunders 4000—4400 fet á hæð og hæsti tindurinn 4494 fet. L. Wunder kom líka norðan að fjöllunum og skoðaði fjallgarðana og gilin beggja megin við Ásgarðsá, en suðurhluta fjallanna, þar sem eg fór um, skoðaði hann ekki.[7])

Hinn 21. ágúst fórum við á stað af Kerlingarflötum að Hvítárvatni; riðum við slétturnar fyrir norðan Búðarhálsa og sunnan Mosfell. Vestur af Kerlingarfjöllum er röð af sérstökum fjöllum frálausum; heitir þar Tindur næst fjöllunum, svo Skeljafell og Mosfell. Í leysingum á vorin kvað

[1]) *W. Bisiker*: Across Iceland. London 1902, bls. 72—79.

[2]) Globus 88. bindi 1905, bls. 373.

[3]) Þ. Þ. The hot springs of Iceland. Köbenhavn 1910, bls. 15—16.

[4]) *Maurice von Komorovicz:* Quer durch Island. Charlottenburg 1909, bls. 72—81.

[5]) *P. Herrmann*: Island in Vergangenheit und Gegenwart III. bls. 244—245.

[6]) *H. Stoll*: Quer durch Island (Jahrbuch des Schweizer Alpenklubs. Bern, 1911 bls. 181—184).

[7]) *L. Wunder*: Beiträge zur Kenntnis des Kerlingarfjöllgebirges, des Hofsjökulls und des Hochlandes zwischen Hofs- und Langjökull in Island. Leipzig und Berlin 1912, 39 bls. 80.

renna kvísl úr Miklu-mýrarlæk í Grjótár syðri kvísl, en nyrðri kvísl hennar kemur upp í Mosfelli. Eftir þriggja tíma reið komum við að Jökulkvísl; er það allmikið jökulvatn og var nú í vexti; við riðum kvíslina fyrir norðan Syðri-Skúta, sem er fell eða alda á sléttunni; var kvíslin þar á miðjar síður. Frá Jökulkvísl er stutt að Svartá; það er bergvatn ekki mikið; vestan við Svartá er mjó hraunkvísl, líklega norðan úr Kjalhrauni, og nær hún alla leið suður að Hvítá. Frá Svartá er örstutt að Fúlukvísl; það er allmikil jökulá; kemur hún úr Þjófadölum, undan skriðjöklum frá Langjökli, og rennur svo í bugðu austur fyrir Hrútafell og Baldheiði, sem er flatvaxin bunga suðaustur af Hrútafelli, síðan suður með Hrefnubúðum og er þar í gljúfri; en þegar hún kemur fram úr því, kvíslast hún og hefir myndað breiðar og víðáttumiklar eyrar út í Hvítárvatn að austanverðu; flóir hún þar yfir stórar landspildur, og eru þar flæðiengi og stór graslendi mjög blómleg; Fúlakvísl er fremur varasöm yfirferðar sökum vatnsmegnis og sandbleytu, samt gekk okkur þó vel yfir hana, riðum hana í mörgum kvíslum kippkorn fyrir neðan gljúfrið. Síðan riðum við vestur með Hrefnubúðum; er þar alstaðar ákaflega grösugt, víðirkjarr og hvannstóð; utan í hlíðunum er grasivaxið undirlendi fyrir neðan og mjög votlent, því árnar kvíslast um það alt, bæði eru þar kvíslar úr Fúlukvísl, og lindir og smáár undan Hrefnubúðum og svo Fróðá, sem kemur út úr Fróðárdal. Í Fremri-Fróðárdal settumst við að og tjölduðum.

Fróðárdalur skilur Hrefnubúðir frá fjallinu, sem gengur út undan jöklinum norðan við Hvítárvatn, takmarkast hann að vestan af brattri hlíð, en að austan er lægra, þar sem Hrefnubúðir liggja að dalnum; fyrir botni dalsins er Rauðafell, og kemur áin úr gljúfrum vestan við það ofan frá Innri-Fróðárdal, sem er sanddalur eða hvilft bak við fellið; á þessum Efra-Fróðárdal kemur Fróðá upp; sumir alþýðumenn halda jafnvel, að til sé þriðji Fróðárdalur, og að þar séu fjallabúar og útilegumenn; enginn skynsamur maður hefir enn þá séð þann dal. Í Hrefnubúðum er móberg, kemur það fram í gilskorum hér og hvar, en víðast er

grjótrusl ofan á; vestan við dalinn er dólerít í hlíðunum. Fróðá rennur mest vestan til í dalnum og þvingast alveg vestur að hlíðinni af kvíslinni, sem kemur fram með Hrefnubúðum beint á hana; alstaðar bullar vatnið hér útundan hlíðunum í ótal lindum með ísköldu og tærn vatni, og eru sumar vatnsmiklar; undan vesturhlíðinni er sífeldur vatnsstraumur alstaðar út í ána. Landslag er hér að snmu leyti svipað því, sem er í Herðubreiðarlindum; lindirnar og kvíslirnar eru líkar, og eins er gróðurinn svipaður; utan í hlíðnnum vex víðir, lyng, birki og fjarskamikið af hvönn; á láglendinu vex stör og gras, og er þar víðast hvar mjög votlent. Undir grassverði er hér víða töluvert af smágjörvum hvítum vikri. Dagana, sem við vorum við Hvítárvatn, var bezta veður, og var náttúran í alla staði yndisleg, sólskin og blíða á daginn, loftið tært og svalt og frost á nóttunni. Úr tjaldstað fórum við upp í Karlsdrátt; það er vík, sem gengur norður úr vatninu, og er fjöllum og jöklum lukt á alla vegu; tjaldið stóð vestan í Fróðárdal, undir hlíðinni á Hrefnubúðum, urðum við að ríða inn fyrir botninn á dalnum, því ekki er hægt að komast þvers yfir vegna bleytu og foræða milli kvíslanna. Á eyrunum ofan til í dalnum er einkennilegur þungur, svartur sandur, sem molast hefir úr klettuuum upp með ánni; áin er orðin mjög vatnsmikil fremst vegna lindanna, sem í hana renna, og myndar hún allstóran bláan flöt í Hvítárvatni, þar sem hún fellur í það; vatnið sjálft er hvítt eins og mjólknrblanda vegna jökladustsins, sem í því er. Út úr hlíðinni fyrir vestan Fróðárdal gengur lægra hálsanef með smáhnúskum út í Hvítárvatn, og gengur nyrðri skriðjöknllinn nærri alveg að því fremst og vestast, svo þar myndast vatnspollur allstór bak við hálsaranann, og er hann fjöllum luktur á alla vegu nema að suðvestan, þar er jökullinn; þetta er Karlsdráttur. Við riðum upp í hálsinn austanvert við Karlsdrátt; þar er alstaðar hraunkent dólerít í stórum björgum, sumstaðar eru bylgjurákir í yfirborðinu, sumstaðar tachylytskorpur; við skildum hestana eftir á hálsinum, af því þar var ógreiðfært sökum stórgrýtisurða, og gengum svo niður

í Karlsdrátt; það er bogadregin dalskvompa með bröttum hlíðum í kring og vatni í botninum. Í hlíðunum er töluverður gróður, hvannir, víðir, blágresi o. fl.; alstaðar er fult af álftafjöðrum í fjörunni, og stórir rjúpnahópar flugu upp, þegar við fórum um. Tveir skriðjöklar ganga niður í Hvítárvatn frá Langjökli,[1]) og hinn nyrðri takmarkar Karlsdrátt að suðvestan, og gengur niður norðan við Skriðufell, sem er eins og höfði fram á milli jökulhlaupanna. Þessi skriðjökull er ákaflega úfinn; þar sem brettan er mest undir jöklinum, hefir hann sprungið niður í hjalla, og er hvert jökulþrep tætt sundur af sprungum, svo milli þeirra hafa myndast tindar, nálar og strýtur; þar sem jökullinn kemur niður í vatnið, er hann flatari og bunguvaxinn, og þó allur sprunginn; yztu jökulhamrarnir eru líka sundursprungnir með jökulstöndum, gjám og gljúfrum og hrynja þaðan stóreflis ísbjörg niður í vatnið. Á yfirborði jökulsins er alstaðar mikið af grjótrusli, klettum og leir, berst þetta smátt og smátt út í vatnið, svo það grynkar, vatnsbotninn er því þakinn jökulleir og björgum stráð um hann á við og dreif. Í Karlsdrætti var mjög heitt, þar sem sólin skein, af því dalkvosin er svo aðkrept af fjöllum og jökli, en í skugganum var hitinn þó ei meiri en 7°; alt af heyrist sífeldur niður í jöklinum, því ótal lækir og smáfossar eru þar í sprungunum, en við og við heyrast smábrestir og brak, en stórir dynkir, þegar jökulstykkin losna frá. Víkin er því nær lokuð að framan, því malartangi gengur frá hálsinum nærri yfir að jökli; er þar mjótt sund á milli, fáeinir faðmar, og er þar straumur töluverður út í Hvítárvatn. Sagt er, að Karlsdráttur hafi fengið nafn sitt af karli frá Skálholti, sem alt af var vanur að fara þangað á hverju sumri til silungsveiða; hafði hann með sér dráttarnet og dró á vogarmynnið, en af því hann var einn síns liðs, hagaði hann ádrættinum nokkuð einkennilega; karl hafði með sér folaldsmeri og leiddi hana yfir fyrir voginn, en lét

[1]) Suðausturhornið á Langjökli kalla sumir Regnbúðarjökul, sjá Lýsing Auðkúlusóknar 1873. Hdrs. Bmf.

folaldið bíða í bandi öðrumegin við mynnið; þegar merin kom þar á móts við, batt hann vað við hana og slepti henni svo, en hún synti þá yfir til folaldsins og dró með sér vaðinn; hann gekk svo yfir fyrir aftur, og dró út netið á vaðnum.[1]) Sumarið 1882 gerðu Biskupstungna menn tilraun til að veiða í Hvítárvatni, sem ekki hafði verið reynt í manna minnum, hepnaðist það framar vonum eftir útbúnaði.[2]) Líklega hafa menn fyrrum haft töluverða veiði í vog þessum, því að vestanvert við lækinn er allstór rúst, sem menn halda að hafi verið veiðiskáli. Eg gekk inn fyrir voginn að jökulröndinni; þar streymir jökulkvísl fram með röndinni, og eru þar jökulgarðar allstórir með dóleritbjörgum og leir. Utarlega á jökulröndinni að norðanverðu eru hópar af leirstrýtum hér og hvar; gekk eg síðan upp með jökli, og svo aftur út með Karlsdrætti uppi í hlíðum, eru þar alstaðar dóleríturðir og ísnúnar klappir; þar er á einum stað í norðurhlíðinni dalbolli dálítill með lítilfjörlegum gróðri; hefir hann líklega sorfist niður í klettana af jöklahreyfingunni. Síðan fórum við til baka út í hálsinn, þar sem við höfðum skilið eftir hestana; þaðan er bezta útsjón yfir vatnið.

Hvítárvatn er nokkuð öðruvísi í laginu, heldur en það er á Uppdrætti Íslands; þar er það nærri kringlótt, en það er í raun réttri aflangt og gengur frá suðri til norðurs, en suðurhlutinn beygist þó nokkuð til suðausturs. Vestan að því liggur Langjökull, og ganga úr honum tveir skriðjöklar fram í vatnið; hinn nyrðri, sem fyr var getið, norðan við Skriðufell niður að Karlsdrætti, en hinn syðri sunnan við það. Í Skriðufelli eru hamrar ofan til, og í þeim líklega dólerít, en ofan á þeim liggur jökulkakan fram á brúnr; niður úr henni ganga 3 litlir falljöklar niður um skörð í hamrabeltinu, og eru þeir ákaflega brattir, og furða að þeir skuli geta tollað. Fjallbungan, sem liggur undir Langjökli, fyrir sunnan Skriðufell, hallast jafnt og þétt suður á við alla leið niður að Bláfelli, og heita þar Bláfellshálsar frá

[1]) Sigurður Pálsson: Lýsing á Hvítárvatni og svæðinu kring um það (Þjóðólfur 35. árg. 1883, bls. 118 og 120—21).
[2]) Fróði III, bls. 334.

því er jöklinum sleppir, að Bláfelli; á þessum halla liggur syðri skriðjökullinn út í vatnið; sagt er, að seint á 18. öld hafi mátt ganga milli jökulhamranna og vatnsins, en síðan hefir jökullinn ekist fram og nær nú kippkorn út í vatnið beint á móti Fúlukvísl; hefir hún smátt og smátt borið svo mikið grjót og aur út í vatnið, og myndað breitt nes á móti skriðjöklinum; stóðu þar margir jakar grunn í vatninu á milli nessins og jökulsins; þar er líklega grynnra en annarstaðar, af því árburðurinn og jöklaburðurinn mætast í miðju vatni. Sigurður Pálsson í Haukadal segir, að norðurhluti vatnsins sé dýpri, en að í suðurhlutanum sé 5—6 faðma dýpi. Vestan við Hvítárvatn, fyrir sunnan syðra jökulfallið, heitir Skálpanes; á Bláfellshálsi er Geldingafell, breiður hnúskur, það virðist vera grágrýtisbunga og líklega forn eldfjallsdyngja. Austan að vatninu liggur nyrzt Karlsdráttur með hálsunum þar í kring, þá Fróðárdalur og Hrefnubúðir, og fyrir framan undirlendið, sem Fúlakvísl hefir myndað, og svo suður með vatninu mikið undirlendi, sem heitir Hvítárnes; þar er mikið graslendi og ágætar engjar, en víða ilt yfirferðar vegna bleytu; þar eru tjarnir margar, ósar og kílar, og oft er þar urmull af álftum, sem eru mjög algengar hér við vatnið; sjást víða götuslóðar þeirra á leirunum og fjaðrir á víð og dreif. Um þetta svæði rennur Tjarná; hún er stutt og kemur úr smátjörnum; hún rennur sunnarlega í vatnið, þar hefir verið nautaafrétt Tungnamanna. Fyrir austan Tjarná ofanvert segir Sigurður 'í Haukadal að séu töluverðar rústir, og eins fyrir framan Svartá uppblásnar tóftir. Svartá fellur nokkru neðar í Hvítárvatn, kemur önnur kvísl hennar austan með Kjalhrauni, en hin vestari undan Kjalfelli; heitir Gránunes milli þeirra. Skömmu síðar fellur Hvítá út úr vatninu, og er þá þegar mikið vatnsfall; í hana fellur Jökulkvísl að norðaustan, og kemur hún undan Hofsjökli, eins og fyr er sagt; í hana fellur þar efra Blágnýpukvísl, og er alda, sem heitir Hnapphelda, milli þeirra; þá fellur í hana Ásgarðsá eystri úr Hveradölum, svo verður á henni krókur, sem heitir Skipholtskrókur, og fyrir neðan Nyrðri-Skúta fellur í kvíslina

Ásgarðsá hin vestari; eftir það rennur engin á í hana. Vestan megin við Hvítá er fell, sem heitir Lambafell, og rennur Lambafellsá í hana fyrir sunnan það; í króknum, sem verður á Hvítá austur af Lambafelli, er foss, sem kallaður er Ábóti; eftir þetta rennur Hvítá niður með Bláfelli að austan. Vestanvert við Bláfell, í Bláfellshálsi, uppi undir jökli, kemur Grjótá upp í gljúfragiljum, rennur suður með hálsinum og svo þvert austur fyrir Bláfellsenda; Sandá kvað líka renna að vestan í Hvítá frá undirhlíðunum, sem eru niður af Jarlhettum. Austan í ána renna ár þær, sem eg fyr hefi talað um, Grjótá, Sandá, Stangará og Búðará, og er maður þá kominn niður undir bygð. Í Hvítárvatni kvað vera töluvert af silungi, einkum bleikju, og eins í ánum þar í kring; lax kvað ganga í Hvítá upp að Gullfossi, en silungur úr Hvítárvatni þangað niður eftir.

Eins og kunnugt er, rennur Hvítá frá Gullfossi til suðvesturs niður að Vörðufelli; kemur á þeirri leið í hana að austan Laxá, og að vestan Tungufljót[1]) og Brúará, og stendur Skálholt í tungunni milli Brúarár og Hvítár. Það er sagt um *Árna* biskup hinn milda *Ólafsson*, að hann hafi synt yfir Hvítá milli hamranna við ferjustaðinn; batt hann hestinn við fót sér og hafði svo á eftir; hann reið á degi frá Skálholti á hjarni um veturinn norður Kjöl að Hólum í Hjaltadal, var um morguninn í Skálholti við óttusöng, en kom til Hóla fyrir aftansöng, þá hringt var til Salve Regina. Af slíkum íþróttum hans og fimleikum er sá málsháttur kominn, þá er nokkrum vinnst ófimlega eður ósnoturlega: »Þitt var, en ekki Árna biskups«[2]) Dragferja er nú af Skálholtshamri að Iðu. *Jósep* prestur *Loptsson* á Ólafsvöllum († 1683) vóð eitt sinn, að sagt er, Hvítá, hjá Vörðuskeri fyrir ofan Iðu, um vetur í frosti, svo hann hakaði vatnið og

[1]) Tungufljót kemur úr Hagavatni við Langjökul. Í það kom mikið hlaup 21. ágúst 1902; fljótið flóði yfir bakka og gerði usla á engjum í Biskupstungum einkum á Pollengi; var talið, að jökull hefði hlaupið við Hagavatn og kendi jökulfýlu, var að sjá sem í vegg, er hlaupið kom niður ána. Ísafold 6. sept. 1902. Norðurland II, bls. 7.

[2]) Espólíns Árbækur II., bls. 14.

studdist við járnstaf, en settist á bæjarþrepskjöld, er hann kom heim í Skálholt, og drakk mikla blöndu kalda, en eftir það sló að honum hrolli. Þá leysti Brynjólfur biskup hann fyrir ofdirfð.[1]) Uppi á Vörðufelli er vatn (990′) og líka uppi á Miðfellsfjalli nálægt Hruna og að eins lítil bergrönd kring um vatnsskálina. Frá Vörðufelli rennur Hvítá nærri því í suður að Hestfjalli; þar verður farvegurinn þröngur, og er hraun í botninum; hefir áin áður verið 1—2 þúsund álnir á breidd, en verður, úr því að þrengslin byrja hjá Gíslastöðum og Arhrauni, aðeins eitt til tvö hundruð álnir á breidd um fjórðung mílu, niður að suðurhorni Hestfjalls, þar verður snarpur bugur á ánni til vesturs. Í annálum Björns á Skarðá segir svo: »1594, þann 19. nóvembris, þverraði Hvítá í tveim stöðum, hjá Árhrauni á Skeiðum og hjá Brúnastöðum í Flóa, nær þvert yfir um. Þar var gengið þurrum fótum í einn hólma, sem áður var ófært, og teknar þaðan hríslur til merkis, undruðust menn þetta, að þeir tveir kaflar skyldu upp þorna, því áin var að sjá sem sjór annarstaðar með rokviðri.« Í þessum sama stormi var brimgangur ógurlegur.[2]) Í Hestsannáli er þess getið, að »Hvítá hjá Skálholti tapaði 1702 renslu sinni, svo þurr varð hjá Árhrauni, nokkru síðar sást kryppa sem selsbak mikið millum klappanna á Skálholtshamri.« Seinna hafa líkir viðburðir orðið. Séra Magnús Helgason á Torfastöðum hefir skrifað mér fróðlegt bréf um þverrun Hvítár hjá Árhrauni. Þegar Hjörtur bóndi að Austurhlíð var drengur í Árhrauni 1828—30, var það einn morgun um sumarmálin, að áin var þorrin, svo eigi var eftir meira en einn þriðjungur venjulegrar breiddar. Áin hafði verið alauð daginn áður og lítil; um nóttina hafði gjört frost allsnarpt, og lá skrof yfir öllum farveginum, sem vatnið var hlaupið úr. Þar hagaði svo til í Árhrauni, að vatn alt var sótt í ána til neyzlu mönnum og skepnum, varð því að ganga út eftir farveginum, þar til er vatnið tók við, en það rann að eins með

[1]) Árb. Esp. VI, bls. 101.
[2]) Annálar Björns á Skarðsá II. bls. 8, sbr. Espólíns Árbækur V., bls. 78.

ytra landinu, en Árhraun stendur austan megin árinnar; Hjörtur kvaðst ógjörla hafa séð, hvernig botninum var háttað, og ilt var um hann að komast, því að skrofið var hnédjúpt; en að því er hann gat bezt skynjað, var botninn straumnúðar klappir; ekki vissi hann neitt, hversu langt þessi þverran náði, hvorki upp eftir ánni né fram eftir, en alt, sem sást, var eintómt skrof. Um kvöldið seint tók áin að vaxa aftur og óx hægt og hægt, líkt og þegar sjór fellur hægt að. Um morguninn eftir var áin komin í sinn vanalega farveg, og var hvorki meiri né minni en vant var. Í annað sinn varð sami atburður 1864, þá þvarr áin alveg með sama hætti á haustdegi, eftir því sem Pétur bóndi á Felli hefir sagt; hann bjó þá á Árhrauni; áin var þá þurr alt út að ál þeim, sem er við útlandið. Á móts við Árhraun er bær, sem heitir á Gíslastöðum; bóndinn þar tók eftir hinu sama, og sýndist állinn vera svo grunnur, að hægt mundi hafa verið að vaða hann. Það eru munnmæli gömul um þetta efni, að göng liggi undir Hestfjalli og hverfi áin í þau, og komi út undan hinum enda fjallsins, skamt frá Kiðjabergi, en í göngum þessum liggur ormur mikill og stíflar þau, en einstöku sinnum skríður hann úr bæli sínu, fer þá úr stíflan og áin hleypur í göngin. Fyrir hér um bil 40 árum fundust stórvaxin bein, hryggjarliðir margir, í Hvítárbakka, skamt frá Oddgeirshólum; hafa sumir sett þann fund í samband við þessa og aðrar ormasögur. Frásögur þessar um þverrun Hvítár eru mjög merkilegar, og því set eg þær hér, en ekki get eg að svo stöddu skýrt þessa atburði nánar, af því eg þekki ekki landslag og jarðmyndun þar í kring nógu vel; það liggur næst að hugsa sér, að áin falli, þegar svo ber undir, inn í einhverjar hraunpípur og ganga í hrauninu og svo í gegn um það; hraun liggja að ánni og hraun er í botninum; mætti sjá á vexti lækja, er undan hraununum falla, hvert vatn rennur þar í gegn, er svo stendur á. Hvalbein hafa fundist sumstaðar við Ölfusá og Hvítá, og skeljar eru þar víða í leirbökkum, og er slíkt eðlilegt, því seinast á ísöldinni var sjór yfir miklum hluta undirlendisins. Frá suðurhorni Hests-

fjalls rennur Hvítá með nokkrum krókum vestur og norðvestur, unz hún sameinast Sogi. Eins og kunnugt er, fellur Sogið í Hvítá austur af Ingólfsfjalli, og heitir hún eftir það Ölfusá, og er eitt af hinum mestu vatnsföllum á landinu; breiðir hún sig út eins og stór flói fyrir neðan Arnarbæli, og dregst svo saman og fellur út í mjóum ós hjá Óseyri; fyrrum hefir, ef til vill, mynnið verið vestar.[1])

Þegar við vorum búnir að skoða Karlsdrátt og austurstrendurnar á Hvítárvatni, héldum við heim í tjald í Fróðárdal. Það er auðséð á ýmsu, að Hvítárvatn hefir einhvern tíma áður verið miklu stærra en nú; utan í hlíðinni norður af Karlsdrætti eru 4 glöggar strandlínur hver upp af annari, og utan í Hrefnubúðum, ofan á móberginu, eru sumstaðar lög af grárri »breccin«, sem annaðhvort er vatnsmyndun eða jökla; þessi myndun er annars víðar utan í hæðunum við Hrútafell og Kjalhraun, og samskonar eða líka »brecciu« hefi eg fundið á Holtavörðuheiði. Hinn 23. ágúst lögðum við á stað úr Fróðárdal, og var veðrið ágætt, eins og að undanförnu; við riðum upp hjá Rauðafelli, fyrir dalbotninum, utan í hallanum á Baldheiði; fellið er úr móbergi og dólerít ofan á, en heiðin er flatvaxin dóleritbunga; er þar grjótrusl ofan á, en hraunkent dólerít sést í gilfarvegum. Innri-Fróðárdalur opnast bak við Rauðafell, og myndast austurbrún hans að eins af hallanum niður af Baldheiði, en vesturbrúnin er brött og há; og er þar dóleríthraun, hið sama sem myndar vesturbrún neðra dalsins; hraun þetta hefir runnið niður undan jökli, líklega úr stórri dólerít-bungu, sem jökullinn liggur út á; hraunið hefir runnið eftir ísöldina, á því eru engar ísrákir, en er þó afargamalt; það hefir fylt krókinn milli bungu þessarar og Hrútafells að miklu leyti; hraunið er að ofan sprungið plötuhraun, líkt eins og víða sést í Ódáðahrauni, t. d. utan í Kollóttu-Dyngju og víðar. Hraun þetta er kallað Leggjabrjótur; innan við það, uppi undir jökli, er sandur, sem heitir Hrútasandur, en fyrir

[1]) Kaalund: Hist.-topogr. Beskrivelse af Island I. bls. 80—82. Um ferjur á Ölfusá 1200, sbr. Ísl. fornbréfasafn I. bls. 319—320.

neðan það í djúpri hvilft er dálítið stöðuvatn, undir suðurhorninu á Hrútafelli, og kölluðum við það Hrútavatn; það var auðséð, að töluvert minna vatn var í lautinni en vant var, vegna þurkanna; þegar rigningar ganga, rennur lækur úr vatninu niður milli Hrútafells og Baldheiðar í Fúlukvísl. Baldheiði og bungan uppi við jökulinn eru líklega báðar gömul eldfjöll; Baldheiði hallast um 4° út á við frá miðju, en efri bungan 5—6°. Aðalefnið í Hrútafelli er móberg, en ofan á því liggur basalt eða dólerít; sumstaðar innan um móbergið eru ljósleit »túff«-lög með margkvísluðum basaltgöngum. Alstaðar er hér graslaust í kring, nema lítilfjörlegur gróður utan í Hrútafellshlíð upp af Hrútavatni, og í botni Innra-Fróðárdals. Frá vatninu riðum við utan í hlíðum Hrútafells og norður eftir, en vegurinn var svo klungróttur, að við fórum niður á sléttlendið fyrir neðan og milli Hrútafells og Þverbrekkna; það er hæðaröð, sem gengur austur frá Hrútafelli; kemur Fúlakvísl hér að austan, því hún tekur stóran bug á sig austur fyrir Þverbrekkurnar. Framan í Hrútafelli kemur niður lítill falljökull, og renna frá honum hvítir lækir niður að Þverbrekkum og suður í Fúlukvísl. Þegar við komum norður fyrir hornið á Hrútafelli, gaf á að líta, að sjá skriðjöklana þar; Hrútafell er bratt, kistumyndað fjall, mjög stórt, og dálítið svipað Esjunni; norðan á því ganga 3 skriðjöklar eins og fossar niður um snarbrött skörð, en breiðast út á láglendinu fyrir neðan; það er eins og harpeis eða hálfstorknuð koltjara hefði runnið niður úr skörðunum, svo nákvæmlega hefir jökullinn lagað sig eftir landslaginu; skriðjöklar þessir eru eins reglulegir eins og myndir í jarðfræðis-kenslubókum, sem eiga að gefa hugmynd um almenn lög, er skriðjöklar fylgja. Fyrir neðan jökla þessa eru lítilfjörlegar mosateygjur, en töluvert af eyrarrós hér og hvar. Uppi í fellinu milli jöklanna er gráleitt túff með mörgum göngum, líkt eins og í fellinu að sunnan. Hrútafell er nærri ferhyrnt fjall og sérstakt; það er þverhnýpt á alla vegu, nema að vestan; þar er jökulháls, sem tengir það við Langjökul, og standa smáfell

þar hér og hvar upp úr jöklinum; á Hrútafelli sjálfu er sérstakur jökull, sem nær alstaðar út á brúnir, og sendir skriðjökulstanga niður um skörðin.

Norðan við Hrútafell vestanvert verður stórt vik upp í jökulinu; þar eru Þjófadalir, milli þriggja fella úr móbergi, sem eru laus frá jöklinum og einstök. Við riðum milli Hrútafells og austasta Þjófafellsins; það er aflangt, og milli þess og Hrútafells eru melöldur, sem hækka smátt og smátt upp að norðvesturhorni Hrútafells; syðsta kvíslin af Fúlukvísl rennur vestan við þetta fell, milli þess og miðfellsins; kemur hún úr jökulslakkanum norðvestan við Hrútafell, og rennur þar eftir dalkvos, sem er sérlega ljót, jöklum lukt á alla vegu, nema að norðaustan. Af norðvesturhorni Hrútafells gengur brattur og breiður skriðjökulstangi niður í þenna dal; fyrir dalbotninum standa fellarauar upp úr jökulslakkanum, innan til kemur skriðjökull niður í hann að vestanverðu frá Langjökli, þá snjólaus hlíð lítinn kipp út undan jöklinum, og síðan að norðvestan bogadregin brún á stórkostlegum skriðjökli, sem nær alla leið vestur fyrir vestasta Þjófafellið. Snorri Jónsson fór einu sinni fyrir mörgum árum með tveim mönnum öðrum yfir jökulslakkann milli Hrútafells og Langjökuls, niður í botninn á þessum dal; hittu þeir meðal annars, milli Hrútafells og fellanna fyrir dalbotninum að suðaustan, skriðjökul og dálítið jökulvatn, sem þeir kölluðu Fúlavatn; þaðan kemur sá hluti Fúlukvíslar að mestu leyti, sem um dalinn rennur. Dalur þessi er mjög skuggalegur og ófrjóvir melar milli jöklanna og kvíslanna, sem um hann renna, litla laufteyginga sá eg að eins á einum stað; vestan til í dalnum eru Þjófatóftir, þar áttu fyrrum að hafa búið 9 skólapiltar frá Hólum; hafi svo verið, þá gátu þeir varla valið sér leiðinlegri bústað, en varla gæti menn grunað, að þar væri manna bústaðir, og vel hafa þeir getað leynzt á svo afviknum stað. Sagan segir, að piltar þessir hafi flúið frá Hólum, af því þeir drápu kerlingu, og sezt þarna að; lifðu þeir mest á því, að stela afréttarfé frá Tungna- og Hreppamönnum; á endanum

voru þeir unnir og drepnir í Þjófanesi, fyrir framan Bláfell, á milli Grjótár og Sandár; heitir fit ein við Sandá Þjófafall, er þeir hröktust út á, áður en þeir féllu.

Það er ekki enn þá laust við, að sumir bygðamenn hafi enn þá töluverða útilegumannatrú; það kemur fyrir, að menn verða hræddir við hestaspor á óvanalegum stöðum á öræfum, menn þykjast finna reykjarlykt leggja ofan af jöklum, og hefir stundum fólk á grasafjalli orðið ærið skelkað af slíkum hlutum; margar sögur ganga um dal, sem á að vera uppi í miðjum Langjökli, hjá tindi, sem stendur þar upp úr fönnunum og sést langt að; einn leitarmaður þóttist hafa séð hníflóttan (!) hest á Efri-Fróðárdal. og mörg skrípin fleiri þykjast menn hafa séð. Það er annars merkilegt, að jafn-hlægilega vitlaus hjátrú, eins og fjallabúatrúin, skuli hafa getað haldist svo lengi. og það jafnvel til skamms tíma, hjá mönnum, sem að öðru leyti voru skynsamir. Þegar Ebenezer Henderson ferðaðist um öræfin hjá Langjökli, og kom á Hveravelli, 1815, voru fylgdarmenn hans dauðhræddir við útilegumenn, og Magnús Stephensen, konferenzráð í Viðey, sagði við hann, að það væri mjög óvarlegt að ferðast vopnlaus um öræfin.[1]) Það hefir komið fyrir, að menn af Landinu og úr Skaptártungu hafi sést við Fiskivötn og orðið dauðhræddir hver við annan; ekki alls fyrir löngu höfðu sézt útilegumenn við Fiskivötn; mönnum varð tíðrætt um þessa sögu, og þá sagði einn bóndi (Jón í Hlíðarendakoti) við nafnkunnan prest á Suðurlandi, að líklega hefðu það þó ekki verið útilegumenn, en miklu fremur svipir manna, sem þá höfðu farist fyrir skömmu. Svona getur þessi vitleysa tollað í sumum fram á vora daga, jafnvel þó hver maður, sem eitthvað þekkir óbygðir á Íslandi, ætti að geta sannfærst um, að það er ekki björgulegt að búa í jökuldölum uppi í miðju landi; það eru jafnvel ekki svo fáir, sem kvarta undan því, að það sé ilt að búa í sveitunum; hvernig ætli það sé þá uppi á jöklum? Ef þess-

[1]) E. Henderson: Iceland or the journal of a residence in that island during the years 1814 and 1815. Edinburgh. 1818. II. bls. 200.

ir blómlegu dalir og ódáinsakrar væru innan í jöklunum á Íslandi, eins og sumir halda, þá væri miklu hægra að leita þá uppi og flytja þangað, heldur en að fara vestur í óbygðirnar í Manitoba. Útilegumannatrúin er nú samt víðast hvar að miklu leyti horfin; fyrrum var hún mjög svo rótgróin hjá alþýðu í sumum sveitum.

Þegar við vorum búnir að skoða þenna jökulkrók, fórum við yfir þann hluta af Fúlukvísl, sem rennur eftir dalnum rétt fyrir neðan norðurhornið á miðfellinu; kvíslin var ströng og vatnsmikil og mórauð af jökulleir; komum við þá ofan í dalinn, sem miðkvíslin rennur eftir; hann nær upp að jökli og takmarkast að sunnan af austasta Þjófafellinu og miðfellinu, en að norðan af vesturfellinu, Miðdalahnúk og Þröskuldi, en vestan við Þröskuld gengur til norðurs Miðdalur. Við tjölduðum um kvöldið undir vestasta Þjófafellinu (Rauðkoll), þar er mjög grösugt og heitir þar Fagrahlíð, en eyrarnar eru gróðurlausar fyrir neðan og sumstaðar gráar af líparít-molum; eg gekk um kvöldið upp á fellið (2700 fet), og var þar góð útsjón, en þó glapti moldryk og blika nokkuð fyrir; fellið nær fast upp að jökli, og tekur við fyrir vestan það hin stóra skriðjökulsbrún, sem nær alla leið inn í jökulkrókinn vestan við Hrútafell, en til norðurs nær þessi skriðjökull að hamrahlíð, sem er bak við þetta Fögruhlíðarfjall, þar í króknum norðan við fellið falla niður af klettunum tveir háir fossar; þar hefir þriðja kvísl Fúlukvíslar upptök sín, en miðkvíslina fórum við yfir rétt fyrir neðan tjaldstaðinn í Fögruhlíð; fyrir norðan þennan fossakrók tekur enn við skriðjökulsbrún til norðurs, eins langt eins og eg gat séð; langt burtu er þar strýtumyndaður hnúkur utan í jökulröndinni. Af fellinu sést langt upp á jökul, en þar er ekkert að sjá, nema eintómar fannbungur og fáeina hrjóstruga smátinda upp úr hjarninu vestur af Hrútafelli; þaðan sést yfir töluvert af Kjalhrauni, og Strýtur, sem eru í því miðju. Strýtur eru hvassir smátindar efst á bungu í miðju hrauninu, og hefir Kjalhraun runnið þaðan úr stórkostlegum gíg, sem er á milli tindanna.

Norður af Þjófadölum eru fram með Langjökli fjöll með skörðum og giljum, sem ganga norður undir Krák á Sandi, milli jökulsins og þeirra eru Hundadalir, haglausir. Fellið við Fögruhlíð er mest úr léttu móbergi, gráu og rauðu, en þó kemur þar trachyt-breccia hér og hvar fram í giljunum. Að undanförnu hafði alt af verið bezta veður, en nú fór það að spillast úr þessu við og við; um nóttina var rokviðri, svo við urðum að grýta tjaldskörina, til þess tjaldið ekki fyki ofan af okkur; um morguninn (24. ágúst) var slettingskafald, en stytti þó upp, er á daginn leið. Úr tjaldstaðnum blasir jökulröndin við í dalbotninum; jökullinn er mjög blakkur af grjótrusli og leir, og sumstaðar koma upp úr honum stórar urðarspildur og grjótrastir. Gróður er hér allmikill í dölunum og upp undir fellabrúnir rétt hjá jöklinum; í kring um tjaldið eru hávaxnar hvannir og víðirhríslur, en innan um gras og geldingalauf, sóleyjar og súrur o. s. frv. Fáeinar kindur sáum við í fellunum; þær hafa líklega verið úr Húnavatnssýslu, því hér er afréttur Húnvetninga byrjaður; Ytri-Hreppsmenn reka kindur sínar í beitarlöndin fyrir austan Hvítá upp undir Kerlingarfjöll og Gránunes, en Tungnamenn reka í Hvítárnes og landspilduna milli Jökulkvíslar og Fúlukvíslar. Jurtagróðurinn í þessum fjallaplássum þýtur mjög fljótt upp, þegar snjóa leysir, og er ærið stórvaxinn víða, en lifir að eins skamma stund, því sumarið er stutt svo hátt uppi til fjalla. Vatnavextir eru hér miklir á vorin; það sáum við bezt á grjótröstunum, sem árnar höfðu skilið eftir neðan til í hlíðunum, langt frá vanalega farveginum.

Nokkru eftir miðjan dag héldum við á stað til Hveravalla, riðum við fyrst nyrztu Fúlukvíslina og var hún bæði ströng og vatnsmikil, fórum við svo yfir lágan háls í Miðdali, það er víðáttumikill dalur og grösugur, takmarkast hann fremst að austan af Þröskuldi, en mjór háls tengir hann við nyrðri fjöllin; Miðdalahnúkur er á miðri fjallsbrúninni fyrir vestan dalinn. Móberg er hér víðast í fjöllunum, en þó líparít-blettir innan um, t. d. í austurendanum á Fögruhlíðarfjalli, rétt fyrir vestan Miðdalahnúk og í dal-

botninum. Úr Miðdölum fórum við yfir hálsinn bak við Þröskuld; þar eru götutroðningar nokkrir eftir göngumenn og grasafólk, en fyrir austan hálsinn taka við víðir vellir vestan við Kjalhraun, heita þar Tjarnadalir norður með langri hlíð og er þar víða mikið graslendi; þar eru þrjú gil í fjöllunum, Oddnýjargil og Hvannavallagil tvö, kvíslar úr þeim koma saman og gjöra Þegjanda, sem rennur norður í Beljanda. Riðum við síðan norður fyrir nyrzta halann á Kjalhrauni fram með Sandfellum úr hnullungabergi og hraunhólum, unz við komum á Hveravelli; hverirnir eru í kvos milli hraunsins og lágra melhryggja, en þó sjást þeir langt að, því hvítar gufurnar þyrlast í bólstrum í loft upp. Við tjölduðum rétt hjá nyrztu hverunum; gras er hér ágætt, eins og á bezta túni, þétt og stórvaxið og liggur í legum, svo hestarnir stóðu eða lögðust, þegar þeir voru búnir að bíta litla stund. Þegar Kjalhraun rann, hafa orðið fyrir því melöldur með hnullungagrjóti og þar hefir vesturbrún nyrzta tangans staðnæmst, mýravermsl og uppsprettur hafa komið upp á takmörkum hrauns og holta og þar hafa hverirnir myndast; þeir hafa verið töluvert meiri áður, þess sjást mikil merki í holtröndunum hér austur af, þar eru víða gömul hverastæði og allþykk lög af hverahrúðri; í hverahrúðrinu eru víða grasstönglar. Í hrauninu fyrir sunnan Hveravelli eru háar hraunblöðrur og helluhraun á milli, sjást þar líka menjar gamalla hvera, og í stefnu til suðausturs koma hér og hvar heitar gufur upp úr hraunsprungu. Hveravellir liggja 2097 fet fyrir ofan sævarflöt.

Eggert Ólafsson lýsir Hveravöllum í ferðabók sinni;[1]) þeir Eggert og Bjarni komu þangað 1752; reykirnir sáust langt að, en þegar þeir komu nær, heyrðu þeir öskur og þyt mikinn; óhljóð þessi komu frá lítilli, hvítri hæð, reykurinn kom þar upp um 3 mjó, krókótt op; ef steinar voru látnir niður í opin, þeyttust þeir þegar upp af gufuaflinu; síðan lýsir Eggert nokkuð hinum hverunum og talar um hverahrúðrið, hve einkennilegt það sé, glært og gljáandi

[1]) bls. 637–639.

sem ís. Henderson kom á Hveravelli 1815 og lýsir nákvæmlega hverastöðvunum,[1]) en síðan hafði enginn ferðamaður komið þangað, sem lýst hafði hverunum.[2]) Henderson talar um Öskurhólshverinn og lýsir honum líkt og Eggert Ólafsson; síðan hefir þessa hvers verið getið í flestum bókum. er snerta landafræði Íslands. Eggert kallar svæðið kringum Hveravelli dal, og hafa margir tekið það eftir honum, en það er eigi réttnefni, því Hveravellir liggja, sem fyrr hefir verið sagt, í laut milli holta og hrauns í miðju hálendinu og engin fjöll í kring, hinar lítilfjörlegu öldur við Hveravelli geta ekki gefið lautinni dalsnafn, eftir því sem vani er á íslenzku máli.

Hverirnir, sem nú gjósa, eru bundnir við tvær flatvaxnar hrúðurbungur og er laut á milli þeirra og í henni mýrasund og vatnsrensli; efst (vestast) í lautinni er dálítil tjörn og frá henni kílar niður eftir, renna lækir frá hverunum í þessa kíla, og sameinast þeir fyrir neðan vestari bunguna (en norðan eystri bunguna), og verður þar lækur fram með hverahrúðursröndinni, í smákvíslum milli hennar og holtsins; úr hrauninu kemur annar lækur að sunnan, og mætast lækirnir báðir fyrir neðan eystri kísilbunguna og er þar dálítill foss; vatnið er þar enn þá töluvert heitt og brennisteinn sest sumstaðar á hverahrúðrið. Við tjölduðum fyrir vestan efri bunguna hjá kringlóttri laug (40°), og rennur úr henni lækur niður í tjörnina; næst tjaldinu eru á efri bungunni mörg (um 20) smáaugu með sjóðandi blágráum leir, leirgrauturinn er mismunandi þykkur, en niðri í jörðinni heyrist sífelt bull og grautarhljóð; hitinn í holum þessum er víðast hvar 90—95°; litlu austar er hrúðurþúfa, hér um bil 1½ fet á hæð, úr henni kemur mikil gufa upp á milli steina og þýtur mjög í henni, en smádropar falla niður í kring; þar heyrist undir niðri sífelt urg, alveg eins og í

---

[1]) E. Henderson: Iceland II. bls. 203—209.

[2]) Síðan þetta var ritað, hafa margir ferðamenn komið á Hveravelli og sumir lýst hverastöðvunum, t. d. Daniel Bruun 1897, W. Bisiker 1900 og Þorkell Þorkelsson 1906. Smb. rit þau, sem nefnd eru við Kerlingarfjöll.

gufuvél í skipi, og heyrðist þetta hljóð mjög vel í tjaldið, svo mér stundum, þegar eg vaknaði á nóttunni, í svefnórunum, fanst eg vera á gufuskipi úti í hafi, rétt hjá gufuvélinni, enda var hljóðið alveg eins. Hérumbil 20 álnum austar eru tveir vatnshverir; hinn nyrðri gýs 1/2 fet í loft upp, opið er mitt í flatvaxinni litilli kísilbungu, hitinn var þar milli gosa 70°, en þegar gaus 85°. Á syðra hvernum eru 3 göt, og er stærsta gatið vestast; þar koma gosin með rykkjum, 4—6 gusur hver eftir aðra, 3 fet í loft upp; þá liggur vatnið niðri 1—2 sekúndur, en byrjar svo aftur; hin tvö götin herma eftir stóra gatinu. Fyrir sunnan þennan hver eru nokkrar litlar, vellandi leirholur; í kringum hverinn sjálfan er töluverður brennisteinn á steinunum, hitinn 90—95°. Syðst í þessari hrúðurbungu er allstór hver, skálin er líkust barðastórum hatti með typtum kolli, er snýr niður, hverahrúðurinn er dökkblágrár; þessi hver gýs 5. hverja mínútu, 3—5 fet í loft upp, hitinn 77°.

Rúmar 20 álnir fyrir sunnan tjörnina er bullandi hver, sem einhvern tíma hafa verið bornir í stórir hraunsteinar; kastast vatnið 2 fet í loft upp milli steinanna; norðaustur af þessum hver eru nokkur lítil, sjóðandi leiraugu. Norðaustur frá þessum hver er lítill hrúðurhóll, hér um bil 4—5 fet á hæð og 12 fet að þvermáli; þar eru smáholur í hólnum, hafa þar áður eflaust þotið gufur upp um götin; niðri í holunum var mikill hiti (91°), en ekki kemur þar upp nein gufa að mun. Þessi kísilstrýta er að ætlun minni Öskurhólshverinn gamli; en hann var nú hættur öllum ólátum. Stuttan spöl fyrir austan og neðan þessa strýtu kemur eystri hverabungan; þar eru hverirnir lang stærstir, og bungan er nærri þrisvar sinnum stærri en hin vestari, er eg lýsti áður. Fyrst verður fyrir manni stór og fagur hver, sem eg kallaði Bláhver; hann er 24 fet að þvermáli og ekki ósvipaður Blesa hjá Geysi, en töluvert stærri; skálin er mjög regluleg og barmarnir með margvíslega löguðu kísilkögri, vatnið er himinblátt og er undrafagurt að líta niður í hverinn; Bláhver gýs eigi, en við og við koma suðubungur á yfirborðinu, en detta fljótt niður aftur,

hitinn hjá börmunum var 82°. Litlu norðar er önnur skál, töluvert minni; í henni er ljósgrænt vatn og gul brennisteinsrönd fram með börmunum; hitinn er þar líka 82°; fyrir norðan þessa grænu skál eru 2 hverir, rétt við grasröndina, er þeim megin takmarkar hrúðurbreiðuna; hinn vestari af þessum hverum hefir óreglulegt op úr gráu hverahrúðri, þar er hitinn milli gosa 67°; hinn eystri er miklu fallegri, gosstrýtan er flatvaxin, 15 fet að þvermáli, og ljósbleik á lit; rennur vatnið jafnt út af börmunum á alla vegu, en upp úr miðjum skálarbotninum kemur milli gosa leirblandað, gruggugt vatn; gosbollinn á miðri strýtunni er reglulega kringlóttur, 3—4 fet að þvermáli, hitinn er þar milli gosa 89°; þessir hverir gjósa sjaldnar en flestir hinna hveranna, líður vanalega ½—1 klukkustund milli gosa. Efst á bungunni, hér um bil 10 álnir fyrir sunnan Bláhver, eru tveir stórir hverir, sem sífelt eru gjósandi, og ber mest á þeim af öllum hverunum; þeir gjósa báðir undir eins, og heyrist uslið og buslið í þeim langar leiðir, því vatnsmegnið, sem spennist upp við gosin, er svo mikið; þó fara vatnsstrokurnar vanalega ekki hærra en 7—10 fet; vatnið frá þessum hverum streymir altaf stöðugt niður bungurnar í allar áttir; fast fyrir neðan þessa hveri eru bullandi smágöt í röðum, eins og vatnið komi fram milli laga á hverahrúðrinum, þar kemur gufa upp úr rifum og alstaðar sýður og þýtur niðri í jörðinni. Milli þessara tveggja miðhvera er ekki nema 4 álna bil, svo þeir standa sjálfsagt í sambandi hver við annan. Fyrir austan og neðan þessa hveri (20 álnir frá hinum eystra) er gamall hrúðurstrokkur, sem sjálfsagt hefir gosið töluvert á fyrri dögum; þar er engin hrúðurstrýta, en að eins strokkmynduð hola, 2 fet að þvermáli á annan veginn, en 2 fet og 4 þ. á hinn; í holu þessari er vatn, sem ekki er heitara en 37°, og þó eru sjóðandi hverir alt í kring. Í horninu á hverahrúðursbungunni fyrir norðan þenna strokk eru tvær stórar og fagrar hveraskálar; hin eystri er fegri, hún er mjög djúp og gulgrænar hrúðurmyndanir á botninum; við þetta bunguhorn kemur mýrarlækurinn niður, og

þar verður aflangur hver, mjög vatnsmikill, því vatnið úr kílunum rennur í hann; þar gýs vatnið í sífellu 2—3 fet í loft upp, og rennur þaðan mikið vatn niður með rönd hverabungunnar, og eru þar margir mjallahvítir kísildrönglar niður með farvegnum, eins og grýlukerti á þakbrúu. Niður frá stóru hverunum hallast hrúðurbungan smátt og smátt niður að fossinum litla, þar sem lækirnir koma saman; bungan er öll bygð úr hverahrúðri í eintómum lögum, og að ofan er hrúðurinn víða svo tær, gljáandi og glampandi, eins og ísing lægi yfir öllu; gróður er enginn á hverabungunni; hitinn er of mikill til þess; en norður af Bláhver liggur víða ofan á seigt, kvoðukent efni, og er það kísilmyndun einkennileg; þetta efni er eins og ljósmóleitt soðhlaup, og má rífa það í spildum ofan af hinni hörðu kísilskorpu, sem undir liggur. Hér og hvar neðan til á hrúðurbungunni, langt fyrir neðan aðalhverina, spýtist fram heitt vatn úr smágötum, og sumstaðar eru brennisteinsaugu, sumstaðar dældir með volgu vatni, en neðan til sest úr vatninu töluvert af brennisteini, svo heiðgul skán liggur ofan á hrúðrinu.[1])

Eggert Ólafsson og Henderson sáu rústir eigi all-litlar í hrauninu hjá Hveravöllum, og hafa það líklega verið leifar af bústað Fjalla-Eyvindar. Við hver fyrir sunnan tjörnina sjást nokkur mannvirki, og líklega er það frá tímum Eyvindar. Ekki er gott að segja með vissu, hvaða ár Eyvindur var á Hveravöllum, en eflaust hefir þar verið gott til fanga og hægt að sjóða í hverunum. Þau voru þrjú saman á Hveravöllum: Eyvindur, Halla og Arnes, en Norðlingar gerðu þeim svo þungar búsifjar, að þau urðu að flýja þaðan. Eyvindur var ættaður frá Hlið í Hrunamannahreppi og var lengi á Vestfjörðum, og dó á Hrafnsfjarðareyri í Jökulfjörðum um 1780; en Arnes dó í Engey 1805, og var þá 91 árs. Halla var miklu verri og illúðlegri en Eyvindur, og eftir lýsingu þeirri, sem er á Eyvindi í Lögþingisbókinni 1765, hefir hann verið fremur laglegur maður, hæglátur í umgengni og vinnumaður góð-

[1]) Uppdráttur af Hveravöllum er í Lýsingu Íslands II., bls. 230.

ur, en Halla var mjög ógeðsleg og skaphörð. Í Íslendingi gamla og Þjóðsögum Jóns Árnasonar eru ágætar frásagnir um Eyvind, og þar mun alt það tínt til, sem menn vita um þau hjón.[1]) Löngu seinna er sagt, að Magnús sálarháski hafi dvalið um hríð á Hveravöllum, og eru ýmsar skringilegar sögur um veru hans þar. Leitamenn úr Húnavatnssýslu koma stöku sinnum á Hveravelli, en engir ferðamenn aðrir, því þó einhverjir fari Kjalveg, þá er töluverður krókur þangað, hvort sem menn fara fyrir austan eða vestan Blöndu.

Á Hveravöllum vorum við 3 nætur, og skoðaði eg hverina svo nákvæmlega sem eg gat, mældi þá og gerði uppdrátt af héraðinu. Af Hveravöllum fór eg suður í Kjalhraun til þess að skoða Strýtur. Kjalhraun er ekki mjög úfið, og eigi torvelt yfirferðar, víðast hvar hellur og hraunblöðrur, og sandur sumstaðar; víða er þar töluverður mosi, og hér og hvar hagar nokkrir, lyng og víðir. Hrauninu hallar hægt og hægt á allar hliðar, út frá Strýtum; það er flatvaxin kúpa í miðjunni (um 2700 fet á hæð); þar er stórkostlegur gígur, líklega 500 faðmar að þvermáli eða meir; í gígnum er flatur hraunbotn, og á sléttunni 4 eða 5 stórir katlar; gígbotninu hefir til forna verið vellandi hraun, líkt eins og Kilauea, eldfjallið mikla á Sandwichseyjum; miðpartur hraunbungunnar hefir smátt og smátt sigið, og eins gígurinn sjálfur, enda sjást hringmyndaðar sprungur í kringum barmana; þó standa stórar spildur eftir af upprunalegu gígröndinni; það eru strýturnar, sem bera svo hátt yfir hraunbungurnar alt í kring: austasta strýtan er hæst; það er allstórt fell, þverhnýpt að vestan niður að gígnum, hraunlögin í því hallast öll til austurs, í fellinu eru stórar sprungur, af því það hefir klofnað, þegar landið var að síga í kring; suðvestan við gíginn er uppmjó hraunstrýta, mjög há, og innan í gígnum 3 fell, hálfhrunin og umturnuð. Suðvestur úr gígnum gengur allmikið gljúfur og tengir hann við stóran ketil

[1]) Íslendingur I., bls. 156—170. Jón Árnason: Íslenzkar þjóðsögur II., bls. 243—251.

sérstakan. Af austasta fellinu var góð útsjón yfir Kjalhraun, það nær norður að Hveravöllum og vestur að Tjarndalafjöllum og Þröskuldi, það hefir runnið kringum Kjalfell og suður hjá Þverbrekkum, að norðaustan hafa runnið úr því töluverðar kvíslar, en takmörkin þar sá eg óglögt vegna þoku og skugga; sandar eru þar uppi undir Arnarfellsjökli og norður með Blöndu. Austan undir Dúfufelli er allstórt vatn, sem heitir Sandvatn. — Ekki gat eg skoðað þessar eldstöðvar eins vel og eg vildi, því þegar við vorum búnir að dvelja þar litla stund, skall yfir kolsvört þoka, svo við urðum að snúa aftur norður á Hveravelli.

Næsta dag (27. ágúst) hélzt þokan, og var rigning og fúlviðri þann dag mestallan; um miðjan dag lögðum við á stað frá Hveravöllum, norður á leið til bygða. Fórum við niður um Beljandatungur, og yfir 3 kvíslar; þær heita Seyðisá, er saman koma. Fyrir austan Þegjanda eru Biskupstungur, alt að Blöndu; yzt á þeim er Biskupsáfangi og Biskupsþúfa, þar sem Kjalvegur liggur yfir Blöndu; þar er fagurt sléttlendi og hagar eigi all-litlir, en sandfok skemmir. Beljandi fellur í austur frá Búrfjöllum, norðar kemur í hann Seyðisá, hún kemur úr smálækjum, er spretta upp í Suðurdrögum, austur af Búrfellshala, en vestur af Kúlu-Sandfelli. Í Beljandatungum, beint á móti Sandfelli, fann eg dálítinn hver; þar rýkur mikið, og vatnið spýtist upp um 3 göt, sem liggja í röð til suðausturs; hraunhellur koma þar upp úr mölinni á bletti, og líklega er víðar hraun undir sandinum, það eru ef til vill sandorpnar kvíslar af Kjalhrauni. Við fórum allan daginn niður með Blöndu; hún rennur hér efra víðast hvar á eyrum, í mörgum kvíslum, og er þegar orðin mikið vatnsfall, nærri eins og í bygð; hálendið, sem hún rennur um, er flatlendi tilbreytingarlaust, þar eru sífeldar melöldur, lágar og breiðar, og móaflákar á milli. Altaf var þokan og rigningin allan daginn, svo við vorum orðnir hraktir og blautir, þegar við tjölduðum um kvöldið, á bökkunum við Sandá. Næsta dag urðum við að halda til bygða, því nestið var

búið, af því við höfðum dvalið svo lengi á fjöllunum; seinasta áfangann, þegar svo stendur á, kalla sumir roðaáfanga. Frá Sandá riðum við niður með Blöndu; hún hefir á þessu svæði skorið sig niður í hálendið og fellur úr því í gljúfrum, alla leið niður í bygð. Þegar dregur niður undir Blöndudalinn, eru grasflákar miklir á heiðunum, engjar og vötn. Við komum niður að efsta bæ í Blöndudal, sem heitir Þröm; dalurinn er hið efra mjög þröngur og hlíðarnar brattar; þó ekki séu þar hamrar til muna, gengur þar annar dalur upp í hálendið, nærri jafnhliða efsta Blöndudalnum, og heitir Rugludalur. Blöndudalshlíðarnar flá meira og meira út, eftir því sem neðar dregur; eru þær mjög grösugar og bæirnir hátt uppi í hlíðum. Frá Þröm fórum við tæpar götur og klif niður eftir; þar er sjaldfarið, flestir fara hið efra, uppi á heiðinni, og svo niður að bæjunum. Ofan til í Blöndudal er móberg í fjöllunum, en þegar neðar dregur, eru blágrýtislög á milli, t. d. í Gilsárgili, en neðst mestmegnis blágrýti. Næstu nótt vorum við á Guðlaugsstöðum.

Nú á tímum fara menn sjaldan Kjalveg[1]), en til forna var það aðalvegur milli Norðurlands og Suðurlands; sjást þar víða enn þá miklar götur og troðningar, beggja megin við Blöndu. Kjalvegur var þegar farinn snemma í landnámstíð, og er talað um það í Landnámu. »Hrosskell hét maðr, er nam Svartárdal allan ok Ýrarfells lönd öll, hann nam ofan til Gilhaga ok bjó at Ýrarfelli. Hann átti þræl þann, er Roðrekr hét; hann sendi hann upp eftir Mælifellsdal í landaleit suðr á fjöll; hann kom til gils þess, er verðr suðr frá Mælifelli ok nú heitir Roðreksgil; þar setti hann niðr staf nýbyrktan, er þeir kölluðu landkönnuð, ok eptir þat snýr hann aptr.« »Vekell enn hamrammi hét maðr, er land nam ofan frá Giljá til Mælifellsár, ok bjó at Mælifelli; hann spurði til ferða Roðreks; þá fór hann litlu síðar suðr á fjöll í landaleitan; hann kom

[1]) Í Suðra IV. 1886, bls. 102—103, og í Þjóðólfi 36. árg., bls. 165—166., er lýsing á Kjalvegi eftir Sigurð Pálsson.

til hauga þeirra, er nú heita Vekelshaugar; hann skaut milli hauganna ok hvarf þaðan aptr. En er þetta spurði Eiríkr í Goðdölum, sendi hann þræl sinn suðr á fjöll, er hét Raunguðr; fór hann enn í landaleitan; hann kom suðr til Blöndukvísla, ok fór þá upp með á þeirri, er fellr fyrir vestan Vinverjadal ok vestr á hraunit milli Reykjavalla ok Kjalar, ok kom þar á manns spor ok skildi at þau lágu sunnan at; hann hlóð þar vörðu þá, er nú heitir Rangaðarvarða; þaðan fór hann aptr, ok gaf Eiríkr honum frelsi fyrir ferð sína, ok þaðan af tókust ferðir um fjallit milli Sunnlendinga fjórðungs ok Norðlendinga.« »Þórir Dúfunefr var leysingi Yxna-Þóris, hann nam land milli Glóðafeykisár ok Djúpár ok bjó á Flugumýri. Í þann tíma kom út skip í Kolbeinsárósi, hlaðit kvikfé, en þeim hvarf í Brimnesskógum unghryssi eitt; en Þórir Dúfunef keypti vonina ok fann síðan; þat var allra hrossa skjótast, ok var kölluð Fluga. Örn hét maðr, hann fór landshorna í millum, ok var fjölkunnugr; hann sat fyrir Þóri í Vinverjadal, er hann skyldi fara suðr um Kjöl, ok veðjaði við Þóri, hvárs þeirra hross mundi skjótara, því at hann hafði allgóðan hest, ok lagði hvárr þeirra við hundrað silfrs. Þeir riðu báðir suðr um Kjöl, þar til er þeir komu á skeið þat, er síðan er kallað Dúfunefsskeið; en eigi varð minni skjótleiksmunur hrossa, en Þórir kom á móti Erni á miðju skeiði. Örn undi svá illa við félát sitt, at hann vildi eigi lifa, ok fór upp undir fjallit, er nú heitir Arnarfell, ok týndi sér þar sjálfr, en Fluga stóð þar eptir, því at hún var mjök móð. En er Þórir fór af þingi, fann hann hest föxóttan ok gráan hjá Flugu; við þeim hafði hún fengit; undir þeim var alinn Eiðfaxi, er utan var færðr ok varð vii manna bani við Mjörs á einum degi, ok lézt hann þar sjálfr. Fluga týndist í feni á Flugumýri.«

Í frásögnum þessum í Landnámu er getið ýmsra örnefna, sem enn hafa haldist, þó ekki sé gott að ráða úr, hvar þau sum eiga við, eins og t. d. Hvinverjadalur eða Vinverjadalur. Dalur þessi er oft nefndur til forna, en þó eigi sagt með vissu, hvar hann sé. Eins og fyrr er sagt,

fór Raunguður til Blöndukvísla, og svo upp með á þeirri, er fellur fyrir vestan Vinverjadal og svo vestur á hraunið, milli Reykjavalla og Kjalar; hér lítur út, eins og Vinverjadalur hafi verið fyrir austan Kjalhraun, upp undir Hofsjökli, seinna hafa menn haldið, að Hvinverjadalur væri það, sem nú eru kallaðir Þjófadalir, við Langjökul; Sveinn Pálsson heldur, að menn hafi gert Hvinnverjadalir úr Hvinverjadalir og breytt því svo í Þjófadalir; Eggert Ólafsson segir, að Hvinverjadalir séu við Hveravelli (eða Reykjavelli), og mætti þá hugsa sér, að Raunguður hefði farið upp með Seyðisá og Beljandakvíslum, en það væri þá mjög ónákvæmt til orða tekið í sögunni. Á öðrum stað í Landnámu er getið um Hvinverjadal. Haraldur konungur setti Þorgeir hinn hvinverska til höfuðs Ásgrími Öndottssyni; Þorgeir kom út á Eyrum, og var um veturinn í Hvinverjadal; sumarið eftir kom Ásgrímur út á Eyrum og átti hálft skip við Þóri keilismúla, og voru 24 menn á skipinu; þeir Þórir urðu ósáttir, og reið Þórir norður, kom í Hvinverjadal og sagði Þorgeiri til farar Ásgríms; Ásgrímur reið hálfum mánuði seinna frá skipi, og gisti hjá Þrándi mjöksiglanda, í Þrándarholti; Þrándur bauð honum veturvist, sagði eigi mundi vera óhætt að ríða norður fyrir Þorgeiri, en Ásgrímur fór þó norður með 12 menn, og höfðu þeir 12 klyfjaða hesta og töskur á þeim; þann dag, er þeir riðu um Kjöl, bað hann menn sína ríða í brynjum, en hafa kufl utan yfir, og segja, ef þeir Þorgeir fyndust, að þar væri Þórir keilismúli, en að Ásgrímur væri norður riðinn. Þorgeir trúði þessu, og voru þeir hjá honum 2 nætur; hann hafði þar hjá sér 30 manna. Hann reið á götu með þeim og sofnaði, er hann kom heim, og dreymdi að kona kæmi til hans og segði honum, hverjir gestir hans höfðu verið. Reið hann síðan á eftir Ásgrími, og hittust þeir á Vekélshaug hinum syðra, en þar kom Ásmundur, bróðir Ásgríms, til liðs við hann, með 40 manns; gekk hann á milli og sætti þá Þorgeir.

Í Sturlungu er oft getið um Kjalveg, enda var það þá alfaravegur, en harðsóttar voru oft ferðir manna í þá daga, um hávetur yfir fjöllin.[1]) Þar er líka getið um Hvinverjadal, þó ekki sé nánar sagt, hvar sá dalur er. Oddur Þórarinsson og Þórir tottur riðu fimta dag jóla, með 30 manna, norður á fjall. Þá gjörði á harða veðuráttu og hriðir á fjallinu; og hinn sjöunda dag jóla höfðu þeir hríð mikla. Tók þá liðið að dasast mjög. Þorgeir kiðlingur lagðist þá fyrir og komust þeir eigi með hann. Dó hann suður frá Hvinverjadal og var þar kasaður. Oddur bargsk vel á fjallinu, og gaf mörgum mönnum líf og limu, og lyfti á bak fólkinu í fjúkinu og ófærðinni, er eigi urðu sjálfbjarga. Þeir komu í Hvinverjadal og voru þar um nóttina, fyrir inn átta dag. Um daginn eftir fóru þeir úr Hvinverjadal, þá var veður nokkru léttara; og er þeir voru komnir skamt frá Hvinverjadal, kom hræljós á spjót þeirra gjörvallra, og var það lengi dags. Tíunda dag jóla komu þeir, sið um kvöld, ofan í Svartárdal; voru þá margir mjög þrekaðir af kulda.[2]) Það er eigi hægt að ráða af sögunni með vissu, hvar Hvinverjadalur hefir verið; eini staðurinn, sem segir nánar frá legu dalsins, staðurinn í Landnámu, sýnist benda í alt aðra átt, en seinni menn helzt hafa ímyndað sér. Hvinverjadalur getur varla hafa verið þar, sem menn nú kalla Þjófadali, við Langjökul, það væri alt of langt úr leið; nær lægi, að hugsa sér Miðdal eða Tjarnadali, því þeir eru nær veginum, einkum ef farið er fyrir vestan Blöndu. Fram eftir öllum öldum voru ferðir mjög tíðar um Kjalveg, og menn fluttu jafnvel þunga vöru um þenna fjallveg. Þegar Jón helgi Ögmundsson (1106) var vígður til Hóla, kom hann út á Eyrum; þá fluttu »frændr ok vinir hans kirkjuvið hans sunnan frá skipi á Vinverjadal, en Norðlingar gerðu þegar

---

[1]) Sturlunga saga, Oxford 1878, I., bls. 166, 362, 393, II., bls. 16, 79, 248 og víðar. Sbr. Bps. II., bls. 32. Kjalvegs er víða getið í fornsögum, t. d. í Njálssögu, bls. 390, Grettissögu, bls. 164, Ljósvetningasögu, bls. 115, og víðar.

[2]) Sturlunga II., bls. 187. Sbr. I., bls. 367.

eftir og drógu heim til Hóla«, líklega á sleðum um veturinn.[1]) Auðunn rauði lét flytja undirgrind stofunnar miklu, er líka kom út suður á Eyrum, norður Kjöl, og var henni hvolft vetrarlangt á Grúfufellsmelum. Á seinni öldum var einnig oft farinn Kjalvegur, stundum seint á haustin, bæði skreiðarferðir og með fjárrekstra. Þar fór Jón prófastur Steingrímsson í lok septembermánaðar 1755 og fékk miklar hríðir og hrakninga á fjallinu. Eftir að Reynistaðabræður urðu þar úti, árið 1780,[2]) fóru að leggjast af ferðir yfir fjallið, og nú er Kjalvegur fremur sjaldfarinn; það er þó einn hinn bezti fjallvegur á landinu; þar er alstaðar greiðfært og því nær alstaðar gras og hagar.

Heiðaflákinn fyrir vestan Blöndu, sem við fórum um að austanverðu, niður í Blöndudal, heitir einu nafni *Kúluheiði*. Framheiði er kölluð milli Seyðisár og Sandár, er þar mest uppblásið land, hagalítið, vatnsleysi er þar víða á stórum auðnum, og hvergi hagar nema við Kúlukvísl, er rennur í austur, austan við Kúlufell. Með Blöndu eru sífeldir sandar, en nokkrir fjárhagar eru hjá Dýjabrekkum og Blöndutjörnum. Áin rennur á breiðum söndum og í mörgum kvíslum og flæðir oft yfir. Á þessu svæði eru nokkur fell; fremst Kúlusandfell, út og austur frá því Arnarbæli, lítið fell; á miðri heiði er Helgufell, sem tekur nafn af grasastúlku, er viltist og dó þar. Vestast er Hanskafell og fyrir norðan það Sauðafell, langt og hátt, nyrzt á hala þess liggur Skagfirðingavegur, vestan frá Blönduvöðum og vestur á *Öldur* — 18 öldur undir Sand eru frá Sauðafelli. Öldur þessar liggja allar fram af Dalskvíslalandi, en Sandur undan Grímstungu og Haukagilslandi. Yzt er Áfangafell og fyrir suðaustan það fellur Sandá í Blöndu.

Á *Útheiðinni*, sem kölluð er, eru hagar hvervetna; hún er flatlend með miklu víðsýni; þar eru víða mosaflesjur,

---

[1]) Biskupasögur I., bls. 234.

[2]) Um Reynistaðabræður má lesa í Islendingi II. (1861), bls. 25—34 neðanmáls.

bungur og flár og vötn stór. Fyrir norðan Sandá er *Kólkuflói*, er nær fram og vestur að Áfangaflá hjá Áfangafelli, það er víðlendur flói með góðri hrossagöngu á vetrum, þar er og gott grasapláss. Fyrir framan hann er Ullarflói, lítill, og Réttarbunga. Fyrir norðan Sandá, austast á heiðinni, er stór sandfoksblettur, er fer vaxandi; milli 1820 og 1830 var þar enn fögur grasflá, sem hét Lambasteinsdrag, hún er nú full af sandi. Austast við Blöndu og framan til við Blöndugil kallast *Réttir;* þar er krókur á ánni, áður en hún fellur í gilið, sem er fjarska djúpt og þröngt, með háum björgum og ógöngum, en hagablettum í gjám og á hillum hér og hvar. Gil þetta nær út undir Bug. *Grettishlaup* kallast nærri miðju þess;[1]) þar er nú naumast hægt að kasta steini yfir. Þar eru ýms örnefni, t. d. Hvannabásar, Fálkagjár, Grámóruhillur, Tindabjörg. Austurheiðin vestur frá gilinu er hrjóstrug. Þá er að byrja aftur að framan. Norður af Áfangafelli eru eyrar við Fellakvísl: fyrir utan Tjaldhól kallast Krókur, forn áfangastaður lestamanna, þar fyrir norðan Kólkuhóll og Kólkukvísl, hún kemur úr útvesturhorni flóans og rennur vestur í Fellakvísl, sem eftir það beygist vestur að Miðkvíslar- og Ströngukvíslar-mótum, sem allar gjöra Vatnsdalsá. Fyrir norðan Kólkuhól er Olbogaflá á landamerkjum, fyrir austan hana er Mjóavatnsás, en norður af honum Þremundarvatnsás. Á miðheiðinni eru stór vötn. *Mjóavatn* liggur út og suður all-langt norður af Kólkuflóa, austan í það liggur Langitangi, þar var fé fyrrum dregið sundur. *Þrístikla* liggur út og suður fyrir austan Mjóavatn; hvergi sér út yfir það alt, stórt og djúpt vatn, og rennur hvorki úr því né í það. Þar á að vera öfuguggi, flóð og fjara. Skamt fyrir utan Þrístiklu er *Smalatjörn*, þar er mælt að húsfreyja frá Þröm hafi drekt smala sínum. Þar fyrir austan er *Galtaból*, lítið vatn. Nokkru fyrir utan Mjóavatn er *Þremundarvatn vestara* (Friðmundarvatn), tekur það nafn af Þremundi (Friðmundi), sem bygði

[1]) Ísl. þjóðsögur II., bls. 94—97.

Forsæludal, stórt veiðivatn; norðurendi þess kallast Riðavík, þar hefir verið stunduð haustveiði á riðum; vestur úr vatninu rennur Friðmundará í Vatnsdalsá, skamt fyrir sunnan Forsæludal; norðan undan árósnum er Friðmundarhöfði. Þar austur undan er eystra *Friðmundarvatn*, miklu minna, gott veiðivatn, úr því rennur Fiskilækur út í *Gilsvatn*. Veiðiskálar hafa verið við vötn þessi. Utar á heiðinni eru smátjarnirnar *Deildartjörn* og *Káputjörn*, *Káritlingatjörn* og tvö *Þórarinsvötn*. Við vötnin eru bungur kendar. Mjóavatnsbunga milli þess og Þrístiklu, Galtabólsbunga fyrir austan það og Norður-Fannlækjarbunga. Tjaldavellir eru suðvestur af eystra Friðmundarvatni, fyrr fallegur flötur, en nú sandorpinn.[1])

*Kúluheiðarvegurinn* liggur, að því er sóknarlýsing Auðkúlu segir (1873), »fram Sléttárdal, fram að Gilsá, svo fram Gilsvatnsás að Áshildarlæk, svo vestur að Helluvörðuás, þá fyrir vestan vestara Friðmundarvatn og Eyjavatn og svo fram yfir Vatnsdalsá, skamt fyrir framan Bótarfjall, til Stórakróks, svo með Ströngukvísl og austan við Þjófakvísl, er fellur í hina, síðan fram á Sand og þar á veg Skagfirðinga, suður Stórasand að Arnarvatni og þaðan til Kalmannstungu. Jón á Snæringsstöðum lagði þenna veg fyrir aldamótin 1800«.

Fyrir austan Blöndu eru líka stórir afréttir. Eftir sögn Sveins Pálssonar[2]) heita þar næst bygð Hátungur, svo Ásgeirstungur, Guðlaugstungur, Biskupstungur og Svörtutungur næst jökli; á þessu svæði er víðast mikið af fjallagrösum.

Eftir að eg var búinn að skoða Kjalveg og fjöllin þar í kring, var aðal-ætlunarverki ferðarinnar lokið, en á heimleiðinni ætlaði eg að skoða fjöllin í kringum Baulu og Hreðavatn. Fórum við því vestur sveitir og skoðaði eg litið á þeirri leið, enda eru héruðin á þjóðleiðinni öll-

---

[1]) Hér er farið eftir lýsingu Kúluheiðar eftir Björn Bjarnarson á Brandsstöðum í sóknarlýsingu Auðkúlu 1873. Hdrs. Bmf.

[2]) Journal I., bls. 240—241.

um kunnug. Hinn 29. ágúst fórum við frá Guðlaugsstöðum um slakka með mýrum, yfir að Svínavatni, nokkru fyrir sunnan þjóðbrautina, og komum að Reykjum á Reykjabraut um kvöldið, því við fórum seint á stað úr Blöndudalnum.[1]) Líparít er efst í Reykjanybbu að framan, enda er það víðar í fjöllum hér í nánd. Hjá Reykjum er upphlaðin laug, rétt fyrir sunnan bæinn, og er mýrlent í kring; í upphlöðnu lauginni er hitinn 50° C., en í laugaropi ofar var hitinn nokkru minni (45°). Frá Reykjum fór eg daginn eftir, til þess að skoða Vatnsdalshóla, sem mörgum þykja svo undarlegir, enda er það einhver hin mesta hólaþyrping, af því tagi, sem til er á landinu. Líklega eru hólar þessir í öndverðu myndaðir af skriðjöklum, sem gengið hafa út dalinn; jöklarnir aka á undan sér allskonar grjótrusli, sem fyrir þeim verður; sumt dettur ofan á jökulinn, og myndast úr því stórar hrúgur á jöklinum, svo þegar jökullinn bráðnar smátt og smátt, þá verður eftir hóla- og grjótgarðaþyrping, þvers yfir dalinn; þesskonar jökulgarðar og hólaþyrpingar sjást alstaðar á landinu við skriðjökla, t. d., í stórum stýl fram með röndinni á Dyngjujökli, fyrir sunnan Ódáðahraun. Eitt er einkennilegt við Vatnsdalshóla, það er liturinn; sumir þeirra eru gráir, gulir eða rauðleitir, og stafar það af líparítinu, sem í þeim er; víða liggja moluð líparít- og basalt-björg utan í hólunum, líkt eins og móbergshrúgur á söndunum við jökulinn í Kaldalóni. Í dalnum, þar sem skriðjökullinn líklega hefir áður verið, er vatn, sem heitir Flóðið; það er nú alt af að grynnast af árburði, og eyrar með engjaspildum hafa komið upp í manna minnum. Fyrir innan hólana sjást mjög víða ísrákir og núnar klappir; hjá Hnúki í Vatnsdal er basalthnúskur allmikill, töluvert ísnúinn; vestan í honum eru stórar basaltsúlur, bognar, en þó reglulegar og fagrar. Austan við Vatnsdalinn eru háar og brattar hamrahlíðar, en lágir hálsar að vestan; uppi undir Víðidalsfjalli hefir jökulstraumur gengið út dalinn

[1]) Lýsing á Blöndudal er í Norðanfara XXI. (1883), bls. 96—97.

fram með eystri hlíðinni, en önnur hreyfing hefir verið á ísnum uppi á hálsinum að vestan, niður með Víðidalsfjalli; þar sem báðar þessar stefnur ísrákanna mætast, er hólahrúgan mest fyrirferðar, sem eðlilegt er, því þar hefir mæzt og borist saman grjót, er ekist hefir fram með tveim jöklum. Í fjöllunum fyrir ofan Hvamm í Vatnsdal er tölnvert af líparíti, og þaðan er það grjót af þeirri tegund líklega komið, sem er í Vatnsdalshólum. Austan við mynni Vatnsdals, utan í hlíðinni, er töluvert af gömlu ísaldar-rusli, og skriður miklar ofan á og innan um. Um skriðufall í Vatnsdal er getið í árbókum Espólíns;[1]) þar segir svo, árið 1545: »Að áliðnu sumri, um engjaslátt, féll skriða mikil í Vatnsdal eina nótt, á þeim bæ, er Skíðastaðir heita, þar urðu 14 menn undir ok bóndinn, sá hét Sæmundur ok var vel fjáreigandi; fanst ekki í skriðunni, þó leitað væri, annað en hönd Sæmundar bónda, sú hin hægri, og kendist af því, að silfurbaugur var á. Svo var metið, sem sú hönd skyldi fá kirkjuleg, fyrir ölmusugjafir, er hún var til höfð. Völlur hljóp langt yfir fram á eyrar, ok er nú kallað að Hnausum, þar er nú bygð og heyskapur góður; hafði vatnshlaup komið úr hrauninu, ok hrundið fram túni, en þar varð stöðuvatn á sléttlendinu, er vatnið nam staðar.«

Úr Vatnsdalnum héldum við sveitir, beina leið suður í Borgarfjörð; gerði eg ýmsar smávegis athuganir á leiðinni, er snertu jarðfræði héraðanna, er við fórum um, en ekki á við, að skýra nánar frá þeim á þessum stað. 5. september komum við að Hreðavatni, og dvaldi eg þar rúma viku, oftast í tjaldi upp til fjalla, til þess að rannsaka jarðmyndanir, og þó einkum alt það, er snertir jurtasteingjörfinga. Landslaginu kringum Hreðavatn hefir nokkuð verið lýst í Ferðabók þessari I., bls. 114—117, og þarf því ekki að tala nákvæmar um það; á ferðinni 1883 skoðaði eg kolanámuna og landið þar í kring.

---

[1]) Espólíns árbækur IV., bls. 21.

Frá Hreðavatni fórum við götuslóða upp frá bænum, að Selvatni; það er alldjúpt vatn, í lægð milli klappaholta, og liggur 180 fetum hærra en Hreðavatn; fórum við fyrir austurenda þess og upp dálítið skarð með mýrarsundum, þar fyrir ofan er mjög lítið dalverpi og sér þar í djúpt gil á vinstri hönd; riðum svo upp holtahrygg, sem kallaður er Þrimill, og kemur þá að dalverpi með mýrarsundum og heitir þar Þrimilsdalur; þegar eg 1883 reið upp að kolanámunni, sá eg þar litla, hvíta leirskriðu, en eg skoðaði hana ekki í það skifti; seinna datt mér í hug, að þar kynnu að vera jurtasteingjörfingar, enda fann eg þá nú, er eg fór að skoða leirinn. Hinn gráleiti leir liggur í basaltmyndun og hallast eins og basaltlögin, dálítið inn á við; ofan á leirnum er grámórauð breccía, nokkuð stórgerð, og innanum hana sumstaðar lausir krystallar; í sprungunum eru hér og hvar skánir af »chabasitum«. Skamman spöl fyrir innan hvítu skriðurnar er gangur gegnum myndanir þessar, bæði gegnum leirinn og móbergið, en þó eru engar ummyndanir á sprungubörmunum. Í sjálfri leirskriðunni eru efst rauðleit leirlög, næst undir móberginu; þau eru 12—14 fet á þykt; leirinn klofnar í smá, hyrnd stykki, og er oftast grænn innan í og ekki mjög smágjör; undir rauða leirnum er grár leir, og í honum blaðförin; þar sem leir þessi er allra smágjörvastur, verður hann mjallahvítur, þegar hann þornar, en þar er einna minst um blaðförin. Inst í dalverpinu (Þrimilsdal) er lítilfjörlegt gil; þar kemur líka fram rauðleiti leirinn, en enga fann eg steingjörfinga þar; efst í rauða leirnum er lag af hálf-sundurliðuðum basalthnullungum (Conglomerat) og leirlög kringum þá; á milli steinanna fann eg dálitla surtarbrandsflögu; hún hefir líklega myndast svo, að trjábútur eða grein hefir orðið föst milli steinanna, runnið þangað með vatninu, er myndaði hnullungalagið; ofan á þessu hnullungalagi kemur aftur mógráa »breccían«.

Meðan eg skoðaði fjöllin kringum Hreðavatn, vorum við í tjaldi á Þrimilsdal. Blágrýti er aðalefnið í fjöllunum hér alt í kring, og eru rauðleit, þunn móbergslög víða milli basaltlaganna, en þau hallast víðast hvar 5—6° til austurs;

yfirborð blágrýtisins er víðast hvar ísnúið, og sjást auk þess ýms fleiri merki eftir jöklana á fyrri tímum. Hið efra er fjallið alt sundur skorið af skvompum og dalverpum; þar eru mýrarflár í lautunum, en holtabörð og hamrahöfðar á milli. Tilsýndar sá eg í háu holti, uppi á fjallinu vestan undir Geldingafelli, hvítleitar skriður, og fórum við þangað 8. september, því eg hélt, að þar gæti ef til vildi verið leirmyndanir með steingjörfingum, en það var þó ekki, þar sáum við aðeins »trachyt-breccíu« koma fram í börðunum, en engan leir. Þegar við fórum um fjallið, fórum við yfir daladrög þau, sem liggja upp af Fífudal, norður af Hreðavatni; þar safnast saman töluverðar vatnsæðar og verða að á, sem fellur niður hjá bænum og í vatnið. Upp af Fífudal ganga tvö mjó dalverpi eða mýrarslakkar, og austan við eystri slakkann sá eg á holtabarði nokkrar hvítar leirflögur, og hafði eg áður fundið nokkrar af flögum þessum lausar í árgilinu fyrir neðan bæinn. Í litlu barði nokkrum föðmum neðar fann eg jurtasteingjörfinga töluverða. Blöðin liggja þar í dökkleitum leir, en ilt er að ná þeim, því leirinn klofnar illa og dettur í sundur eftir þversprungum; ofan á leirnum er trachytbreccía, en ekki eru þar fastar klappir í kring.

Seinustu dagana, sem við vorum í tjaldinu á Þrimilsdal, var þar orðið æði óvistlegt, því veðráttan var mjög farin að versna, oftast var rigning á daginn og hún æði-stórgerð, en á nóttunni var frost og snjóaði dálítið til fjalla. Þegar eg var búinn að skoða það, sem eg ætlaði mér, hélt eg heimleiðis; ár voru flestar orðnar illfærar af rigningunum og vegir vondir. Á suðurleið skoðaði eg aðeins fátt, meðal annars gil eitt hjá Drageyri; þar höfðu nokkrir menn í Borgarfirði, fyrir allmörgum árum síðan, keypt kolanámu fyrir 30 dali; í gilinu eru líparítmyndanir töluverðar, eins og annarstaðar þar í nánd, einkum upp af Indriðastöðum; í gilinu er meðal annars stórkostlegur biksteinsgangur, og fram með honum basaltgangar á báða vegu; í þeim eru liggjandi basaltsúlur og hafa þeir ef til vill við hitann

myndast á sprunguhliðunum, er biksteinninn brauzt upp. Menn höfðu haldið, að biksteinninn væri kol, og er það almennur misskilningur hjá alþýðumönnum hér á landi.

Hinn 15. september komum við til Reykjavíkur, og var þá ferðinni lokið.

## VIII. Ferð til Veiðivatna sumarið 1889.

Fá eða engin héruð á hálendi Íslands hafa hingað til verið jafn lítt kunn eins og öræfin vestan við Vatnajökul, einkum kaflinn milli Köldukvíslar og Tungnár; þó menn lengi hafi vitað nokkuð um Fiskivötn og margir bygðarmenn hafi farið þangað til veiðifanga, þá hafa þau þó aldrei verið könnuð, svo menn hafa hvorki í bókum né á uppdráttum haft glögga hugmynd um þenna vatnafláka. Eg tókst því á hendur sumarið 1889 að rannsaka þessi héruð; eg fór frá Reykjavík 16. júlí og var ferðinni heitið til Veiðivatna, Landmenn, sem þangað fara á hverju ári til silungsveiða, kalla þessi vötn aldrei öðru nafni; nafnið Fiskivötn þekkja þar að eins þeir, sem hafa séð Uppdrátt Íslands. Fyrsta hluta ferðarinnar um alkunnar sveitir þarf eg ekki að lýsa. Við fórum austur Hellisheiði að Arnarbæli, og þar á ferju með faranguriun yfir hinar miklu breikkur Ölfusár upp að bökkunum nálægt Kaldaðarnesi, en hestarnir fóru á Kotferju. Hjá Arnarbæli var í gamla daga vað á ánni, en á 16. öld druknuðu þar í einu 5 menn, og lagðist vaðið af eftir það.[1]) Á yzta árósnum er

---

[1]) Safn I., bls. 48, 110. Árb. Esp. III., bls. 40. 1508 druknaði fjöldi manns í ánni, sem vitjað hafði krossins helga í Kaldaðarnesi (Safn I., bls. 47). Um krossinn í Kaldaðarnesi sjá Jón Þorkelsson: Digtningen paa Island i det 15. og 16. Aarhundrede, bls. 67—74. Ferðabók Eggerts Ólafssonar II., bls. 1033—1034. Huld VI., bls. 16.

ferja í Óseyrarnesi, þar er breiddin eigi meiri en 4—500 álnir, þó hafa þar slys orðið, t. d. hinn 11. júlí 1800, þá druknnðu þar sakir ofhleðslu sjö menn í einu, en þrem varð bjargað.[1]) Upp í ána er mælt að fyrrum hafi verið lagt hafskipum, upp í Búlkhúsós. Fyrir vestan Arnarbæli var kot, sem hét Búlkhús, sem lagðist í eyði um aldamót 17. og 18. aldar; er mælt að þar hafi »farmur verið tekinn af því skipi og öðrum fleirum, er Ögmundur biskup lét til Noregs sækja timbur á«.[2]) Frá Ölvesi fórum við beint niður á Eyrarbakka, svo með sjó um Stokkseyri að Loftsstöðum og síðan upp að Gaulverjabæ. Skerjagarður er hér alstaðar með landi fram og er hraungrjót í skerjunum, hið sama sem liggur undir öllum Flóanum; þessi hraun eru víða hulin mýrum og miklum jarðvegi, sumstaðar eru móar ofan á, eða sandar, þegar upp eftir dregur, upp á öræfin. Hraunspildur þessar eru samanhangandi norðan frá Köldukvíslarbotnum og suður í sjó hjá Eyrarbakka.

Hinn neðri hluti Flóans er marflöt grasslétta og bæirnir eins og þúfur á víð og dreif upp úr flötinni, hæðin yfir sævarflöt víðast að eins 10—40 fet, og það jafnvel heila mílu frá sjó. Jarðvegur allur mýrlendur og votlendur og þó hraun undir, hraunsteinar víða innan um moldina og í þúfunum, sumstaðar neðan til, einkum að vestan, er ægisandur undir jarðvegi ofan á hrauninu. Þegar upp í landið dregur, koma klappaholt upp úr mýrlendinu hér og hvar, einkum að austanverðu, eru sum úr móbergi, sum úr grágrýti, og eru nokkur þeirra allhá; Hróarsholtsklettar, syðst á ásnum að austanverðu, eru þannig 185 fet yfir sævarmál. Neðst í Flóa er fjöldi af smávötnum og tjörnum, en næst sjó er sandræma, nokkru hærri en

Um ferju í Kaldaðarnesi er til merkilegt bréf frá 1200 í Dipl. Isl. I., bls. 319.

[1]) Minnisverð tíðindi II., bls. 432. Brynjólfur Jónsson: Sagan af Þuriði formanni, bls. 34—35. Um ferjustaðinn í Óseyrarnesi sjá Ísafold XIV., bls. 115—116.

[2]) Hálfdán Jónsson: Ölfus hrepps descriptio 1703. Hdrs. A. M. nr. 767–4°.

mýrlendið fyrir ofan. Í Flóa er mikið af móafuglum og vaðfuglum, og jaðrekan *(Limosa melanura)* er þar algeng við síki og læki.[1]) Milli Stokkseyrar og Loftsstaða kemur fram *Baugsstaðasíki*, sem fellur áður gegnum Hólavatn, en hið efra heitir það *Hróarsholtslækur* og kemur beint niður Flóa, frá Hróarsholti. Í rigningum vex lækur þessi oft mjög og flóir yfir lönd þeirra, sem að honum búa, og er erfitt við hann að fást sakir forar og bleytu á láglendi kringum hann; sumstaðar er hann hafður til vatnsveitinga á vorin, og hafa oft orðið út úr því rekistefnur, málaferli og klögumál til yfirvalda.[2])

Austur hjá Loftsstöðum er roksandur með sjó og vex í honum mikið af muru, vallhumli og nokkuð af mel. Hóll dálítill, grasi vaxinn, er fyrir neðan túnið og er kallaður Loftsstaðahóll, hann er eigi nema 48 fet á hæð yfir sævarmál, en sést víða að, af því alt er svo marflatt í kring. Þar kvað bærinn hafa verið til forna, nú eru þar sjómannabúðir. Kartöflur þroskast hér mjög vel í sandinum, eins og menn yfirleitt hafa mikinn styrk af garðrækt í þessum bygðarlögum. Hyllingar eru algengar á sléttunum hér neðra, hús, bæir, vötn og klettar lyftast upp í titrandi og hverfandi myndum. Hér um slóðir er mikil *sölvatekja*, en þau eru nú miklu minna brúkuð en fyrr; Austanmenn, Skaftfellingar og aðrir, sóttu hingað mikið af sölvum, en nú er það mjög farið að minka. Það var vani, að hvert heimili fékk sér sölvahest með vættarböggum. Sölin eru týnd í fjörunni í poka eða laupa, síðan breidd í þunna flekki og þurkuð; ef þau eru nógu þunt breidd, þorna þau á einum þerrisdegi. Söl eru mest etin með fiski og kartöflum og þykja góð fæða; það verður að

---

[1]) Það eru munnmæli, að fugl þessi segi mönnum til, hvort fært er yfir fen og síki. Ef ófært er, segir jaðrekan: »stattu við, stattu við«; ef slarkfært er: »vittu þig, vittu þig«, en ef allfært er: »vadd' yfir, vadd' yfir«. Þetta draga menn af hinum ýmsu hljóðum fuglsins.

[2]) Sóknarlýsing Gaulverjabæjar 1840 eftir Jakob Árnason prófast (Hdrs. Bókmf.).

geyma þau vel troðin í vel heldu íláti og geta þau þá haldist lengi, en ef loft kemst að, skemmast þau fljótt og mygla. Söl eru alment seld fyrir 20 fiska vættin, eða 4 krónur, ef borgað er í peningum;[1]) sölin eru og bezta skepnufóður fyrir kýr og lömb, og þangtegund sú, sem heitir *kjarni*, er líka þurkaður og gefinn kúm. Þau söl, sem efst spretta í fjörunni, eru ljós, en hin, sem neðar vaxa, lifrauð eða dökk; sölin eru þunn á vorin, en þykkri á haustin, bezt þau, sem safnað er á haustin og þurkuð þá. Á 18. öld voru sölin enn meira notuð en á hinni 19. Magnús Ketilsson hefir það eftir Sigurði Sigurðssyni, landsþingisskrifara, að við Eyrarbakka vanti sjaldan söl, »nema þá sjaldan að hafís kemur og rífur þau upp með rótum; söl vaxa eins og gras á jörðu frá fardögum til hausts, þeim er safnað í tvo eða þrjá daga um hverja stórstraumsfjöru og duglegur maður getur safnað vætt á dag og um sumarið sölvum fyrir eitt hundrað; sjóbóndi hefir af þeim eins mikið gagn eins og af 3—4 kúm. Þeir selja landbændum sölin fyrir smjör, skóleður, kjöt og peninga. Skynsamur bóndi sagði, að Háeyrarfjara hefði eitt sinn á einum degi gefið af sér söl fyrir tíu hundruð. Sölvaverzlunina reka helzt Skaftfellingar og Rangvellingar, en bændur í nágrenninu borga landeigendum 5—10 álnir fyrir að láta einn mann safna sölvum sumarlangt á fjöru.«[2]) Sölva er getið í Egilssögu, sem kunnugt er, og í fornum lögum eru söl talin með þeim gróðri, sem eta má á staðnum, en ekki flytja burtu án leyfis eiganda. Sölvatekja var fyrrum víða á landinu, einkum þó í Saurbæ við Gilsfjörð, og er sölvafjöru þar getið í Sturlungu.[3]) Sagt er, að í Saurbæ hafi einn maður eitt sinn í harðæri í byrjun 18. aldar safnað svo miklum sölvum, að hann gat keypt jörð fyrir, sem kostaði 200 ríkisdali. Árið 1683 er þess getið, að

---

[1]) Í Búalögum (útg. 1834, bls. 192) er sölvavætt talin á 10—12 álnir.

[2]) M. Ketilsson: Islandske Maanedstidender. 2. Aargang, 1775, bls. 110—112.

[3]) Sturlunga, Oxford, I., bls. 42.

maður og stúlka druknuðu á sölvafjöru í Staðarsveit.[1]) Við Gilsfjörð hafa menn stundum, þegar kornskortur var, blandað sölvum í brauð og grauta til drýginda. »Sölin eru tekin á vorin, afvötnuð, þurkuð og geymd, en þá þau eiga að brúkast til matar, grauts eða brauðs, eru þau soðin í vatni og söxuð smátt, síðan hnoðuð saman við mjöl eða höfð til útáláts. Í 5 merkur mjöls má blanda svo miklum sölvum, að úr deiginu verði $5^1/_4$ pund af bökuðu brauði.«[2]) Frá Norðurlandi hafa menn stundum sótt söl vestur; þess er t. d. getið, að Björn biskup Þorleifsson á Hólum, árið 1700, sendi lestamann sinn vestur til sölvakaupa, en hann týndist í skurði hjá Víðimýri.[3]) Það var einnig lögboðið, að skólapiltar með öðru hefðu söl til matar.[4]) Þó hefir það þótt ilt að hafa söl mestmegnis til matar í hallærum. Þess er getið 1792, að menn þá sakir fiskleysis hafi orðið í Kjalarnesþingi og á Mýrum að hafa söl, bjöllur og fjörugrös sér til matar.[5]) Á Álftanesi hefir verið töluverð sölvatekja, en þau hafa að kalla eingöngu verið notuð til kúafóðurs.[6]) Á fyrri tímum rituðu Íslendingar töluvert um söl, helzt þeir síra Þorkell Vídalín, Bjarni Pálsson landlæknir og einkum Magnús Stephensen konferenzráð,[7]) og setjum vér til fróðleiks lítið ágrip af því, sem hann segir um sölin. Magnús Stephensen getur þess, að söl séu sjaldan ofarlega í fjöru, en oftast á lágum skerjum og klöppum, og því bezt að safna þeim um stórstraumsfjöru; þar sem sandur og möl er við ströndu, eru söl mjög fágæt eða alls ekki til. Meðan sölin sitja á steinunum, eru þau dimmrauð á lit, einkum hin minni og yngri, en stærri og

---

[1]) Hestsannáll.

[2]) Norðanfari IX. (1870), bls. 10.

[3]) Árb. Esp. VIII., bls. 72.

[4]) M. Ketilsson: Forordninger og aabne Breve I., bls. 306.

[5]) Vatnsfjarðarannáll. Hdrs. J. S. 39. Fol.

[6]) Lýsing Garðasóknar 1842 eftir Árna Helgason (Hdrs. Bókmf.).

[7]) M. Stephensen: De til Menneske-Föde i Island brugelige Tangarter, i Særdeleshed Söl. Botanisk-oeconomisk beskrevne. (Det kgl. danske Landhusholdnings Selskabs Skrifter. Ny Samling. 1. Bind. Kbhavn 1808, bls. 487—520, 8°).

eldri söl eru stundum bleikgul. Hrá eru sölin varla æt vegna seltu, að minsta kosti eigi til muna; af þurkuðum sölvum er þægilegur ilmur, líkt og af thegrasi. Menn skera sölin rétt við rótina með stórum hníf eða litlum ljá; þar sem þau eru skorin, vaxa þau betur aftur, en þar sem þau eru rifin. Í laupum eða kössum eru þau borin upp fyrir flæðarmál og síðan fergð með grjóti í laupum í rennandi læk til afvötnunar. Ef ekki er hægt að afvatna þau í rennandi vatni, en í kyrrum polli, verður að hræra í þeim og snúa þeim. Ef vel á að vera, þarf að afvatna sölin í 24 stundir, en margir sjóbændur svíkjast um það, svo sölin verði þyngri í viktina. Síðan eru sölin breidd til þurks í sól og vindi á slegnum grasfleti eða kletti, það verður að breiða þau vel og þunt og snúa þeim oft með hrífu. Ef sölin eru illa afvötnuð og þurkuð, skemmast þau fljótt. Helzt safna menn sölvum í þurru veðri um miðju ágústmánaðar eða litlu síðar, þá eru þau talin fullvaxin. Þegar sölin eru þurr, eru þau látin í tunnur og fergð vel og tunnunum lokað, má á þann hátt geyma þau lengi og batna þau við geymsluna. Séu sölin tekin upp úr ílátinu eftir þriggja mánaða tíma, eða jafnvel nokkru fyrr, hafa þau breytt lit, þau eru orðin hvít, út úr þeim hefir smitað fín skán af sykri, sem verður því meiri, því lengur sem þau eru geymd á þurrum stað. Sykurútsláttur þessi er kallaður »*hneita*«. Séu sölin tekin í ágúst, á helzt ekki að nota þau fyrr en eftir jól. Sölin eru etin með brauði og smjöri eða með börðum harðfiski, á vetrum eta sumir þau með flautum eða öðrum þunnum mjólkurmat. Söl eru víða gefin kúm, einkum eftir burð, og eru þá ágæt til mjólkur og líka til fitu, en hey verður að gefa með þeim til jórturs. Hestar og kindur eru ólm í söl og ýms önnur fjörugrös, einkum á vetrum, og það sést jafnvel á sumrum, að hestar og sauðfé hlaupa úr beztu högum í fjöruna. Yfirleitt er fjörubeit ágæt víða á vetrum, einkum ef dálitið hey er gefið með, og sauðfé, sem í fjöru gengur, getur verið spikfeitt, þó hart sé í ári og annað fé magurt.

Þegar kemur austur fyrir Loftsstaði, breikkar sandræman með sjónum, og sendinn jarðvegur er upp með Þjórsá, alt upp fyrir Villingaholt, en vall-lendi er þar víðast ofan á, nema þar sem blásið er. Upp úr sandinum hið neðra standa dílagrjótshraunhellur á við og dreif, alt austur að Þjórsá, en er upp með henni dregur, er sandur og jarðvegur orðinn svo þykkur, að hraunið kemur eigi fram. Alt land er marflatt hér neðra og engar mishæðir, nema fáir, lítilfjörlegir hólar, eins og Loftsstaðahóll og Fljótshólar austur undir Þjórsá, lágir melhólar; austan ár stendur Háfskirkja á hól og sést því langt að; svo eru líka hólar, sem heita Snasir, á sandeiðinu fyrir neðan Þykkvabæ, 40 fet á hæð. Við riðum upp með Þjórsá, sem hér er eins og fjörður, hjá Króki, Pörtum og Sýrlækjum, upp að Nesi, og sömu leið fór eg 1897, en reið þá upp með á, upp á Skeið. Nú fórum við yfir í Ferjunesi. Ásahálendið (150—250 fet yfir sjó), í austanverðum Flóa, kemur fram að Þjórsá nærri Egilsstöðum með blágrýtisholtum, sem áin hefir brotist í gegnum í þröngu gljúfri, sem er nærri míla á lengd og nær frá Egilsstöðum upp að Þjótanda. Upp af Egilsstöðum liggur móhella með núnum björgum sumstaðar ofan á blágrýtinu.

Fyrir neðan Egilsstaði breikkar Þjórsá og verður eins og fjörður, en hún er úr því víðast fremur grunn, álar og eyrar á víxl, en í vatnavöxtum flæðir hún langt á bæði borð, því land er flatt og lágt beggja megin, en bæirnir standa á lágum hólum og bölum. *Sandhólaferja* er hér aðalferjan og er þar langt yfir og oft örðugt sakir grynninga. Þegar við riðum þar nærri, var einmitt verið að ferja. Báturinn, sem var allstór, stóð úti í á, og verður að ríða að ferjunni og taka ofan baggana í ánni; eins verður að bera baggana af eða reiða þá við bæði lönd. Síðan setti báturinn upp segl og sigldi spölkorn, en strandaði á grynningum, svo allir urðu að fara út úr, karlar og konur, til að vaða og ýta, og var þetta skrítin sjón tilsýndar, er hana bar upp af hyllingum. Sandhólaferjan hefir verið notuð síðan í fornöld; 1332 er þess

meðal annars getið, að staðirnir í Odda og Holti undir Eyjafjöllum skuli hafa »óleigis Sandhólaferju« hvern tíma, er þeir þurfa.[1]) Við fórum yfir Þjórsá á Ferjunesi,[2]) þar er mjög breitt sund fyrir hestana, enda létu þeir sig líka bera undan straumi, og í miðri ánni stóðu þeir kyrrir á grynningu í hnapp, þar sem vatnið var á miðjar síður; urðum við að reka þá þaðan með því að róa ferjunni þangað, og stóð hún oft, svo við urðum að fara út að vaða og ýta. Ferjur hér eru væn skip og breið, enda verður oft að skipleggja hesta og kýr.

Frá ferjustaðnum riðum við vanalega leið austur Holt, fram hjá Hrútsvatni, upp með Rauðalæk, sem maður fer 17 eða 18 sinnum yfir, og svo yfir Rangá hjá Ægisíðu. Syðsti hluti Holta er mjög láglendur, þar er hin nafnkunna Safamýri upp af Þykkvabæ og eiga Þykkvabæjarmenn helming hennar. Þykkvibær er nú eins og lítil ey þar í vötnunum, síðan Þverá braust vestur í Þjórsá gegnum Fiskivatn, um árið 1770, að því er sumir segja, en aðrir telja það hafa orðið síðar. Í Þykkvabæ voru 1897 44 ábúendur á 60 hundruðum og íbúatalan yfir 300. Þeir verða að sækja allan heyskap sinn yfir vötnin og sundleggja kýrnar daglega úr beitilandinu. Silungsveiði er þar mikil í vötnunum. Fyrrum voru Þykkvabæingar álitnir miklir skrælingjar og hrossaketsætur, þóttu óþrifnir og fara illa að mat sínum; þetta er nú alveg breytt, þar er nú skóli og framfarir mega heita þar tiltölulega miklar. Fram með Rauðalæk eru móhellumyndanir víðast hvar, ofan á blágrýtinu, sem víðast mun vera undirlag þessa héraðs, en sumstaðar er aftur þykkur, ljósleitur leir ofan á móhellunni.

---

[1]) Dipl. Isl. II., bls. 681, 691. Um afbragðs ferjumann við Sandhólaferju, Þórð Þórðarson, er getið í Fjallkonunni 1904, bls. 106.

[2]) Nesferja var 1767 dæmd ólögmæt á alþingi, en Egilsstaðaferja var ákveðin með alþingissamþykt 1693 (Lögþingisbók 1767, nr. 2, 3, 8). Ferjupóstar í Árnessýslu, 4. sept. 1692 (Lovsaml. f. Island I., bls. 502—506). Lög um ferjur í Árness- og Rangárvallasýslum, 29. nóv. 1855 (Þjóðólfur V., bls. 69—71).

Þegar kemur austur fyrir Vestri-Rangá, taka við eyðimerkur og sandar, sem stinga í stúf við grasbreiðurnar í Flóa og Holtum. Sandarnir ganga í tveim stórum tungum niður frá Hekluhraunum, niður Rangárvallabygðina, Helluvaðssandur fyrir vestan Hróarslæk, en Geitasandur fyrir austan. Næst Ytri-Rangá er að austanverðu hólaröð með bæjum, en svo taka við flatir sandar; þar er sumstaðar alveg gróðurlaust, en þar sem er að gróa upp, koma smánabbar af grastegund *(festuca rubra)*, og á við og dreif eru pungagrös *(silene maritima)* um sandana, geldingahnappar eru miklu sjaldgæfari. Þegar smái roksandurinn er rokinn úr og stærri mölin er orðin eftir, er orðið örfoka, og þá fer að spretta aftur. Sumstaðar eru djúpar dalrennur niður í sandana, t. d. eins og Grafarnes; þar er vall-lendi og mýrlendi á botninum og góðar slægjur. Víða á Rangárvöllum eru fornir, djúpir vatnagrafningar niður í sandana og sumir þurrir, kvíslast þeir stundum margvíslega og rennur vatn eftir þeim í leysingum, helztir eru Skollagróf og Miðalda. Austan við Helluvaðssand er *Hróarslækur*, hann kemur upp í uppsprettum undan hraunum milli Reyðarvatns og Keldna, er kallaður neðar Varmadalslækur og svo Selalækur, áður hann fellur í Vestri-Rangá, tæpa hálfa mílu fyrir neðan Ægisíðu. Þegar kemur upp úr dalskorunni við Grafarnes og yfir Hróarslæk, taka við flatlendi grasi vaxin austur að Kirkjubæ, bezta sauðland, með grávíðishríslum alstaðar innan um; Kirkjubæjarland er stór graseyja milli sanda. Rétt fyrir austan Kirkjubæ má glögt sjá, hvernig sandarnir á Rangárvöllum eru bygðir: lítill lækur hefir brotist niður hjá túninu og rennur í annan stærri austar, bakkarnir eru háir og sjást þar óteljandi sandlög, hvert ofan á öðru, eru á þeim margar bugður og fellingar og er innbyrðis lega þeirra oft ójöfn *(discordant)*, oftast eru lögin blágrá, en sum eru rauðleit, eins og palagonitmyndanir; hafa þau orðið svo af járnlá, sem sigið hefir í gegn. Í þessum móhellumyndunum er sandurinn víðast mjög smágjör, en þó er dálítið stærri möl í einstaka lagi. Sumstaðar eru smá vikurmolar í lögum á

milli. Stærri steinarnir, sem liggja í móhellunni, eru sumir hnöttóttir, en flestir hornóttir, og þó vindbarðir á köntunum. Móhellumyndanirnar, sem svo víða eru undir jarðvegi á Rangárvöllum, eru til orðnar af sandroki innan af öræfum á mörgum öldum, hefir ýmist skifst á roksandur eða gróður, þegar sandurinn var orðinn örfoka. Sumstaðar eru allmikil jarðföll, þar sem vatnsrensli hið neðra hefir holað undan, svo efri lögin hafa dottið niður; dalskorurnar, sem sumstaðar eru í söndunum, eru líklega myndaðar á líkan hátt af vatnsæðum neðan jarðar, sem hafa grafið í kringum sig, unz efri lögin sukku. Vatnið, sem sígur gegnum sandana og hraunin, staðnæmist neðra, þar sem þéttari jarðlög eru fyrir, sem geta haldið vatni. Mjög víða eru hellar á Rangárvöllum, og eru þeir notaðir fyrir fjárhús, geymsluhús og hlöður, á mörgum þeirra eru auðsjáanlega mannaverk, það hefir verið hægt að vinna hið mjúka berg.

Hinn 22. júlí fór eg frá Kirkjubæ áleiðis upp í Hrafntinnuhraun hjá Torfajökli. Mágur minn, Bogi læknir Pétursson, fylgdi mér upp að Rauðnefsstöðum. Við riðum upp hjá Keldum; þar er alt að blása upp, en aftur er sumstaðar að gróa upp á Geitasandi; þar koma upp á stöku stað úr sandinum móhellu- og móbergshnúskar, en sumstaðar liggja stórir, lausir basaltsteinar ofan á sandöldunum, og eru þeir allir skafnir og núnir af vindi og sandi. Sandorpin hraun ná niður að Keldum; þau hafa smogið fast upp að hálsunum, sem ganga út undan Tindafjallajökli. Rangá rennur í hrauni og hefir sumstaðar grafið í það djúpan farveg; hraunröndin hefir bólgnað upp næst hlíðunum, svo þar eru raðir af háum hraunhólum, fyrir norðan Rangá eru þeir allir sandorpnir og upp blásnir, en fyrir sunnan ána er töluverður jarðvegur á sumum þeirra, af því áin hefir hlíft þeim fyrir sandroki. Í fjöllunum er hér alstaðar móberg. Á Rauðnefsstöðum fékk eg mér leiðsögumann upp í Hrafntinnuhraun, og síðan riðum við þaðan upp með hlíðum; þær eru mjög grösugar, eintómar vall-lendisbrekkur, en mjög er hér snjóþungt á vetrum.

Hér liggur Fjallabaksvegur hinn syðri niður í bygðina. Hann er talinn fær frá því 12 vikur eru af sumri og til þess 5 vikur eru til vetrar. Þegar vegur þessi er farinn, er farið frá Kirkjubæ, fyrir neðan tún á Keldum, upp með Eystri-Rangá að norðanverðu upp hjá Rauðnefsstöðum og inn Lambadal, úr honum gegnum Hungurskarð, norður af Tindafjallajökli, yfir Markarfljót á Launfit og í Grashaga, þaðan um Kaldaklof, og er þá komið á Mælifellssand, austur hjá Mælifelli og beint austur til Hólmsár, en frá henni liggur Bjarnagata niður að Búlandsseli. Ferð okkar var heitið norður í Hrafntinnuhraun, og fórum við Fjallabaksveg að Hungurskarði, en svo norður þaðan. Leiðin liggur upp með Rangá, sem fyrr var greint. Fyrir neðan okkur á vinstri hönd rennur Rangá í kolsvörtu hrauni; í hraunum þessum suður og austur af Heklu eru alls engir hagar, kindur hlaupa þar yfir án viðstöðu og kroppa þessa fáu geldingahnappa eða flugnapunga, sem eru þar á stangli; á stöku stað er dálítið gras niðri í hraungjám; en þar er víðast hvar eigi hægt að koma við hesti. Upp úr hraununum eru víða raðir af móbergstindum, smáhnúkum og öldum; þar eru Vatnafjöll, Trippafjöll o. fl. fjöll, en Hafrafell (1737') er næst okkur. Rangá rennur innan um hraunhóla, og eru í henni margir smáfossar og hávaðar. Vegurinn liggur utan í vall-lendisbrekkunum alt upp á Lambadal; þar er vik upp í fjöllin, og hefir hraunspilda runnið upp í vikið suður fyrir Rangá. Valá fellur þar í Rangá; hún kemur undan tveim skriðjökulstöngum í Tindafjöllum, og hefir hún grafið sér djúp gljúfur niður í dalinn (Valagil); þessi á gjörir aðalvöxtinn í Rangá, þegar hún vex; hún er mjólkurlit af jökulleir. Upp úr Lambadal riðum við götuslóða utan í Rauðöldu, og vorum þá komnir upp á hálsana; þar eru graslitlar melöldur hver upp af annari og smádældir og bollar á milli. Þaðan sér vel til Tindafjallajökuls; hann er lítill og myndaður af stórum hjarnsköflum milli hvassra smáhnúka, og standa víða klettasker og rifgarðar upp úr hjarninu. Neðan til eru stórar sprungur og skriðjökulsmyndanir í dældunum,

bæði niður að upptökum Valár og Blesár. Um kvöldið settumst við að á Blesamýrum (1705') og tjölduðum þar; þar eru lítilfjörlegir hagar, fjallagróðurinn smár og pervisalegur, jarðvegurinn er myndaður af mosum og skófum og smávöxnu geldingalaufi, eins og vanalegt er upp til fjalla; hann er dökkleitur með svartri skorpinni skán í smáhnúskum og hefir sogið í sig mikið af vatni; aðalgrösin eru smávaxnar starartegundir og geldingalauf, hér og hvar eru blettir af augnfró og kornsúrur á stangli; þar sem dálítið er þurrlendara og nokkur möl eða sandur, vaxa nokkrir geldingahnappar. Frostsprungur hafa víða skift völlunum í stóra ferhyrninga. Innarlega við mýrina fellur Blesá niður í Rangá; í henni er jökulvatn; hún rennur sumstaðar í gljúfrum og er í henni hár, þráðbeinn foss, sem sést af veginum; annar foss er í gili, sem í hana rennur litlu vestar. Austar renna kvíslar undan skriðjökulstöngum í Hvítmögu, sem fellur norður í Markarfljót. Veður var kalt og hráslagalegt um nóttina, og hafði þó verið sólskin um daginn og hiti í bygðinni.

Næsta morgun héldum við austur á bóginn um hraunbotna austur að Hungurskarði. Á leiðinni er einkennilegur klettur, sem heitir Kerling, en þá tekur við hraun, sem heitir Kerlingarhraun, og Kerlingarfjöll (2413') norðan við hraunið, en sunnan við veginn eru hálsarnir, sem ganga út undan Tindafjallajökli. Þegar kemur austur undir Hungurskarð, opnast á vinstri hönd langur dalur til landnorðurs; eru *Skygnishlíðar* (22—2400') að austan, mjög langar móbergshlíðar, en hinu megin eru *Grasleysufjöll* (26—2700'). Dalur þessi er því nær með öllu gróðurlaus; þar eru eintómir sandar og melar beggja megin við Rangá, sem rennur eftir dalnum. Innan til er á stöku stað mosi utan í hlíðunum og sumstaðar graslausar mosaflár á eyrunum við Rangá; á melunum sjást á stöku stað einmanalegir geldingahnappar, músareyru eða gæsamatur. Skygnishlíðar kvað vera nokkuð grónar að austan; þar er tindur, sem heitir *Skygnir* (2528'), og taka hlíðarnar nafn af honum, og norðar *Hagafell* (2869'). Þegar upp eftir

dalnum dregur, koma miklir svartir vikrar; hafa þeir líklega myndast við Heklugosið 1845; vikur þessi hamlar öllum jurtum að þróast, en líklega hefir gróðurinn betur getað haldist austan í Skygnisfjöllunum, af því þar var hlé fyrir vikurfallinu. Hraun eru alstaðar undir eyrunum við ána og undir vikrunum, þó koma þau ekki fram nema á stöku stað. Hraun hafa hér um slóðir runnið eftir hverri dæld milli móbergsfjallanna, og er ekki hægt að segja, hvaðan hvert er komið. Eftir 2 stunda reið upp dalinn, komum við að upptökum Rangár (1963·); hún kemur undan hárri hraunbrún, sem liggur yfir þveran dalinn; þar eru margar uppsprettur undan hrauninu, og safnast þær saman á vikureyrunum fyrir neðan og er þar víða blautt. Síðan riðum við upp hraunið fyrir ofan Rangárbotna, og er það mjög sandorpið og sumstaðar vikurmelar ofan á; því næst fórum við um skarð milli Laufafells og Grasleysufjalla. Laufafell er úr móbergi, en norðvestan í því eru líparítblettir, og fyrir neðan liggja molar af líparítbreccíu með grænleitum biksteinsögnum innan um.[1]) Tók nú óðum að versna veðrið, er upp eftir dró; þokan var orðin mjög nærgöngul og dimm, og fylgdi henni mikil rigning. Við riðum norður fyrir Laufafell, þá fer landinu að halla niður að Markarfljóti, það kemur undan Torfajökli og úr Hrafntinnuhrauni; norðan við fljótið eru Ljósutungur og svo austar Jökultungur; það eru hálsar út undan Torfajökli. Sunnan við Laufafell kvað vera dálítið vatn, er heitir Laufavatn, og uppi á Skygnishlíðum er Grænavatn; kvað það vera á stærð við Torfavatn og mjög djúpt; Markarfljót rennur fast með Laufafelli að austan, og eru þar háir hamrar í fellinu og skriður fyrir neðan. Suður af Laufafelli er Hagafjall; það er áframhald af Skygnishlíðum. Hvítmaga, sem fellur í Markarfljót, kemur í mörgum kvíslum og giljum undan Tindafjallajökli. Eins og sjá má á Uppdrætti Íslands, er hér stór bugða á Fjallabaksvegi norður á við; er oftast farið fyrir ofan Ófæruhöfða og

[1]) Geolog.Fören. Förhandl. XIII., bls. 656.

Útigönguhöfða, en menn fara ekki beint yfir Mælifellssand til Reiðskarðs sökum þess, hve ilt er þar yfirferðar.

Við héldum áfram ferðinni upp með Markarfljóti, þar sem það brýzt niður fram með vesturröndinni á Hrafntinnuhrauni, og urðum við oft að fara yfir það; fljótið er hér efra vatnslítið, litlu meira en Eystri-Rangá ofarlega í bygðinni (t. d. hjá bænum Fossi); sumstaðar eru þar þó sandbleytur á eyrunum og í ánni. Bakkarnir eru háir og sumstaðar þverhnýptir klettar, en gilið er breitt, sem fljótið rennur eftir, enda koma víst oft í það miklir vatnavextir. Því miður var þokan og fúlviðrið svo mikið, að við ekki sáum nema það, sem næst var. Jarðhiti er hér mikill, og koma reykirnir alstaðar upp úr sandinum, bæði við farveg fljótsins og í hliðarskorum, sem ýmsar kvíslar hafa skorið niður í hraunið. Hvergi er hér stingandi strá, svo ómögulegt er að dvelja hér með hesta heylaus; áður voru hér góðir hagar, en Heklugosið 1845 eyddi þá gjörsamlega.

*Hrafntinnuhraun* er að efni og útliti eitt af merkilegustu hraunum á Íslandi. Hamrarnir niður að fljótinu sýna vel bygginguhraunsins, þeir eru 40—50 fet á hæð og er aðalefni þeirra ljósgrátt eða rauðgrátt líparít, þar ofan á er 5—10 feta þykk hrafntinna og efst 2—3 feta vikurlag, gulgrátt, eins og froða á yfirborðinu. Þessi þrjú efni hraunsins smábreytast hvert í annað, svo hvergi eru nákvæm takmörk á milli. Í líparítinu sjást bönd af smáblöðrum, sem ganga í bylgjum upp og niður; steinninn klýfst eftir þessum blöðrurákum. Þegar dregur upp undir hrafntinnuna, eru oft á víxl þunn lög af hrafntinnu og líparíti; í hrafntinnunni eru líka blöðrurákir og efst vikur- og hrafntinnubönd á víxl. Með því að veðrið var orðið svo slæmt og hestarnir hungraðir, þá urðum við að snúa aftur, þó mér þætti það ilt, af því eg átti margt eftir óskoðað. Í gilskorunum í Ljósutungum norður af Laufafelli eru sumstaðar ljósir blettir, sundursoðnir af jarðhita, sumstaðar reykir. Eg reið upp í eina gilskoruna, beint norður af Laufafelli norðanfljóts, því þar gýs upp mikill

reykur. Ofarlega í miðri skorunni eru tveir hverar, sem með öskri og þyt þeyta úr sér mikilli gufu um lítil op; niðri í bulla upp smá vatnsdropar; grænleit skán er á leirnum í kring og hér og hvar dálítill gróður sökum hitans. Rétt fyrir neðan hverinn urðum við að ríða gegnum hátt og einkennilegt snjóport; stór skafl náði yfir gilið, en var etinn sundur hið neðra. Um kvöldið komum við aftur að tjaldinu á Blesamýrum og vorum þar um nóttina. Hinn danski náttúrufræðingur *J. C. Schythe*, sem hefir ritað ágæta bók um Heklu og gosið 1845, rannsakaði Hrafntinnuhraun 1846, og lýsir því ágætlega í bók sinni;[1]) þó gat hann heldur ekki sökum grasleysis og illviðra skoðað héruðin í kring eins vel og hann vildi. Árið 1810 skoðaði Englendingurinn *Mackenzie* hrafntinnuhraun nálægt Heklu, og heldur Schythe og ýmsir aðrir, að það hafi verið þetta hraun við uppsprettur Markarfljóts, en það er eigi. Mackenzie fór upp með Vestri-Rangá og upp á Landmannaafrétt, og eftir lýsingu hans er það mjög líklegt, að hann hafi komið að hrafntinnuhrauninu austan við Frostastaðavatn; og mun eg síðar í þessari ferðasögu lýsa því hrauni.[2]) Við höfðum skilið tjaldið og farangurinn eftir á Blesamýri, en þegar við komum til baka, var þar orðið æði óvistlegt í tjaldinu, því rignt hafði inn í það, svo þar stóðu stórir pollar; gekk nokkur tími í að ræsta það, áður en við gátum lagst til hvíldar.

Af Blesamýri fórum við næsta dag til bygða og að Kirkjubæ um kvöldið. Um morguninn var kalsaveður allhvast og þoka niður í fjallarætur, en þegar kom niður á Lambadal, var ólíkt heitara en uppi á hálsaöldunum, og varð allgott veður með sólskini og sandroki hér og hvar. Hinn 25. júlí vorum við um kyrt og bjuggum oss undir fjallaferðina upp að Veiðivötnum; hafði Bogi læknir út-

---

[1]) J. C. Schythe: Hekla og dens sidste Udbrud. Kjöbenhavn 1847, bls. 133—140.

[2]) G. S. Mackenzie: Travels in the Island of Iceland during the summer of the year 1810. Edinburgh 1811, 4°, bls. 241—245.

vegað mér duglegan og kunnugan mann til fylgdar upp að Veiðivötnum; það var Ólafur bóndi í Austvaðsholti; hann kom að Kirkjubæ og fórum við þaðan áleiðis til fjalla hinn 26. júlímánaðar. Frá Kirkjubæ fórum við upp hjá Geldingalæk; á þeirri leið er uppblásið land og sandur (Helluvaðssandur); bygging sandanna sést t. d. í Hróarslæk, því að honum liggja háir bakkar. Á stöku stað vestan til á söndunum er þó að gróa upp. Hjá Geldingalæk taka við ágætlega grasgefin vall-lendi, með grávíðisskúfum og lifrarjurt, og helzt þetta vestur að Rangá. Við fórum snöggvast yfir Rangá að Austvaðsholti; þar eru mikil og grösug mýrlendi fyrir vestan ána; landið er hér mjög björgulegt og ólíkt því, sem það er efra, uppi hjá Skarðsfjalli og þar í kring. Upp með Rangá fyrir ofan Þingskála sá eg vel, hvernig gróðurinn er á nýlega uppgrónum sandi; grunnurinn er þakinn eltingu og vallhumli og svo er töluvert af hrossapunti, en á sandþúfunum er grávíðir og gulvíðir, sumstaðar melur, gulmaðra og mura. Bolholt fór í eyði í sandveðrunum miklu 1882 og er þar mjög uppblásið, en þó að gróa upp. Rétt fyrir neðan Svínhaga, vestan ár, er rétt Landmanna á grösugu nesi, er skagar út í ána. Þar er mjög fjölment á haustum, karlmenn og kvenfólk langt að, og skemta menn sér við söng, dans og drykkju. Hjá Svínhaga rennur Selsundslækur í Rangá, við hann eru nokkrar volgrur. Lækurinn hafði orðið ófær daginn áður af hellirigningu og þrumuveðri, er þar gekk yfir, en þá var nærri alveg þurt veður á Kirkjubæ. Litlu fyrir ofan Svínhaga rennur Rangá eftir djúpri hraunsprungu eða hraunstokk, með stefnu frá norðaustri til suðvesturs, þó með nokkrum hlykkjum. Um kvöldið komum við að Galtalæk og vorum þar um nóttina.[1])

Milli Rangár og Þjórsár upp af Holtum er *Land* eða Landsveit; þar fór eg snöggva ferð yfir seinna um sum-

---

[1]) Þar voru innsettir í húsaveggi 2—3 þús. sauðarleggir á köflum og sumir orðnir mosavaxnir.

arið, en 1897 skoðaði eg sveitina betur. Þar eru hraun undir og móhella og roksandur ofan á; þar er flatlendi, nema hvað nokkrar hæðir eru syðst og vestast, afleiðingar af hæðunum í Holtunum; en vestan til í miðri sveitinni er einstakt móbergsfjall, sem heitir *Skarðsfjall*, sem er 1071 fet á hæð yfir sjó, og um 720 fet yfir sléttuna í kring. Þó fjall þetta sé einstakt á flatlendi, virðist það heyra til Hreppafjöllum og vera afleiðing af Hagafjalli. Skarðsfjall var víðast grasi vaxið að vestanverðu upp á brúnir og dalur er uppi í því miðju með grasi, en jarðvegur raskaðist þar ákaflega við jarðskjálftana 1896.[1]) Fyrrum hefir þykkur grasvegur legið yfir öllum hraununum á Landi, og hefir þar víða verið skógur; nú er land þar mjög víða blásið niður í hraun, heimskulegt skógarrif norðan til í Landsveit hefir mjög flýtt fyrir eyðileggingunni. Graslendið er nú ekki orðið annað en mjóar ræmur aðgreindar af breiðum sandauðnum. Norðaustanstormarnir hafa rifið jarðveg allan af í spildum, sem stefna til SV., og eru sandgeilarnar nú orðnar miklu breiðari en graslendisrákirnar á milli. Á austustu graseynni er Galtalækur og þrír bæir aðrir, þá tekur við mikið sandhaf að næstu skák með Skarði, Fellsmúla og fleiri bæjum; þriðja graslendið liggur norðaustur af Skarðsfjalli, upp með Þjórsá, og er einna víðáttumest, þar eru bæirnir Skarfanes, Ósgröf og Yrjur. Þetta er varla fjórði hluti þess jarðvegs, sem til forna hefir verið í norðurhluta sveitarinnar. Niður með Rangá hefir sandhafið komist lengst suður, að Bjallalæk og Lækjarbotnum. Skarðsfjall og Stóruvallalækur (Skarðslækur) hlífa suðvesturhluta sveitarinnar. *Stóruvallalækur* kemur upp nærri Klofa og rennur fyrir sunnan Skarðsfjall í boga vestur í Þjórsá, í breikkurnar hjá Nautavaði.

Landsveit hefir snemma farið að eyðast af sandroki, sem eflaust hefir herjað á þetta hérað, síðan land bygðist, en árangurinn hefir orðið meiri og meiri, eftir því sem varnirnar hafa minkað, er skógur og lyng var rifið.

---

[1]) Landskjálftar á Íslandi, bls. 74—75.

Í Landsveit hafa eyðst að fullu 19 bæir, svo menn hafi sögur af, en 13 hafa verið færðir vegna sandfoks.[1]) Aðalhreyfing sandsins gengur niður í sveitina suður og austur af Skarðsfjalli, en hraunin norður af Galtalæk eru dálítið farin að gróa upp. Sandrokið etur sig inn í jarðveginn með geilum, sem eru mismunandi djúpar eftir þykt jarðvegsins, og eru þær kallaðar »gárar«; stækka þær stöðugt, þegar þær eru sjálfráðar, og renna hvínandi sandstraumar eftir þeim í landnorðanveðrum.

Á 19. öld urðu mestar skemdir á Landi veturna 1835—36 og 1880—1881. Mesta skaðaveðrið kom af landnorðri 24. nóvember 1835; það stóð í sjö daga með hinum mesta ofsa, og gerði á Rangárvöllum og Landi hið mesta tjón, »eyðilagði haga, tún og skóga meira eða minna á 32 býlum«, og var haldið, að 12 jarðir á Landinu mundu aldrei ná sér aftur; þar fækkaði og í næstu fardögum 8 búendum. Sandfokið »svarf víða af alla grasrót og þak af húsum og lamdist svo inn í útifénað, að sauðfé gat varla borið sig, fyrr en sandurinn var mulinn úr ullinni. Malarsteinar, sem veðrið feykti með sandinum, vógu 6 lóð og þar yfir«.[2]) Vorið 1836 fluttu ýmsir af efnaðri bændunum burt úr sveitinni, og vildu fleiri burt komast, en gátu eigi, þar eð jarðnæði var ekki að fá, en að vorinu greri svo upp, að kallað var lífvænt við. Síðar urðu jarðirnar við og við fyrir meiri og minni skemdum, en verstur var veturinn 1880—81. »Þá fluttu hörð norðanveður svo mikið af sandi og vikur á tvo þriðju parta sveitarinnar, að næstu fardaga var alt svart yfir að líta, því þar sem ekki lá sandur, var öll grasrót barin af; að eins lautir, sem svell hafði legið á, voru fríar við sand, en voru þá snjóhvítar af kali, og að öllu ónýtar.« Heyskapur varð sumarið 1881 svo lítill að til vandræða horfði; á 15 jörðum með 21 ábúanda heyjuðust að eins um sumarið rúmir 10 hestar á

[1]) Brynjólfur Jónsson: Skrá yfir eyðibýli í Landsveit. Árb. Fornleifafél. 1898, bls. 1—9.

[2]) Sunnanpósturinn II. (1836), bls. 190.

hvern búanda, og á 6 jörðum heyjaðist alls ekkert.[1]) Af þessu leiddi eðlilega niðurskurð á búfé og fellir. Landskjálftarnir miklu 1896 voru einna harðleiknastir við Landsveit, þar gjörféllu 28 bæir (af 35), og 73 % af öllum húsum sveitarinnar hrundu í grunn, þó töldu bændur sandárið 1881 verra en jarðskjálftaárið 1896. Þó mest kvæði að sandskemdunum 1881, þá hafa þó landnorðanveður oft síðar gjört skaða, t. d. 1885, 1892. Til þess að koma í veg fyrir sandfokið og eyðing jarðvegsins hafa á seinni árum verið gerðar ýmsar ráðstafanir og tilraunir, einkum fyrir dugnað *Eyjólfs* bónda *Guðmundssonar* í Hvammi; menn hafa sáð mel og bygt grjótgarða yfir gárana og hafa þeir gert töluvert gagn.[2])

Í syðsta parti Landsveitar er landslag svipað eins og í Holtum, þar eru graslendi, mýrar og hæðaöldur; hraunin, sem alstaðar eru undir jarðvegi í öllum efri hluta Landsveitar, hafa stöðvast við hæðirnar; þau eru samanhangandi við hin miklu Veiðivatnahraun og undir þeim sjást sumstaðar (t. d. hjá Lækjarbotnum) fornar móhellumyndanir. Aðalhraunið hefir runnið niður Þjórsárlægðina, niður á Skeið, í tiltölulega mjóum straumi. Efri hluti Landsveitar er mjög flatur og hallast jafnt niður eftir, neðan til liggja hraunin í Landsveit hérumbil á 280 feta hæð yfir sjó, ofan til 380 fet. Holtin í suðvesturhluta sveitarinnar eru 130—200 fetum hærri en jafnsléttа milli þeirra (Flagbjarnarholt 472 fet yfir sjó, Gilsholt 382', Hamarsholt 411', Bjalli 418' Skrokkhóll 392'). Skógarleifar eru nú í sveitinni að eins við Rangá, nærri Galtalæk og norður af Skarfanesi við Þjórsá.[3])

Hinn 27. júlí fórum við frá Galtalæk áleiðis til óbygða. Lækur rennur úr hrauninu fyrir norðan bæinn og eru í

---

[1]) Ísafold IX. (1882), bls. 32.

[2]) Um sandfok og sandgræðslu á Landi sjá Skýrslur Búnaðarfél. Suðuramtsins 1895, bls. 44—47; 1896, bls. 62—67; Búnaðarrit X., bls. 161—165; XVI., bls. 81—86; Ísafold 1893, bls. 45.

[3]) Einar Helgason: Skýrsla um skógana í Rangárvallasýslu (Skýrsla Búnaðarfélags Suðuramtsins fyrir árið 1898. Rvík 1899, bls. 33.—50.)

honum eyjar með skógarhríslum; austan Rangár er hér líka töluverður skógur í Hraunsnesinu. Riðum við síðan uppeftir vestan Rangár og eru þar víðast uppblásin hraun, þar hafa verið bæir fyrrum og sjást sumstaðar merki þeirra, t. d. Merkihváll minni og meiri o. s frv. Austan ár blasa við undirhlíðarnar og hjallarnir, sem Hekla stendur á, þar eru Næfurholtsfjöll, löng hlíð með mosateygingum upp eftir og skógar allvíða, hafa þeir eflaust verið miklir í gamla daga, sem nöfnin benda á (Myrkviður, Markhlíðar). Milli Búrfells og Næfurholtsfjalla kölluðust tröllskessurnar á um Gissur á Lækjarbotnum, sem segir í Íslenzkum Þjóðsögum. Eftir hálfs annars tíma reið komum við upp á Rjúpnavelli; þar er efsti hagi næst söndunum og ná þeir austan Þjórsár upp með Búrfelli alla leið upp að Túngná; vikurmolar eru hér og hvar innanum mólina, og eykst vikurinn, er ofar dregur; gróðrarvísir sést varla á söndum þessum. Undir söndunum og vikrunum eru alstaðar hraun og koma þau fram í árfarvegum, en vikurskellurnar gulgráar í hlíðunum undan uppblásnum jarðvegi. Við Búrfell er *Þjófafoss* og fleiri hávaðar í Þjórsá. Þjófafoss er eigi hár en mjög vatnsmikill; klýfst hann í fernt um hraundranga og smáeyjar úr hrauni, vestasta bunan er langmest, hinar eru mjóar. Hvergi er hér grastó í kring, alt er auðn og öræfi. Kippkorn ofar eru Rangárbotnar; kemur áin í smálækjum og uppsprettum undan hrauni því, sem er undir söndunum; eru þar fyrst mjög litlar vatnssitrur; en innan skamms er vatnsmegin árinnar samt orðið töluvert, því alstaðar bullar vatnið útundan hrauninu í bökkunum og botninum. Þaðan beygðum við austur yfir sanda og hraun, og komum svo í röndina á Sölvahrauni (800—890'); það er hátt hraun og gamalt og mjög gróið; hefir þar áður verið skógur töluverður og í grasdældum og brekkum eru víða gamlar kolagrafir. Þar áðum við hestunum; veður var gott en þokudumbungur á fjöllum og ilt skygni. Sölvahraun er norður og austur af Sauðafelli (1533'), en Valafell (2132') og Valahnúkar (2292') eru aftur landnorður af því. Sölvahraun hækkar, er austar dregur og verður gróðurinn þar minni; suður af því, uppi undir

norðurtöglum Heklu, heitir Skjólkvíahraun. Í Valafelli eru gras- og mosa-geirar; vestan í því er Áfangagil; þar hafa leitamenn áfanga í fjallrekstrum; austur af Valafelli eru Valahnúkar og eru þeir einkennilega lagaðir, með óreglulegum tindum og turnum; alstaðar er hér móberg í fjöllunum. Í dalnum fyrir austan og sunnan Valahnúka er norðurhluti nýja hraunsins, sem brann 1878, það hefir runnið í tveim straumum niður hjallana milli aldnanna þar suður og austur af, en hefir svo breitt sig út og orðið að breiðum polli í lægðinni; það er mjög úfið og svart, eins og ný hraun vanalega eru; á einum stað hefir það runnið fast upp að hömrunum í Valahnúkum og hafa bygðarmenn rutt þar veg dálítinn spöl, því hraunið sjálft er ófært hverri skepnu. Riðum við norður með hraunröndinni og að Helliskvísl, kemur hún þar með mikilli bugðu að sunnan og rennur gegnum skarð milli Sauðleysufjalla og fjallarananna, sem ganga landnorður af Heklu; þá taka við norðaustur af skarðinu Rauðfossafjöll og enda þau þar; líparít-myndanir eru þar töluverðar í fjallaendanum; allmikill foss fellur þar niður af bleikrauðu líparítbergi, heita þar Rauðfossar og hafa fjöllin tekið nafn af þeim. Þar vestur af eru Illugil. Austur með Helliskvísl eru gænir vellir og eru þeir miklu glæsilegri langt frá en nærri; jarðvegur er þar ákaflega vikurblandinn, og gróðurinn á völlunum varla annað en mosi, geldingalauf og einstök puntstrá á stangli. Sáta er þar, aflangt fjall einstakt, grænt af mosa. Um kvöldið tjölduðum við hjá *Landmannahellir* (1944'). Hellir þenna nota menn í fjall-leitum, því þar er gott skýli fyrir menn og skepnur, enda nóg rúm; hellirinn er holaður inn í móbergsfjall, sem heitir Hellisfell, og er móbergið stórgjört með blágrýtissteinum innanum; hellirinn er 12 álnir á breidd og 21 á lengd inn í nyrðri afhellir og $5^1/_2$ alin á hæð, þar sem hæst er. Fyrir hellismunnann er að nokkru leyti hlaðinn grjótgarður og er afhús við mynnið suður úr; þar liggja þeir leitarmenn, sem tjaldlausir eru, en hinir tjalda á bökkum Helliskvíslar, sem rennur rétt fyrir framan hellirinn, en menn elda á stórum steini í hellinum miðjum, stundum eru þar

50—60 menn saman komnir, því hér eru aðalstöðvar leitamanna þeirra, sem leita Landmannaafrétt. Inn úr hellinum eru tveir stuttir afhellar og þrep á milli. Litlu norðar er annar skúti, miklu minni og lægri, þar geyma menn hey og farangur, og fleiri smáskútar eru hér og hvar í fjöllum þessum. Jökullitur dálítill er á Helliskvísl og sumstaðar í henni sandbleyta, því töluvert af vatninu í henni kemur úr Klukkugili, undan jökulfönnum í Mógilshöfðum.

Morguninn eftir (hinn 28. júlí) gekk ég upp á *Loðmund* (3496[1]) það er hátt fjall og bratt og þaðan víðsýni mikið um Landmannaafrétt og öræfin norður af. Landslagi er svo háttað um þessar slóðir, að alstaðar eru eintóm móbergsfell og dældir ýmislega lagaðar á milli; standa fellin fremur óreglulega; þó aðalstefna fellaraðanna sé frá útsuðri til landnorðurs, er alstaðar um þessi héruð fremur ilt að átta sig, nema litið sé yfir af háum fjöllum. Gengum við fram með Loðmundarvatni að vestan og svo upp Loðmund að austan; hlíðarnar eru brattar, en sauðgróður er töluverður í fjallinu nærri upp úr, og fáeinar jurtir jafnvel á efstu toppum. Þar fann ég auk grámosa, músareyra, geldingalauf, lambablóm, steinbrjót (*Saxifraga cæspitosa*) og eina starartegund. Fjallið er alt úr móbergi og á því margir smátindar að ofan, og svo gil og skorur niður úr. Hér í kring er hið bezta og nærri hið eina hagaplássið á vesturhluta Landmannaafréttar, því afréttur þessi er ákaflega hrjóstrugur og er meginhlutinn alveg graslaus. Norður og austur af Rauðfossafjöllum eru há og brött fjöll, sem heita Mógilshöfðar; þeir eru viðlíka háir eins og Loðmundur; þar eru margir hjarnskaflar stórir, og í giljunum sést sumstaðar í hvítar líparítskriður, en móberg er aðalefni fjallanna, eins bólar á líparíti í undirhlíðunum suðvestur af Höfðunum, og í sérstökum hnúk nálægt Sátubarni; það er fell suður og austur af Sátu; allmikil kvísl kemur úr Klukkugili og fleiri giljum vestan í Höfðunum og rennur hún í Helliskvísl, rétt fyrir neðan það, er hún kemur úr Loðmundarvatni. Fellin fyrir vestan Helliskvísl og fyrir suðvestan Loðmund heita ýmsum nöfnum; þar eru: Sauðleysur, Hrafnabjörg, Dyngjur og Herbjarnar-

fell og svo Hellisfjall, austan við kvíslina eru Sátubarn, Sáta, Lifrarfjöll, Eskihlíð og fleiri fell til norðurs og austurs, t. d. Tjörfafell norður af Frostastaðavatni. Milli allra þessara móbergsfella eru margvíslegar dældir og skvompur, og í þeim fjöldi smávatna og tjarna; þar eru vötn við Hrafnabjörg, Sauðleysu og við Herbjarnarfell, svo Loðmundarvatn, tvær tjarnir í Lifrarfjöllum, þá Eskivatn, vatn hjá Tjörfafelli og Frostastaðavatn norður og austur af Höfðunum; öll eru vötn þessi djúp, en ekki vita menn um veiði í þeim, enda er víðast hvar gróðrarlítið eða gróðrarlaust kringum þau, þó eru munnmæli til um veiði í Frostastaðavatni. Norðvestur af Loðmundi og norður af Valahnúki er slétta norður að Tungná, og er hún öll þakin hrauni og vikrum, og roksandur víða; enginn er þar gróður, og er það svæði mjög svipljótt. Þoka var á fjöllum um morguninn, er við fórum á stað, og létti henni aldrei af fullkomlega, og var dálítil þoka á efsta hnúki Loðmundar, meðan við vorum þar uppi; var því skygni betra úr efstu hlíðunum, heldur en af háfjallinu, og þó eigi gott, svo flest var óglögt, er fjær lá. Til norðurs og vesturs sáum við þó mörg fjarlæg fjöll á hálendinu, t. d. Skjaldbreið, Hlöðufell, fjöllin í kring um Þórisdal, Langjökul, Bláfell, Skriðufell við Hvítárvatn, Hrútafell og Kerlingarfjöll; Arnarfellsjökull var oftast hulinn þoku. Til austurs var þó þokan þykkust, svo ekki sá í Vatnajökul, en nokkurnveginn sást þó í fjallahópana og öldugerið norður hjá Veiðivötnum; lítið sást þó í vötnin sjálf, því þau liggja í lægðum, og voru því hulin sjónum vorum; dálítið sást þó í suðvesturendann á Þórisvatni, og er hann ákaflega breiður, og svo glitti í það hér og hvar norður eftir milli hálsa og hnúka. Sunnan við vatnið er einkennilega lagaður hnúkur, breiður að neðan, en með hvössum spena upp úr, hugðum við það vera Þóristind. Snjóölduvatn sáum við líka austur frá og suðurbugðurnar og krókana á Tungná; hún breiðist út og er í mörgum smákvíslum austur frá, rennur miklu þrengra hér norður af Loðmundi, og eru þar sumstaðar í henni fossar og hávaðar. Til austurs sást dálítið af tindaröðunum norður af Torfajökli, þó eigi væri hægt að

greina hið einstaka, og austur af Mógilshöfðum sást í Námsfjöllin og líparíthnúka við Jökulgilið, er Námskvíslin rennur úr. Niður af Loðmundi fórum við litlu vestar, niður svokallaða Skál, þar er fremur fallegt, sauðgróður töluverður og lækur með smábunum og fossum, er rennur niður í vatnið.

Seinni hluta dags fór eg að skoða Rauðfoss; riðum við upp eyrarnar suður með Helliskvísl, þykkir dökkir vikrar eru hér alstaðar undir, en undir þeim eru líklega hraun, enda bólar á þeim á stöku stað; ofan á vikrinum eru mosabólstrar, og sumstaðar hefir mosinn myndað dálítinn jarðveg, sem smávaxinn gróður sprettur upp úr; víðast hvar er yfirborðið klofið sundur í ferhyrnda kafla af frostsprungum. Rétt við Rauðfoss er afarmikill gamall eldgígur, aflangur, sporöskjulagaður, og endar hann með stórri, djúpri skál upp í fjallið vestan við fossinn, rauðleitri, og sjást hraunlög hér og hvar í börmunum; neðar eru gígbarmarnir lægri, en þó markar alstaðar fyrir þeim; hefir gígur þessi myndast á stórri gjá til norðausturs, og sjást merki hennar kippkorn norður eftir; gígurinn hefir verið $^1/_4$—$^1/_2$ míla á lengd. Rauðfoss sjálfur fellur niður í gegnum skoru og breiðist svo út um bleikrautt líparítberg og fellur niður í gljúfur. Rauði liturinn er víðast hvar ekki annað en skán af járnlá, sem myndast hefir af áhrifum vatnsins á bergið; því aðalbergtegundin er gráhvítt, hart líparít. Ofan á líparítinu er móberg, létt og vikurkent, en sjálft líparítið er í lögum með bugðum og fellingum og súlur í efstu lögunum; hér og hvar eru biksteinsgangar, grænir og svartir, og sumstaðar líparítbreccía. Austur af Rauðfossi sést víða líparít í hlíðunum; þar er líka stór, rauðleitur gjallgígur uppi á fjallsröndinni.

Landslagið fram með Helliskvísl er einkennilegt og fremur fagurt, og ef grasið væri meira, væri hér eigi ósveitarlegt; því tilbreytingin er mikil, fell og tindar, dalir og grundir, dalskorur, ár og vötn.

Næsta morgun var þoka á fjöllunum og dumbungur allan daginn eins og undanfarna daga. Lögðum við nú á stað um morguninn frá Landmannahelli, áleiðis til Veiði-

vatna. Riðum við yfir Helliskvíslina rétt fyrir neðan Loðmundarvatn, og svo austur með Lifrarfjöllum og um Dómadal, milli þessara fjalla og Mógilshöfða; þetta svæði er alt fremur grösugt, og voru þar margar kindur, en þegar kemur norður úr Dómadal, koma grasleysur; þá tekur brátt við há hraunrönd, og fyllir hraunið svæðið milli Lifrarfjalla og Frostastaðavatns; hraun þetta er mjög gamalt, ákaflega úfið og líparítkent; yfirborðið er eintóm dílótt hrafntinna og stórir vikursteinar innan um, og er hraunið alt ekki ósvipað Hrafntinnuhrauni við Markarfljótsbotna. Stórir, gamlir eldgígir eru norðan til í hrauninu. Niður frá Námsfjöllum hefir hraunspilda runnið niður í suðurendann á Frostastaðavatni, og hafa við það myndast smáeyjar og sker í vatninu. Við riðum með Tjörfafelli, og er það mjög grösugt að austanverðu, þó grasleysur séu í kring, síðan upp að stórum eldgígum, sem ganga norður af hæðadrögunum austan við Frostastaðavatn. Þegar við vorum komnir yfir þenna eldvarpahrygg, sáum við Tungná rétt hjá oss; húu er þar komin langt suður og rennur á eyrum; eyrarnar eru allar gulhvítar af líparítrusli, sem Námskvíslin ber fram úr Jökulgilinu, því þar eru fjöllin því nær eingöngu mynduð úr þessari bergtegund. Vorum við hér komnir að austurkrók Tungnár (1814[1]), en leizt hún þar eigi góð yfirferðar, svo við snerum fram á vesturkrókinn; þar sáum við braut fiskimanna, sem farið höfðu um vorið til Veiðivatna, og fylgdum henni. Tungná er mikið vatnsfall og er mjög hætt við sandbleytu; hún er á þessu vaði í mörgum kvíslum og lygn, en vaðið er ekki stöðugt, eins og títt er í öðrum aurvötnum; Ólafur reið á undan og reyndi með stöng, og hittum við alstaðar góðan botn og komumst klaklaust yfir; það kemur þó stundum fyrir, að mönnum hlekkist á í Tungná, og nýlega hafði maður af Landinu orðið að skera þar hest í sandbleytu; nyrztu kvíslarnar voru vatnsmestar, og þó eigi meira en á miðjar síður, þar sem grynst var, en fylgdarmaðurinn fór þó á sund, þegar hann var að reyna vaðið. Síðan riðum við góða stund upp

með króknum á Tungná, unz við komum að Snjóölduvatni, það er allstórt og liggur vestan við háan fjallsnúp, sem heitir Snjóalda; hann er fremst á fjallgarði þeim, sem gengur norðaustur með Tungná að norðan. Alla leið frá vaðinu og að vatninu voru eintómar vikuröldur, lágar, og við vatnið eru margir stórir eldgígir, enda er vatnið sjálft gígavatn; víkurnar eru bogadregnar, lagaðar svo, af því þær skerast upp í gamlar eldborgir og jarðföll. Tvö nes ganga út í Snjóölduvatn að norðan, og myndast þar allstórir flóar. Silungsveiði nokkur er í vatni þessu, enda sáum við þar tvo báta á hvolfi, annan nýjan, en hinn fornan og óbrúklegan; úr vatninu rennur stuttur ós í Tungná. Fuglalíf er hér töluvert, einkum þó kríur og heimbrimar. Um kvöldið riðum við upp að kofanum hjá Tjaldvatni; voru alstaðar á leiðinni stórir eldgígir og gjallhrúgur, og flest eru Veiðivötnin gígavötn; vatnið hefir safnast í ótal stóra, margsamantvinnaða eldgígi. Við riðum upp með Vatnakvísl; í hana rennur úr vötnunum flestöllum; fæst þeirra eru stór, en flest mjög djúp. Neðst með Vatnakvísl eru Nýjavatn og Breiðuvötn; þar er mýrlendi töluvert og hagar. Litlu ofar skiftist Vatnakvísl, kemur önnur kvíslin úr Fossvötnum og fer í bugðu til norðvesturs, hin kvíslin kemur úr sérstökum vatnaklasa, þar eru saman í röð Kvíslarvatn, Eskivatn, Langavatn og Tjaldvatn, þar er veiðimannakofinn og dálítill hagi; og svo er Skálavatn, allstórt og einkennilegt gígavatn, en Fossvötn eru kippkorn norðaustur af Tjaldvatni. Alstaðar eru öldur og eldgígir, hálsar og hryggir milli vatnanna og alt er eldbrunnið; sést ekki yfir þau nema af hæstu öldunum, því flest eru niðri í djúpum hvilftum. Við settumst að hjá Tjaldvatni (1874[1]) og tjölduðum skamt frá kofanum; við höfðum með okkur dálítinn netstúf og lögðum hann milli Kvíslarvatns og Eskivatns um kvöldið, er við komum.

Meðan piltarnir voru að vitja um netið næsta morgun, skoðaði eg nágrennið kringum tjaldstaðinn, gekk upp á öldurnar austur af Tjaldvatni, og litaðist um. Öldurnar eru úr vikri og allháar (2—300 fet á hæð), þær mynda

bogadregin takmörk kringum Tjaldvatn og undirlendið kringum það; þær eru leifar af gömlum gíg, sem er nærri míla ummáls. Nokkru neðar en efsta gígröndin sést jafnhliða hraunstallur hringinn í kringum allan gíginn; hefir hann að öllum líkindum myndast við það, að vellandi hraunbotn gígsins hefir sokkið, þegar gosin fóru að réna. Tjaldvatn sjálft er eins og tjörn og fyllir eigi helming gígbotnsins. Þenna dag var miklu þokuminna en undanfarna daga, svo útsjónin var allgóð af öldum þessum. Tungnárfjallgarður takmarkaði sýn mína til austurs; fremst á honum er Snjóalda, en þá taka við skörðótt fjöll og hvassir tindar i langri röð upp með Tungná, eins langt og augað eygir; mörg af fellunum í þessum fjallgarði eru einkennilega löguð; vestan með honum er vatnaröð, þar er neðst Snjóölduvatn, nokkru ofar Grænavatn, lítið; þar er hagi nokkur við kvíslar; svo tekur við stærra vatn, sem eg ekki hefi heyrt nafn á, og því næst geysilangt vatn inn eftir öllu; það kalla Landmenn nú Litlasjó, og er það þó langstærst af öllum Veiðivötnum, og líklega nærri eins vatnsmikið eins og öll hin til samans; mér er nær að halda, að þetta vatn sé hinn eiginlegi Stórisjór, og ræð eg það meðal annars af uppdrætti Björns Gunnlaugssonar. Björn Gunnlaugsson kom aldrei til Veiðivatna, en hann hefir sett þau á uppdráttinn eftir frásögn einhvers kunnugs manns af Landi eða úr Skaftártungu; nú er það alkunnugt, að alþýðumenn gjöra mest úr því, sem er til einhverra praktiskra nota, og af því Veiðivötn eru svo þýðingarmikil vegna silungsveiðarinnar, þá hafa þau hjá sögumanni Björns Gunnlaugssonar orðið miklu stærri, en þau áttu að vera, og á Uppdrætti Íslands þenja þau sig yfir helmingi stærra svæði en rétt er; af þessu leiðir, að efstu vötnin eru miklu nær Vatnajökli en vera ber, svo Stórisjór er kominn rétt upp að jökulrönd, í stað þess að hann á að vera margar mílur frá jöklinum. Það er auðséð á uppdrættinum, að sögumaður Björns Gunnlaugssonar hefir verið vel kunnur Veiðivötnum, því innbyrðis staða vatnanna er rétt, og kvíslarnar á milli þeirra og árnar eru líka rétt-

ar, en alt þetta er í stærri mælikvarða en aðrir hlutir á uppdrættinum. Ef maður nú á Uppdrætti Íslands gáir að vötnum norðan við Tungnárfjöll, þá er röðin á þeim og tala þeirra hin sama sem vera á, og Stórisjór er þá hið sama vatn, sem nú er kallað Litlisjór. Það væri líka undarlegt, að kalla langstærsta vatnið Litlasjó. Seinna hafa menn af Uppdrættinum leiðst til þess að halda, að Stórisjór væri rétt uppi hjá jökli, og af því menn voru ókunnir um þær slóðir, hafa skapast ýmsar útilegumannasögur og dylgjur um þetta ímyndaða vatn; hinn rétti Stórisjór hefir orðið að Litlasjó, en Litlisjór hefir týnt nafninu og orðið nafnlaus.

Norður af Tungnárfjöllum grylti í jökul, en þó var nokkur þoka á honum; þar eru tveir tindar háir upp úr jökulröndinni, og skriðjökull óhreinn í kringum þá. Fyrir norðan og vestan Vatnakvísl er röð af toppmynduðum öldum, alveg fram að Tungná; þessi röð er jafnhliða Tungnárfjöllum, og á svæðinu milli þessara hæðarana eru Veiðivötn; alt er þetta svæði ákaflega eldbrunnið, svo að segja eintómir risavaxnir vikurgígir, en óvíða eru þó hraun á þessari landspildu, líklega eru þau hin eldri hraun hulin vikri og gjallrusli. Alstaðar eru vötnin nátengd gígmyndunum og liggja í gígskálunum eða eru mynduð af samkomu margra gíga; flest eru vötnin smá og kringlótt. Skálavatn er rétt fyrir sunnan Tjaldvatn; það er mjög einkennilegt og fagurt, gígahrúgur kringum það og úti í því og hyldýpis ker í botninum. Fyrir nokkrum árum drukknuðu þar tveir menn; þeir voru að elta álftarunga og hvolfdi undir þeim, ekki fundust líkin, hafa líklega orðið föst í einhverju kerinu í vatnsbotninum. Sumum mönnum hefir síðan þótt reimt við vötnin, og svipirnir hafa jafnvel blandast saman við útilegumannatrúna. Milli Skaftártungu og Lands eru litlar samgöngur, veiðimenn úr báðum sveitum hafa séð hver annan tilsýndar, haldið hvorir aðra útilegumenn og orðið hræddir. Syðst í Tjaldvatni, þeim megin sem snýr að Skálavatni, er djúpur pyttur; þar á að búa nikur; á milli þessara vatna er örmjó landspöng, en

eigi sést neitt rensli milli þeirra ofanjarðar. Gegnum Tjaldvatnsgíginn, Skálavatn, upp í gegnum Fossvötn og langt upp á öræfi gengur eldsprunga mikil til norðausturs. Þessi gossprunga hefir komið löngu eftir það, að vatnagígirnir gusu; á henni hafa myndast fjöldamargir eldgígir og hraunkatlar skringilega lagaðir, og úfið hraun hefir ollið út úr henni á báða bóga, mest þó fyrir ofan Fossvötnin; þar eru í Fossvatnahrauni allgóðir hagar og töluverður gróður í hraungjótunum. Rétt fyrir ofan kofann og víðar við Tjaldvatn eru fjöldamargir eldkatlar með hraunkleprum og nibbum og hyldýpisholum og gjótum, og eru veggirnir oft vaxnir burknum að innan.

Kofarnir standa á dálitlu nesi, sem gengur út í Tjaldvatn; þeir eru bygðir utan í litlum hraunhólum, sem eru hér við vatnið í eldrákinni frá Fossvötnum; kofarnir eru tveir; er annar með hlóðum, hafður fyrir eldhús, hinn er íveruhús veiðimanna; þar er breiður bálkur til að liggja á; hey var þar inni dálítið og netstubbar gamlir. Ýms smábyrgi eru hér víða utan í hraunhólunum. Sumstaðar eru menjar af fornum byrgjum við vötnin; á þeim þurkuðu menn silunginn áður eins og þorsk og fluttu hann síðan burtu, líkt og gert hefir verið við Mývatn (Mývatnsreiður). Það eru helzt Landmenn, sem nú stunda veiði við vötnin, en langt er þangað og torsótt, einkum vegna Tungnár, sem oft getur verið ófær og altaf er viðsjál; menn fara þangað um sláttinn, helzt þeir, sem eigi geta gefið sig að heyvinnu, en ekki þykir borga sig að fá minna en hundrað í hlut um vikuna, en oft veiða menn miklu meir. Ólafur í Austvaðsholti hafði eitt sinn verið við veiði í fjóra daga við fjórða mann og fengu hver 200 í hlut; menn leggja net í vötnin eða draga á voga og afrensli vatnanna. Hingað er aldrei farið seint, því um réttir getur Tungná orðið ófær af grunnstingli og krapa, svo örðugt er að komast til bygða; frost leggjast hér snemma að, svo eigi er hægt að hafa hér hesta á haustin. Báta hafa menn víða við vötnin. Menn veiða í þessum vötnum, er nú skal greina: í Fossvötnum, Skálavatni, Langavatni, Eski-

vatni, Kvíslarvatni, Breiðuvötnum, Nýjavatni og Snjóölduvatni. Veiði kvað í sumum vötnum á seinni árum vera farin að minka mikið, síðan menn fóru að brúka lóðir, einkum í þeim vötnum, sem næst eru kofunum, því þar eiga menn hægast með að leggja lóðirnar; nýlega hafa menn farið að leggja lóðir í Snjóölduvatni, og er þar mikil veiði; í Stórasjó (þ. e. Litlasjó) hafa menn eigi orðið varir, enda er það eðlilegt, þó þar sé eigi mikill silungur, því gróður er þar því nær enginn í kring, og þar er heldur eigi hraunbotn og vatnaplöntur, eins og í hinum vötnunum flestum. Silungarnir eru eingöngu urriðar, þeir eru mjög vænir og feitir; stærsti silungurinn, sem við veiddum, var um 9 pund, og þó kvað þeir geta orðið stærri. Vötnin eru ágætlega vel löguð fyrir silunga, kvíslar renna úr einu í annað, gróður er þar víða mikill af vatnaplöntum, þar er hraunbotn með ótal glufum og fylgsnum, og alt landslag töluvert svipað því, sem er við Mývatn; þar er mikið af smáum vatnadýrum, mýlirfum og öðrum skordýrum. Í maganum á þeim silungum, sem eg skoðaði, voru smáir vatnabobbar (*lymnæu*-tegundir), örsmáar vatnaskeljar *(Pisidium)*, skötuormar *(lepidurus)* og mýlirfur; lang mest var þó af »lymnæ«-um. Við Tjaldvatn er mjög svipað eins og við ýmsar víkur í Mývatni. Lítill lækur rennur í vatnið austur af kofunum; kemur hann upp í smáaugum undan hrauninu nálægt gíghólum þeim, sem standa á gossprungunni; víkurnar og vikin á vatninu eru full af slíi, þau eru kringlótt og brydd grasi og sefi, og þar vex mikið af lófót og vatnasóley; þar bullar víða upp vatn á botninum, og innan um slíið er fult af vatnabobbum, skordýralirfum, slorpungum og þesskonar. Mýbit er oft mikið við vötnin, svo menn verða að hafa sífelt gát á hestum, að þeir ekki strjúki; í hrauninu er fjöldi af kongulóm. Fuglar eru hér margir; andir, lómar og heimbrimar eru mjög algengir og verpa hér, og eins álftir; kríuvarp er víða töluvert, og rjúpur sáum við stöku sinnum; í hólminum í Skálavatni er mikið andavarp, svo þar er á vorin varla hægt að þverfóta fyrir hreiðrum. Sumstaðar verpa

arnir í gígasnösunum, við sáum t. d. örn með unga hjá Skálavatni; fálka sá eg nokkrum sinnum fljúga fram hjá; kjóar eru algengir bæði hér og á Landmannaafrétti. Þó undarlegt sé, eru kjóar einna algengastir fuglar uppi á hálendinu; þó maður sé á mestu grasleysisöræfum í Ódáðahrauni, norður af Veiðivötnum, eða hvar sem er, líður varla sá dagur, að maður sjái ekki einn eða fleiri kjóa fljúga fram hjá.

Dagana frá 29. júlí til 4. ágúst höfðum við tjaldið á sama stað hjá Tjaldvatni; notaði eg þenna tíma til þess, að skoða Veiðivötnin og öræfin í kring, og fórum við því ýmsar ferðir frá tjaldinu, og sumar all-langar. Veður var oftast fremur gott, en þó oft þoka í fjöllum, votviðri og rigningarskúrir. Rigningin kom oftast til vor sunnan af Síðu og Skaftártungu, þoka og regnský stíga þar upp af hafinu fyrir utan, rekast upp á hálendið og missa úr sér vætuna, er þau hækka og snerta fjöllin á hálendinu. Norður frá, við Tungnár- og Köldukvíslarbotna, var veðrið þurrara og loftið skýaminna og loftslagið líkara því, sem er fyrir norðan. Þegar tími var til frá öðrum störfum, reyndum við til að afla heyja; við höfðum með okkur orf og ljá, og slógu piltarnir dálítið hjá Breiðuvötnum, Skálavatni og á Kvíslum, en alstaðar eru hér lélegar slægjur. Hey þurftum við að fá, til þess að geta skoðað grasleysurnar og öræfin upp með Tungná og við Vatnajökul, því á slík öræfi er eigi hægt að leggja hesta, nema maður hafi nokkrar byrgðir af heyi. Meðan við dvöldum hjá Tjaldvatni, höfðum við mest silung til matar; við fundum gamlan, spengdan pott í eldhúskofanum, hreinsuðum hann og suðum í honum við sprek. Við veiddum soðninguna jafnóðum, og var hún því mjög ljúffeng.

Landslag hjá Veiðivötnum er víða einkennilega fagurt og alt öðruvísi en tíðast er annarstaðar hér á landi uppi á heiðum. Þar sem mikið er af vötnum, þar eru allajafnan lágar urðaröldur og melhæðir milli vatnanna og landið yfir höfuð mishæðalítið. Hér eru eintóm fell og öldur, hraundrangar og stórvaxnir eldgígir, árnar í breiðum kvíslum og

vötnin glampandi með dimmbláum og grænum blæ í kötlunum og háir gígabarmar í kring; hér er mikil tilbreyting í landslagi og útsjón fögur víða af öldunum, bæði yfir vötnin í kring og til jökla og óteljandi hnúka í norðri og suðri. Við hin einstöku vötn er víða snoturt og blómlegt fremur vonum; jurta- og dýralífið er hér meira en menn gætu búist við svo hátt uppi í landi, álftir og andir synda með ungahópana fram úr víkunum, urriðar vaka hér og hvar, kjóarnir fljúga mjálmandi hátt yfir vötnunum, og undir kvöldið, þegar kyrðin færist yfir, kveða við sorgleg hljóð frá heimbrimunum eða þá undarlegar lómaraddir; þegar molla kemur, og í litilli vætu, stíga ský af rykmýi upp frá vogunum og þúsundir af köngulóm komast á kreik í hraunsprungunum til þess að ná í mýið og flugurnar. Aldrei hefir verið bygð við Veiðivötn; fyrir nokkrum árum ætlaði maður af Landinu að byggja þar, en varð ei af, sveitamenn þorðu eigi að hafa hann svo nærri afrétti. Kindur koma hér mjög sjaldan, því þó gróður sé dálítill við sjálfan vatnaklasann, þá eru gróðurlaus öræfi alt í kring; ein og ein kind flækist þó hingað af Holtamannaafrétti, og því senda Landmenn hingað 3 leitarmenn á haustin, og fara þeir eigi víða.

Hinn 31. júlí fórum við seinni hluta dags upp eftir til að skygnast um; fyrri hluta dagsins var þoka og rigning, svo við urðum að halda kyrru fyrir, en kl. 3 rofaði til, og þá fórum við á stað. Riðum við fyrst upp öldurnar norðaustur af Tjaldvatni, þær eru allar úr gjalli og vikri, og svo um gígbarmana sunnan við Fossvötn; það eru djúp gígavötn, og er hið syðra miklu minna og alveg kringlótt. Upp af efra Fossvatninu heldur nýja gígaröðin áfram upp eftir, og er þar allstórt hraun með mörgum borgum og kötlum; gígaröðin snertir vestasta vikið af suðurenda Stórasjós, en gengur svo aftur nokkuð vestur og norður á við. Frá Fossvatnahrauni riðum við kippkorn til vesturs upp á háar öldur; þar var varða á hæstu öldunni; þar var allgóð útsjón um öræfin vestur undir fjöllin hjá Þórisvatni, en ekki sást vatnið sjálft. Öræfi þessi eru alveg gróðrar-

laus; þar eru eintómir bláleitir gjallsandar, einstök móbergsfell og eldgígir, og sumstaðar sést í víðáttumikil hraun, sandorpin. Á söndunum eru á víð og dreif stærri og minni vatnspollar. Austur og norður af öldum þessum sést áframhald eldsprungunnar frá Fossvötnum; þar er alt sundurtætt af jarðeldum, gígur við gíg, og í þeim smávötn, tjarnir og pollar; sumir gígarnir eru ákaflega stórir, og margir eru tvinnaðir saman á ýmsan hátt; þetta er eitt með merkilegustu gígasvæðum, sem eg hefi séð á Íslandi. Nýrri gígaröðin er með smáhlykkjum, og hefir hún tætt í sundur hina eldri gígi, er hún myndaðist; þar eru hin margbreytilegustu brunaklungur, klepraðir smágígir, djúpar holur, gjár og sprungur, hellrar og hraunpípur. Við áttum ilt með að þræða milli hraunkatlanna og gígavatnanna; hraunskorpan er víða þunn og svikul, og alstaðar bylur undir fæti í hraunhnúðunum, sem maður fer yfir. Mosateygingar eru hér og hvar, og á stöku stað nokkur grávíðirlauf, en ekkert gras.

Við gátum þó loks klöngrast yfir gígakransana niður að Stórasjó, og tóku þá við sléttir vikrar og gjallsandar fram með vatninu; enginn er þar gróður, því ekki er teljandi þó einstaka geldingahnappur eða pungagras sjáist endur og sinnum. Sunnan við vatnið liggja Tungnárfjöll, og eru þau víðast þverbrött niður í vatnið; fjallgarður þessi er allur úr móbergi, sagyddur með ótal hnúkum og eigi ósvipaður Sveifluhálsi hjá Krísuvík; fjöllin eru víðast mjó, og lækka töluvert á 2 eða 3 stöðum, en hækka svo aftur. Móbergið er mórautt eða dumbrautt á lit, en hér og hvar undir hömrunum og utan í hlíðunum eru ljósar, gulgrænar mosaskellur, en enginn annar gróður. Í Stórasjó miðjum sunnanmegin eru tvær eyjar, og er mosabólstur gult í annari, en hin er ber. Framarlega um miðjuna mun vatnið vera breiðast (um $^1/_2$ mílu), en mjókkar norður eftir og dregst þar saman í mjóan odd. Kippkorn fyrir norðaustan vatnsendann enda Tungnárfjöll, og er þar skarð þvers yfir fjöllin suður að Tungná; við skarðið eru fjöllin nokkuð breiðari en sumstaðar sunnar, upp í þau smádalir og

skvompur og tindar á milli. Fyrir norðan skarðið er hraunhaf um stórt svæði, og hefir álma úr því runnið gegnum skarðið suður og austur að Tungná. Norðan til í skarðinu eru urðaröldur, sem ganga út í það mitt, og aðrar allháar úr móbergi suður við Tungná. Norðaustur af skarðinu heldur fjallgarðurinn áfram, og er þar að sjá eins og stórt fell vinstra megin við skarðið. Uppi á röndum þessa fells eru margir smátindar og sumstaðar móbergsdrangar, standar og nýpur. Við gengum upp á suðvesturtagl fellsins til þess að litast um; Ögmundur gekk upp á hæstu nýpu fellsins og hlóð þar vörðu, því kölluðum við það Vörðufell (2441'), en við Ólafur riðum suður úr skarðinu og upp á öldurnar hjá Tungná. Hraunkvíslin í skarðinu er nokkuð sandorpin, en fremur ill yfirferðar, því þar er mjög holótt; fórum við því mest með hlíðinni á Vörðufelli og svo yfir hrauntagl út á öldurnar við ána. Á þessar öldur komu þeir P. Nielsen og förunautar hans og sneru þar aftur 1884; þeir hlóðu þar vörðu, en eigi sáum við hana, enda var komið kvöld og farið að verða skuggsýnt. Sunnan við þessar öldur, milli þeirra og endans á Tungnárfjöllum, sunnan við skarðið, er, rétt niðri undir á, í djúpri hvilft, kringlótt, djúpt vatn. Af öldunum höfðum við allgóða útsjón, þær ganga fram í ána eins og höfðar og verður þar dálítill krókur á henni, unz hún nær hlíðunum á Tungnárfjöllum, en eftir það rennur hún suður með þeim, suður að Snjóöldu. Norður af Vörðufelli gengur dökk hlíð góðan kipp frá ánni, all-langt norður eftir, og fram með henni að sunnan er vatn á söndunum; miklu norðar og austar gengur bleik hlíð út undan jöklinum í sömu stefnu. Jökulinn sáum við glögt af öldunum, þó hann sé langt í burtu, þó þar sé ekki hálfnað frá Tjaldvatni; þar er stóreflis skriðjökull við Tungnárbotna. Norðan til í honum sést hamrahlíð upp úr, norður undir Köldukvíslarbotnum, og litlu sunnar eru, uppi í jöklinum, tveir strýtumyndaðir tindar, sem kallaðir eru Kerlingar. Þessa tinda sá eg glögt úr Kerlingarfjöllum hjá Hofsjökli 1888; hin syðri Kerling sýnist vera ljósleitari (af hveraguf-

um eða líparít?). Þaðan beygist skriðjökulsröndin í bugðu til suðurs og suðausturs, sést vel, hvar Tungná kemur undan jökulhömrunum og fellur kvíslótt eftir dökkum söndum. Hið efra er skriðjökullinn ákaflega óhreinn, og ganga aurog grjótrákir margar mílur upp eftir honum. Frá skriðjökulsbrúninni sunnan við upptök Tungnár gengur skörðóttur móbergsfjallgarður með ótal tindum og nýpum, alveg eins og Tungnárfjöll; gengur hann niður með ánni að sunnanverðu langar leiðir, töluvert langt niður fyrir öldurnar, sem við stóðum á; fjallgarður þessi lokaði fyrir oss allri útsjón suður og austur. Fjöll þessi eru brött niður að Tungná; enginn sést þar gróður, nema gular mosaflár í hömrunum hér og hvar, en móbergið er dumbrautt og tindarnir oft skringilega lagaðir. Tungná rennur hér efra á breiðum eyrum, hún er töluvert vatnsmikil og alt útlit fyrir að bleytur séu í henni. Þegar við höfðum skoðað útsjónina rækilega, snerum við aftur og fórum norður og vestur úr skarðinu og riðum svo beina leið suður með Stórasjó, þar er greiðfært fram með vatninu, enda voru hestarnir viljugir, því þeir voru orðnir hungraðir; syðst við vatnið ganga gígahrúgurnar út að því og tefja þær nokkuð fyrir; riðum við síðan gegnum Fossvatnahraun, og er það fremur glæfralegt í myrkri; þar er bezti gróður fyrir hesta, og fluttum við þá þangað á kvöldin næstu daga. Við komum að tjaldi kl. 11½ og höfðum riðið mjög hart; allgott veður var um kvöldið, er við komum, en loftþyngdarmælirinn var mjög fallinn, enda gerði illviðri um nóttina með stormi og rigningu, og hélzt það allan næsta dag, svo við urðum að halda kyrru fyrir í tjaldinu.

2. ágúst var bezta veður um morguninn, og fórum við þá á stað til þess að leita Þórisvatns kl. 8½ f. m., höfðum tvo til reiðar hver og komum aftur að tjaldi kl. 8½ e. m. og höfðum oftast riðið hart. Fyrst riðum við að Fossvötnum og skildum þar eftir hina hestana, því þar er bæði mikill gróður og gott skjól í hrauninu. Út úr litla Fossvatni rennur Vatnakvíslin önnur, og er þar foss, er áin fellur úr vatninu, rétt í vatnsbrúninni, svo maður verður

að ríða úti í vatninu til þess að komast upp fyrir hann; áin er búin að saga sig inn að vatninu, og ef hún heldur svo áfram, sem líklegt er, verður ekki ýkja langt þangað til, að Litla-Fossvatn tæmist, og hitt Fossvatnið líka að miklum mun. Við riðum kl. 9 f. m. upp öldurnar hjá Fossvötnum og stefndum beint í norður eða þó dálítið hallandi austur. Þar verða fyrst fyrir manni raðir af öldum, sem allar bera merki mikilla eldsumbrota, þær eru áframhald af hálsunum vestan við Vatnakvíslina, en síðan taka við víðáttumiklir, þungir vikur- og gjallsandar, þar eru sumstaðar allstórar, grunnar tjarnir, sem á vorin verða miklu stærri af leysingarvatni; sígur mikið af vatni þessu niður í sandana, enda kemur fram neðar í söndunum kvísl, sem fellur í Vatnakvíslina. Eftir klukkustundar reið um sandana, fóru að koma raðir af móbergshæðum, í sömu stefnu eins og allir aðrir fjallgarðar og hálsar á þessu svæði, nefnilega frá suðvestri til norðausturs, og eru líka sandar á milli fellanna. Allir eru sandar þessir gjörsamlega gróðurlausir og eins öræfin öll í kring, svo langt sem augað eygir, einstöku geldingahnappar og þungagrös sjást á strjálningi í móbergsfellunum. Sandar þessir þyrlast upp og fjúka við hinn minsta vindgust, og sjást víða öldur á þeim eins og vindgárur á sjó, en nú voru þeir blautir af langvarandi rigningum. Rokstormar með sandfoki hafa mikil áhrif á móbergið, svo í það myndast holur, hvilftir og hellar, svo móbergshæðirnar, sem upp úr standa, eru ákaflega sunduretnar og tindóttar. Undir söndunum eru hér eflaust alstaðar hraun, og koma þau fram hér og hvar. Norður af Þórisvatni, alla leið frá Köldukvísl suður að Tungná, er eitt hraunhaf, norður að undirhlíðum Vatnajökuls, og hangir það auðsjáanlega saman við Hágönguhraun; hafa úr þessu hraunhafi runnið kvíslar niður milli móbergsrananna, og eru kvíslar þessar nú víðast huldar roksandi, gjallmolum og basaltvikri; auk þess hafa eflaust, eins og fyrr var nefnt, stór hraun runnið úr eldgígunum við Veiðivötn. Þegar við eftir 1½ stundu vorum búnir að fara um eintóm móbergstögl og sanda, sáum við í stórt

vatn milli móbergstinda og komumst að því hálfri stundu seinna, það var austurflóinn, sem gengur úr Þórisvatni (1884¹); flói þessi er mjór (¹/₄ míla), en mjög langur, og liggja brött móbergsfjöll á báða vegu, svo ekki sést vatnið, nema maður sé hátt uppi; ganga þar fram í vatnið mórauðir höfðar hver út af öðrum, alveg eins og núparnir við firði á Vestfjörðum; á einstaka stað sést votta fyrir mosateygingum eða öðrum gróðri undir klettasnösunum, er ganga út í vatnið. Suðvestan við þenna flóa gengur fram allmikið nes, fjöllótt og hömrótt, en lækkar og mjókkar eftir því, sem suður dregur; það skilur vesturflóann frá hinum eystri. Fyrir framan þetta nes sést í aðalvatnið eins og stórt haf, og blánar fyrir fellum og hamrahlíðnm fyrir suðvestan það, en Þóristindur er nálægt suðausturhlið vatnsins. Útsuður af yzta tanga nessins, sem fyrr var getið, er ey í vatninu, nokkuð mosavaxin. Útlit er til, að landspildan undir Þórisvatni hafi að nokkru leyti sokkið, og í móbergsfelli austur af vatninu sá eg lög, sem hölluðust 20—30° til suðurs og suðausturs. Vér riðum rúman hálftíma inn með austurflóanum, unz við komum inn undir botn hans; þar hefir myndast breið sandeyri yfir vatnið þvert, svo insti hluti þess verður sérstakur og hefir framrás í aðalvatnið gegnum síki og einn aðalós að norðanverðu. Bogadregnar, brattar móbergshlíðar lykja alveg um vatnsbotninn. Við teymdum hestana niður hlíðarnar, niður á grandann; hann er allur úr eldfjallasandi og á honum dálítill gróður, bæði grávíðir, starartegundir og eyrarrós; hestarnir gátu því tekið niður dálitla stund; ekki er víst mikið dýralíf í vatninu, því hvorki sá eg vatnabobba né neitt þessháttar, þó sáust þar í sandinum fjarska mörg álftaspor, fjaðrir og aðrar menjar þeirra; stokkandafjaðrir sá eg líka, og víða voru tóuför. Eftir litla dvöl héldum við aftur upp hinar bröttu hlíðar og svo inn fyrir botninn; þar er fremur erfitt yfirferðar, háar öldur og móbergsfell hvert af öðru og smátt urðargrjót ofan á; lítið sér maður kringum sig, því hver aldan skyggir á aðra. Þessar hæðir kölluðum við Botnafjöll (24—2500 fet);

í þeim er eintómt móberg, rauðleitt, en víðast hvar sést eigi í fast berg fyrir úrgangi og rusli; fjöll þessi eru kúpumyndaðir hryggir, með hvilftum, lautum og skorum á milli. Við gengum upp á hæsta hnúkinn, en bundum hestana fyrir neðan; þar lituðumst við um og tókum okkur bita og sáum hvergi annað í kringum okkur en herfilegustu öræfi, hraun, sanda, fell og jökulbungur í fjarska, en hvergi stingandi strá og enga lifandi skepnu, nema eina maðkaflugu, sem flaug suðandi kringum okkur, þegar við opnuðum nestispokann; það er annars merkilegt, hve oft menn sjá þessa flugu í öræfum, uppi á hæstu fjallatindum og yfir höfuð að tala á stöðum, sem menn sízt skyldu ætla. Útsjón var allgóð af tindinum, nema til suðvesturs, því þar voru nálægt okkur hærri tindar, milli flóanna úr Þórisvatni; héðan má sjá stóra spildu af upplendi Íslands; í norðvestri blasa við Kerlingarfjöll hjá Hofsjökli, Bláfell, Hrútafell og Langjökull, en annars er hálendið í þessa átt því nær mishæðalaust. Arnarfellsjökull er mjög nærri og Hágöngur blasa við; norður af þeim, í Vonarskarði, skein sólin á tvö bleikrauð líparítfjöll, og sama efni er ef til vill í syðri Hágöngum; norður af Vonarskarði sést jökulöxlin upp af Gæsavötnum og smátindarnir þar vestur og suður af. Hér og hvar glittir í Köldukvísl, sem rennur um kolsvört öræfi, hraun og sanda; lengra burtu sást í Þjórsá á einum stað, en Sprengisandur sást annars óglögt fyrir regnskúrum, sem þar voru að ganga yfir. Suður af Vonarskarði er eigi mjög langt suður í Tungnárbotna; miðja vegu er fjallshlíðin, sem fyrr var nefnd, utan í jöklinum, og svo Kerlingar. Þá tekur við skriðjökullinn mikli suður fyrir Tungná, en ekki sést suðurbugða hans, því tindaröðin fyrir sunnan Tungná skyggir á. Þar suður af, hátt uppi á jökli, er jökulhæð og hvöss, hvít strýta upp úr, og svo taka við smærri fell uppi á jöklinum, líklega suður undir Fljótshverfi. Beint fyrir norðan Botnafjöll er hraunhafið áfast við Hágönguhraun, og norðaustur af því eru tindóttar og öldóttar undirhlíðar út undan jöklinum, og skiftast þær ef til vill í fleiri eða færri spildur; sunnar eru

bleiku hlíðarnar, sem eg sá frá Vörðufelli, þær eru partur af fjallaklasa, sem líka gengur út undan jöklinum norður af Tungnárbotnum. Til austurs og suðurs eru samanhangandi sandar og hraun alt suður að Vörðufelli og einstöku tindar og öldudrög upp úr. Öræfin öll eru ákaflega ljót og fullkomlega gróðurlaus, ekki líkt því að nokkurstaðar sé hlauphagi fyrir fé, á mörgum ferhyrningsmílum ekki stingandi strá. Rétt niður af okkur til norðvesturs er dálítið stöðuvatn, lukt hömrum og fjöllum á alla vegu, það er nokkuð minna en Skálavatn og liggur jafnhliða austurbotni Þórisvatns; vestur af taka við enn hærri móbergsfjöll, sem ganga út á nesið, er skiftir Þórisvatni, en milli þeirra fjalla og Botnafjalla er dæld, og hefir þar runnið hraunálma niður í litla vatnið, sem eg nefndi. Þegar við fórum af sjónarhæðinni, riðum við yfir þessa hraunálmu; hraunið er þar mjög sandorpið og meltottar eru á stöku stað, en hvergi annað gras. Síðan riðum við hærra og hærra upp í hálsana, sem ganga út á nesið, öldu af öldu, unz við sáum vestur af, niður í vesturbotna Þórisvatns. Þar hefir stórkostlegt hraunflóð runnið niður í vesturflóann og hefir myndað sker og smáhólma í vatninu, en Þórisós rennur úr norðvesturhorni vatnsins til norðurs og kvíslast gegnum hraunið til Köldukvíslar. Vesturflói vatnsins er miklu breiðari en hinn eystri, en hlíðarnar eru lægri að vestan, og suður með vatninu eru þeim megin lágar, hrjóstrugar öldur og breiðir vogar á milli, og beygist ströndin svo smátt og smátt austur á bóginn. Dálítill gróður er á hrauninu við vesturbotninn, en mest er það melgresi, sem menn hér kalla blöðku. Síðan riðum við hærra og hærra upp í fjöllin á Þórisnesinu, öldu af öldu; alt er þakið stórgrýtismöl og eggjagrjóti, en roksandur er á milli; öldur þessar eru því mjög örðugar fyrir hestafæturna. Brátt varð fyrir okkur þvergirðings dalskora, sem deilir hálsunum á nesinu sundur og gengur frá vesturflóanum að litla vatninu, er fyrr var getið; urðum við að klöngrast niður í þessa hvilft og upp aftur að sunnan, illan veg, unz við loks komumst svo hátt, að sá suður af nes-

inu, suður yfir aðalvatnið til suðurstrandanna, sem eru lágar, en mjög fjarlægar, svo við gátum að eins séð þær óglögt. Hafði nú um hríð verið rigning og veður var farið að versna, og snerum við þá heimleiðis kl. 4 e. m. Fórum við nú aðra leið, beint niður að litla vatninu; þar var bratt, svo við urðum að teyma hestana; eins var fremur ilt að komast með vatninu, og á einum stað urðum við að klöngrast hátt utan í höfða, sem fram í það gengur. Frá litla vatninu fórum við yfir um örmjóan en brattan hrygg, niður að austurbotni Þórisvatns, og yfir á eyrina, er við fyr komum á, og áðum þar hestunum dálitla stund, því þeir voru orðnir æði svangir; ósinn yfir á eyrina var eigi dýpri en rúmlega á miðjar síður. Var nú orðin dynjandi rigning, og þó hvast; voru töluverðar öldur á vatninu og brimhljóð við grandann. Í Þórisvatn renna ótal uppsprettur undan hraununum, og undan móbergshlíðunum við austurbotnana bullar vatnið fram í stórum straumum. Í rigningu og þoku héldum við heimleiðis og þræddum braut vora á söndunum, þar sem við höfðum farið um morguninn. Illviðrið rofaði til litla stund og sá sól í vestri bak við oss, og riðum við þá í regnboga, sem hvelfdi sig yfir okkur. Svo syrti aftur að. Við komum að tjaldi kl. $8^1/_2$ um kvöldið; var þá orðin koldimm þoka alveg niður að tjaldi.

Hinn næsta dag var fyrri hluta dags suddi og rigning og þoka í fjöllum, en seinna glaðnaði dálítið til, þá fór eg vestur fyrir Vatnakvísl til þess að skoða rensli Tungnár og innbyrðis legu hinna eiginlegu Veiðivatna. Fyrst riðum við niður með Langavatni, Eskivatni og Kvíslarvatni og svo niður með Vatnakvísl; alstaðar er þar nokkur gróður á eyrunum, en jarðvegurinn er þó varla annað en vikur og gjall. Hér hafa alstaðar í jörðu komið stórar frostsprungur og þar hefir gróðurinn fyrst sezt, svo það er eins og melarnir séu pentaðir grænum strykum, því kaflarnir milli sprungnanna eru oft gróðurlausir. Fyrst sezt mosi í sprungurnar og síðan geldingalauf. Á söndunum, þar sem fyrst er að gróa upp, liggja marflatar rósir af elt-

ingu; margar aðrar jurtir (t. d. víðir) hafa vaxið svo á söndunum, að þær mynda hringa út frá miðdepli, þar sem fyrsta jurtin óx, og liggja flatar með sandinum, líklega sökum illviðra. Við riðum yfir Vatnakvíslina rétt fyrir ofan Breiðuvötn og upp í ölduröðina, sem gengur fram með henni að vestan; þar eru fremst tvær mjög háar toppmyndaðar öldur eða hnúkar og fyrir austan þær heitir Vatnaskarð, og er þar farið, þegar menn koma yfir Tungná á Kvíslavaði og ætla til Veiðivatna. Strýtur þessar eru afargamlir gígir, myndaðir af eintómum reglulegum lögum af vikri og gjalli, og hallast lögin mjög reglulega frá miðju gíganna út á við, en seinna hefir vatnið grafið þá mjög í sundur, einkum hina nyrðri. Þar eru óteljandi smágil og glufur utan í hlíðunum, og í dældunum fyrir neðan stórar hrannir af vikri og gjalli, sem runnið hefir niður; hinir þyngri basaltmolar eru ofar, og innan um eru þar líparítmolar á víð og dreif. Við gengum upp á nyrðri strýtuna, þaðan var bezta útsjón, þó þokuflákar við og við spiltu nokkuð fyrir. Syðri gígurinn er mjög stór og í honum djúpt, kringlótt vatn og úr því örstuttur ós út í Tungná. Rensli Tungnár sést vel af strýtunum; suður af Snjóöldu gengur lágur rani af smáholtum, og rennur Tungná með honum að austan; verður þar afarmikill krókur á henni til suðurs, svo hún nær nærri því suður að undirhlíðafjöllum Torfajökuls, en beygir svo strax við aftur til norðurs vestan við ranann, alveg upp undir Snjóölduvatn, og rennur stuttur ós úr því í hana, en Vatnakvíslin fellur í ána þar rétt fyrir vestan; svo kemur aftur dálítill bugur á Tungná suður fyrir strýturnar, unz hún er komin vestur fyrir fellaþyrpingu, sem kölluð er Bjallar; áður hefir hún runnið á miklum eyrum, en rennur þröngt fram hjá Bjöllunum; þar eru í henni tveir fossar, og sást reykur upp af hinum neðri; nokkru fyrir neðan þann foss er Kvíslarvað; þar falla smákvíslar í ána að norðan (Blautakvísl), og eru öræfi upp af og svo vatn á öræfunum og síðan fellaröð og Þóristindur til NNA., og þar fyrir vestan og norðan sést í Þórisvatn. Þóristungur heitir all-

gott hagapláss austan við Köldukvísl og upp með henni, en eigi taka þær yfir alt svæðið milli Köldukvíslar og Vatnakvíslar, sem ráða mætti af kortinu. Eigi renna fleiri ár í Tungná þar fremra, nema Helliskvísl að sunnan, mitt á milli Köldukvíslar og Þjórsár; þar hafa Holtamenn ferjur á Tungná og flytja þar féð yfir á afrétt sinn í Búðarhálsi og þar í kring. Auk þess rennur í Tungná að sunnan miklu austar Námskvísl, rétt fyrir austan Krókavað; hún kemur úr Jökulgili í Torfajökli, og er stutt frá gilinu niður í Tungná, miklu styttra en sýnt er á Uppdrætti Íslands. Á söndunum fyrir vestan strýturnar er röð af allstórum vatnspollum upp eftir; líklega þorna þó sumir af þessum pollum upp í þurkatíð. Héðan sést ágætlega yfir Veiðivötnin, og er mjög einkennilegt að sjá þau innan um gígaklasana; græn gróðurbrydding kringum flest þeirra gerir að verkum, að þar stingur vel í stúf við öræfin í kring; flest þeirra kvað vera 12—16 faðma djúp, en miklu dýpri katlar eru í þeim hér og hvar. Eg hefi fyrr talið flest þeirra, ótaldir eru að eins ýmsir vatnapollar, sem liggja milli Breiðuvatna og Skálavatns.

Hinn 4. ágúst fórum við snemma að búast til ferðar, því veður var gott; var nú ferðinni heitið upp í Tungnárbotna til að kanna ókunnugar stöðvar. Aðalfarangurinn skildum við eftir í kofunum, en höfðum með okkur tjald og hin nauðsynlegustu áhöld, nesti til 3 daga og 4 vel troðna heypoka. Við fórum á stað úr Fossvatuahrauni kl. $10^3/_4$ f. m, riðum upp með Stórasjó og að Vörðufelli, sama veg sem við áður höfðum farið, gegnum skarðið og út á öldurnar við ána; liggja þær altaf jafnhliða ánni, nærri óslitnar upp í jökul, en eru víðast hvar mjög lágar, eins og litlir hryggir eða smáar hólahrúgur. Norðaustur úr Vörðufelli, sem er nærri ferhyrnt, gengur langur fjallarani lægri, og sunnan við hann er vatn á söndunum allstórt og annað minna norðar; þessi vötn geta orðið miklu stærri í leysingum, þess sér merki á söndunum. Riðum við austan með vatninu, fyrst utan í öldunum, sem liggja fram með ánni, og svo um sanda, endalausa, marflata vikursanda;

þeir voru fremur þungir og alveg gróðurlausir, og höfðum við þá hryggina við ána á hægri hönd, svo við sáum ekki í hana nema við og við; þegar við höfðum riðið um eintóma sanda í $2^1/_2$ stund, oftast í harðara lagi, komum við að breiðri hraunkvísl, sem fallið hefir úr hraunhafinu fyrir norðvestan, alt niður að Tungná; fjalladrögin norðaustur af Vörðufelli halda þó áfram á vinstri hönd alt upp í jökul, en slitna sundur á 2 eða 3 stöðum; annars eru eintómir smáhálsar og fellaraðir á öræfunum hér norður af, alt upp í jökul. Þegar við komum upp á holt sunnan við hraunkvíslina, sáum við votta fyrir grasfit í hrauninu niður við ána, og fórum þangað, þó hraunið væri æði ógreiðfært; á yfirborðinu er eintómt laust eggjagrjót í roksandi. Á hraunfitinni áðum við litla stund; þó var þar enginn annar gróður en dálítið af grávíðirlaufi, en hestarnir voru orðnir svangir og rifu það í sig með græðgi. Þegar við aftur fórum út úr hraunfitinni, gekk skrikkjótt að koma hestunum; vatn úr ánni hefir síast inn í sandinn á hrauninu, svo þar lá í innan um hraunholurnar og eggjagrjótið. Síðan stefndum við á dálítið móbergsfell austan við hraunkvíslina og klöngruðumst þangað við illan leik; þar kemur lítil kvísl norðaustan úr hrauninu og fellur í Tungná; héldum við svo upp með fleiri móbergsfellum og yfir hrauntögl, sem milli þeirra ganga niður að á; var þar alstaðar ilt yfirferðar, hraunin holótt og sandorpin, en utan í fellunum eintómt eggjagrjót og urð. Þegar við áttum rúma hálfa mílu eftir til jökulsins, þá sáum við í kíki dálitlar grasfitjar fyrir sunnan Tungná; við fórum niður að ánni, þar sem hún myndast af tveim kvíslum, er koma sín hvoru megin úr skriðjöklinum, og mætast kippkorn fyrir neðan einstakt móbergsfell, allhátt; fellið er einstakt á söndunum, og efst á því klettastrýta, eins og geysimikil varða. Ólafur reið suður yfir, til að kanna ána og fitjarnar, en við biðum norðan ár á meðan. Þegar hann kom aftur, fórum við suður yfir kvíslarnar; þær eru báðar mjög vatnsmiklar, þó þær séu svo nærri jökli, og bleytur miklar í þeim sumstaðar, og eins á eyrunum, svo alstaðar

verður að fara varlega; við riðum yfir kvíslarnar rétt fyrir utan móbergsfellið; nyrðri kvíslin var heldur vatnsmeiri. Fyrir innan fellið myndast svif allmikið upp að jökulröndinni; þar eru breiðar eyrar og ótal kvíslar; þar eru víða hagateygingar á söndunum, og kölluðum við þar *Jökulfitjar*. Suður og austur af þessum sléttu söndum við jökulinn eru hvilftir upp á milli margvíslega lagaðra móbergsfella, og koma þar upp dý og lindir undan fjallahlíðunum, og er þar nokkur gróður í þessum mosadýjum og allbrúkandi hagi fyrir hesta í 2 eða 3 dægur. Þetta kölluðum við *Botnaver* (2142'). Undirlagið í þessum verum er alstaðar mosi og geldingalauf, en svo er fífa, stör og rauðbreyskingur innan um, smáar gulviðirhríslur sá eg á stöku stað; eyrarrós var þar líka og mikið af álftasporum, en ekkert kvikt sá eg, nema einn rauðan maur; alstaðar eru ver þessi mjög ill yfirferðar, vegna sökkvandi bleytu. Í nyrzta Botnaverinu settumst við að, en ilt var að finna tjaldstað vegna bleytunnar, og þar, sem þurrast var, toldu hælarnir mjög illa í jarðveginum. Frá Tjaldvatni í Tungnárbotna vorum við 8 stundir, riðum beint og oftast vel liðugt og stóðum varla neitt við. Gróðrarblettirnir hér í Tungnárbotnum eru svo víðáttumiklir, að dálítill kindahópur gæti vel haldist hér við sumarlangt, en líklega kemur þó aldrei fé hingað, því afréttir og fjárhagar eru svo langt í burtu og öræfin í kring eru svo víðáttumikil og alveg gróðrarlaus. Ekki hefi eg heyrt þess getið, að nokkur hafi fyr komið í Tungnárbotna; öræfin og fjöllin við vesturrönd Vatnajökuls hafa hingað til verið algjörlega ókunn bygðamönnum. Af því skriðjökullinn er svo stór og breiður og langt frá því hann gengur út af aðaljökulhveli Vatnajökuls, þá sýnist hann lágur hér að framan; röndin er ákaflega óhrein, víða alsvört af grjóti og aur, en breiðar grjótrákir ganga langt upp á jökul. Þar, sem norðurkvíslin kemur undan jöklinum, eru háir jökulhamrar, og áin kemur úr háu jökulporti; þar eru gamlir smágígir, rauðleitir, og hafa kvíslarnar etið þá í sundur, svo sumir eru ekki eftir nema hálfir. Þar fyrir neðan ganga út undan

jöklinum jafnhliða móbergshálsar, er mynda nokkurskonar undirhlíðar við jökulinn, en Kerlingar gægjast upp fyrir jökulbunguna í norðri; fjallshlíð með sköflum kemur þar líka fram úr jöklinum. Fram með allri rönd skriðjökulsins eru lágar jökulöldur í smáhólum, og eru þær stuttan spöl frá jöklinum, svo auðséð er, að hann er að dragast til baka. Alstaðar sitrar vatn út undan jöklinum, og sumstaðar stíflast það fyrir innan jökulöldurnar, svo þar verða dálitlir uppistöðupollar af jökulvatni. Á söndunum, kippkorn frá jöklinum, eru mosaflesjur og gróðrarræmur, sem við kölluðum Jökulfitjar, og víða á söndunum er mikið af eyrarrós.

Næsta morgun (5. ágúst) var gott veður, sólskin og nokkur kaldi á norðan. Við riðum um morguninn upp á móbergshálsana, sem ganga út undan jöklinum sunnan við upptök Tungnár; þeir eru allir með dældum, hryggjum og tindum, og gengum við upp á einn af efstu hnúkunum, til þess að reyna að sjá suður af fjallgarðinum; hér áttum við að kanna ókunnar stöðvar, og þær mjög merkilegar. Þar sem fjallgarðurinn, sem við stóðum á, gengur út undan jöklinum, verður dálítið skarð upp í jökulröndina, en skriðjökullinn er svo feykilega stór, að þetta hefir engin áhrif á aðallögun hans; þar við enda fjallgarðsins hefir jökullinn rakað saman miklu grjótrusli í háar öldur, og í hvilft við jökulinn er þar tjörn af uppistöðuvatni, mjólkurhvítu. Skriðjökulröndin heldur áfram suður á bóginn, eins langt og augað eygir; en fyrir sunnan okkur er tindóttur, hár fjallgarður, jafnhliða þeim, er vér stöndum á, og ná þessir fjallgarðar eins langt suður, eins og við sáum, alt suður undir Torfajökul. Í dældinni milli þessara tveggja fjallgarða er geysistórt vatn með jökullit; það er mjótt, en svo langt, að við sáum ekki fyrir endann á því, enda hverfur það yzt í suðri inn á milli múla, höfða og hárra tinda. Jökullinn gengur fram í efsta enda þess, lokar honum þvert yfir dalinn, milli fjallgarðanna, og þess vegna er líka jökullitur á vatninu. Víða ganga höfðar og nes fram í vatnið, og hálendar eyjar eru í því sum-

staðar, en hvergi var gróður sjáanlegur; samt er landslagið þar í kring hrikalega fagurt og margbrotið, því fellin og tindarnir eru svo kynlega lagaðir, og hinir rauðu, mórauðu og gulu litir á móberginu stinga vel af við hvítgrænt vatnið og fannhvítar bungurnar á Vatnajökli. Við kölluðum vatnið Langasjó (2136[1]); nálægt suðurenda þess er hár tindur, einkennilega lagaður, sem ber mikið af fjöllunum þar í kring. Hinumegin við fjallgarðinn fyrir sunnan Langasjó er flatlendi; sést þar votta fyrir vötnum fram með jöklinum, og gegnum skörðin á fjallgarðinum glitrar hér og hvar í kvíslar úr Skaftá, sem kemur úr jöklinum í krikanum fyrir sunnan þenna fjallgarð, en ekki gátum við séð, hvort nokkur kvísl rennur í hana úr Langasjó. Eftir að við höfðum skoðað oss um eftir megni, fórum við aftur heim að tjaldi og bjuggum oss til ferðar í snatri. Í fyrstu hafði eg ætlað mér að fara aftur úr Tungnárbotnum til Veiðivatna; eg bjóst ekki við að finna haga við jökulinn, og þorði því eigi að leggja upp með jafnlitlu heyi að fara um hin ókunnu öræfi sunnan við Tungná, en úr því við ekki höfðum þurft að brúka heyforðann, þá var vel hættandi á það; enginn hafði áður farið um þessi héruð, og því mátti búast við, að ýmislegt merkilegt yrði á vegi vorum. Við héldum á stað úr Tungnárbotnum kl. 2 og riðum sama veg upp í fjöllin, sem við höfðum fyr farið; þar mátti vel komast með hesta, nema það var örðugt sumstaðar að fara utan í hlíðunum, af því hallandi móbergshellur voru undir, en grjótrusl ofan á, svo hestarnir stundum áttu ilt með að fóta sig. Brátt komumst við þó ofan í lægð, eða þó fremur langan dal, sem skilur fjallgarðinn, er gengur sunnan og austan með Tungná, frá fjallgarðinum, er liggur vestan við Langasjó. Þó víða liggi ölduhöft yfir þenna dal, þá er lægðin þó samanhangandi margar mílur til suðurs, og sér hvorki til Tungnár né Langasjós, er maður ríður eftir henni; víðast var þar greiðfært, svo við gátum riðið hart; þar eru eintómir vikra- og gjallsandar, og óð nokkuð í þeim sumstaðar, en þar, sem vatn hafði staðið í vorleys-

ingunum, var harðara undir fæti. Eftir rúmra 3 stunda hraða ferð komum við að allhárri þvergirðingu, og gengum þar upp á háan tind, sem við höfðum séð um morguninn. Þaðan var hin bezta útsjón, ein hin einkennilegasta, sem eg hefi séð. Fyrir austan, sunnan og norðan eru óteljandi tindar, allir í röðum frá landnorðri til útsuðurs; Langisjór með hvítgrænum blæ, með höfðum og víkum, fyrir neðan okkur, teygir sig í norður og suður. Litbreytingarnar á landinu voru undra fagrar, aðallitur fjallanna mórautt, rautt og mógult, og gulgrænar mosaskellur hér og hvar í tindunum; tindarnir speglast í dökkgrænum og ljósgrænum fjallavötnum, en mjallahvítir jöklar sjást í öllum áttum, eins og umgjörð um myndina. Öll vesturröndin á Vatnajökli sýnist vera einn skriðjökull, frá Kerling suður að Fljótshverfi, en litlar bugður koma upp í jökulröndina, þar sem fjallgarðarnir koma út undan honum, t. d. fyrir norðan og sunnan Tungnárbotna og fyrir norðan og sunnan Langasjó. Upptök Skaftár sýnast vera rétt fyrir sunnan fjöllin, en liggja sunnan að Langasjó; þar er enn litlu sunnar móbergshöfði utan í jöklinum og stórar grjóthrúgur ofan á honum, sem jökullinn hefir ekið þar fram; langt í suðri sést hár fjallgarður, sundurslitinn, uppi á hjarnflákum Vatnajökuls, fyrir suðaustan jökulstrýtuna, er við sáum þar á jöklinum frá Þórisvatni; sýnast þessi fjöll ganga í stefnu niður að Fljótshverfi austanverðu; þar eru syðst, sem sér, allmikil fell utan í jöklinum, eða þó heldur samanhangandi fjöll og hlíðar, er ganga út undan honum. Lengst í suðri sést mikil á falla undan jöklinum; líklega er það Hverfisfljót; svo Tungná og Skaftá, og þær koma undan vesturrönd Vatnajökuls. hver langt frá annari, en eigi á sama stað, eins og sýnt er á Uppdrætti Íslands. Það, sem er fyrir sunnan fjöllin, suðaustan við Langasjó, sáum við ekki glögt; þó sáum við hraunflákana fyrir ofan Síðumannaafrétt, þá er brutust fram úr jörðinni 1783; á Síðumannaafrétti voru að sjá stórir, grænir flákar, og þar suður af bunga með litlu fjalli efst. Á tveim stöðum sáum við í sjó, í suðaustri

stórt lón með rifi fyrir framan, og svo glitti líka í hafið rétt fyrir austan Mýrdalsjökul. Til suðurs og útsuðurs gengur héðan frá sjónarhæðinni, beggja megin við Langasjó, mor af tindum, alt suður í Torfajökul; til norðvesturs sér yfir öræfin fyrir norðan Veiðivötn og í Þórisvatn. Niður af þessum tindi klöngruðumst við niður á vikursandana milli fjallgarðanna og riðum þá eins hart og við gátum til sólarlags; lítið er um vatn í þessum vikradölum; við sáum að eins eina litla kvísl, sem hvarf í sandinn, en á vorin í leysingum eru víða tjarnir, þess sér víða merki á söndunum. Hvergi sáum við stingandi strá allan þann dag, frá því að við fórum úr Tungnárbotnum. Beggja megin við vikradalina, sem við riðum eftir, eru sífeldir móbergstindar, klettasnasir, vatnslaus gljúfur og skringilega lagaðir hnúkar, sumstaðar strókar og gatklettar uppi á brúnunum. Um sólarlag komum við að annari kvísl, sem kemur upp úr söndunum og rennur til útsuðurs, fletur sig út á einum stað og myndar margar eyrar og svo grunt stöðuvatn, en fram úr vatninu rennur á, sem brýzt í gegnum nyrðri fjallgarðinn, niður í Tungná; þar eru gljúfur mikil og fossar, og kölluðum við ána Fossá; vatnsmegin hennar er viðlíka og í Elliðaám við Reykjavík. Nokkru eftir sólarlag riðum við yfir Fossá fyrir neðan breiðan foss, en ekki háan, og hittum þar fyrir oss allstóra mosaflesju með töluverðum grávíði. Þessi foss er efstur af fossunum. Þó hestarnir væru hungraðir, þá vildu þeir um kvöldið heldur narzla grávíðirlauf, en eta heyið, sem við höfðum meðferðis; við bundum þá á streng um nóttina, og um morguninn urðu þeir fegnir heyinu. Mosinn undir tjaldinu var ákaflega ójafn, holóttur og laus, svo ilt var að festa tjaldið; það var því fremur kalt og óvistlegt þar um nóttina.

Næsta morgun (6. ágúst) fórum við á kreik kl. 5 og bjuggumst til ferðar. Landslag var hér mjög einkennilegt í kringum okkur, þó ekki væri mikið útsýnið, því hér vorum við luktir fjöllum á alla vegu. Mosaflesjan er hér eins og gróðrarey á eyðimörku, og þó vex ekkert á henni

nema gráviðir *(salix glauca)* og fáeinar kornsúrur *(polygonum viviparum)*; fossinn fyrir ofan er fremur fallegur, hann fellur fyrst niður af stalli og breiðir sig svo út, eins og blæja, um bergið. Rétt fyrir neðan mosaflesjuna byrja gljúfrin gegnum fjallgarðinn, og er þar annar foss, allhár, sem skiftist í tvent. Fjöllin hér í kring eru ákaflega sunduretin; efst á brúnunum eru alskonar turnar og strýtur og víða göt í gegnum klettana; fjöllin eru eins og rústir, af því vatnið og vindurinn um þessar slóðir, einkum vindurinn, eiga svo hægt með að vinna á hinu lina móbergi. Sandrokið er hér í byljum eflaust ógurlegt, hver dæld og dalur er fullur af roksandi, og hvergi er nein hindrun fyrir sandrokið, sem veltur í ofviðrum eins og ólgusjór ofan frá jökli margar mílur niður eftir milli fjallgarðanna. Móbergið í fjöllunum er rautt, gult, mórautt og bleikt, og sumstaðar liggja afarþykkar móhellumyndanir ofan á, sem myndast hafa af sundurmuldu móbergi. Í fjallinu upp og norður af neðra fossinum er gangur með bugðum og með aðalstefnu eins og fjallgarðurinn; annars eru gangar mjög óalgengir í þessum móbergsfjöllum. Vikur og gjall, svart og mórautt, fyllir í geysiþykkum lögum allar dældir og dali, og enginn gróður getur þrifist í þessum kvikandi jarðvegi; þar sést því hvergi strá, ekki einu sinni mosaþúfa. Mosaflesjan, sem við tjölduðum á, hefir haldist, af því áin hefir þar á bletti tekið úr sandfokinu; eins sjást mosaskellur hæst uppi í bröttum tindum; þar hefir roksandurinn eigi getað haft eins mikil áhrif.

Fyrir sunnan Fossá halda áfram sömu vikradalirnir, sem fyr milli fjallgarðanna, þó á einstaka stað séu öldur og hryggir yfir dældirnar. Eftir rúma stundar reið komum við að annari á, sem rennur eins og Fossá gegnum fjallgarðinn í Tungná; þessa á kölluðum við Sandá; þar hittum við hinar fyrstu snapir fyrir hesta, sem teljandi voru. Sandá rennur þó ekki einsömul í Tungná; þar suður af tekur við ákaflega sundurskorið land, með ótal giljakvíslum, sem ganga saman eins og greinar á tré; þar er seinlegt að komast yfir landið, því alstaðar eru grafningar

og gil, öldur og vatnsrásir. Þar sem allir þessir lækir sameinast, hlýtur vatnsmegnið að verða töluvert mikið, er það fellur út í Tungná. Eftir því sem sunnar dró í grafningnum þessum, eftir því fór gróðurinn að aukast, og syðst var þar orðið fallegt beitarland. Vatnið hefir hér náð svo mikilli framrás og skorist svo djúpt niður, að það ver landið fyrir sandfoki, sem annars eyðir öllum gróðri Á einum stað sunnarlega í grafningunum sáum við dálitla vörðu á holti; það voru hinar fyrstu menjar menskra manna, sem við höfðum séð í langa tíð. Við héldum suður með einni kvíslinni; hún var mjög löng og rann í gljúfri suður frá; hækkuðum við smátt og smátt, unz vötn deilast þar norður og suður, og er við komum þar niður af öldunum, urðu fyrir okkur góðir hagablettir. Landið er hér suður af mjög öldótt og sundurskorið og margir tindar í austri, í landnorður frá Torfajökli; við komum niður að vatni, sem kvísl rennur úr til suðvesturs og svo vestur í Tungná; fórum við fyrir vestan vatnið og upp á fjall, komumst þar í ógöngur, en gátum þó klöngrast niður gil og ösluðum svo yfir kvíslina, því þar eru miklar sandbleytur á eyrunum; kl. 12½ komum við í Stóra-Kýling, eftir nærri 6 stunda hraða ferð frá Fossá. Kýlingur er grasivaxið fell, alt grænt af gróðri; kringum það eru mýrar og tjarnapollar og haglendi, sem bezt má verða í sveit; þar áðum við stundarkorn. Þar voru álftir í sárum og ungar þeirra; tóku piltarnir unga þeirra og skoðuðu, en sleptu þeim svo aftur til foreldranna; álftahreiður eru hér víða í mýrunum, strýtumynduð, dregin saman úr mosa, grasi og sinu; þau eru vanalega innan um fen og foræði; eitt mældi eg; það var 2½ fet á hæð og 16 fet ummáls að neðan. Frá Stóra-Kýling riðum við inn með Jökulbarmi; það er fjallarani hár og brattur norðan við Jökulgilið. Barmurinn er allur hvítur af líparíti, sem er aðalefni fjallanna beggja megin við Jökulgilið, sumstaðar er líparítið þar sundursoðið af hveragufum. Norður af Barminum liggja sérstök fell og grösug mýrlendi með vötnum milli þeirra; alt er landið fagurt og blómlegt. Hina síðustu

daga hafði verið bezta veður, en nú fengum við dynjandi rigningu. Síðan riðum við yfir Námskvísl, hún er nærri eins vatnsmikil eins og Hörgá, þegar hún ekki er í vexti, og komum kl. 3 í *Laugar* (1947') og tjölduðum þar; þar er ágætur hagi fyrir hesta, eins og á bezta túni. Laugarnar koma upp undan ákaflega hárri og brattri hraunrönd, sem er úfnari en nokkurt annað hraun, sem eg hefi séð, enda er efnið annað en í vanalegum hraunum, yfirborðið er varla annað en biksvört hrafntinna. en aðalefni hraunsins er líparítkent, blágrátt, rauðgrátt og móleitt. Grjótið klýfst í stórar, margra mannhæða háar flögur, uppstandandi, en þó óreglulegar og bognar, svo að bungan snýr út að hraunendanum; smáar blöðrur eru í grjótinu, aflangar, og snúa lengdinni upp og niður. Hraun þetta er eigi stórt um sig, en hefir steypst niður af fjallshlíð og myndað þykka köku á undirlendinu. Eg gekk upp í gegnum hraunið um kvöldið, og var þar bæði seinlegt og örðugt að fara yfir; basalthraun þau, sem eg hefi séð, hafa aldrei verið sundursprungin og umturnuð eins og þetta Laugahraun. Þegar maður er niðri í gjótunum, sést ekki nema upp í heiðan himininn, og hvert augnablik verður maður að klifra niður í sprungu; jafnóðum sem maður er kominn upp á einhvern kambinn, er maður nauðbeygður til að skríða ofan í næstu gjá. Hraunið er gamalt og töluverður gróður í því, en loft og vatn geta eigi jafnað yfir, því bergtegundin er svo hörð; en vikurinn, sem hefir verið eins og froða ofan á hrauninu, er það rann, hefir dálítið hjálpað til að fylla mestu sprungurnar, þó lítið beri nú samt á því. Eftir að eg lengi hafði klifrað upp og niður yfir hraundrangana, komst eg þangað, sem hraunið hefir runnið niður af fjallinu; þar sjást stórir reykir, enda eru þar ótal gufuholur, og sest brennisteinn kringum opin, sumstaðar í fögrum krystöllum; á hæsta hraunhryggnum, austast í hraunkvíslinni, þar sem hún fellur niður hlíðina, er allstór hvilft, nokkurra faðma löng, og í henni fjöldamargar holur, þar er alt sjóðandi og hvínandi, og sest þar töluvert af brennisteini kringum holurnar og sprungurnar.

Upp af þessari hvilft stendur digur gufustrókur, sem sést langt að. Frá þessum brennisteinsholum fór eg niður hraunið að vestanverðu, fyrst niður lækjarfarveg, þar sem borist hefir möl í hraunið úr fjallinu, svo þar er slétt braut í samanburði við annað í kring; síðan fór eg yfir vestursporð hraunsins, örðugan veg, heim að tjaldi. Neðan til í hrauninu, rétt fyrir ofan Laugar, koma hér og hvar fram heitar gufur í hraunsprungunum. Norðvestan við Laugahraunið kemur hin eiginlega Námskvísl ofan úr fjöllunum, og rennur við vestursporð hraunsins saman við Jökulgilið, sem er mikið vatnsfall; en samt tekur áin nafnið Námskvísl, eftir að þær hafa runnið saman. Úr Illugagiljum hér upp af Laugum er skamt yfir í Reykjadali hjá Torfajökli, þar sem Markarfljót kemur upp. — Næsta dag (7. ágúst) fóru piltarnir snemma morguns á stað upp að Veiðivötnum, til þess að sækja faranguriun, sem þar hafði orðið eftir, en eg var einn eftir í tjaldinu á meðan; við þurftum að fá faranguriun strax, því matvæli voru því nær þrotin, af því við höfðum ekki búið okkur undir svo langa ferð; þeim gekk vel upp eftir, og komu aftur kl. $3^1/_2$ e. m. sama daginn.

Næsta dag var eg enn um kyrt, til þess að skoða laugarnar og hraunið. Heita vatnið kemur fram undan bökkum á síki með hraunröndinni og úr mörgum smáholum; það bullar upp á að gizka á 50—60 stöðum, og er hitinn 50—70°, mest 72° C. Túngresi er alstaðar á Laugabökkum; þar sem þurlendast er, eru maríustakkar, smári og pétursfíflar; ofar er mjög votlent og mikil stör og fífa. Hraunröndin fyrir ofan Laugarnar er mjög há og brött og svört, eins og kolabyngur tilsýndar; mitt fyrir laugunum er sprunga í hrauninu og hvilft, og kemur þar fram töluvert vatnsmegin af köldu vatni, bæði úr læk, sem rennur úr hraunsprungunni innan um stórgrýti, eða bullandi upp að neðan. Litlu austar kemur önnur köld uppspretta undan hrauninu, og kemur aðalvatnsmegin laugalæksins frá þessum uppsprettum báðum. Hitinn í hinum köldu uppsprettum var 5°, en lofthiti $9^1/_2$° C. Á

svæðinu milli þessara köldu vatnsæða kemur líka heitt vatn fram undan hrauninu á 3 stöðum, í þrem smásíkjum; í vestasta smásíkinu er 50—56° hiti, við miðsíkið er í rauðri holu 71° og í austasta síkinu eru 40° C. Þessi heitu rensli undan hrauninu eru örstutt og falla í laugalækinn. Litlu fyrir vestan sprunguvikið í hraunröndinni fellur fram undan hrauninu allmikil uppspretta volg út í laugalækinn (40°) og önnur enn vestar með 48° hita, og myndast þar stórir volgir pollar fyrir neðan. Laugalækurinn er vatnsmikill, og um miðið 30° heitur á yfirborði; upp úr öllum botninum stíga í sífellu loftbólur, svo altaf sjást hringir á yfirborðinu, og tilsýndar lítur það út eins og smásíli vaki í vatninu eða smáir regndropar falli á það. Mestur hiti kemur upp í mýrlendinu fyrir norðan lækinn, og þeim megin við lækjarbakkann, einkum beint á móti sprungunni í hrauninu; þar eru fjöldamargar heitar vatnsholur með kringum 70° hita; mestur hiti var 72°, í holu, sem leitamenn, er hingað koma, alment nota til kaffisuðu; í holunum neðar með bökkum lækjarins þeim megin er hitinn víðast kringum 50°. Ekki er neitt hverahrúður að mun við Laugarnar, að eins lítilsháttar hvítar skánir á steinunum, þar sem heitast er.

Fjöllin hér í nánd eru flest hvít- eða gulleit, af því aðalefnið er líparít, og er það víða sundursoðið af hveragufum; þó liggur móberg sumstaðar ofan á; eyrarnar fram með Jökulgilinu og Námskvísl eru allar hvítar af líparíthnullungum. Jökulgilið er mjög langt og gengur alveg upp í Torfajökul, og stefnir frá austri til vesturs; innarlega í því eru hagapláss, svo það er nú leitað; fyrir 70—80 árum þektu menn ekki þessa haga, og leituðu ekki gilið. Rétt fyrir ofan Laugar eru Brandsgil, og Illugil beint upp þaðan; Sveinsgil er norðan í barminum á Jökulgilinu, nokkuð innarlega; í öllum þessum giljum eru dálitlir fjárhagar. Til er gömul þjóðsaga um Jökulgilið og Torfajökul; þar segir, að Torfi Jónsson í Klofa hafi tekið sig upp með alla búslóð sína, þegar hann frétti, að plágan seinni (1493) var komin austur yfir Hellisheiði, og hafi

farið upp á Landmannaafrétt, og svo upp með Námskvísl, upp Jökulgil og inn í jökul; þar var þá víður og grösugur dalur eftir jöklinum endilöngum; hlíðarnar voru skógi vaxnar, en jökull á brúnunum; þar lét Torfi fyrir berast með alt sitt hyski, meðan plágan gekk yfir, og bjó þar miklu búi, því ekki vantaði landkosti. En þegar húskarlar hans sáu af dalbrúnunum, að bláa móðan, sem fylgdi plágunni, var horfin af bygðinni, þá sneri hann aftur niður á Land Sumir af húskörlum Torfa urðu samt eftir í dalnum, og héldu menn lengi, að útilegumenn, sem menn þóttust hafa orðið þar stundum varir við, væru afkomendur þeirra.[1]) Á árunum 1850—60 könnuðu Landmenn Jökulgilið, og fundu í því dálitla haga, en engan grösugan fjallbúadal. Rangvellingar könnuðu líka Torfajökul vorið 1852, en ekki veit eg til, að nein skýrsla sé til um ferð þeirra.[2]) Af hverju Torfajökull dregur nafn, veit eg eigi; líklega hafa menn skapað þjóðsöguna um Torfa í Klofa, til þess á þann hátt að gera sér grein fyrir nafninu. Eggert Ólafsson hefir heyrt, að Torfajökull hafi fengið nafn af stigamanni, sem hét Torfi.[3])

Hinn 9. ágúst fórum við frá Laugum og snerum heimleiðis til bygða. Riðum við fyrst tvisvar yfir Námskvísl, og að Suðurnámshrauni, það er líparítkent, en Norðurnámshraun er litlu norðar, það hefir runnið úr stórum gíg, sem er í lægð í hæðaröðinni fyrir austan Frostastaðavatn; innan í þessum stóra gíg eru tveir minni gígir. Fórum við upp fjallið suður af gígnum, til þess að skoða upptök Námshraunsins syðra. Fjallið er úr gulleitu líparíti og brecciu, sunnan til í því er geigvænleg gjá þvert yfir fjallið, og hefir hún klofið það í sundur frá suðaustri til norðvesturs; eins er gömul sprunga uppgróin norðar í fjallinu, norður af stóra gígnum, þvert yfir hina vanalegu sprungustefnu þessara héraða. Úr sprungunni á Námsfjalli

---

1) Jón Árnason: Íslenzkar Þjóðsögur II., bls. 135—137.
2) Ný tíðindi, Reykjavík 1852, bls. 65. Norðri I., bls. 8.
3) Reise gjennem Island II., bls. 766.

hefir ollið hraun, bæði austur að Námskvísl og vestur að Frostastaðavatni; þar hefir hraunið fylt upp suðurenda vatnsins og runnið töluvert út í það, svo þar hafa myndast smáhólmar og sker. Gjáin er mjög stórgerð og engin gíglögun á henni, hún er á að gizka 4—500 fet á breidd og 2—300 fet á dýpt, þar er rautt gjall í börmunum; hraunið sjálft er hrafntinnukent með vikurfroðu. Af Námsfjallinu var allgóð útsjón austur á bóginn, til Torfajökuls, Kirkjufells og Kýlinga. Eintómt líparít er í fjöllunum beggja megin við Jökulgilið, og er það eitt af aðalefnum fjallanna vestur að Mógilshöfðum. Í bröttu fjalli suður af Frostastaðavatni er öll hlíðin sundursoðin og með ýmsum litum; líklega hafa þar lengi komið brennisteinsgufur úr jörðu, eftir að Suðurnámshraunið braun. Frá Suðurnámshrauni riðum við niður að Frostastaðavatni (1944'); við norðurendann á því er basalthraun, en skömmu seinna tekur við hrafntinnuhraunið norður af Höfðunum og austur af Dómadal, sem eg fór yfir á uppeftirleið til Veiðivatna. Miklir gígir eru í því norðanverðu, nálægt Tjörfafelli; þó sést hraunspýja niður í það frá Höfðunum. Úr Dómadal (1852') riðum við vellina hjá Sátu, og settumst að sem fyr við Helliskvísl hjá Landmannahelli. Í norðausturhorninu á Sátu hefir einhverntíma til forna komið upp lítilfjörlegur jarðeldur; eg sá fyrir neðan fjallið, og í hlíðinni, gjallkenda hraunmola, og gekk svo upp í fjallið, til þess að forvitnast um, hvernig á þeim stæði. Þar hefir lítil sprunga komið í fjallið frá SSA til NNV, og hefir myndast stuttur hraungangur, gjallkendur; hann kemur fram á hérumbil 10 faðma svæði, en engin er þar gígmyndun eða neitt þesskáttar.[1])

[1]) Um hrafntinnuhraunin og jarðfræði þessara héraða hefi eg ritað sérstaka ritgjörð með uppdráttum: Om nogle postglaciale liparitiske Lavaströmme i Island (Geol. Fören. Förhandl., Stockholm, XIII., 1891, bls. 609—620). H. Bäckström hefir efnafræðislega rannsakað steinasafn mitt þaðan. Beiträge zur Kenntniss der isländischen Liparite (Geol. Fören. Förhandl. XIII, bls. 638—682).

Næsta dag fórum við á fætur kl. 3 um morguninn; var frost um nóttina, og héla á jörðu, en skafheiðríkt veður. Bjuggum við oss til brottferðar til bygða, og ætluðum upp á Heklu um leið; við riðum síðan sandana og flatirnar suður með Helliskvísl, og beygðum svo upp í Heklufjöllin fyrir vestan Rauðfossa; riðum við eintómar gjallöldur og vikra, og stefndum á Krakatind; hann er einstakur í hvilftinni fyrir norðaustan Heklu, einkennilega lagaður og sést langt að; tindurinn er eiginlega aflangt, hátt móbergsfell, með hinni vanalegu fjallastefnu um þessar slóðir, en hann ber svo við að norðan, að hann sýnist mjög hvass, og að ofan líkastur í laginu einstakri hákarlstönn. Við höfðum Rauðfossafjöllin á vinstri hönd; það er hár fjallgarður með töluverðum sköflum; við komum að nýja hrauninu (1878); það er mjög úfið og kolsvart, eins og við er að búast, nema hvað gígaröðin úti í hrauninu er blóðrauð; tölnverður hiti er þar enn í sprungum, og hvítar skellur hér og hvar, þar, sem gufurnar koma upp úr hrauninu; stærsti gíghóllinn norðvestur af Krakatindi er eins og há, rauð alda, og líklega myndaður kringum mörg þéttstandandi gosop. Við fórum austan við Krakatind (2776'), svo um gamalt hraun, sem er að gróa upp; þó er þar enginn annar gróður en eintómar ólafssúrur; síðan suður fyrir mjótt tagl af nýja hrauninu, sem gengur kippkorn suður fyrir Krakatind; svo riðum við fram með hárri rönd af nýlegu hrauni; hraungrýtið í því er mjög hart og þétt, og alt í smástykkjum efra, eins og urðarskriða, og svo upp á öldurnar og hálsana, sem ganga norðaustur af Heklu; þar eru, eins og alstaðar um þessar slóðir, eintómir gamlir gígir og hraunrensli. Nú var komin þoka á fjöllin, og mjög ilt skygni, þótt heiðskírt væri um morguninn; létum við því um stund fyrir berast á hálsinum, þangað til nokkuð létti af, og fórum þá af stað upp eftir Heklu; þar eru skaflar margir og stórir, sem víst sjaldan þiðna, og þræddum við þá og fórum yfir úfin hrauntögl á milli. Vorum við komnir upp á Heklu eftir $1^1/_2$ stundar gang, en útsjónin var miklu lakari, en við höfðum

búist við, því þoka lá yfir mestöllu undirlendinu, og upp um hálendið var ekki heldur gott skygni; til austurs og suðausturs skyggja Torfajökull og Mýrdalsjökull mikið á, en þó er þar eflaust fögur útsjón í góðu veðri. Á Heklu eru ekki eiginlega eldgígir í vanalegum skilningi, heldur geysimikil sprunga eða gjá, sem klýfur fjallið eftir endilöngu, og svo hafa myndast stór gosop hér og hvar í gjánni; mestur hluti sprungunnar er fullur af hjarnsköflum, en hæst á fjallinu sunnan til er hún þó auð, og þar stíga við og við gufur úr gjánni. Hæð Heklu yfir sævarmál mældist mér 4672 fet. Hér tekur því ekki að lýsa Heklu, því hún er svo alkunn, enda hefi eg lýst henni og gosum hennar annarstaðar. Við fórum sama veg til baka, þangað sem við höfðum skilið við hrossin, riðum síðan norður milli hálsanna, sem ganga norðaustur af Heklu; þar eru margir stórir, rauðir gígir, og eins austur hjá Rauðfossafjöllum, hinumegin við dalinn, sem Krakatindur er í; síðan fórum við niður hjallana og hlíðarnar fyrir norðvestan Heklu, norður fyrir Skjólkvíahraun og Sauðafell og niður í Sölvahraun; komumst við brátt á veginn hjá Rangárbotnum, og riðum svo hart, eins og mest mátti verða, sandana austan við Þjórsá, svo við komum kl. $7^1/_2$ um kvöldið að Galtalæk, og var þá fjallferðinni lokið.

Þau héruð, sem við höfðum farið um, hafa flest hingað til verið lítt kunn bygðamönnum, og sum alveg ókunn, og því nær ekkert hefir verið ritað um þennan merkilega kafla af hálendinu. Eins og kunnugt er, er þess getið í Landnámu, að Gnúpa-Bárður flutti sig úr Bárðardal suður í Fljótshverfi snemma vors, »gerði Bárðr kjálka hverju kykvendi, því er gengt var, ok lét hvat draga sitt fóðr ok fjárhlut; hann fór Vonarskarð, þar er síðan heitir Bárðargata; hann nam síðan Fljótshverfi, ok bjó at Gnúpum«. Það er með öllu ómögulegt að segja, hvar Bárður hefir farið, enda eru frásagnirnar um Gnúpa-Bárð bæði óglöggar og forneskjulegar. Það liggur beinast við að halda, að hann hafi farið upp með Skjálfandafljóti, um skarð það, sem Björn Gunnlaugsson kallar Vonarskarð, og svo suður

með vesturrönd Vatnajökuls suður í Fljótshverfi, og þó er það næsta ótrúlegt, að hann hafi getað komist þessa leið, eftir því sem til hagar á þessu svæði; þar eru hvergi hagar, varla stingandi strá, enda er sagt, að hvert kvikindi hafi dregið fóður sitt; þar eru brunaklungur, eldgígaraðir, eyðisandar, hraun og háir fjallgarðar, þrjár stórar jökulár, og svo Langisjór, sem nær upp í jökul, og verður hann að hafa farið stóran krók niður fyrir þetta vatn. Eftir þeim gögnum, sem vér höfum, er ekki hægt með vissu að skera úr því, hvar Bárður hefir farið.

Ekki veit eg til þess, að getið sé um héruðin vestan við Vatnajökul, fyrr en seinast á 18. öld, þegar *Sveinn Pálsson* ritar sínar fróðlegu ritgjörðir um jökla á Íslandi og öræfin kringum þá; hann hafði reyndar ekki farið mikið um þessi héruð sjálfur, en hann nefnir ýmislegt eftir sögusögn annara. Sveinn Pálsson kallar láglendið milli Hverfisfljóts og Skaftár, efst uppi við jökulinn, Fljótsodda; upp af Skaftártungu, vestan við Skaftá, er fjallgarður, sem heitir Skælingjar; þar sem Skaftá rennur í hraunið, er brann 1783, ganga Skælingjar saman við Herðubreið, og þaðan ganga Bláfjöll suður í Torfajökul. Nyrzt í Herðubreiðarfjöllum eru háir tindar, sem eru kallaðir Uxatindar, og segir Sveinn Pálsson munnmælasögu um það, hvernig nafnið sé til komið. Fyrrum átti Þykkvabæjarklaustur árlega að borga biskupsstólnum í Skálholti 50 geldneyti og einn tarf; einu sinni um haust struku nautin frá Skálholti, og fundust hvergi, en menn urðu þess varir, að þau höfðu farið yfir Þjórsá, þar sem nú heitir á Nautavaði. Næsta sumar fundust beinagrindur nautanna hjá tindunum, sem síðan hafa heitið Uxatindar. Sveinn Pálsson lýsir þessum tindaröðum alveg rétt, því hann segir, að þeir séu rauðir, uppmjóir og graslausir. Á öðrum stað talar hann um upptök Hverfisfljóts, Skaftár og Tungnár, og segir það sé ætlun manna, að þær komi upp á sama stað undan Skaftárjökli; hann segir líka munnmælasögu um þessi árupptök. Sekur maður að norðan strauk til Suðurlands, og með því honum var ókunnugt um óbygðirnar, ætlaði hann að fara

styzta veg suður með vesturrönd Vatnajökuls; hann viltist í þokum og fúlviðri, en komst þó að jökulröndinni og hélt fram með henni, svo að hann hafði jökulinn á vinstri hönd; þá kom hann að ófærri jökulá, sem fossaði út undan jöklinum, og komst ei yfir hana; gekk stuttan spöl niður með henni, unz hún skiftist um stóran klett í þrent, og hugðu menn, að þessir þrír armar væru Hverfisfljót, Skaftá og Tungná; yfir Tungná komst sakamaðurinn á steinboga, og gekk svo niður með miðkvíslinni (Skaftá), unz hann, yfirkominn af hungri og þreytu, og því nær klæðlaus, komst niður í Búlandsheiði við Skaftártungu; þar hitti hann menn, sem voru að leita að fé, og hjálpuðu þeir honum til bygða; föt sín hafði strokumaðurinn rifið í sundur og bundið um fæturna, því hann var fyrir löngu orðinn skólaus.[1]) Ekki leggur Sveinn Pálsson mikinn trúnað á þessa sögu, sem vonlegt er; hún hefir þó haft þá þýðingu fyrir landafræði Íslands, að menn hafa trúað því, að þessar þrjár stórár kæmu allar upp á sama stað, og eftir sögusögn almennings hefir Björn Gunnlaugsson sett upptök þeirra svo á Uppdrætti Íslands.

Árið 1839 skoðaði Björn Gunnlaugsson Köldukvíslarbotna og Vonarskarð; Sigurður Gunnarsson var þá með honum; fóru þeir norður yfir Tungná og komu 1. ágúst í Illugaver og voru þar dag um kyrt; 3. ágúst komust þeir að Hágöngum, og næsta dag fóru þeir yfir Köldukvíslarbotna og Vonarskarð, að Tindafelli; 5. ágúst gengu þeir upp á jökulhornið austan við Vonarskarð og litu yfir landið. Á þessari ferð fékk Björn Gunnlaugsson bezta veður og gat því nákvæmlega skoðað Köldukvíslarbotna og Vonarskarð; Kaldakvísl kemur, eins og uppdrátturinn sýnir, fram milli hnúka í Tungnárjökli og rennur til landnorðurs, beygir síðan við og rennur suður Vonarskarð; þar er álíka gróðurlaust sem í Ódáðahrauni, næstu grös að sunnanverðu eru í Illugaveri, $^1/_4$ þingmannaleiðar

---

[1]) Sveinn Pálsson: Beskrivelser af islandske vulkaner og bræer (Turistforeningens årbog for 1882, Kria 1882—83).

burtu.[1]) Jafnvel þó Köldukvíslarbotnar séu nákunnir, þá er samt eigi örgrant um, að sumir ófróðir alþýðumenn haldi enn, að þar séu útilegumannastöðvar, en þar er sannarlega ekki björgulegt, eg sá þar yfir úr Vonarskarði 1884 og nú í sumar (1889) af fjöllunum við botna Þórisvatns, og Björn Gunnlaugsson og Sigurður Gunnarsson fóru um sjálfa botnana og litu yfir landið af Hágöngum.[2]) Árið 1858 kom Jón Sigurðsson frá Gautlöndum í Illugaver, hann var sendur suður til þess að semja við Rangvellinga um kláðann, fékk 4 menn með sér til þess að skoða afréttinn, og komu þeir þá í Illugaver og Nýjadal. Árið 1862 komu þeir líka í Illugaver, Magnús Stephensen landshöfðingi, dr. Grímur Thomsen o. fl., ætluðu að skygnast eftir eldgosi í Vatnajökli og ef til vill fara Vatnajökulsveg, en af því þeir höfðu ekki nægan útbúnað, sneru þeir við í Illugaveri.

Árið 1878 fóru Skaftfellingar lengra norður af Síðumannaafrétti en þeir voru vanir og sögðu frá tveim nýjum grösugum dölum við útsuðurhornið á Vatnajökli; norður af dölunum er vatn, sem þeir héldu að Tungná og Skaftá rynnu úr; dalirnir liggja í Skaftárfjöllum, sem þeir kölluðu Fögrufjöll; þessi fjöll virtust þeim liggja alt upp í jökul, nema hvað þeir héldu, að Skaftá rynni milli þeirra og jökulsins.[3]) Á þessari frásögn, eins og hún kom fram í blöðunum, er ekki mikið hægt að græða; líklega hafa leitarmennirnir þó séð Langasjó, þó það sé óvíst, og svo hafa þeir getið sér til um rensli ánna og landslagið. Árið 1881 fór norskur jarðfræðingur, *Amund Helland*, úr Þingeyjarsýslu Sprengisand suður; ætlaði hann austan Þjórsár og að Heklu; en á leiðinni viltust þeir og komu að stóru vatni, sem þeir lengi riðu fram með, og fundu þar hvergi haga; vatn þetta hefir eflaust verið Þórisvatn.

[1]) Íslendingur II., bls. 11.
[2]) Norðanfari 16. árg., bls. 19.
[3]) Ísafold 5. árg., bls. 96. Fréttir frá Íslandi 1878, bls. 15.

Héruðin í kringum Veiðivötn og öræfin öll milli Köldukvíslar og Tungnár voru til skamms tíma lang ókunnust af öllum héruðum á svæðinu vestan við Vatnajökul; jafnvel þó menn stundum færi til veiða upp að Veiðivötnum, þá voru þessi vötn mjög ókunn, og svo að segja ekkert hafði verið skrásett um þau; öræfin norður og austur af vötnunum upp af Vatnajökli voru alveg ókunn bygðamönnum, því enginn hafði um þau farið; þeir, sem fóru til Veiðivatna, hættu sér ekki upp á öræfin og grasleysurnar þar fyrir ofan, enda höfðu þeir þangað ekkert að gera. Ekki veit eg til þess, að neinn hafi farið beinlínis til þess að skoða Veiðivötn og héruðin þar í kring, fyrr en *Sveinn Pálsson* fór þangað í ágústmánuði 1795, og ætla eg í stuttu máli að segja frá ferð hans, af því það hefir sögulega þýðingu með tilliti til þess, er áður hefir verið frá sagt, og ferðasaga hans er að eins til í handriti í handritasafni Bókmentafélagsins.

Fiskiferðir til Veiðivatna voru 1795 að miklu leyti niður lagðar frá því um miðja 18. öld, en stöku menn fóru þó þangað á haustin, til þess að veiða álftir og safna fjöðrum þeirra.[1]) Sveinn Pálsson fékk með sér kunnugan mann, og héldu þeir á stað frá Næfurholti 26. ágúst 1795; Sveinn ætlaði sér, ef veður leyfði, að reyna að komast alt að Vatnajökli, til þess að finna upptök Tungnár og Skaftár, og ætlaði svo norður í Arnarfellsjökul, til þess að leita að upptökum Þjórsár. Frá Næfurholti fóru þeir upp með Vestri-Rangá, og komu í Rangárbotna og Sölvahraun; þar var þá skógur mikill, sem nú er horfinn; Sveinn Pálsson segir, að hraunið heiti eiginlega Salvararhraun, eftir kerlingu, sem flýði úr bygðinni og hafðist þar við um tíma; síðan héldu þeir norður sandana, upp að ármótunum, þar sem Tungná fellur í Þjórsá, og áðu þar hestunum á grasbletti, sem heitir Sultarfit; síðan riðu þeir yfir Tungná á vaði rétt fyrir ofan fossinn við ármótin; var þar hólmi í ánni, allur rauður af eyrarrós; þeir voru þá komnir upp á

[1]) Fyrir 100 fjaðrir fengust þá tveir dalir.

Holtamannaafrétt, og settust að um kvöldið á Hestatorfu, rétt hjá Tungná; þar var brunnur, sem kallaður var Þorláksbrunnur, og sáust mannvirki á honum. Næsta morgun veiddu þeir nokkrar álftir, og riðu síðan yfir Köldukvísl, rétt áður en hún fellur í Tungná; var hún mjög mikil og ill yfirferðar; þeir settust síðan að í Þóristungum, og voru þar þennan dag og þann næsta. Þóristungum skiftir Sveinn í þrent, instu-, mið- og syðstutungur; þar eru eintómir sandhólar, nema næst Köldukvísl, þar eru uppsprettur margar og lindir, smátjarnir og ver, og sandhryggir á milli; allar falla lindirnar í Köldukvísl; gróður var þar töluvert mikill, hvannir, víðirhríslur og stör, og alstaðar fult af álftum. Hinn 29. ágúst héldu þeir austur á bóginn litlu fyrir norðan Tungná; þeir komu við í Þórisbotnum; þar koma smákvíslar niður frá Þóristindi og falla í Tungná; síðan riðu þeir til NNA, komu fyrst að vötnum, sem Sveinn kallar Útsynningsvötn, og um kvöldið að Tjaldvatni; þar voru tveir kofar, en í svo illu ástandi, að þeir félagar treystust ekki að vera í þeim, en lágu í tjaldi. Um nóttina gerði á þá hið versta illviðri með húðarigningu og svo miklu hvassviðri, að þeir ætluðu að missa tjaldið; hélzt þetta illviðri þangað til seinni hluta dags 31. ágúst; þá gátu þeir fyrst farið út og forvitnast nokkuð um landslagið rétt í kring. 1. september gátu þeir heldur eigi farið út úr tjaldi fyrir rigningu og sandroki, og 2. september sáu þeir sér eigi annað fært en leita til bygða aftur, þó ilt væri veðrið.

Sveinn Pálsson lýsir stuttlega Fiskivötnum þeim, er hann sá, og er lýsingin ágæt, eins og búast mátti við hjá slíkum merkismanni; set eg því hér aðalinntak lýsingarinnar: »Landslagi er svo varið við Fiskivötn, að þar eru ótal háar og brattar sandhæðir og milli þeirra margir og krókóttir dalir, og þar eru vötnin nærri í hverri lægð, úr flestum þeirra renna straumharðar kvislar, sem sameinast, heita þá Vatnakvísl, og renna svo í Tungná. Þetta landslag helzt svo langt inn eftir, sem sést af hæstu hólunum, en þar efra er alt ókunnugt og hefir enginn farið þar um.

Það er ekki gott að vita, hvernig hér hefir verið umhorfs, áður en eldgosin urðu, en víst er það, að hér hafa verið dalir að norðan og ár runnið eftir þeim, síðan hefir myndast ógurlegt eldfjall með óteljandi uppsprettum, og hefir alt héraðið umturnast af þeim eldsumbrotum, árnar hafa stíflast og orðið að vötnum og tjörnum, og þegar vatnsmegnið óx, varð úr þeim afrensli ofan jarðar og neðan. Þetta sést bezt á hraunhólunum, sem eru við endana á hverju vatni; þó eru þeir flestir sandorpnir; langbezt sjást eldsumbrotin milli Stóra- og Litla-Fossvatns og við Tjaldvatn; þar eru óteljandi eldstrompar og eldgígir, og eru þeir alveg eins að útliti eins og gígirnir í Varmárdal við Skaftárgljúfur, sem gusu 1783. Það sést eigi fyrir sandi, hvaða hraun hafa runnið frá þessum eldgígum. Af hinum kunnu vötnum eru þessi helzt: Stórisjór, hann er nyrztur og stærstur allra vatnanna; í honum eru margar víkur, og hann er ef til vill í mörgum pörtum; hann nær lengra norður en menn hafa farið; austan og norðan að Stórasjó liggur hár fjallgarður, og allra-nyrzt í honum er hátt, keilumyndað fjall, ef til vill ein af Hágöngum (!). Frá Stórasjó rennur á undir hrauninu í Stóra-Fossvatn, og úr því rennur aftur í Litla-Fossvatn, en þau hafa bæði afrensli í Kvíslarvatn (?), og þaðan rennur all-löng á í Útsynningsvötn. Áreiðanlegur maður hefir sagt mér, að í Kvíslarvatni sé 2 feta langur marhálmur *(zostera marina)*, sem við og við reki upp að bökkunum; þetta er líklega einhver tegund af vatnasilki *(conferva)*. Til suðausturs rennur úr Stórasjó í Grænavatn; það er stórt vatn, sem liggur vestan undir háu fjalli; þaðan rennur aftur löng á til suðurs í stórt nafnlaust vatn vestan undir Tungnárfjalli. Dalurinn, sem þessi á rennur eftir, er grasi vaxinn; þar eru fagrar grundir beggja megin við ána; þetta kalla sumir Hestafit, sumir »á Kvíslum«; hér beita menn hestum sínum, þegar þeir eru við Fiskivötn. Milli Tungnafellsvatns og Útsynningsvatna eru ýms smávötn; sunnan við Fossvötnin er Tjaldvatn; það er lítið vatn, og við það að norðvestan eru 2 kofar, og 2 bátar voru þar í hrauninu. Fast hjá Tjald-

vatni er Skálavatn; það er nokkru stærra; síðan koma til suðvesturs Langavatn, þá Eskivatn, og þaðan rennur kvísl niður í Útsynningsvötn. Á Eskivatni voru menn einu sinni á bát í góðu veðri og logni; þá reis alt í einu upp hroðaleg bylgja nálægt bátnum, alveg eins og vatnið ylli þar upp úr stóru gati; þaðan breiddust svo út þungar bylgjur til allra hliða, svo við sjálft lá að bátnum mundi hvolfa; síðan skall á stormur og illviðri litla stund. Ætli að samþjappað loft í iðrum jarðar geti ekki komið þessu til leiðar, er það brýzt út úr fangelsi sínu? Fleiri vötn á Íslandi hafa hinn sama eiginleika? Útsynningsvötn eru mörg í hóp, og hafa þau afrensli til VSV til Tungnár. Annar vatnahópur kvað vera fyrir sunnan Útsynningsvötn og í kringum þau eru leifar af steinbyrgjum; þau notuðu menn áður til þess að þurka og herða silunginn á. Af því, sem hér hefir verið sagt, má sjá, að það er ekki svo ótrúlegt, sem sagt hefir verið, að frá Tungnárfjalli fyrir SSA Tjaldvatn mætti telja 100 sérstök vötn. Gras er hér lítið, nema á Hestfit og við Tjaldvatn og Útsynningsvötn, en alstaðar er fult af hvönnum, jafnvel á gróðurlausum sandi; átu hestarnir blöð þeirra og blóm með mestu græðgi; finst þá af þeim sérstök lykt, svipuð lauklykt, eins og Eggert Ólafsson segir, er hann getur um Hvanngil í hinni óprentuðu dagbók sinni; jafnvel farangurinn verður eins þefjaður, ef menn liggja við nokkrar nætur, þar sem mikið er af hvönnum. Silungsveiðin í vötnum þessum var til forna lögð til jafns við heila vertíð í Vestmannaeyjum. Það er auðséð, að hingað hefir fyrrum verið mikil aðsókn; það sést vel á ótal götum og troðningum kringum vötnin, einkum kringum Skálavatn. Það er mælt, að til forna hafi mest veiðst í Stórasjó, en sú veiði lagðist niður, því menn urðu varir við báta á norðurenda vatnsins, og sáu ýms önnur merki ókunnugra fjallabúa; síðan veiddu menn mest með dráttarnetum í kvíslunum milli vatnanna og á vissum miðum í vötnunum sjálfum; þá réri einhver fram með ströndinni og hélt í annan netendann, en annar hélt í hinn endann á landi; sumstaðar lögðu

menn net, einkum í Fossvötnum og Skálavatni. Silungarnir kvað vera mjög stórir og af ýmsum tegundum, jafnvel í vötnunum fyrir norðvestan Vatnakvísl kvað vera 18 ℔ þungir silungar, og greindur og skynsamur maður segist hafa veitt 2 laxa í Stóra-Fossvatni; menn segja, að í Stórasjó séu jafnvel sjófiskar, og það stórar tegundir, en það þarf nákvæmari sönnunar. Hvaðan kemur nú allur þessi silungsgrúi? Enginn silungur kemst úr sjó þangað upp eftir sökum fossa; varla geta sjófuglar alstaðar hafa hjálpað tímguninni (með því að bera hrognin). Það er alþýðutrú hér á landi, að í þesskonar vötnum séu »uppgönguaugu«, og að þar komi silungarnir upp frá undirdjúpunum; menn þykjast jafnvel hafa séð silunga koma öfuga upp úr þessum augum, með sporðinn upp; stundum hafa menn af öfund við nábúa sína troðið einhverju í slíkar holur á vatnsbotni, og á þá svo að hafa brugðið við, að veiðin hefir minkað og horfið. Eg þori ekki að dæma um þetta mál, því eg veit, að vel geta verið slíkar holur á vatnsbotnum, og að silungar þar af tilviljun geta snúið sporðinum upp; ef til vill gjóta þeir hrognum sínum í þesskonar fylgsnum. Eitt er merkilegt, að í hverju vatni eru silungarnir mismunandi að stærð og útliti, og segir alþýðutrúin, að það komi af mismunandi vídd uppgönguaugnanna; en ætli það komi ekki heldur af mismunandi æti, mismunandi botni o. s. frv.? Það er mjög ilt, að veiðiferðir til Fiskivatna hafa lagst alveg niður síðan 1783; menn hafa leitt þær hjá sér í hörðu árunum; þeir, sem áður kunnu til þessarar veiði, þektu miðin o. s. frv., eru nú flestir komnir á grafarbakkann. Eftir því, sem mér var sagt, kvað veiðin takast bezt á nóttu, þegar veður er rakt, þoka og nokkuð hvast; þá eru vötnin dimm og úfin, og silungarnir leita þá út til kvíslanna. Frá Skaftártungu var veiðin helzt stunduð, því þaðan er styzt til Fiskivatna, að eins ein dagleið frá bygð; veiðimenn fóru þá yfir Tungná fyrir austan vötnin, rétt fyrir austan Tungnárfjall; nú hafa menn flutt vaðið lengra til norðausturs, upp að

hvössum hnúk, sem heitir Göndull; þar eru þó miklar sandbleytur í ánni.«[1])

Í ferðabók sinni talar Sveinn Pálsson á öðrum stað um Veiðivötn, áður en hann kom þangað. Þar segir hann, að veiðiferðir til vatnanna hafi verið forsómaðar síðan 1740, en hafi alveg hætt 1783; þó áttu Skaftártungumenn þar þrjá báta 1784, og stöku menn fóru þangað. Einn, sem Sveinn talaði við, hafði hina fyrstu nótt þar efra veitt 300 silunga, og voru margir þeirra 15 pund; þótti veiðin takast bezt um dimmar haustnætur, helzt þegar þoka var í lofti og raki. Höfðu Tungumenn margt að segja einkennilegt frá Fiskivötnum; þar sögðust þeir hafa séð silungstegund á stærð við löngur, og kváðu silunginn hafa reglulegar göngur, eins og þorska. Í sumum vötnum höfðu menn fyrir veður orðið varir við mikla ókyrð á botninum, alt í einu rís þá hátt vatnsfjall, sem skiftist í hroðalegar bylgjur, er ganga út til allra hliða, svo hver bátur mundi farast, er fyrir yrði. Tungumenn sögðu fjölda refa við Fiskivötn, og höfðu fyrir satt, að tóurnar sjálfar veiddu silung. Þeir sögðu líka, að svartfugl og teistur héldu sig á þessum vötnum, en ekki trúir Sveinn því. Til forna höfðu verið tíðar ferðir til Fiskivatna, sem sjá mátti af miklum götutroðningum, og byrgjum, sem menn höfðu bygt til að herða á silung.[2])

Þessi lýsing Sveins Pálssonar er mjög merkileg, eins og öll ferðabókin, og er sárgrætilegt að hugsa til þess, að hún skyldi eigi vera gefin út á sínum tíma; það mundi mjög hafa aukið þekkinguna á landafræði og náttúrufræði Íslands og gert íslenzkum vísindalegum bókmentum hinn mesta sóma. Í ferðabókinni er margur fróðleikur, sem enn þá hefir þýðingu, þó bókin sé meir en hundrað ára gömul og í mörgu hefir Sveinn Pálsson verið á undan samtíðarmönnum sínum, þótt hann bæri eigi gæfu til þess, að sjá

---

[1]) Sveinn Pálsson: Journal holden paa en Naturforskerreise i Island. 3. bindi, bls. 238—247, fol.

[2]) Journal II., bls. 189—190.

það metið að verðleikum í lifanda lífi. Ef vér þá snúum oss að lýsingunni á Fiskivötnum, þá ber þess að gæta, að Sveinn, sakir illviðra, gat ekki nema einn hálfan dag skygnst um nálægt Tjaldvatni; þess vegna er eðlilegt, þótt einstaka ónákvæmni komi fyrir í lýsingunni, t. d. í því, er snertir afrenslið úr Fossvötnum og stefnu ýmsra fjalla og vatna. Útsynningsvötn eru líklega þau vötn, sem nú eru kölluð Breiðuvötn; Tungnárfjall er sama sem Snjóalda, og stóra, nafnlausa vatnið þar fyrir vestan Snjóölduvatn. Eg hefi í ferðasögunni hér að framan getið þess til, að vatn það, sem Landmenn nú alment kalla Litlasjó, hafi áður heitið Stórisjór; af lýsingu Sveins Pálssonar sést það fyllilega, að þessi getgáta er rétt; Litlasjó nefnir Sveinn ekki á nafn; ruglingurinn á nöfnunum og allar getgáturnar um óþekt vatnsflæmi einhverstaðar í óbygðum, sem enginn hefir séð, eiga líklega rót sína að rekja til Uppdráttar Íslands, því þar eru Fiskivötn gerð alt of stór, og látin ná upp undir jökul.

Þar sem Sveinn Pálsson lýsir heimferðinni frá Fiskivötnum, talar hann líka nokkuð um Landmannaafrétt, og lýsir honum eftir sögn kunnugra manna, en ekki fór hann þar um sjálfur; hann fór yfir Tungná á Kvíslavaði, rétt fyrir neðan háan foss í Tungná; þykir honum fossinn mjög fagur, og segir hann sé 40 faðma breiður og 20 faðma hár; þaðan riðu þeir um hraun og sanda, og komust um kvöldið í Áfangagil við Valafell; 3. september fóru þeir snemma á stað, niður með Sölvahrauni og Vestri-Rangá, síðan yfir Rangárvelli, og komu einni stundu eftir miðnætti að Hlíðarenda. Sveinn heyrði ýmsar sögur um Torfajökul og dalina norðan og vestan við hann; var honum sagt, að í Reykjadölum væri fult af hverum, og þar væri í logni varla hægt að rata fyrir reyk; þar væru og miklar brennisteinsnámur; austan við Reykjadali sögðu menn að væru ókunnir, skuggalegir dalir, sem hétu Muggudalir; þar í nánd væru myrk gljúfur, sem gengju inn í Torfajökul, og frá tindum við Hrafntinnuhraun, sunnan við Reykjadali, hefðu menn inn af gljúfrunum séð

grasi vaxið land, og héldu menn, að þar væri fult af útilegumönnum. Það er auðséð, að þessar frásagnir eru bygðar á óljósum sögnum um héruðin kringum Námskvísl og Jökulgil; útilegumannatrúin var þá mjög mögnuð, og fylgdarmaður Sveins hafði meðal annars miklar dylgjur um grasi vaxna dali og bygðir hjá Hágöngum og við Köldukvíslarbotna, og er ekki laust við, að enn eimi eftir af þeirri hjátrú hjá stöku mönnum sunnanlands, þótt þau héruð séu nú vel kunn.

Verzlunarstjóri *P. Nielsen* á Eyrarbakka fór til Veiðivatna í ágústmánuði 1884. Herra P. Nielsen gerði mér þann greiða, að skrifa mér bréf um ferðina, og segir hann frá henni á þessa leið:

»Það var í ágústmánuði 1884, að eg fór þessa ferð, og fylgdist herra S. Torfason með mér. Tilgangur ferðarinnar var einkum, að fá að vita, hverjir fuglar búa við þessi fjarlægu fjallavötn og verpa þar; mér hafði verið sagt, að þar yrpu margar andategundir; auk þess langaði mig til að grenslast eftir, hvort »Stórisjór« væri til eða ekki. Hinn 12. ágúst fórum við frá Eyrarbakka, fórum yfir Þjórsá hjá Þjórsárholti, og komum að bænum Vindási á Landi um kvöldið; bóndinn þar, Kristófer Jónsson, hafði verið ráðinn til fararinnar, og með honum fórum við frá Vindási 13. ágúst. Við fórum um í Skarði og á Galtalæk, og héldum svo upp með Vestri-Rangá upp undir Rangárbotna, stefndum svo á Valahnúk, fórum yfir Hekluhraunið, sem brann 1878, komum að Landmannahelli um kvöldið og vorum þar um nóttina í tjaldi. Næsta dag héldum við áfram ferðinni; fórum yfir Tungná á vanalegu vaði (Krókavaði), fengum sund í ánni og komum seint um kvöldið að Tjaldvatni. Vegna óveðurs létum við um nóttina fyrirberast í veiðimannakofanum. Fyrri hluta dags hinn 15. ágúst fórum við snöggva ferð að Skálavatni og reyndum að veiða silung í Tjaldvatni, en það tókst ekki. Síðan héldum við á stað og stefndum upp í jökul; vér ætluðum að vera um nóttina við Stórasjó, því þar bjuggumst vér við að finna haga fyrir hestana. Stórasjó fundum vér ekki,

vér fórum fram hjá Litlasjó, en fundum ekki fleiri vötn þar fyrir ofan, og héldum þó áfram ferðinni frá Litlasjó, tvær stundir til austurs. Eg er alveg viss um, að Litlisjór er efstur af vötnunum í þeim vatnaklasa, er Björn Gunnlaugsson kallar Fiskivötn, og að ekkert rennur í þetta vatn frá öðrum vötnum. Fyrir ofan Litlasjó voru eintóm graslaus öræfi, svo vér urðum vegna hestanna að snúa aftur; vér hlóðum vörðu, þar sem vér snerum aftur, og voru hestarnir mjög viljugir og heimfúsir til haganna hjá Tjaldvatni; þangað komum við seint um nóttina, og höfðum þá farið langa og örðuga ferð. Hinn 16. ágúst héldum vér heimleiðis, fórum yfir Tungná og upp í Suðurnámur, og vorum þar í tjaldi um nóttina. Næsta dag héldum vér áfram ferðinni, og komum um kvöldið hinn 18. á Eyrarbakka. Ekki fékk eg eins mikla fræðslu um fuglalífið eins og eg hafði búist við. Norðan við Skálavatn er arnarhreiður (haliëtus albicilla) á lágum kletti, og var hægt að komast að því; það var auðséð, að örnin hefir búið þar í mörg ár, enda var staðurinn vel valinn, því útsjón er þaðan hin bezta yfir Skálavatn og Tjaldvatn. Heimbrimar (colymbus glacialis) eru algengir við Fiskivötn, þeir verpa þar á hólmunum í vötnunum; þar eru líka lómar (colymbus septemtrionalis), en þeir eru ekki eins algengir; af andategundum sá eg ekki nema þrjár, stokkönd (anas boschas), rauðdúfuönd (a. penelope) og urtönd (a. crecca).«

Á sýslufundi í Vestur-Skaftafellssýslu 24. nóvember 1883 kom til umræðu að kanna fjöllin norður af Síðumannaafrétti og norður að Fiskivötnum, þar eð grunur lék á, að fé leyndist þar á haustum, og afréð sýslunefndin að beiðast styrks úr jafnaðarsjóði amtsins, móti því að hún sjálf legði til úr sýslusjóði það, sem hún sæi sér fært. Amtsráðið veitti í júní 1884 250 kr. til þessa fyrirtækis, og átti sýslan að leggja jafnmikið til. Amtsráðið áleit einnig nauðsynlegt, að fjall-lendin austur af Landmannaafrétti og Laufaleitum að Vatnajökli væru rannsökuð, og ákvað að veita Rangárvallasýslu jafnmikið, ef sýslunefndin vildi leggja jafnt fé til könnunar. Könnunarmenn úr báðum

sýslum áttu að mætast við Veiðivötn, austur undir jökli, og bera sig saman. Skaftfellingar komu sér saman um að finna Rangæinga 1. september í Búlandsseli, en þeir komu eigi, enda höfðu engar ráðstafanir verið gerðar til rannsókna frá þeirra hendi. Skaftfellingar, sem fóru ferð þessa, voru 4, Ólafur Pálsson á Höfðabrekku, Jón Eiríksson í Hlíð í Skaftártungu, Kristófer Þorvarðarson á Breiðabólstað og Bjarni Bjarnarson í Hörgsdal. Ólafur Pálsson hefir lýst ferðinni í Suðra. — Hver þeirra félaga hafði 2 hesta, annan til reiðar, hinn undir nesti, íslenzkt korn og hey. Þeir komu 1. september að Búlandsseli, og fóru um kvöldið á haga hjá Fremri-Ófæru. Hinn 2. september fóru þeir af stað kl. $5^{1}/_{2}$ um morguninn, og komu kl. 9 f. m. í nyrztu haga í Skælingjum; þar áðu þeir tvo tíma, og fóru svo til Uxatinda vestur af Skaftárgljúfri, komu þar kl. $1^{1}/_{2}$; ætluðu þeir inn með þeim að austan, austur til Skaftárfjalla, en urðu frá að hverfa eftir 2 stunda töf við ófært gljúfur. Sneru þeir síðan fram fyrir Uxatinda, og norður með þeim; fóru þar eftir löngu gili, og voru þar hvannir og gras fram með læknum; kölluðu þeir það Hvanngil; síðan varð fyrir þeim á, sem kemur úr norðri í Skaftá; kölluðu þeir hana Hellisá; fyrir austan hana byrjar Skaftárfjallgarður. Næst austan við þessa á er fjall, nærri sérstakt, með hellrum vestan í, og kölluðu þeir það Hellisfjall; næsta hnúk þar fyrir austan kölluðu þeir Mosahnúk; þeir héldu norður með honum að austan um slétta sanda og komu að stóru stöðuvatni, sem liggur norðan undir fremri fjallgarðinum í Skaftárfjöllum; þar lentu þeir á eyðisöndum kl. 10 um kvöldið, voru þar um nóttina, bundu hestana og gáfu þeim hey. Næsta morgun (3. september) var norðaustanvindur og óheiðskírt veður; lögðu þeir á stað kl. 6 um morguninn austur í Skaftárfjöll, skiftu sér kl. 9 f. m.; tveir gengu austur úr fjöllunum austur undir Skaftá, og suður með þeim að austan; en hinir tveir geymdu hestana og gengu upp á fjallgarðinn, upp á hæsta tindinn, og kölluðu hann Bjarnatind, því Bjarni í Hörgsdal hafði fyrir nokkru farið norður fyrir

Skaftá og upp á þennan tind, og hafði hlaðið þar vörðu. Stöðuvatnið, sem þeir sáu, nær frá jökli og að Bjarnatindi, og gizkuðu þeir á, að það mundi vera 3 mílur á lengd, og héldu að það mundi líklega vera myndað af hlaupi úr Skaftá og kölluðu það því Skaftárvatn. Í Skaftárfjöllum segja þeir rétt fögur sauðpláss, einkum austan í fjallgarðinum. Ekki er hægt af lýsingunni að sjá, hvar þeir félagar hafa síðan farið, en seinni hluta dags eru þeir komnir norður yfir Tungná; héruðin og fjallgarðana milli Skaftárfjalla og Tungnár nefnir lýsingin eigi, og mér er heldur eigi hægt að sjá með vissu, hvar þeir hafa farið yfir ána. Fyrir norðan ána hittu þeir vörðuna, sem þeir Nielsen höfðu hlaðið; héldu fyrst þaðan til norðurs, en sneru síðan við suður með Litlasjó, og komu til Veiðivatna um kvöldið 4. september; voru þeir þá orðnir heylausir, og þurftu að koma hestunum í haga. Næsta dag voru þeir um kyrt, en hinn 6. september héldu þeir norðaustur frá Veiðivötnum yfir sanda og eldhraun, unz skamt var til jökuls; hlóðu þeir þar vörðu og kölluðu Ólafsvörðu; beygðu þeir því næst til norðurs, unz þeir þóttust sjá í Köldukvísl; sneru þá við til vesturs og suðvesturs, og komu að ákaflega stóru vatni, sem þeir hugðu vera Stórasjó; þar fundu þeir töluvert graslendi við vatnsbotninn af mel og blöðku. Um kvöldið fóru þeir aftur til Veiðivatna, og voru þar næsta dag um kyrt. Hinn 8. september fóru þeir suður yfir Tungná, líklega ofarlega við Veiðivötn (?), en hvar veit eg ekki, því hér kemur annar myrkviðriskafli í lýsingunni, sem mér er ómögulegt að botna í; get eg því heldur ekki sagt, hvar þeir hafa farið um landið fyrir sunnan Tungná, en 9. september eru þeir komnir suður í Kýlinga; þaðan fóru þeir að Námskvísl, sneru heimleiðis næsta dag, og komu að Búlandsseli hinn 11. s. m.[1])

Ferð þessi er merkileg að mörgu leyti; þeir félagar fóru um stór héruð, sem áður voru því nær ókunn;

[1]) Suðri, 2. árg., 1884, bls. 127, og 3. árg., 1885, bls. 1—2.

því miður hefir enginn þeirra verið nógu pennafær, til þess að geta lýst landinu og ferðinni greinilega; það er mjög örðugt, jafnvel fyrir nákunnugan mann, að komast fram úr ferðasögunni, af því hún er svo ruglingslega framsett, og stefnulýsingin og áttirnar eru allar á reiki. Hefði lýsing þessi verið jafn vel framsett eins og lýsingin á ferð Þingeyinga um Ódáðahraun 1880, þá hefði eflaust mátt mikið á henni græða. Stóra vatnið, sem þeir komu að hjá Skaftárfjöllum, hefir líklega verið vatnið, sem við kölluðum Langasjó, en það vatn, sem Ólafur Pálsson kallar Stórasjó, er auðsjáanlega Þórisvatn; hafa þeir komið að vesturbotni vatnsins; þar er töluvert melland í hrauninu, sem fallið hefir niður í vatnið, og Þórisós rennur gegnum. Austurflóann hafa þeir ekki séð, enda er hann luktur bröttum hamrahlíðum á báða vegu.

Eftir að eg var búinn að skoða Veiðivötn og öræfin milli Tungnár og Köldukvíslar, var aðalerindi ferðarinnar aflokið. Á heimleiðinni skoðaði eg ýmislegt jarðfræðislegt, einkum laugar og hveri; en af því héruðin, sem eg fór um, eru svo vel kunn, ætla eg að eins að drepa á fátt eitt af því, sem fyrir mig bar á ferðinni.

Hinn 11. ágúst fór eg frá Galtalæk þvers yfir Landsveit og yfir Þjórsá á ferju á Hrosshyl hjá Þjórsárholti, því áin var ekki reið á Nautavaði, sem er litlu fyrir neðan ferjustaðinn. Þar mun Herdís Ketilsdóttir, kona Páls biskups Jónssonar, hafa druknað með börnum sínum,[1]) ein hin merkasta kona íslenzk, sem getið er um í fornöld. Þjórsá rennur hér á hrauni og er mjög ströng rétt fyrir ofan það að ferjað er; sumstaðar er stórgrýti í henni, svo það getur skemt ferjuna, þegar áin er lítil. Frá Þjórsárholti fór eg upp að Stóra-Núpi, og svo um alkunn héruð niður að Hrepphólum; land er hér alstaðar einkennilegt og tilbreyting töluverð vegna móbergsfellanna, dalanna og ánna. Síðan riðum við niður með Laxá, að Birtingaholti, og svo árbakkana að Auðsholti; fórum yfir minni Laxá og Stórós,

---

[1]) Biskupasögur I., bls. 138—139.

síki, sem rennur út í Laxá; þar getur verið viðsjált fyrir ókunnuga, því menn verða að ríða granda niður í vatninu fyrir ósmyuninu, og er sandbleyta eða sund, ef út af bregður. Við fórum á ferju yfir Hvítá litlu fyrir ofan Auðsholt; þar er bezti ferjustaður, því áin er lygn og ekki breið; fórum við svo suður að Laugarási, til þess að skoða hverina og laugarnar, sem þar eru. Laugarás er holthryggur, spölkorn fyrir austan Skálholt, við Hvítá; þar eru jarðhitar miklir, og sjást reykirnir langt að. Þar dó Ketill biskup Þorsteinsson árið 1145; var hann í heimboði hjá Magnúsi Einarssyni Skálholtsbiskupi, og sat þar í brúðkaupsveizlu mikilli; svo segir í Hungurvöku: »Sú veizla var svá mjök vöndut, at slík eru sízt dæmi til á Íslandi; þar var mikill mjöður blandinn, ok öll atföng önnur sem bezt mátti verða. En föstudagsaptan fóru biskupar báðir til laugar í Laugarás eptir náttverð. En þar urðu þau tíðindi, at þar andaðist Ketill biskup. Mikill hryggleiki var þar á mörgum mönnum í því heimboði, þar til er biskup var grafinn ok um hann búit. En með fortölum Magnúsar biskups ok drykk þeim hinum ágæta, er þar var veittr, þá urðu menn skjótara afhuga hörmum sínum.« Í Laugarási er móberg líklega undir; hverirnir eru þar vestan við ásinn í smásíkjum og grafningum; sameinast vatnið úr þeim og mýrlendinu í kring, og verður að dálitlum ósi. Hveragötin eru full af sjóðandi og bullandi vatni, en ekki gjósa þau; mesta hitann fann eg í holu beint niður undan bænum; þar voru 97° C., í Draugahver 95°, í Hildarhver 94°, í Potti 94½°. Kringum hverasíkin vaxa hinar vanalegu hveraplöntur, t. d. mura, græðisúrur, vatnsnafli og oddvarategund (*polygonum persicaria*).[1] Austan og norðan við ásinn eru líka dálitlir jarðhitar.

---

[1]) Við litla laug vest-suðvestur frá Skálholti, við Brúará, fann Sveinn Pálsson mikið af Hydrocotyle vulgaris og Ophioglossum vulgatum, en á hól upp frá ánni, sem heitir Bolahaus, fann hann heilan búsk af Artemisia vulgaris. Sveinn heldur, að hún hafi einhverntíma fyrrum verið innfærð af hinum fornu biskupum, því mikil trú var á henni fyrrum til lækninga og töfra. Journal III., bls. 275.

Um kvöldið riðum við í þoku og rigningu upp að Torfastöðum.

Kringum Torfastaði skoðaði eg einnig ýmsa hveri, og hafði þar ágæta leiðsögn hjá skólabróður mínum og fornkunningja, séra Magnúsi Helgasyni. Fór eg fyrst að Reykjavöllum; þar eru jarðhitar nokkrir; bærinn stendur undir holti, og eru þar tvö heit op; í hinu nyrðra 80°, en í hinu syðra 60°, og er það hlaðið upp; úr nyrðra gatinu safnast vatnið í lítinn tjarnarpoll í mýrarröndinni, og er hann volgur; fyrir neðan bæinn er auk þess dálítil volg tjörn í mýrinni. Frá Reykjavöllum riðum við um mýrar að Reykholti; það er hátt móbergsholt, eigi langt frá Tungufljóti; það er aflangt og hátt, og bratt að austan niður að mýrunum við fljótið. Ofan á móberginu er efst í holtinu dálítið af basalti í stuttum súlum, og er það sumstaðar ísnúið að ofan; svo er hér í fleiri fellum og holtum, að móberg liggur undir, en þunt blágrýtislag ofan á, og hefir það hlíft móberginu; annars hefðu fellin og holtin eyðst á isöldinni eða fyrr. Séra Magnús benti mér á sjaldgæfa jurt, sem vex undir klettum austan í Reykholti; það er »galeopsis tetrahit«, og hefi eg hvergi séð likt því eins stórvaxnar jurtir af þeirri tegund. Af Reykholti er fremur fögur útsjón upp eftir dalnum, sem Tungufljót rennur eftir; þar eru lágir ásar og fell hið efra, en víðáttumiklar grassléttur hið neðra, og er mjög búsældarlegt að líta yfir landið; beint á móti eru stór engi frá Bræðratungu, í nesinu milli Hvítár og Tungufljóts; Hvítá skiftist hér í tvær kvíslar, og verður þar stór, flöt, grasi vaxin ey. Vestan í Reykholti er stór hver, sem holtið dregur nafn af; sést gufumökkurinn þaðan langar leiðir; hverinn bullar upp í gegnum móbergið, og er hitinn á yfirborðinu um 98° C.; ekki gýs hverinn hærra en 1½ fet, enda hefir hann líklega verið skemdur með því, að mikið grjót hefir verið borið í hann. Kringum hveropið og niður með læknum er töluverður hverahrúður, gráleitur, rauðleitur og gulleitur, í lögum; stundum er hverahrúðurinn trékendur í sárið og smáar óglöggar kúlumyndanir utan á.

Vatninu úr hveralæknum er veitt vestur af holtinu yfir engjar frá Stóra-Fljóti, sem er næsti bær.[1])

Frá Torfastöðum fór eg upp að Efri-Reykjum og kom við á Syðri-Reykjum, og er þangað yfir holt og mýrar að fara. Á Syðri-Reykjum er stór hver með miklu vatnsmegni, og sést reykurinn langt að; opið er aflangt, og sýður og bullar í sífellu; hverinn gýs 5—6 fet í loft upp, stundum 7—8 fet; hitinn var á yfirborðinu 97°; töluverður hverahrúður er kringum opið. Þar vex vatnsnafli. Hver þessi hefir oft verið órólegur við eldgos og jarðskjálfta; þegar gaus hjá Skaftárgljúfrum 1783, er mælt, að hverinn þrjá miðvikudaga í röð, í lok októbermánaðar og byrjun nóvember, hafi stutta stund orðið tómur, en gosið þess á milli meira en áður. Laugardagskvöld í ágústmánuði 1834 var hverinn mjög órólegur og gaus miklu meira en vant var; um sólaruppkomu sunnudaginn eftir komst hann í samt lag og hegðaði sér eftir vanda, þangað til 1838, þá urðu jarðskjálftakippir, og um hádegi 19. febrúar varð hverinn alt í einu tómur; síðan heyrðust drunur í jörðu, og þeyttist þá vatnsstrókur í loft upp og braut stóra steina úr skálinni og kastaði þeim upp. Á Efri-Reykjum er hverhola með 80° hita, en þar hafa áður verið meiri hverir, því víða kemur hverahrúður fram undan grassverði. Þar vex *polygonum persicaria* og *nasturtium palustre*. Það er í munnmælum, að hverinn á Syðri-Reykjum hafi flutt sig. Fyrir ofan Efri-Reyki taka við blómlegir kjarrskógar upp með Brúará. Áin sýnist tilsýndar lítil, en er þó vatnsmikil; hún er mjó, rennur þröngt og er ströng og stórsteinótt efra, og ekki vað á henni fyrri en uppi á brú. Brúará minnir á marga viðburði í sögu Íslands; þar var Jóni biskupi Gerrikssyni drekt í poka hjá ferjustaðnum á Spóastöðum 1433; á bökkum Brúarár dó Magnús biskup Eyjólfsson 1490; Ólafur skólameistari í Skálholti druknaði

---

[1]) Reykholtshver breyttist nokkuð við jarðskjálftana 1896 og gaus eftir það bærra, sbr. Landskjálftar á Íslandi, bls. 83, 129—130. Lýsing Íslands II., bls. 220.

í Brúará 1555, og 1594 drukknaði annar skólameistari í ánni, Sigurður Stefánsson; hann sofnaði á bakkanum meðan ferjumanninum dvaldist, og veltist í ána; Sigurður var að mörgu merkur maður, hann var lærður vel, skáld gott, söngmaður og málari; enn er til eftir hann mjög merkilegur uppdráttur af Norðurhöfum, Íslandi, Grænlandi og löndum þeim, er hinir fornu Íslendingar fundu í Vesturheimi.[1]) 1672 drukknaði Teitur Pétursson kirkjuprestur í Skálholti í Brúará, sömuleiðis Eiríkur prestur Hermannsson 1694, o. s. frv. Brúin gamla á Brúará er alkunnug; hún er bygð yfir gjá á fossbarminum, og fellur vatnið niður í gjána; mælt er, að fyrrum hafi verið steinbogi yfir ána fyrir neðan fossinn, en að brytinn í Skálholti hafi 1602 látið brjóta steinbogann; þá voru mikil harðindi og margir flosnuðu upp, og varð hin mesta aðsókn að Skálholti af fátækum mönnum; hugði brytinn, að aðsókninni mundi af létta, ef steinboginn væri brotinn. Frá Brúnni riðum við að Laugarvatni; eins og kunnugt er, er sú leið mjög fögur, skógur í hlíðunum, og grösugar sléttur, ár og vötn fyrir neðan. Hjá bænum Laugarvatni eru hverir og heitar uppsprettur niður við vatnið. Nyrzt eru þar laugar í tveim volgum lækjadrögum, er renna saman, áður en þeir renna í vatnið; efst í nyrðri læknum er á einum stað í holu 79° hiti, á öðrum stöðum milli 60° og 70°; í syðri læknum er hlaðin upp lítil laug (54° heit), en ofar er í götum mestur hiti 68°; enginn hverahrúður er við þessar laugar, en að eins slí kringum opin. Það er sagt, að lík Jóns biskups Arasonar hafi verið þvegið í þessari laug. Beint niður af bænum eru á tveim stöðum hverir við strönd vatnsins, og koma upp í sandi. Í nyrðri hvernum er eitt aðalop og 3 smágöt; þar er hitinn 90—93°. Syðri hverirnir eru miklu stærri; þar eru 4 skálar í röð, all-vatnsmiklar, og auk þess sýður upp úr smágötum, sem eru í sandrifinu fyrir neðan;

[1]) Landabréf þetta hefir verið gefið út í Meddelelser om Grönland IX, Kbh. 1889, bls. 7. Sbr. Landfræðissaga I., bls. 202–205.

í smágötum sést sumstaðar sjóðandi leir, og er hitinn þar 92⁰. Í hveraskálunum er hitinn um 95⁰; næstneðsti hverinn er stærstur, og er dökkur hrúður kringum hann; hann gýs 3—4 fet í loft upp, því nær í sífellu, en upp úr hinum bullar og sýður, án þess hann gjósi. Í efsta hvernum hljóp hitamælirinn upp og niður frá 80⁰ til 95⁰, eftir því sem gusurnar komu að neðan. Hinumegin við vatnið sést reykur úr hver hjá Útey. Í Kristnisögu er þess getið, að »allir Norðlendingar og Sunnlendingar voru skírðir í Reykjalaug í Laugardal, er þeir riðu af þingi, því at þeir vildu eigi fara í kalt vatn«. Líklega er þessi Reykjalaug hér hjá Laugarvatni, þó menn hafi ekki vissu fyrir því. Úr Laugarvatni fellur Hólaá, krókótt síki, út í Brúará, en úr Apavatni Hagaós. Um kvöldið tjölduðum við á Beitivöllum; þar voru góðir hagar, og klárarnir óðu sumstaðar puntinn á miðjar síður, svo hávaxinn var hann þar. Kálfstindar ganga fram vestan við vellina, og eru úr móbergi; þar eru margir hellisskútar, og er Laugarvatnshellir þeirra stærstur; hann er nærri 25 álnir á lengd og rúmgóður, en ekki er þar hátt undir loft. Móbergið er smágjört í hellinum, svo margir hafa skorið þar nöfn sín í steininn, líkt og í Bárðarhelli í Brynjudal. Í gilinu fyrir norðan hellirinn sést jarðmyndunin vel; móbergslögunum hallar austur, og fleygast þau upp á við og þynka, en undir er basalthraun með kúlumyndunum; líklega hefir hraun þetta þrengt sér upp í móbergið og storknað þar. Hjá Reiðarbarmi hefir hraunspilda fossað niður á vellina í slakkann fyrir norðan Lyngdalsheiði. Þegar kemur upp á Reiðarbarm taka við eintóm hraun, sem hafa fossað í stórum straumum frá Kálfstindum niður að Þingvallavatni. Vestan af Mosfellsheiði sést það glögt, að Þingvallahraunin, þau er efst liggja, hafa komið að norðan og austan, frá Tindaskaga og Kálfstindum, beggja megin við Hrafnabjörg; myndast þar stórar bungur, mosa- og skógi-vaxnar, niður að vatninu. Við riðum sem leið liggur yfir Þingvallahraunin og yfir Mosfellsheiði; hún er öll að ofan þakin gömlum grágrýtishraunum, og hafa þau ef til vill komið

upp á heiðinni sjálfri; eftir hallanum gætu menn ímyndað sér það, því heiðinni hallar frá Borgarhólum suður af Grímmannsfelli og öðrum hæðum, sem eru suðaustan til á heiðinni, en milli hennar og Kjósarfjalla er slakki, sem nær austur úr frá Gullbringum, og eru í þeirri lægð ýmsar tjarnir og pollar. Af Mosfellsheiði fór eg vanalega leið til Reykjavíkur.

---

## Hið íslenska fræðafjelag í Kaupmannahöfn

gefur út gömul og ný rit, er snerta sögu Íslands og náttúru, íslenskar bókmentir og þjóðfræði. Einnig gefur fjelagið út alþýðleg rit og ritgjörðir.

1912 kom út frá fjelaginu:

Endurminningar Páls Melsteðs (m. myndum). Verð 2,50.
Píslarsaga síra Jóns Magnússonar, 1. hefti. Verð 1,50.

1913 kom út frá fjelaginu:

Píslarsaga síra Jóns Magnússonar, 2. h. Verð 2 kr.
Brjef Páls Melsteðs til Jóns Sigurðssonar. V. 2 kr.
Jarðabók Árna Magnússonar og Páls Vídalíns. 1. b., 1. h. Bókhlöðuverð 2,25; áskrifendaverð að allri jarðabókinni 1,50.
Ferðabók eftir Þorvald Thoroddsen, [illegible] hlöðuverð 4,50.

Í ár (1914) kemur út frá fjelaginu:

Píslarsaga síra Jóns Magnússonar, [illegible] Verð 1,50. Öll bókin. 1.—3. h., 5 kr.
Jarðabók Árna og Páls, 1. b., 2. h. B[illegible] áskrifendaverð að allri jarðabókinni 1,50.
Ferðabók eftir Þorvald Thóroddsen 1. b., 2. h. Bókhlöðuverð 1,50; 2. bindi, bókhlöðuverð 5 kr. Skilvísir áskrifendur að allri Ferðabókinni fá til 1. júlí 1915 hvert bindi fyrir 3 kr., og spara því nálega helming verðsins.
Orðakver einkum til leiðbeiningar um rjettritun eftir Finn Jónsson. Verð innb. 75 a. Ódýrasta og besta stafsetningarorðabók á íslensku.

Öll þessi rit fást hjá umboðsmönnum Fræðafjelagsins og eru þeir þessir:

Bóksali **G. E. C. Gad**, Vimmelskaftet 32, København.
Bóksali **Arinbj. Sveinbjarnarson**, Laugavegi 41, Reykjavík.
Bóksali **Guðm. Bergsson**, Ísafirði.
Cand. jur. **Bjarni Jónsson**, bankastjóri, Akureyri.
Bóksali **Pjetur Jóhannsson**, Seyðisfirði.
Bóksali **H. S. Bardal**, Winnipeg, Canada.

Í stjórn Fræðafjelagsins eru:

Forseti: Bogi Th. Melsteð, mag. art., Ole Suhrsgade 18, Kaupmannahöfn.
Fjehirðir: Finnur Jónsson, dr. phil, prófessor, Nyvej 4, Kaupmannahöfn.
Skrifari og bókavörður: Sigfús Blöndal, bókavörður, Amagerbrogade 153, Kaupmannahöfn.